# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

# ÍSLENZKT FORNBRÉFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA
BRÉF OG GJÖRNINGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER SNERTA

**ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.**

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

SJÖTTA BINDI

**1245—1491.**

REYKJAVÍK.
Í FÉLAGSPRENTSMIÐJU.
1900—1904.

Að registri þessa bindis hafa unnið þessir menn:

Ólafr cand. philos. Davíðsson hefir enn sem fyrri safnað öllu til hluta og orðaregistrsins, en það verðr nú í síðasta sinni, sem þetta verk nýtr handa hans, því að hann drukknaði, svo sem kunnugt er, 6. September 1903, en hafði þá áðr lokið registrsgerð þessari. Til manna og staðanafna registrsins hafa þeir safnað með mér stúdentarnir Oddr Hermannsson, Jóhann Gunnar Sigurðsson og Jón Kristjánsson yngri, og skólapiltarnir Páll Eggert Ólason og Guðbrandr Jónsson. Registrinu hefi eg síðan steypt í eina heild á svipaðan hátt og í hinum fyrri bindum safns þessa.

Reykjavík 2. August 1904.

*Jón Þorkelsson.*

## Röð og efni bréfanna.

[1]) 21. Aug er prentvilla yfir bréfinu (sbr. bls. 769).
[2]) 23. Sept. er prentvilla (sbr. bls. 769).

[1]) Júni er prentvilla (Sbr. bls. 769).

[1]) 29. Okt. er prentvilla fyrir ofan bréfið.

# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

**1.** [um 1245].

Vitnisburðr fimm manna um landamerki Dögurðarness á Skarðsströnd, er þeir handfestu Lambkári að sverja.

Skrá þessi er tekin hér eptir afskript Magnúsar Einarssonar á Jörva í Haukadal af skjölum um Dögurðarnes og Dimonarklakka á Breiðafirði, gerðri c. 1730—40, og eru skjöl þau nú í minni eign. Er afskript sú ágæt og stafrétt eptir frumriti. En frumrit það af þessari skrá og þeirri næstu hér á eptir, er Magnús á Jörva hefir haft fyrir sér, hefir þó varla verið hið upphaflega frumrit skrárinnar frá 13. öld, heldr að öllum líkindum afskript frá c. 1530. Á það bendir stafsetningin um sumt, þó að mart sé fornt í henni. En því ætla eg að frumrit Magnúsar að skránni hafi verið frá hér um bil 1530, að þá og nokkru síðar geingu dómar um þessi landamerki, og þá var einmitt „gömul skrá“ um þau borin í dóm og dæmd „sönn“ og nýt (áreiðardómr séra Ólafs Guðmundssonar og Daða Guðmundssonar 12. Nóv. 1530). Er þá harla líklegt að skrá þessi hafi verið afskrifuð, svo að hún væri til í meira en einu lagi til þess að nýta hana í málum þessum, sem sýnast hafa staðið leingi yfir, og að þeim hafi ekki lyktað fyrri en Ögmundr biskup úrskurðaði á synodo 27. Júní 1537 lögleg þau landamerki, er sú „landamerkjaskrá og áreiðslubréf“ inni héldu, er fyrir hann komu, og getr hér ekki verið átt við annað en þessa skrá og áreiðardóminn frá 12. Nóv. 1530. Ekki getr heldr vel verið átt við annað en þessa skrá í Staðarhólsdómi Jóns lögmanns Jónssonar 23. Apr. 1601, þar er segir, að fram kæmi „ein gömul landamerkjaskrá, hvar eð inni stóð greinilega landamerki á milli“ Dögurðarness og Arnarbælis, og er þar dæmd nýt, en að aungu haldandi öll þau skilríki, „sem á móti hljóða optnefndri skrá, áreið [12. Nóv. 1530] og úrskurði [27. Júní 1537] um fyrr skrifuð landamerki“.

Aldr skrár þessarar er hér settr eptir því, sem líklegast þótti að ráða af nöfnum þeirra manna, er í henni standa og þekkjast nú með

vissu. Steinólfr Ingimundarson er án efa sá, er bjó í Búðardal 1235 (Sturl.[1] II, 171) og bróðir Þorbjarnar, er þar bjó enn 1242—43. En um hina af þeim, er til landamerkjanna segja, er alt óvísara. Þó gæti manni í fljótu bragði dottið í hug, hvort Marteinn Jóansson væri ekki sami maðr og sá, er féll í Grímsey með Fyjólfi Kárssyni úr Flatey 1222 (Bps. I, 533; Sturl.[2] II, 256), og að Gunnar Markússon sá, sem hér er nefndr væri sá hinn sami Gunnar og nefndr er í Grímseyjarför og féll þar, og að þeir hefðu báðir verið að vestan og í fylgd Eyjólfs Kárssonar úr Breiðafirði. Ef svo væri, þá ætti skráin að vera gerð nokkru fyrir 1220 eða varla síðar en 1216. En sá er hængr á því, að hér í skránni eru nefndir tveir menn, sem þá hafa ekki verið komnir af barnsaldri, en það eru þeir Bjarni og Guðmundr Snorrasynir, sem án alls efa eru synir Skarð-Snorra. Snorra sjálfs er fyrst getið 1223 (Sturl.[2] I, 263), og elztu synir hans Bárðr og Sigmundr eru fyrst nefndir sem fulltíða menn 1235 (Sturl.[2] I, 335, 336), og munu þeir þá ekki fyrir laungu komnir af æskuskeiði. Í Sturlungu er Bjarna Snorrasonar fyrst getið 1264, en þá hefir hann líklega verið nokkuð roskinn maðr, á að gizka um eða undir fimtugt. Guðmundar sonar Skarð-Snorra er að vísu ekki getið í ættatölum, en nafn það er þó í þeirri ætt, og var Guðmundr Snorrason sýslumaðr í Þórnessþingi (d. 1354) sonr Snorra lögmanns Narfasonar, Skarðs-Snorrasonar. Má ætla að synir Skarðs-Snorra hafi verið flestir orðnir fulltíða um 1245.

Það gæti í sjálfu sér oltið á tveim mönnum, hver sá Lambkárr sé, sem nefndr er hér í skránni, en það er á Lambkári Gunnsteinssyni í Galtardalstungu (Bps I, 599) og Lambkári bróðursyni hans Þorgilssyni, er ábóti varð og lézt 1249. Að vísu hafa sumir heldr hneigzt að því, að Lambkárr Gunnsteinsson muni aldrei hafa til verið, og að í Guðmundarsögn muni það ritvilla ein fyrir: Þorgilssonar, Gunnsteinssonar. En móti þeirri ætlan hnígr það þó heldr, að ekki er getið neinna barna Lambkárs ábóta, en hins vegar er getið bæði Helga Lambkárssonar, — föður þeirra séra Aðalbrands og séra Þorvalds, — og Ingibjargar Lambkársdóttur systur hans í Aðalvík, og kæmi það vel heim tímans vegna, að þau væri börn Lambkárs Gunnsteinssonar. En hitt er eptir að vita, hvort Lambkárr Gunnsteinsson hefði verið enn á lífi 1240—50, og er það ekki mjög sennilegt. Verðr því ekki annað fyrir en að Lambkárr sá, er tekið hefir þenna landamerkjavitnisburð, sé einmitt Lambkárr ábóti. Það verðr og enn sennilegra, þegar þess tvenns er gætt, að Sturla lögmaðr Þórðarson hefir átt Dögurðarnes um þetta leyti, eins og sézt á næstu skrá hér á eptir, og svo hins, að svo er að ráða sem Lambkárr ábóti muni hafa verið með Sturlu á Staðarhóli hin efztu ár æfi sinnar, að minsta kosti 1242 og úr því (Sturl.[2] II, 408—409). Má því ætla að hann hafi tekið vitnisburðina í umboði Sturlu, og er þá sízt fjarri að árfæra skrána til hér um bil 1245.

Þessi ero landamerke of Daugurdarnes. at skalastraumur skilur fyrir sunan. Enn alptavágr fyrir uestan og fyrir nordan vpp at raudalæk. Þa skilr ór raudalæk sionhending fram med setorfnahollte og þar yfir þuera mýrina j giallkelsuatn. Og er þar j mýrinni pollr diupr sem landzmerkit er. Þa skilr ór uatninv þar sem foglþvf(a) er á uatzstraundinni at enda uazins. og sionhending j saurbru þa er eigi þornar uatn j á sumarit. Enn su bru er j gautu þeirri er liggur framan epter asum til hraunfiallz. Enn ýr saurbru þeirri skilr sionhending ofan med hraunfialli. og só ýfir þuera mýri þa er j milli steinsholltz er og hraunfiallz. Og er þar enn pollr diupr j mýrinni sem landzmerkit er. og vr þeim polli skilr sionhending ofan epter mýrinni (sem) j milli steinshollz er og arnarhollz. Og su sionhending allt ofan j skogarhollt þat er sem leingst gengur at myrinni sunnan at fra biarnarstodum. Enn þar í mýrinni fyrir nedan holltith hefst vpp marklækr. og fellr hann j sæ fyrir innan marknes. og skilur sa lækr Davgverdarnes og arnarbæli. þa skilia lón j milli skáleyiar og Dauguerdarnes. allir holmar j þeim lónum ut fra marknesi fylgia Dauguerdarnesi. huort sem ero firr skáleý edr nær nema svíneý en litla. allir holmar og eýiar þær sem fiarar j vmbhuerfvm dauguerdarnes. fýlgia þuí.

Þessi aull landamerki um Daugurdarnes. saugdu þeir steinolfr ingimundzson. og pall olafsson. gunnar markusson. Marteinn joansson. og arni manason. at hia veranda. biarna snorasýni. og þordi eyiolfssyni. gvdmvnde snorrasyni. þorleifi marteinssyni. jórundi þorarinssyni. stefani jonssyni og morgum audrum godum monnum. og suo stadfestu þeir þenna sinn vitnisburd. at þeir handfestu lambkári at sueria þessi oll landamerki at vitnvm þeirra manna sem fýr voru nefndir. Og med þessu hafde lamkár sidan attaululaust medan hann átti dauguerdarnes.

---

2. [um 1245].

Skrá um ítök Dögurðarness á Skarðsströnd, að því, sem

Sturla (lögmaðr) Þórðarson sagði og með slíkum skilgreinum, sem hann kveðst kaupa og selja.

Eptir afskript Magnúsar Einarssonar á Jórva í Haukadal c. 1730—40 af Dögurðarness og Dímonarklakkaskjölum, sem getið er hér fyrir framan. Um aldur þessarar skrár er þess að geta, að hún stendr i handritinu áföst fyrri skránni, og má því helzt ætla, að hún sé frá sama tíma. Að öðru leyti verðr ekki sagt nákvæmar um aldr hennar.

Þessi fẏlgia ítők Danguerdarnesi.

stődhrossa beit á kuennahuols hialla. tuo mánude. annan a haust. enn annañ mánud á vor. fimm hrossnm. þrimur gőmlum. enn tneimur ungum. og færa sno langt vpp at eigi siai heiman fra bænahns Dyrum. þar í moti ǻ·kuennahvoll torfskurd ȷ salltnes. og liggur þar hagagardur vm þuert nesit sæfa í milli. og eig(n) þeir af kuennahuali fyrir framan gardinn a medan þar vinzt.

annat ítak er ȷ arngrímsstada land. þat er eing allt milli fabeinsǻr og uídilækiar. nedan fra raudalæk og allt upp undir laugabreckn. og þar undan brecknnni fram ȷ uídelæk. þá er fiarbeit þadan af allt upp vm kallzhaga nndir brun í milli fabeinsár og uídilækiar. ef selfőr er haufd vr Daugnardarnesi[1]).

Þridia ítak a kirkian ȷ Dauguerdarnesi ȷ Budardal undir suartzhamar. sex gelldnauta afriett. og eiga þeir nr Daugverdarnesi at fa mann vm dags sakir at bæta at hagagardi þa (er) nautin ero rekin.

fiorda jtak ǻ enn kirkian j Daugverdarnesi skőg ȷ hravnfialli nedanverdu milli hraunsnefia tueggia. og horfir su skogarkinn ofan at steinshollti.

Med þessum greinum hefir Daugverdarnes bæde verit sellt og keypt at þuí sem sturla þordarson sagde. og med slikvm skilgreinum kvezt hann kaupa og selia.

---

**3.** **1263.**

Gamli sáttmáli af hendi Íslendinga við Hákon konung gamla nm skattgjald og landsréttindi Íslands.

---

1) Svo.

Stockholmssafn C4 bl. 117a—118a, skinnbók með hendi Ara Ólafssonar frá Hafgrímsstöðum 1585 eða síðar. Þessi texti af gamla sáttmála er notaðr við orðamun (C) af Norðmönnum við útgáfu þeirra af sáttmálanum í Norges gamle Love I, 460—61. Segja þeir bókina skrifaða c. 1600 og árfæra sáttmálann til 1262, en Jón Sigurðsson færir hann til 1264, og notaði hann aldrei eða hafði jafnvel aldrei í höndum þessa skinnbók. Þó að það sé að bera í bakkafullan lækinn að prenta þenna sáttmála, jafn opt og hann er prentaðr í I. bindi safns þessa (661—716), þykir mér þó rétt að prenta hann hér eptir þessari skinnbók, sem ein allra árfærir hann sjálf, hvað mikið eða lítið mark sem á árfærslunni er takandi (sbr. DI. I, 671).

Gamli sattmali vm skatt.

J Nafni fodur oc sonar oc anda heilags:

War med þessű jatad oc samþyckt skattgialldi af jslandi vnder noregs kruno af almuganum med lofataki ű alþingi en ongű odrű:

Wær biodum virduligűm herra hakoni kongi hinum korunada vora þionűstű vnder þa grein laganna sem samþyckt er milli kongdomsins oc þegnanna er landit byggia.

fyrsta grein.

J fyrstű grein ad vier vilium giallda kongi skatt oc þingfararkaűp sem logbok vottar oc alla þegnskýlldu. Sűo framt sem halldit er vid oss þat ű motj var jătad skattinum.

J fýrstű ad vtanstefningar skilldűm vier ǫnguar hafa vtan þeir menn sem dæmder verda af vorűm monnum ű alþingi bűrt af landinű.

Jtem ad jslendsker sie logmenn oc sýslűmenn hier ű landinű af þeirra ætt sem ad fornű hafa godordin vpp giefid.

Jtem ad vj hafskip gangi ű hueriű arj til landsins forfallalaust.

Erfder skulű vpp giefast firir jslendskűm monnum j noregi huersű leingi sem stadit hafa. þegar rietter arfar koma til edur þeirra vmbodzmenn. landaurar skulű oc vpp gefast.

Jtem skulű jslendsker menn hafa slijkan riett j noregi sem þeir hafa ădur bestan haft.

Jtem ad kongur lati oss na fridi oc jslendskũm logũm epter þui sem logbok vor vottar oc hann hefur bodit j sijnum brefũm sem gũd giefur honum framast vit til.

Jtem jarl vilium vier hafa yfer oss medañ hann heldur trũnad vid ydur eñ frid vid oss.

Hallda skulũ vier og vorer arfar allañ trũnad vid ýdur medañ þier oc ydrer arfar hallda trũnad vid oss oc þessar fyrskrifadar sættargiörder. en laũser ef rofiñ verdur af ýdari alfũ ad bestu manna ýfersýn: Auno ꝏ. ij^c lxiij.

---

4. 19. Júní 1302. á Þórsnessþingi.

Vitnisburðr Bárðar (lögmanns) Högnasonar og Sturlu Jónssonar um gjöf Marteins Narfasonar á Höskuldsey til Helgafellsklaustrs.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 157b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Sbr. Dipl. Isl. II, Nr. 174.

Bǻrdar logmans og Sturla Jonssonar vitnizburdur vm Hoskolldzey.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda Bardur Hognason og Stulle Jonsson quediu guds og sijna kunnigt giorandi ad vid vorum j hia er þeir sijra Bardur prestur og[1]) pǻll kimblason vottudu[1]) ad: Marteinn Narfason gaf Hoskolldzey fyrir j vetri og 20 stadnum a Helgafelli til eignar. og þar visse eingi ad Marteinn hefdi þessa firnefnda ey aptur vnder sig tekid til eignar. skrifade bardur logmadur þenna eid a Tyrzdagin j trinitatizvijku. ǻ þornessþinge. ad hiaverandi abotanum og odrum godum monnum.

Og til sanninda hier vm̄.

---

[1]) þ. v.; vantar í hdr.

5. 23. Júní 1311. á Þorleiksstöðum.

Bréf um landamerki Þorleiksstaða í Blöndnhlíð.

Frumbréfasafn Jóns háyfirdómara Pétrssonar í transskripti á skinni frá 21/6 1546; nú í Landsbókasafni. Bréf þetta er grunsamlegt og því líkt sem það sé falsbréf. Sbr. Dipl. Isl. III, Nr. 7.

Øllum monnum sem þetta Brief siæ edur heyra senda Paull prestr Þorsteinsson og Olafur Ge(i)rmnndsson quedin Guds og sina kunnugt giorandi at sub Anno Graciæ Millessimo trecentessimo decimo primo næsta Dag fyrir Jons Messo Baptistæ æ Thorleikstödum i Blônduhlyd æ landadeild(a)r stefnu fyrir Gudmnndi lôgmanni worum vid hiá og heirdum a þá nefndur Gudmund logmadr tok so fallinn Eijd af Haralldi Sigrdssyni og Þorunni sistr hans. Jsleifi Brandssýni og joni Bergsveinssyni at su væri landeign Thorleikstada uti marklæg ur henni rædur gardur yfir æsinn Sionhending upp i sonefnda AkraDæl. ur marklæg deilir stefna ofan yfir Giegner westr i illakijl. sem afdeilir Akrakijn allt fram i fremra Giegnirs drôg til þvergarda. ur þeim upp beina stefnu i hrolfstadalæk. rædnr hann sydan merkium milli Miklabæ(a)r og Thorleikstada upp til mots vit stein sem stendur i myrinne sndur og upp undan Mosagrund. undan steininum rædr gardr sionhending sunnan loptsgerdi fýrer utan waglatun og so beint npp epter riettsýnis i fiallseggina. Epter þessari eidfestri profan dæmdi welnefndnr lôgmann Gndmundr tiltekid land nnder Thorleikstadi med fullum laga atkvædum.

---

6. 1312.

25. Júlí 1506. á Hólum.

Máldagi Háls kirkju í Fnjóskadal í transskripti þriggja presta (Falsbréf).

Frumrit á skinni úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni. Innsiglið fyrsta er heilt og stendr á því nafn Gottskálks Jónssonar. Annars sýnist bréfið ekki geta verið svo gamalt sem frá 1506 með neinu móti og er óyggjandi *falsbréf*.

Þat medkienunst vid gottskalk ionsson ion gottskalkson og olafur tumasson prestar at vit hofum sied oc yfer lesid a holum j hiallttadal fornan maldaga halz kirkiu j fnioskadal er skrifadur hefur verit ᴍcccxɪɪ arum epter gudz burd so latande ord epter ord sem hier epter stendur skrifat.

kirkia hiñs heilaga pieturs postula a halse j fnioskadal. hun á alltt heimalañd. Birningstadi. kambstadi. Sandhauga. lambselldi wm allañ fnioskadal oc aull torfa millum þuerar oc fnioskar þingmannalækiar og markdælar *[er liggur fyrir sunnan langhől vit voluwðrdu. og riettsýnis ofan alltt j þann gard er ligur ofan at fnioskæ gagnvart sidra skoga lañdamerki*[1]). ʀeka a fliotz sandi. siettungur bædi hualreka og vidreka fra fliotzose. nær til midz sandz. siettungur vidur liősvetninga. so oc j nattfaravikum millum huanndala og suiinar. oc skal allur sa siettungur fyrst takaz. teigur filger j kinn nordur. ut fra fiñstodum oc þýfeteigur innan garda. afriett æ heidi ut. hælzmanna tungur.

oc til sannenda hier wm settum vit vor iñsigli fyrir þennan maldaga. æ Holum j hiallttadal æ sialfa Jacobzmesso arum epter gudz burd ᴍdvɪ.

[Upplesed fyrer Herads þijngs Rettenum á Halse d. 3 Maji Anno 1740.

Testera

J Benedixson Joon Eggertson

Upplesed fyrer Mañtals þijngs Rettenum aa Halsi d. 24. Maii 1743

Testera

J Benedixson Oddur Olafsson[2]).

---

[1]) [Þetta er sá kafli máldagans, sem hér virðist vera falsaðr, og til þess að koma þessum kafla inn hefir leikrinn verið gerðr, því að þetta stendr í eingum máldagabókum biskupsstólsins á Hólum (Sjá Dipl. Isl. II, 439; III, 572; V, 298). Ef svona áríðandi ákvæði hefðu verið komin inn í máldagann á dögum Jörundar biskups, er óhugsandi að hinir síðari biskupar hefðu felt það niðr, svo að þetta hlýtr að vera fals, og ártal svo sett af handahófi. [2]) [Utan á bréfinu.

**7. 23. Febrúar 1357. á Helgafelli.**

Ásgrímr ábóti á Helgafelli selr Þórði Flosasyni jörðina í Einiholtum fyrir Héðara-Lón og nokkurt lausafé.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to bl. 151a, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Örstutt ágrip af þessu bréfi með ártali 1350 er prentað í Dipl. Isl. II, Nr. 531.

Kaup fyrir nedra[1]) Lone.

Anno[1]) Domini Amen var þetta kaup þeirra asgrimz abota ad Helgafelli og Þordar flosasonar ad abote selur honum Jord alla j Eyñeholltum med ollu þui sem fylgdi ad fornu og nyiu og hann og stadurinn vard fremst eigandi ad. Hier j mot gefur Þordur land allt j hiedara Lóne med ollu þui hann vard fremst eigandi ad. þar ofañ á fiogur hundrut vadmala og hest slijkañ sem Þordur vill. Jtem kw og hross þrievett. er stendur med Jordunne. skal abote og stadurinn suara Lagariptingum á Eyñeholltum. enn Þordur á Jord og gosse þui sem hann gefur fyrir.

for þetta kaup fram̃ ad Helgafelli jn vigilia Matthie 1357.

---

**8. 27. September [1358]. á Stað á Ölduhrygg.**

Samningr Ásgríms ábóta á Helgafelli og Órækju Sturlusonar um landamerki Ingjaldshvols undir Jökli með þeim atriðum fleirum, er bréfið greinir.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 148b—149a, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600.

Brief um̃ landamerke Jngialldzhuolz mille Asgrijmz abota og Orækiu Sturlusonar.

Jn nomine Domini Amen.

Var þesse skilmale mille Asgrıȷmz abota og orækiu Sturlusonar vm þann agreining sem mille þeirra bar af

---

[1]) Svo.

stadarinz vegna ad Helgafelli og Jngialldzhuolz ad stadarinz Eign skillde æfinleg þadan̄ j fra. og[1]) allur skialldbreidur mille nefndra takmarka. Jardfallalækiar og Holmzkijlu. og þar med allur Bűrfellzdalur. ǽ allan̄ hatt kuitt og akiærulaust fyrir orækiu og hanz erfingium. skilldi nefndur orækia hafa manadar beit fie sÿnu j bwrfellzdal medan hann bẏggie a Jngialldzhuole. so framtt sem hann være stadnum thil greida vm̄ þad sem hann kynne med ad þurfa. Hier med skilldi orækia giora stadnum slÿkan̄ godvilia. sem hann villdi fyrir þann averka. sem hann hafde vinna latid a skialldbreid. sijdan stadnum var dæmdur hann til eignar. enn vm̄ Rif og reka fyrir Hraunskardi skylldu (þeir) þad ad sætt hafa og stodugtt hallda fyrir sig og sijnum epterkomendum. sem þeir menn giorde þar vm̄. sem gyrder biskup nefnde til.

var þesse sattargiord a stad ǽ olldubrygg in festo sanctorum martyrum Cosmi og Damiani[2]).

og til sanninda hier vm̄. setti sijra flose Jonsson. Þorleifur Sǽmsson. Biorn Sturlason. prestar. Snorre andriesson. Biorn Jonsson. leikmenn. et cetera.

---

9. [1358].

Þorgils Guðlaugsson lofar Ásgrími ábóta á Helgafelli, staðnum til eignar, hálfri jörðunni Keflavík undir Jökli, gegn því að ábóti taki Lopt son sinn til kosts og kenslu á staðinn, svo að hann megi vígjast til messudjákns.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 151a—b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Ágrip af þessu bréfi er prentað í Dipl. Isl. III, Nr. 259, með ártali 1377, sem þar er tekið eptir Kirkjusögu Finns biskups, en af samanburði við önnur Helgafellsskjöl, sem nú eru fram komin, fær það ekki staðizt, og verðr ártalið að vera hér um bil 1358.

---

[1]) Svo. [2]) Ártal bréfsins mun vera hér um bil 1358, því að 10. Marts 1356 kaupir Órækja Ingjaldshól, og Gyrðr biskup er enn á lífi, þegar þetta bréf er gert, en hann dó 1360 (sbr. Dipl. Isl. III, Nr. 78).

Giafabref fyrir halfre Kieflavijk.

Jn nomine Domini Amen

var þetta kaup þeirra asgrimz med guds nad abota a Helgafelli og Þorgijlz gudlaugssonar ad Abote tekur med Loffte syne hanz a þennan hatt ad hann jatar honum a stadarins vegna koste og kiendslu þar til ad hann er so fær fyrir namz saker ad biskup vilie vijgia hann til messudiaknz stiettar. Hier j mot lofar Þorgilz til stadarins til æfinligrar eignar land ad kieflavijk halftt fyrir 8c. ef þad reiknast so mijkid med sannindum. ad fornu lægie. enn leggia slijktt til sem vantar. med ollum þeim gognum og gædum sem þad hefur att ad fornu og nyo og hann vard eigandi ad og þar til v kugillde og hest. sie pillturinn so torvelldur til nämz eda deyr hann fyrr enn hann fær þessar vijgslnr. eda einhuor forfoll ganga til ad eigi er von ad hanu fae þessar vijgslur. þa skilnr þorgilz sier aptur so mikla peninga sem afganga koste hanz og næme. þurfe hann og so langa yfersetu til nams ad skynsomnm monnum virdist ad stadurinn sie eigi halldinn af þessari forgipt. þa skal til leggia so jafnt þyke.

voro þesser vottar vid Jon Solmnndarson. Snorre Andresson. Eyolfur biarnarson. gudmnndur aurnolfsson et cetera.

---

10. [um 1360].

Hallvarðr Oddsson selr Helgafellsklaustri jörðina í Hrútsholti í Hnappadalssýslu, að sérlega tiltöldum skógi og eingi í Söðulsholtsland.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 137b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. (= Dipl. Isl. III, Nr. 105).

Giafabref fyrir Hrnsshollte.

Hallvardnr Oddsson selldi klanstrinu og Asgrime abote Jordina Hrusshollt med ollum þeim gognum og giædnm sem þar á ad fylgia ad tiltoldn sierliga skogie þeim er stendur

fyrir sunnañ ȧna fyrir sunnañ modruskalahollt og eingie j Sodulholltz Jord sem bref þar vm̄ giortt vottar et cetera. [Hier vanttar ij blod ȷ maldagann[1]).

---

11. [1360].

Snorri Andrésson selr Ásgrími ábóta og klaustrinu á Helgafelli jörðina að Horni fyrir fjórðung í Berserkseyri og lausafé að auk, og er þar í talin bók, er Kolbrún heitir.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 152b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Þetta bréf er prentað í Dipl. Isl. III, Nr. 257 eptir nokkuð afbökuðum afskriptum, og með efablöndnu ártali 1377, sem þar er tekið eptir Kirkjusögu Finns biskups. En það er bert af þeim Helgafellsbréfum, sem nú eru komin fram, að það ártal fær ekki staðizt. Í afskript af bréfinu, sem komin er frá séra Guðmundi Jónssyni Hellnapresti, stendr ártalið 1460, sem að vísu er rangt, og hefir með öðru orðið til þess að sagnaritarar hafa talið, að sá hafi heitið Ásgrímr er ábóti var á Helgafelli það ár [(1460). Sjá Tímarit Bókmentafélagsins VIII, 233]. Enn þótt þetta sé rangt, sýnist það þó að nokkru benda í rétta átt, og mun vera farið aldavilt af misritan, svo að hið rétta ártal bréfsins verðr 1360. Kemr það vel heim, því að nú er það ljóst orðið, að Helgafellsklaustr fær fyrst *alla* Akrey hjá Snorra Andréssyni 1365 (sjá Nr. 18 hér á eptir).

Kaup fyrer Horne.

Jn nomine Domini Amen

var þetta kaup þeirra abota Asgrimz og snorra Andriessonar ad snorre selur abota Jord ad Horne med ollum þeim gognum og gædum sem þui landi fylgia ȧ og hann vard fremst eigandi ad. Hier j mot gefur aboti j bersersseyre fiordung med ollum þeim gognum og gædum sem abotin vard fremst eigandi ad. og þeirre Jordu eigu ad fylgia til fiordungz og v^c er sijra Thomas Snorrason gaf til stadarinz j sijnu Testamente og þar til bok er kolbrun er kollud. og leiguburd af halfri akurey med tueggia kugillda leigu. ero þau merke ad mitt braunskard ꝺ̄ fra þorustada-

---

[1]) [á spássíu í handritinu.

firdi millum hornzselia og kothraunz. skilde huor sier aptur þad sem hefdi at(t) ef nockrar lagariptingar geinge ꝺ.

voro þesser vottar vid sijra Jon Hall(dor)sson. sijra Snorre þordarson. Halldor Jonsson og Einar Gudmundsson [og marger adrer goder menn[1]).

---

**12. 14. Janúar [1362]. í Grunnasundsnesi.**

Einar Þorláksson fær Ásgrími ábóta og klaustrinu á Helgafelli jarðirnar í Botni og á Þórustöðum, en skilr Þorbirni frænda sínum í mót kost, klæði og kenslu, þar til hann væri vígðr til prests, og þar með fimm hundruð í bókum, messuklæði og kaleik.

Eptir skjalabók úr safni Jóns Pétrssonar háyfirdómara, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 151b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Ágrip af þessu bréfi er prentað í Dipl. Isl. III, Nr. 256, með ártali 1377, sem þar er tekið eptir Kirkjusögu Finns biskups, en fær nú ekki hæglega staðizt eptir að komið er í ljós testamentisbréf Einars Þorlákssonar frá 14. Janúar 1362, því að svo sem það er orðað hefir Einar þá verið dauða nær og þá dagana verið að ráðstafa sínum efnum, sem honum þótti mestu varða, og mun hann hafa dáið það ár. Er því ljósast að þetta bréf geti ekki yngra verið en 1362, og frá því ári mun það vera. Einar hefir verið bróðir Ketils hirðstjóra.

Kaupbrief fyrir Botne.

Jn nomini[2]) Domini Amen

var þetta kaup þeirra asgrimz abota og Einarz Þorlakssonar ad abote tok med Þorbijrne frænda hanz og jatade honum koste. kiendslu og klædum. þar til hann være prestur ad vijgslu. ef honnm yrde þad audit og þar med v^c^ j bokum og messuklædum og kaleik. hier j mot lagdi Einar til klanstursinz Jord j botne og a Þorustodnm. v kugilldi og v^c^ j haustlagie.

var þetta bref giortt (j) grunnasundznese post octavam Epiphaniæ[3]) þessum monnum hiaverondum sijra Þorleife

---

[1]) [sl. 858; b. v. sbr. Dipl. Isl. III, bls. 313. [2]) Svo. [3]) Þetta er helzt svo að skilja, vanti hér ekki i, að dagsetningin sé næsta dag eftir áttund þrettánda dags eða 14. Jan.

Jonssyni. Lopti diakna þorgilssyne. augmunde Þorvalldssyne og Olafe Þorsteinssyne.

---

13. 14. Janúar 1362.

Testamentisbréf Einars Þorlákssonar (bróður Ketils hirðstjóra), þar sem hann meðal annars gefr Helgafellsklaustri til legs sér jörðina í Hraunfirði.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 152, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Örstutt ágrip af þessu bréfi er prentað í Dipl. Isl. III, Nr. 153.

Giafabref fyrir Hornzfirde[1]).

Jn nomine Domini Amen

giore eg Einar Þorlaksson þetta testamentum til syndalausnar mier og saluhialpar heill ad samvitsku þo nockud sie krangtt j lijkamanum.

(J) fyrstu ad eg kys mig liggia ad H(eilagri) Helgafellzkirkiu epter þui sem gyrder biskup j Skálhollte hefur þar orlof til giefit. hef eg til þess legz lagtt land allt j Hraunfirdi[1]). med þessum skilmala ad sex fiordungar smiorz skulu giefast ártijdardag minn þurfamonnum af stadnum ad Helgafelle æfinliga. og seigiast salumessa ártijdardaginn æfinliga med ollum tonum sungnum salutijdum. og nefna mic thil bænar huorn sunnudag j kirkiu. hef eg hier med adur lagtt thil stadarinz j Testamentum x^c et cetera. hefur abote. med brædra sinna samþycke. jatad mier brodurligri vtferd. med þuilijkum eptergiordum sem þeim heyrir.

Jtem ij^c til stadarinz j skálhollte.

krossholltzkirkiu j^c.

j^c kirkiu j nortungu.

j^c kirkiu j áse.

j^c fatækum monnum jnnan̄ xij manada.

skal þetta allt riettgolldid j vadmalum.

j^c fatækum monnum j kosti og klædum jnnan̄ sio natta.

---

[1]) Svo.

Sugurdi brodur mijnum kw.

Þorgierde Hauskolldzdottur .v$^c$. iij kugilldi og ij$^c$ j þarfligum hlutum.

j$^c$ konu þoralfz.

morg[1]) jngolfi.

gior(i) eg skylldugliga ad allar mijnar vijsskullder (greidist) þær sem eg atti ad lwka. gef eg mig gude j valld og mijna sal med jdran og audmiuku hiartta. enn eg neita fiandanum ovin allra godra hluta. og ollum odrum jllum hlutum. bid eg drottinn minn og þijna sætustu modur og alla helga til arnadar ordz. skal mitt Testamentum standa obrigdugliga hiedan af.

Actum Anno 1362 in festo felicis.

---

14. **27. December 1362.**

Björn Jörundarson selr Ásgrími ábóta að Helgafelli jörðina á Bakka (í Helgafellssveit) fyrir lausafé.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 152b—153a, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. — Örstutt ágrip af þessu bréfi með ágizkuðu ártali 1360 er prentað í Dipl. Isl. III, Nr. 106.

Brieff fyrir Backa.

Jn nomine Domini Amen.

Var þetta kaup þeirra asgrimz abota ad Helgafelle og Biarnar[2]) Jorundarsonar ad Abote keypti[3]) ad honum land allt a backa med ollum þeim gaugnum og giædum sem hann vard fremst eigandi ad. og þui atte ad fylgia ad fornu og nyiu. Hier j mote giefur aboti biỏrne kyr v. v asaudar kugilldi. giellfiar kugilldi. fimttan .c. vadmala. v$^c$ j gripum vird til fullra aura. Lwka a fyrsta ǻre xij$^c$ j vadmǻlum og iij$^c$ j gripum. enn a thueimur ǻrum odrum skal lwkast ad helminge allt annat landz verdit. nema abote

---

[1]) Þ. e. mörk. [2]) Hann er kallaðr Bj*arni* í ágripinu. [3]) b. v.; vantar í hdr.

vilie lwka skiotara. lwkast xij alner j leigu af huoriu hundradi er olwktt er. skal biorn abyrgiast allar lagariptingar ǡ lande og lwka stadnum jafnmarga og jafnfrida anra aptur j mote ef brigdast kann. enn abote er skylldugur ad hallda Jordinne til laga. skilur bıjorn sier aptur so morg hundrut og jafnfrid j jaurdu sem eigi verda lwktt.

voro þesser kaupvottar. Sijra Snorre officialis. sijra flosi. Þordur flosason. Snorre Andriesson. Biorn Jonsson. Sueirn Solrunarson. Jon gudmundsson. Anno 1362 in festo Johanniz apostoli.

---

15. 22. Apríl 1364.

Samningr frú Haldórn Þorvaldsdóttur og Ásgríms ábóta nm jarðirnar Hóla, Garða og Þæfustein, er Haldóra hafði áðr gefið Helgafellsklaustri, svo og um önnnr fjárskipti.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 150a—b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar, c. 1600. Ágrip bréfs þessa er prentað í Dipl. Isl. III, Nr. 171.

Brief fyrir Hoolum. gordum og þæfusteine.

Jn nomine Domini Amen.

var þesse skilmale Asgrimz abota og fru Halldoru Þorvalldzdottur vm leiguburd a þessum Jordum þrimur sem hnn hafdi ǡdnr giefid stadnum a Helgafelli a Snæfellznesi Hoolum. gordnm og þæfusteine. Enn nn endurnyiade hnn þa somu giof med handlogum vid Abota Asgrijm alagalanst vid stadin til nockurz þunga ǡ þann mata ad stadnrinn skilldi þær æfinliga eiga. med ollnm þeim hlunnendum. sem þeim fylgdi. Enn abotinn skillde lwka frn Halldoru xx vætter skreidar. og þar til huortt er abotinn vill x vætter skreidar ednr ij fiordnnga smiorz fyrir hueria vætt. Jtem fær hun Abota til leiguburdar ǡtta kyr og fiogur asaudar kugilldi. skal þar lwkast j leign iij vætter smiorz. skal þesse Jarda leiga og kngilldi lwkast ad Helgafelli ǡ huortt ǡr. ǡ stadurinn hier af x kugilldi. Jtem skal smǡvidur leggiast af rekum til firsagdra jarda. so ad þær verdi leigu-

færar. Enn frű Halldora skal hafa hualreka og hina stærru vidu. medan hun lijfer. og skipa þui vid stadinn. sem hun vill. enn stadurenn ǘ allañ reka med fyrgreindum Jordum og kugilldum stadnum frials alþingiss og leigulaus.

Og til sanninda hier.

Anno 1364 decimo calendas Maij.

---

16. 23. Júní [1364]. í Görðum.

Gyrðr bóndi (Þorvarðsson) selr með samþykki Ingu húsfreyju sinnar Ásgrími ábóta og staðnum á Helgafelli jörðina í Vatnsholti í Staðarsveit fyrir Svarfhól í Miklaboltshrepp, með fleira skilorði, er bréfið greinir.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 142a, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Ágrip af þessu bréfi er prentað í Dipl. Isl. III, Nr. 61, með ártali 1354 að ágizkan, en í handritum stendr 1345, sem ekki fær staðizt. Nú síðan þetta bréf er komið fram nokkurn veginn heilt og önnur fleiri Helgafellsskjöl, er að ráða að ártal þess muni vera 1364.

Kaup fyrir vatzhollti.

Jn nomine Domini Amen

var þetta kaup þeirra asgrims abota stadarinz vegna ad Helgafelli og gẏrdz bonda med handlagie og samþẏcke Jngu husfreyiu hans ad þau fyrnefnd hion selldu Asgrimi abota land allt j vatzhollte med ollum þeim gognum og gædum sem þau vrdu fremst eigandi ad. Hier j mot gefur Asgrimur abote (jord) ad Suarbhooli. allt j miklholltzhrepp med ollum þeim gognum og gædum sem þui landi eiga ad fylgia og stadurinn ad helgafelli vard eigandi ad a þann hatt ad gẏrder og Jnga skilldu bwa ad vatzhollti vm þriu ǘr. enn suarfholl byggiast stadarinz vegna og stædist ǘ vm̄ leiguburd enn ad lidnum þrem vetrum skilldu þau kiosa huortt er þau villdu þa helldur eiga suarfhol edur xiij^c er stadarinz formenn villdu vti lata þa ad frijdleika. hier med giordi abotinn þau kuitt af torfz[1]) tiltoku og allri vida

---

[1]) t⁰z, hdr.

medferd ad vatzholltz reka. sijdan þau hofdu þar geymslu a stadarinz vegna.

voru þesser kaupvottar Sijra Jon Hall(dor)sson. Sijra Snorre Þordarson. Olafur hirdstiore pietursson. Jon b(ondi) kietilsson. Hrafn snorrason. Snorre andriesson et cetera.

---

17. 1365.

Vitnisburðr sex manna, að þau Gyrðr bóndi og Inga kona hans hafi viljug og óneydd geingið að kaupi þeirra við Ásgrím ábóta um Vatnsholt og Svarfhól.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858 4to, bl. 142b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar, c. 1600.

1365.[1])

Ollnm þeim godum monnum sem þetta brief sia edur heyra heilsar Jon prestur Halldorsson. Snorre prestur Þordarson. Hrafn Snorrason. Snorre Andriesson. Magnus Gudlaugsson og Halldor Jonsson medur guds kuedin og sinne kunnugt giorandi ad þar vorum vær j hia j stofunne j gǒrdum ad gýrder bonde og Jnga kona hanz geingu samþyckeliga til handlagz vid Asgrim abota vm þad kaup er þau keyptu vm̃ vatnzhollt og suarfhol epter þui sem kaupbrief þeirra þar vm giortt vottar. vorn þau hier vm sannliga sialfviling og a allañ hatt oþuingnd af huorium manne þeim þar voru jnne bæde medur ordum. verkum og giordum. þraungde Olafnr bondi þeim og ad sidur til þess kaupz. ad hann villdi eigi fyrir handlaginu seigia vtan vnder dom væri fest. þniat hann villdi ad ecki hefdi keyptt verid. kioru þau og fullkomliga bædi samtt kaupid helldur enn dom adur þau geingu til handlagz vid Abotann. ad sijdustu hiellt og einginn hondum þeirra þa þau logdu hendur sijnar samþyckeliga saman. matte og eñgi madur þad heyra ad þan mællte nockud j mote eda (gyrder) kalla(di)st naudigur vera þa er sıjra Jon skildi fyrir handlagi þeirra. budu

---

[1]) 1395, hdr., sem er augljós misskript fyrir 1365.

þau og Abota sialfdæmi adur vm̃ daginn þad sem j mille þeirra bar. var þa og bued til kaupz med þeim vm̃ þessar jarder.

og til sanninda hier vm et cetera.

---

18. 12. Maí 1365. í Bjarnarhöfn.

Snorri Andrésson selr Ásgrími ábóta á Helgafelli með samþykki Sigríðar húsfreyju sinnar alla Akrey fyrir Seljalönd, með þeim atriðisorðum, er bréfið greinir.

Landsbókasafn 858. 4to bl. 156b, skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Áðr er bréf þetta prentað í III., Nr. 110 eptir yngra handriti (AM. 252. 4to) og með ártali 1360. Ártalið hér kemr betr heim við önnur skjöl Helgafellsklaustrs.

Kaupbref fyrir akur Eÿium.

Jn nomine Domini Amen.

var þetta kaup þeirra Asgrimz abota og snorra Andriessonar. med samþyckie Sigrijdar[1]) hwsfreyiu snorra. og conventubrædra. ad ħelgaf(elli). ad herra[1]) abotinn[2]) selur Snorra oll [Selialond[3]) med þui ollu sem stadurinn vard fremst eigandi ad. og þeim á ad fylgia ad fornu og nyo. ħier j mot giefur[4]) Snorre akureÿ alla. med þeim skerium og holmum sem fiarar j og[1]) Eyunne[5]) a ad fylgia. ad fornu og nyo. [Skal eirnin fylgia[6]) selfor a land. a[7]) Seliahofda. medur torfe til Seliagiordar og xij kugillda beit. ef þeir eigu so til. er þar bwa. enn taka eigi til af odrum. huort fleira sem þeir vilia saudfie[8] eda kyr. millum ħagagarda. vtan eingiar[9]) so leinge sem þarfnast. en Snorre slae þad fyrst ef hann vill eigi til beitar leggia. skal fie Snorra eiga [jafnan frialsa[10] beit allzkonar epter þui sem hann skipar. og þeirra manna sem hann bygger [á amyrum[11]). Gudnÿarstodum[12]) og biarnarhofn. Rista[13]) ad frialsu heytorf hia seliahofda. ef akureÿ-

---

[1]) h. v. 252; [2]) abote 252; [3]) lönd ad Selium 252; [4]) gaff 252; [5]) eyunum 252; [6]) [og eÿunum filger 252; [7]) ad 252; [8]) asaud 252; [9]) eÿnge 252; [10]) [jaffnheimila 252; [11]) [a myrum 252; [12]) 252; dugmyrarstodum 858(!); [13]) Riste 252.

ingar vilia. ħier med selldi Snorre herra[1]) abotanum[2]) faskrűd[3]) fyrir iij kugildi. verde nockur brigda[4]) a odrum huorum ȷord(un)um. skilur huor sier aptur [þær ȷarder[5]) sem adur hefur att[6]) epter þui sem kaup þeirra var adur.

[War þetta kaup þeirra j Biarnarhöffu jn festo Nerei et Achillei[7]) Anno Domini 1365[8]). Þessum monnum hiauerande sira Jone Halldorssine. Marteine bonda Þorleifssine. Helga Brandzsine. Magnuse Jllhugasine og Fiallgeire Einarssine. Gudmunde Sueinsine. Þorgrijme Runolffssine. Gudmunde Sigurdzsine og mørgum ødrum godum mőnnum[9]).

---

**19.** **1365.**

Órækja Sturluson geldr Hauki Gunnarssyni Kálfárvelli alla fyrir þau tuttugu hundruð, er hann skuldaði honum upp í landið á Ingjaldshvoli.

**Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to bl. $147_b$, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar, c. 1600.**

Kaupbref ad Kalfarweller ero giefner vid Jngialdzhvole.

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra sender S(ira) Liotur Biarnarson og Biorn Jonsson quediu guds og sina kunnugt giorandi ad þar vorum vid j hia og sáum a ħandlag þeirra Orækiu sturlusonar og Haukz gunnarssonar so fyrir skildu ad nefndur Orækia gallt honum kalfarvelle alla fyrir landit á Jngialldzhuole. er hann var honum skylldugur epter þui sem kaupbref þeirra þar vm̄ giortt vottar. enn nefndur Haukur handlagdi hann kuittan fyrir þau xxcj lausafie er skild voro j kaupe þeirra. skillde optnefndur Orækia sier aptur allt landit a kalfarvollum ef Jngiallzhuoll ʀipptist.

Og til sanninda hier vm̄ setium vier.

Anno 1365.

---

1) b. v. 252; 2) abota 252; 3) Faskruff 252; 4) brigd 252; 5) [þa jörd 252; 6) 252; ad 858; 7) leiðr.: mariæ og Achilli(!) 252; 8) 1360 252; ɱccclx 430; 9) [Anno 1365, 858.

20. [1365].

Orækja Sturluson selr með handlagi Solveigar húsfreyju sinnar staðnum á Helgafelli jarðirnar Ingjaldshvol og Kjalveg undir Jökli fyrir 70 hundruð með því skilorði, er bréfið greinir.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to bl. 147b—148a, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar, c. 1600. Ágrip af þessu bréfi er prentað í Dipl. Isl. III, Nr. 261 með ártali 1377 eptir Kirkjusögu Finns biskups. Það ártal fær þó ekki staðizt, og bréfið hlýtr að vera eldra en 1369, því að þá standa Kálfárvellir fyrir brigð á Ingjaldshvoli (Dipl. Isl. III, bls. 254—55). Verðr það þá líklega svo að skilja, að þetta bréf sé einmitt frá 1365, og að Haukr Gunnarsson hafi selt Birni Jónssyni aptr Kálfárvelli þetta sama ár (1365), og Björn því næst Torfa Koðránssyni 1366 (sjá Dipl. Isl. III, Nr. 178), jafnan með því skilyrði, að jörðin stæði fyrir brigð á Ingjaldshóli, þótt ekki væri það þá bréfað.

Orækia Sturluson selur asgrime abota Jngiallzhvol og Kialveg.

Ju nomine Domini Amen.

var þetta kaup þeirra asgrimz abota og Orækiu Sturlnsonar. ad Orækia sellde stadnum ad Helgafelli lond er so heita Jngialldzhuoll og Kialvegur. med olln þui hann vard eigandi ad eptir þeim skilmala sem hann keypti ad; Hauke B(onda) gunnarssyne. Hier j mot jatade asgrimur abote klausturs inz vegna 70c med þessum frijdleika. halfan þridia tug kugillda. ern þar j x kyr. 9 asaudar kugilldi og vj gielldfiar kugilldi. halfan þridia tug hundrada j vadmalum. haustlagie og gripum. Lwkast a fyrsta ǻre v kyr. þriu asaudar kugilldi. ij kugilldi gielldfiar. vc vadmala. vc j haustlage. a odru ǻre iij kyr. iij asaudar kugildi. ij gielldfiar kugilldi. 4c j vadmalnm. 4c j gripum. A þridia are ij kyr. iij asaudar kugilldi. ij gielldfiar kugilldi. 4c vadmala. iijc j haustlagie. Jtem var lagtt ved j jordina a Hros(s)hollti til leiguburdar. a þann hatt ad aboti skal a sietta ǻre [1])fyrir x kugilldi xc j vadmalum og haustlagie. liggur allt j jordu til leiguburdar. xij alner a huoriu hundrade þad er eigi lykst ut a fyrsta are. Skuln oll sol lwkast ad Helgafelle. skal

[1]) Svo. Hér mun vanta: leysa veð.

abote lata giora vpp kirkiu a Jngiallzhnole. enn orækia [skal leggia[1]) til alla lausavidu, sem hann hefur til. kann Jngialldzhuoll og ad uipptast skilde abotinn aptur stadnum alla Kalfarvelle er orækia (gallt) fyrir Jngialldzhuol og allt hros(s)holltz verd. Lagdi aboti nidur allar tiltaulur vidur orækiu stadarinz vegña og sakargipter. Handlagde Solve(i)g hwsfreyia[2]) orækin þetta kanp frialst og lidugtt sinna vegna.

Þessum monnum hiaverondum S(ira) flosa Jonssyni. S(ira) Jone Halldorssyne. Sıȷra Jlluga Kietilssyne. S(ira) Þorleife Jonssyni. S(ira) Saulmnnde Eigilssyne. Sıȷra Biarna Sturlnsyne.

---

**21.** [fyrir 1367].

Snorri Andrésson gefr staðnum á Helgafelli í prófentu með sér og til legs sér jörðina á Hamri (líkl. Stakkhamri í Miklaholtshrepp).

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 152b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. — Ágrip þessa bréfs er prentað í Dipl. Isl. III., Nr. 258, og er þar getið til, að ártalið muni vera 1377. En af mannanöfnum þeim, sem koma fram í þessu bréfi, — en ekki standa í ágripinu —, er að ráða, að bréfið sé eldra en 1367 eða jafnvel nær 1360. Loptr Þorgilsson er hér enn nefndr djákni.

Brieff fyrir Hamre.

Jn nomine Domini Amen.

var þetta kaup þeirra asgrimz abota ad Helgafelle. og Snorra Andriessonar ad nefndur Snorre gefur stadnum ad Helgafelle land vnder Horne[3]), med ollu þni sem hann hefur eigandi ad ordit oc þar til lagde hann vc j haustlægie edur vadmālum. hier j mot jatade abote nefndnm Snorra æfinligum koste af stadnum sem fremsta manne a stadnum. nema dryck og klædnade so framtt sem hann hefur eigi kost til ad klæda sig sialfur vllklædum. So og huar sem hann andast ā Jslande. þa skal formadur stadarins lata sækia

---

[1]) [tviskrifað; [2]) hwsfreyiu, hndr.; [3]) Svo hér 858. Ágripin hafa *Hamar*.

hann og hafa þar fullt fyrir af gosse Snorra. ef hann. hefur peninga til. ella gangi á stadarins gosse.

Þessum monnum hia verondum Lopte diakna Þorgilssyne. Gijsla[1]) klerk pálssyne. pale gilssyne. Þordi Thomassyne. vermundi gallta. og odrum godum monnum.

---

22. **1. Marts 1367.** **í Görðum.**

Snorri Þorleifsson officialis í Skálholti úrskurðar fast og stöðugt kaup þeirra Gyrðs Þorvarðssonar og Ingu konu hans við Ásgrím ábóta á Helgafelli um Vatnsholt og Svarfhól, því að svarið var, að Gyrðr og Inga gerði kaupin óneydd.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 142b—143a, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600.

Ollum godum monnum sem þetta bref sia edur heyra sender Snorre prestur Þorleifsson officializ j Skalholti Quediu guds og sina kunnugt giorandi 1367 in festo donati martyris kom a stefnu fyrir mig j gordum j Stadarsueit Asgrimur abote ad Helgafelli og gyrder þorvardsson og Jnga kona hanz epter þui sem þau hofdu þar handlagtt sig med ollu þui profi og skilrijke sem þau hefdi til vm þad jardarkaup er abotinn sagdist keyptt hafa jordina j vatnzhollti ad þeim med þeirra godu samþycke og vpplagie. enn þau saugdust naudig verit hafa. og ad teknu juramento af huorutueggiu halfu krafdi eg ad þau skilldu leida prof sitt ef nockrer menn hefdi þad sied ad halldid hefdi verid hondum þeirra. þa er þau geingu til handlagz vid abotann eda þau hefdi kijptt hondum og ordit eigi laus eda talad þad ad þau være naudug og villdi eigi jordina selia. og fieckst ecki vtan þau frambaudu[2]) eid sinn og villdu sueria ad þau væri naudug. syndist mier sa eidur eigi takandi med þui abotinn baud fram votta og krafdi mig ad taca þa sem hia hefdi verid þeirra kaupi. og þeir vottudu ad þeir sau eigi annad epter sinne samvijsku enn þau væri onaudig. sijra Jon Hall-

---

[1]) Svo; *rétt*: Gils, og hefir hann verið faðir Páls. Gils prestr dó 1367 (Gottskálksannáll); [2]) Svo.

dorsson og Einar gudmundsson og soru þennan eidstaf et cetera.

Til þess leggur þu hond a helga bok og þad segir þu gudi ad þar varstu j hia hier j gordum næsta dag fyrir Jonzmesso baptistæ ad asgrimur abote og gẏrder Þorvardsson og Jnga kona hanz laugdu hendur sijnar saman og keyptu vm ȷarder vatnzhollt og Suarbhol er liggur j Michlholltzhrepp med þeim skildaga sem kaupmale þar vm gior vottar. sagdi aboti fyrir handlagit ad þau skilldu þui ad eins til þessa kaupz ganga nema þeim væri badum viliugtt og þennañ eid suer þu eigi saker vinattu virding herra abota. saker haturz eda ofundar vid gyrder edur Jngu konu hanz. og eigi nema saker laga og Riettinda. So sie þier gud hollur et cetera.

Þui j gudz nafne amen sagda eg med fullum domi og vrskűrde fast kaup þeirra abota asgrims og gyrdz Þorvardssonar og Jngu (og) Jordina vatnzhollt klaustrinu ad Helgafelli til halldz og æfinligrar eignar. enn þeim gẏrder og Jngu fyrrnefnda Jord ad Suarbholi eptir kaupi þeirra.

Og til sanninda hier vm.

---

23. [um 1370].

Kolbeinn Benediktsson selr Ásgrími ábóta á Helgafelli jarðiruar Grunnasundsnes og Hóla í Helgafellssveit fyrir lausafé.

**Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 155a—b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Ágrip af þessu bréfi er prentað í Dipl. Isl. III, Nr. 260, með ártali 1377, sem þar er tekið eptir kirkjusögu Finns biskups, því að í eingum handritum stendr ártal þessa bréfs, svo menn viti. Eins og bent er á í umgetnum stað í Fornbréfasafni, kemr það ekki heim við ártalið 1377, að Kolbeinn sá, sem hér selr, geti verið sami maðr og Kolbeinn Benediktsson ríki, er dó 1375. Er því tvent til, og annað er það, að þetta sé annar maðr, eða þá hitt, að ártalið 1377 sé rangt, og þykir mér það nú líklegra, því að það er nú staðreynt orðið síðan skjalabók sú fanst, sem hér er prentað eptir, að ártöl Finns biskups á Helgafellsskjölum eru víða alveg marklaus, annað hvort bygð á ónýtum af-**

skriptum, eða þá sett að ágizkan. Kaupalagið sjálft í bréfinu bendir og á, að hér sé við ríkan mann að skipta. Kolbeinn heimtar hér alt greitt í beztu aurum og jafnvel mikið í silfri, og mundi ekki öðrum hafa gagnast það gagnvart ábótanum en ríkum manni. Auk þess er Kolbeinn kallaðr „bóndi“ í öðru bréfi um þessi jarðakaup. Er því líkast að sá, sem selr hér, sé einmitt Kolbeinn ríki, er dó 1375, og ætti þá bréfið að vera frá c. 1370.

Kaupbrief fyrir grunnasundznese og
Holum j Helgafellssueit.

Jn nomine Domini Amen.

var þetta kaup þeirra asgrimz abota ad Helgafelli og kolbeins benedictssonar. ad kolbeinn selur abota grunnasundznes og hola j Helgafellzsueit med ollum þeim gognum og giædum er þeim londum eiga ad fylgia ad frateknum skogar jtokum þeim[1]) er adrer menn eigu ad hafa. Hier j mot gefur abote kolbeine x kugilldiss hesta. vtañ abote villdi helldur lwka atta hesta og 4 tuævetur hross. halfan siounda taug skreidar fyrir x$^c$ nema abote vilie betur giora. og taka ad helgafelli. xvj$^c$ j silfri. xij aurum eyrer. xij og xx[2]) vadmala og ij hundrada lag j hual slijktt sem abote villdi til lata. skilldi kolbeinn abyrgiast allar laganiptingar a þessum jordum.

voro þesser kaupvottar broder Steirn Þorkielsson. Broder Snorre Marteinsson. B(roder) narfe Snorrason. pall gilsson. Helga audunardotter. og fleire adrer.

---

24. [um 1370].

Kolbeinn Benediktsson selr Ásgrími ábóta á Helgafelli jörðina Grunnasundsnes í Helgafellssveit fyrir lausafé.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 156a—b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600.

Kaupbrief fyrir grunnasundznese.

Jn nomine Domini Amen

---

1) Þeir, hdr. 2) Svo.

var þetta kaup þeirra Asgrims (abota) ad Helgafelli og kolbeinz benedictssonar. ad kolbeinn selur stadnum ad Helgafelli jord alla j grunnasundznes(e). med ollum þeim gognum og gædum sem þar eigu ad fylgia og þau fru halldora vrdu eigandi ad. Hier j mot gefur Abote kolbeine b(onda) halfan þridia taug hundrada j hafnarvodum og v^c j voru. halfan siounda taug vætta skreidar. skal þad lwkast ad Helgafelli. Brentt silfur til v^c. xij aurum eyre af þeim Rosum sem beit er a botne gyllt edur grafiñ. hross til v^ca kugillda vird. skal lwkast a þremur ãrum. nema skreidiñ og vadmalin. enn allt annad a fyrsta ãre.

voro þesser vottar b(roder) Steirn. b(roder) Snorre. wermundur Ornolfsson. Jon Ormsson. prestar. Snorre Andriesson et cetera.

---

## 25. 1371. á Helgafelli.

Haldóra Þorvaldsdóttir kvittar Ásgrim ábóta á Helgafelli af öllum skiptum þeirra á milli og aftekr ómagaskyld þá, er fylgja átti jörðum þeim fjórum í Bervík, er hún hafði gefið klaustrinu.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 150b—151a, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Frú Halldóra dó 1373 (Gottskálksannáll), og hefir verið kona Kolbeins Benediktssonar.

Kuittunarbrief Halldoru Þorvalldzdottur vm Jarder j Bervijk.

Ollum godum monnum sem þetta brief sia edur heyra heilsar Halldora Þorvalldzdotter (med) k(ucdiu) guds og s(inne) kunnugt giorandi ad eg hefi gjortt Abota Asgrim[1]) af stadarinz vegna ad Helgafelli kuittañ og lidugan af ollum skiptum og skulldaferlum sem eg hefi vid stadinn att. fra fyrsta tijma er eg atta nockud vid hann ad skullda. og þar til sem nu er komit. so giore eg stadinn og yfer vel

---

[1]) Asgrime, hdr.

þeirra manna er i Landmanna ʀepp búa. og þar veittu a-kiærn um̃.

Var og svarid fyrir oss af tveimur mónnum Tomase Illugasyni og Sigurdi Øgmundssyni. ad þessi afriettur þiotz-ar Tungur hafi verid hafdr og haldinn til Lambarekstürs og Elldra fiar af þessum tveimur hreppum Landi og Holt-um [svo leingi[1]) sem þeir mundu til og ej vissu þeir annad sannara. en þad væri þeirra Eign.

Þvi eptir þessum Eijdi og (ad) so profudu máli sem fyrr skrifad er. Dæmdum̃ vier fyrr skrifadir Domsmenn þeirra Eign og afriett. sem haft og haldid hafa i Holtum̃ og á Landi. sem eru og verid hafa til fra Túná og til Spreingi-Sands og vestur i þiótzá og allt austur i fialigard. so langt sem vótn renna til og frá hierada a millum. ad riettri tiltólu. Og anngver menn adrer meiga i þessum af-riett fugla veida. Grós lesa. Rotagróft hafa edur ónnur Giædi. fyrir utan þeirra leifi er fyrr skrifadir eru. nema þeir hafi skilvís vitni edr brief er i fara. edur sier kalla. nema þeir menn er i Hreppum bua hafi samreid vid þa. er ur Holtum og af Landi fara til Fuglveidar og Grós ad tyna badu megin Þiótzaær. sem ad fornu hefr verid og þeim hefur samid sijn a millum et cetera.

Til sanninda hier um setium vier fyrrnefndir Doms-menn vor ȷnnzigli fyrir þetta Domsbrief.

Skrifad a Ytri Vóllum̃ a sama ári sem fyrr seigir.

**B**

Eptir afskript með hendi Vilhelms Frímanns Jónssonar í Vindási, er hann sendi Sigurði Vigfússyni með bréfi skrifuðu á Eyrarbakka 18. Maí 1885.

Dómur.

Það gjörum vér Oddur Ásmundsson, Örnólfur Oddsson, Björn Jónsson, Þorsteinn Þórðarson, Sigurður Eiríksson og Sigurður Hafliðason góðum mönnum kunnugt með þessu voru opnu bréfi Anno domini 1476 þriðjudaginn næstan

---

[1]) [skaddað í *a*, og svo hefir verið í afskript Jóns í Vindási (412).

eptir Jónsmessu á Skarði á Landi á þingstað réttum, vorum vér í dóm nefndir af Þorsteini Pálssyni, er þá hafði sýslu og umboð af Erlendi Erlendssyni í Rangárþingi að meta og skoða um afrétt þann, er heita Þjórsártungur[1]), hvort það væri eign eður almenningur eða afréttur þeirra manna, er í Landmannahrepp búa, og þar veittu ákæru um. Var og svarið fyrir oss af tveimur mönnum, Tómasi Illugasyni og Sigurði Ögmundssyni, að þessi afréttur, Þjórsártungur, hafi verið hafður og haldinn til lambareksturs og eldra fjár [*úr Landmannahrepp*[2]) svo leingi sem þeir mundu til, og ei vissu þeir annað sannara en það væri þeirra eign[3]) sem haft og haldið hafa [*Landmannahrepps búar*[4]), sem eru og verið hafa til frá Túná og til Spreingisands og vestur í *Þjórsará*[5]) og alt austur í fjallgarð, svo langt sem vötn renna[6]) héraða á millum að réttri tiltölu, og aungvir aðrir[7]) mega í þessum afrétti fugla veiða, grös lesa, rótargröpt hafa [*né silungsveiði í Veiðivötnum*[8]) eður önnur gæði fyrir utan þeirra leyfi er [[*í Landmannahrepp búa*, [*nema máské*[9]) *Gnúpverjahreppsbúar, ef þeir að fullu geta úti staðið næga grasatekju aptur á móti*[10]).

Til sanninda hér um setjum vér undir skrifaðir dómsmenn vor innsigli fyrir þetta dómsbréf.

Skrifað á Ytrivöllum Anno domini 1476.

| | |
|---|---|
| Oddur Ásmundsson | Örnólfur Oddsson |
| (L. S.) | (L. S.) |
| Björn Jónsson | Þorsteinn Þórðarson |
| (L. S.) | (L. S.) |
| Sigurður Eiríksson | Sigurður Hafliðason |
| (L. S.) | (L. S.)[11]). |

1) Hér hefir Frímann hlaupið yfir: „og liggur fyrir Landmannahrepp millum Túnár og Spreingisands“. 2) [Hér breytir Frímann úr: *af þessum tveimur hreppum Landi og Holtum*“. 3) Hér hleypr Frímann aptr yfir heilan kafla. 4) [Hér breytir Frímann aptr, og alt í sömu átt og fyrr, að Holtamenn eigi ekkert í afréttinum, úr: „*í Holtum og á Landi*“. 5) Þannig, Frímann. 6) Hér hleypr Frímann yfir: „*til og frá*“. 7) Hér hleypr Frímann yfir „*menn*“. 8) [Þessari klausu hefir Frímann skrökvað inn í. 9) [Hér hefir Frímann fyrst ritað: „*fyrir utan*“, en svo dregið það út og ritað fyrir ofan línuna „*nema máské*“. 10) [[Allri þessari klausu hefir Frímann skrökvað og falsað hið rétta. 11) Neðan við setr

79. 2. Júlí 1476. á Þingvelli.

TRANSSKRIPTARBRÉF.

AM. Fasc. XVIII, 26, frumtransskriptið á skinni, og eru innsiglin dottin frá. Það er með sömu hendi og kaupmálabréf Sumarliða gert í Kalmanstungu 1468 (DI, V, Nr. 472).

Þath giorum uit annfinur ionson ok ingimundur ionsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi ath uit hofum sied ok yferlesit opit bref suo latanda ord eptter ord sem hier seiger. [Hér kemr bréf um Kollabæ í Fljótshlíð frá 20. Júní 1470, DI, V, Nr. 511].

Ok til sanninda hier um settom uit fyr nefnder menn ockur insigli fyrer þetta transkrifttarbref skrifad á þinguellj. á visitacio sancte marie uirginis. þá er lidit uar fra hingadburd uors hera jesv christi m. cccc. siautiger ok sex ar.

---

80. 1. August 1476. á Sandhólaferju.

ÞÓRÐR Jónsson lýsir því, að hann hafi gefið síra Sigurði Þorlákssyni jörðina Hól í Siglufirði.

---

Frímann: „Að þessi dómur sé rétt afritaður
vitnar
V. F. Jónsson".

Aptan við afskriptina ritar Sigurður Vigfússon: „Oddur Erlendsson hreppstjóri á Þúfu á Landi hefur afskrifað þennan dóm, en um frumritið veit maður ekkert; en afritið var eign Jóns Þorsteinssonar hreppstjóra í Vindási, og er nú eign Frímanns sonar hans, sem hefir afskrifað dóminn orðrétt, en vera má að Oddur hafi ekki haft það elzta frumrit; það virðist mega sjá af stafsetningunni; en hitt fullvissa þeir, sem kunnugir eru Odda, að hans afrit er í alla staði rétt, því hann var greindur maður, glöggur og réttorður og skrifari ágætur og afritaði mart". Í bréfinu $^{18}/_{5}$ 1885 segir Frímann: „Eptir umtali okkar sendi eg þér nú afrit af dómi þeim, er eg gat um við þig, hvar í þú getur séð, að full trygging er fyrir, að Veiðivötn hafa heitið því nafni, sem að líkindum er þeirra rétta nafn, en ekki að þau heiti Fiskivötn, því við alla þá menn(!), sem eg hef talað um Veiðivötn við, ber saman um, að þeir hafi ekki heyrt þau nefn(d) öðru nafni, nema í korti Gunnl(aug)sens".

AM. Fasc. XXII, 10, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 3243. Sbr. bréf Nr. 74 að framan.

Um Hool j Siglufirde[1]).

Þat giorer ek Þordur ionsson godvm monnum kvnigt med þessv minv brefi ad ek hefe gefid sira sygurdi prest þorlakssyne iordina hol er liggur j siglvfirdi j siglvnes þingvm til æfinligrar eignar vndan mer og minvm erfingivm epter þui sem ek vard fremzt eigandi ad. og til saninda her vm set ek mitt insiglle fyrer þetta bref er skrifad var a sandholaferiv j holltamannahrepp j hafs kirkiv sokñ fostvdagin næsta fyrer petrsmessv. anno domini ꝏ⁰ cd⁰ septvagesimo sexto.

---

81. 1476. á Sandhólaferju.

Guttormr Jónsson lýsir því, að hann hafi gefið Þórði Jónssyni bróður sínum tíu hundruð í jörðunni Hóli í Siglufirði.

AM. Fasc. XXII, 8, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 3241.

Þat giore ek gvttormur ionsson godvm monnum kvnigt med þessv minv brefi ad ek hefi gefid þordi ionsyne brodur minvm tiv hvndrvd j iordvne hol er ligvr j siglvfirdi j siglvnes kirkiusokn til æfinligrar eignar vndan mer og minvm erfingivm med ollum þeim gognvm og gædvm sem greindvm tiv hvndrada parti fýlger og fylgt hefer ad fornv og nyv. og til sannenda hier vm setta ek mmitt[2]) insiglle firir þetta bref er skrifat var a sandholaferiv j holltamannahrepp er liggur j hafs kirkiv sokn. anno domini ꝏ⁰ cd⁰ septvagesimo sexto.

---

82. 3. August 1476. á Sandhólaferju.

Tveir menn lýsa því, að Guttormr Jónsson handlagði Þórði

---

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. [2]) Svo.

bróður sínum til fullrar eignar tíu hundruð í jörðunni Hóli í Siglufirði.

AM. Fasc. XXII, 9, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 3242.

Um̄ hol j siglufirde[1]).

Þat gio(r)vm vid magnus olason ok þorkell skeggiason godvm monnum kvnigt med þessv ockrv brefi at þar vorv vid j hid savm ok heyrdvm æ ad gvttormur ionson handlagdi þordi ionsyne brodur sinvm tiv hvndrvd j iordvne holi er liggur j sigllvfirdi i siglvnes kirkiv sokn til fvllrar eignar sem hann vard fremzt eigande ad vndan ser ok sinvm erfingivm til obrigdiligrar eignar med avllvm þeim gavgnvm og gædvm sem greindvm parti fylgia ok fylgt hefer ad fornv ok nyv. ok til sanenda hier vm setivm vid fyr nefnder men ockar insigli fyrer þetta bref er skrifat var a sandholaferiv j holltamanahrepp j hafs kirkiv sokn a olafsmess(u) ina seinne anno domini ꝍ° cd° septvagesimo sexto.

---

## 83. 6. August 1476 og 1537.

Skýrsla um stöpulgerð í Skálholti.

AM. 680. 4to, skinnb. c. 1270, orðubók Niðaróss erkibiskupsdæmis staðfest af Jóni biskupi Stephánssyni Krabba 1464. Þessi klausa er með tveim höndum samtíða atburðunum á bl. 97b í skinnbókinni. Sbr. viðabréf Sveins biskups 5. April 1471 (DI, V, Nr. 517).

Stavpullin j skalhollti uar reistur þridia dagin næsta fyrir lavrencius ꝍesso anno domini ꝍ°. cd°. lxx°. sexto.
anno domini ꝍ.° d.° xxx.° vıı°.

---

## 84. 10. August 1476. á Munkaþverá.

Bréf um landamerki Ytra-Hóls í Kaupangssveit og Grafar.

---

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

AM. Fasc. XXII, 12, frumrit á skinni. Af 6 innsiglum eru 5 enn fyrir. — AM. Apogr. 3014. Frumritið er nú mjög fúið og meira af sér geingið en þegar Árni lét afskrifa það.

[landamerkiabref.
Landamerki millum ytra hóls i Kaupangssveit og Grafar[1]).

Þat giorum vær olafur ingimundarson. stigur ingimundarson ok ellendur broddason prestar. Magnus benediktzson. sumarlide eireksson ok brýniolfur magnusson leikmenn godum monnum viturligt med þessu voru brefi ath æ næsta dag fyrir laurenciusmesso[2]) ridum vær med einari abotha æ munckaþveræ á þau landamerki sem reiknat var ath væri mille iardanna ytra hols i kaupángssveit ok grafar. var þar ok arni gunnsteinsson. Jtem var þar ok nær hallr eýiolfsson er sagdizt hafva buith æ holi xx vetur ok sagdi ath þat siki sem liggur ofan i lækinn þann sem fellr vt fyrir ofan gardenn á hóle[3]) ok svo rettsýne upp a fiall vr sikisgrandanum ok hefdi þat verit kallath grafarreitr sem fyrir vtan var þessi merki ok suo hefdi verit haft ok haldit allañ þann tima. sagdizt hann ok huorki hafa slegit ne ýrkt i saugdum reit nema med leyfi þeirra sem i grof biuggo. sór fýrgreindr hallr eýiolfsson epter þessi sinne framsaugu fullan bokareid fyrir sira olafi ingimundarsyni er þa var profastur mille gleraær ok vargiár. beiddi einar abothe arna gunsteinsson ath birta þar sin skilrike vm̄ sagdar iarder ef hann hefdi nockur til en þau komv þar eingi fram. ok til sanninda hier vm̄ settum vær fýrr nefnder menn vor inncigli fyrir þetta bref skrifath æ munckaþveræ i eýiafirde mænudagh hinn næsta fyrir assumpcio sancte Marie uirginis. anno domini M° cd°. septuagesimo sexto.

---

85. **23. August 1476. á Reynivöllum.**

Transskriptarbréf.

---

[1]) [Utan á bréfinu; fyrsta línan forn; hitt með hendi Árna. [2]) Þ. e. 9. Aug. [3]) Svo.

AM. Fasc. XVII, 18. Frumtransskriptið á skinni með öllum (4) innsiglum.

Þat giorum uær ormur jonsson. arnor finndzson ok jon asmundzson. biorn helgason godum monnum kunnigt med þessu uoru optnu brefi at vær hofum sied ok yferlesit og heyrt yferlesit eitt opit domsbref med heilum ok skoddum[1]) hangannda jnsiglu(m) suo latanda ord epter ord sem hier seiger. [Hér kemr dómr um Arnbjörn Sæbjarnarson frá 6. Sept. 1467, DI, V, Nr. 434].

Ok til sannind(a) hier (um) settum uær fyr nefnder menn uor jnsigle fyrer þetta transkriptarbref er skrifat uar at reyneuaullum j kios a jslande faustudaginn næsta fyrer bartholomæi þa er lidet uar fra hingatburd uors herra jhesv christi. ꝏ. cccc. lxx ok segx ær.

---

86. 21. September 1476. í Miklaholti.

Helgi prestr Magnússon fær Haldóri Þorgeirssyni „bróður sínum“ fjörutíu álnir hins ellefta hundraðs í jörðinni Snorrastöðum í Kolbeinsstaðahrepp.

Eptir afskript (í minni eigu) Gísla Jónssonar og Steindórs Helgasonar, gerðri eptir transskripti frá 13. Dec. 1612, og staðfestri 15. Maí 1704 á Reykhólum.

Þad giore eg Sijra Helge Magnusson Godum monnum viturlegt med þessu mijnu opnu briefe ad eg medkiennunst ad eg hefe feinged Halldore þorgeijrssyne brodur mijnum. med fullu handabandi. xl alner ens Ellefta hundrads i jordunne Snorrastodum. er nu liggur i Kolbeinsstada kirkiu sokn til fullrar eignar og frials forrædes. kuittur og akiærulaus fyrer mier og ollum mijnum efíterkomendum. med öllum þejm gögnum og giædum. sem greindum jardarparte fillger og fillgt hefur ad fornu og nyu. og eg vard fremst eijgandi ad. og til sannenda hier um setta eg mitt jnnsigle firer þetta brief er skrifad var i Miklahollte i Miklholltʒ-

---

1) Þannig.

hrepp upp a festum Matthei apostoli. þá lided var frá hingadburdi vors Herra Jesu Christi. M. iiii^c. Lxx og vj ár.

---

87. 21. Oktober 1476. á Hólum.

Dómr útnefndr af séra Jóni Broddasyni, officialis fyrir norðan land og ráðsmanni á Hólum, um ákæru hans til Jóns Þórðarsonar, að hann hefði drepið hest fyrir Hólastað.

AM. Fasc. XXII, 7, frumrit á skinni. Af 6 innsiglum eru fjögur fyrir, en sum þeirra mjög skert. — Apogr. 3240.

domur vm hestmál jons þo(r)darsonar.[1])

Þat giorvm ver ketill grimolfsson. þorvardr semingsson. þorbergr stefansson. þordr ingimundarson. lòduik hallzson prestar holabiskupsdæmis ok sigurdr jonsson messudiakn. godum monnum viturligt med þessu voro brefi ath þa er lidit var fra hingatbvrdi vors herra ihesv christi þushvndrut .cccc. lxx. ok sex ár. æ holum j hialltadal manadagin næsta fyrir simonsmesso vorum ver j dom nefnder af ærligum manni sira jone broddasýni er þa uar officialis holabiskupsdæmis ok radzman æ holum ath dæma um þa ækærn er fýr nefndr sira jon kærdi til jons þordarsonar. at hann hefdi drepit hest fyrir holastad er hann atti ath fara med. let sira jon stefna fyrir sik fýrnefndvm jone þordarsyni. kom hann ecki ok eigi hans vmbodsman til forsvars fyrir hann. var þa svarin stefnan. sua let sira jon sveria tau[2]) skilrika votta ath fyrsagdr hestur var ostungin ok (omeiddur) at þui sem þeir suorv þa er nefndr jon tok vit honum. var þar ok svarit af tveimur vottum ath deigi sidar en fýr nefndr jon skildizst vit hestin var hann stungin æ lendinne ok ok hafdi þo annan meira þo hann fýndizst seinna svo hann do af. Þui ath til kalladri guds nád dæmdvm uer fýr sagder lærder menn j fýrstv stefnuna laugliga ok opt nefndan jon þordarson hier lavgliga fyrir kalladan j dagh. ok skýlldvgan ath lvka mork j stefnvfall. nema hann syni lavglig forfaull ath hann matti ecki koma. hier med dæmvm ver tíſt

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi; [2]) Svo.

nefndan jon þordarson skýlldvgan ath sveria lýrtareid[1]) innan vij. nătta ath heýrdvm dominvm heima æ holum fyrir þrattnefndvm sira jone edr hans vmbodsmanni ok nefni honum þa til eidamanna sem kvnnigazst er vm þetta mǎl. med sua felldum eidstaf ath hann ueiti þat ecki tilrædi fýr saugdvm hesti ath hann mætti davda af fǎ af hans volldvm. ath unnum þessum eidi þa dæmvm ver hann saklausan vm þetta mǎl. fellz honum þessi eidr þa dæmdvm ver tíjt nefndan jon þordarson med fullri þriozsku ok ohlýdne hafa halldit hestinvm sidan sira jon broddason beidi hans ok krafdi aptur ok jon þordarson skylldvgan at abýrgiazt hestin alagalaust til fardaga en fra fardaugum ok hingat til fyrir rangligt halld æ hestinvm. eýri æ hverri viku ok þar til aptur kirkivnne jafngodan hest ok xxx marka j fvllretti. Ok til sanninda hier um settum ver fýr nefnder lærdir menn vor incigle fyrir þetta domsbref skrifat j sama stad degi ok ǎri sem fýr seger.

---

## 88. 26. Oktober 1476. á Reynistað.

Vitnisburðarabréf um landamerki Hóls og Selár á Skaga.

AM. Fasc. XXII, 5, frumrit á skinni grautfúið. Brot af innsiglinu er fyrir bréfinu. Var þetta bréf meðal Bessastaðabréfa og var úr skjalasafni Reynistaðarklausturs. — AM. Apogr. 335, eptir þessu frumriti, og er afskript sú gerð í Janúar 1707 og staðfest af Árna Magnússyni og Þórði Þórðarsyni. Skallana þá, sem þá voru í bréfinu, og hér eru settir í hornklofa, hefir Árni látið Þórð fylla „ex Apograpbo Reynistadensi ... satis alias vitioso“, sem án efa er AM. 277. 4to. Á miða við skinnbréfið ritar Árni „er ölldungis klárt“.

[lan]damerkiabref a [millum] holz og Selǎr.[2])

Þat giorer ek þolleifur magnusson godum monnum uiturligt med þessu minu brefi at ek hefi heyrt sciga mier elldri menn þessi landamerki j millum hols ok selar. rædur þar lækur sa er liggur ut ok ofan fra holi ok[3]) fellur þar fram af bockunum j sioen. og[3]) suo upp i steina þa er standa j asnum ok[3]) kalladir eru kalfuaklettar. og[3]) suo uestur æ f[ia]ll. en selæ ætti landeign ok[3]) reka allan. at fýr nefndum læk ok[3]) aurnefni. hafdi ek[3]) s[elæ] til leigu ok[3])

[1]) Svo. [2]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. Árni hefir og ritað á bréfið orð sömu skilningar; [3]) Svo.

hafdi eg[1]) moruidu ok[1]) aunnur fioru gædi af rekanum sem leiglendingi til bar ath fyrr nefndum læk ok[1]) fann eingin at. Suo ok[1]) hefi ek uitad marga gamla dandimenn hallda þessi landamerki iardanna j millum hols og sclar er liggr æ skaga. Ok[1]) til sanninda hier um setta ek mitt innsigli fyrir þetta bref er giort uar a stad j reýnisnesi tueim nottum fyrir tueggia postula messo simonis et iu.le. Anno domini. Ϻͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦͦ⁰. cccc⁰. lxx⁰. sexto.

---

89. **29. Október 1476 á Möðruvöllum.**

Snorri Hallgrímsson og Nikulás Þorsteinsson kvitta húsfrú Margréti Vigfúsdóttur og Markús Magnússon umboðsmann hennar af umboði þeirra og meðferð á peningum eptir Einar Þorsteinsson, er konum nefndra manna féllu til erfða og umboðs.

AM. Fasc. XXII, 13 frumrit á skinni. Öll (6) innsiglin eru dottin frá. Frumritið er komið frá Staðarhóli. — AM. Apogr. 1485 (eptir frumritinu).

Þat gerum vier magnus benediktzson. helgi sygurdzson. olafur halldorsson. pall palsson. Sygurdr runolfsson ok þorkell þorsteinsson godum monnum kunnigt med þessu voru brefi ath þá er lidit var fra gudz burd þusund fiogur hundrut siautigir ok sex ar æ tueggia postula messu simonis et iude[2]) æ maudruuaullum j eyiafirdi. vorum uier j hia saum ok heýrdum æ ord ok handabandh þessara manna hustru margretar vigfusdottur af einne halfu. Enn snorra hallgrimssonar af annare ok nicbulas þorsteinssonar ath suo firir skildo. ath þessir fýrgreinder menn snorre ok nikulas gafu margretu vigfusdottur med fullu handabande aullungis kuitta ok ækærvlausa um alla þa peninga ok medferdh sem hun ok hennar vmbodsmadr markus magnusson hofdu ath sier tekit j þeirra vmbode ok hennar epter einar heitenu þorsteinsson ok þeirra kuinum hefdi til erfda ok vmbods fallit. suo framarliga sem þeir mætte þat fremst med laugum gera

---

[1]) Svo; [2]) þ. e. 28. okt.

ok þeirra makt vtuisade. reiknadizt þat þrettan hundrut er markus magnusson hafdi lukt j laugligar skulldir einars heitins. hier med skipudu ok luktu fyr nefndir menn snorre ok nikulas hustru margretu uigfusdottur til fullrar eignar fimtan hundrut er reiknadizt at auk mala magnhilldar j landskýlldir af sigluuik ok einar hafdi eigi adr lukt. Suo ok ei sidr skipudu tidt greindir menn snorre ok nichulas salbiorgu einarsdottur fimm hundrud j arf epter sinn favdr einar þorsteinsson. þui hun var eigi adr leyst vr faudr gardhi. Ok til sannc(n)da hier vm settum uier fyr nefndir menn vor jnncigli firir þetta kuittunarbref skrifat j sama stad ok are degi sidar enn fyrr segir.

---

**90. 20. Nóvember 1476. á Grýtubakka.**

Kaupmálabréf Guðna Eyjólfssonar og Guðrúnar Þorkelsdóttur.

AM. 242. 4to A. bls. 98, syrpa Guðbrands biskups, skr. c. 1570.

Jn nomine domini amen

birtizt og stadfestizt suo felldur kaupmale millum þeirra gudna eýolfssonar og gudrunar gunnl(a)ugsdotter æ þeirra brullupsdeigi s(ancti) martinusmessu dag[1]) æ grytubacka j hofdahuerfi anno domini ꝏ⁰ cd⁰ lxx⁰ sexto med suo felldum kaupmala ad greindur gudne eignadizt til kaups vid adur nefnda gudrunu gunnl(a)ugsdottur ijc^c j iardagozi og þar til lxxx^c j lausagozi j fridum peningum og ofridum j gripum og þarfligum hlutum. voru þessar jarder þar til greindar er ligia j suarfadardal er suo heita. vrder firir hundrat hundrada. klaufabrecka firir .l^c. kaungustader og audner firir .lx^c. j vrda kirkiu sokn. jordin brimnes firir .x^c. er liggur j vpsa þingum. Enn hier j mot gaf gunnl(a)ugur bondi þorkielsson gudrunu dottur sinne. .xl^c. annars hundradz hundrada. Voru þessar jarder þar vpp taldar. Samstader firir .xl^c. er liggur j gilsbacka kirkiu sokn. brecka og hraunsnef firir .xl^c. er liggia j nordurærdal j huams kirkiu sokn. haukagil j vatz-

---

1) þ. e. 11. Nóvember.

dal j grimstungu þingum firir .xl$^{c}$. og þar til .xx .kugilldi og xx$^{c}$ j gripum og þarfligum hlutum. Samþykti vilborg husfreya þessar giafer allar og suo gipting gndrunar dottur sinnar. Suo og ei sijdur skildi fẏrrnefndur gunnl(a)ugur firir dottur sina lx$^{c}$ j tilgiof. og xx$^{c}$ j morgungiof og beckiargiof. og kiore hana helmingakonn j gard gudna bonda hennar af þessum framsogdum peningum epter þui sem logbok vottar af feingnu fie og ofeingnu. Epter þetta allt giort og stadfest festi fyrr sagdur gudne gndrunn gnnnl(a)ugsdotter sier til logligrar eiginkonn epter gudz logum med þeim ordum er þar til heyrer.

Voru þesser brullnpsvottar. Raugualdur asgrimsson. jon þorsteinsson. Þorgils sueinbiarnarson prestar. magnus þorkielsson. þorkiell þorkielsson. Eirekur juarsson og jon sijgurdzson leikmenn.

Og til sannenda hier vm̃ settum vier fyrr nefnder menn vor inncigle fẏrir þetta kaupmalabref er giort var miduikudaginn næstañ firir festum cecelie virginis j sama stad og are sem fyr seiger.

---

91. **4. December 1476.** Í Ási.

Þorgils Finnbogason fær Finnboga Jónssyni til fullrar eignar jörðina Dritvík á Langanesi og alla reka milli Fossár og Steins í Lambanesi.

AM. Fasc. XXII, 3, frumrit á skinni komið frá séra Skúla Þorlákssyni á Grenjaðarstað. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 78 (eptir frumritinu).

Þath giorer ek[1]) þorgils finbogason godum monnum uiturligt med þessu minn opnu brefi ath eg hefer lukt og[1]) feingid finboga jonssyne med handabande til fullrar eignar fiordunginn j jordune drittuik er liggr j saudaneskirkiusokn med aullum þeim gaugnum oc[1]) gędum rekum og hlunnendum sem greindum parte hefer fẏlgt ath fornu og nẏu og eg hefer fremst eigande ath orded og suo alla þa hualreka parta sem eg æ um allt langanes millum forssar

[1]) Svo.

j forssardal til steins i lambanesi og adr hefer att jon biarnarson og hans erfuingiar med slikum hualskiptum sem ad fornu hefer uerit. hefer eg þessa greinda reka parta lukt og feingid adr nefndum finboga til fullrar eignar epter þui fremsta sem eg hefer eigande ad orded. og til sannenda hier um setta eg mitt jncigli fyrer þetta bref skrifad j asi j kelldubuerfui miduikudagin nęsta fyrer niculasmessu. anno domini .ꝳ.° cd° .lxx°. sexto.

---

92. 26. December 1476. í Skálholti.

Transskriptarbréf.

AM. 261. 4to, bls. 31—32 eptir transskr. frá 4. Maí 1605.

Þad giorum vid Olafur Oddsson og grijmur þorsteinsson prestar godum monnum kunnigtt med þessu ockar opnu briefe: ad vid hofum sied og yferlesid opid brief med heilum og oskoddudum hangande jnnsiglum suo lǻtande ord epter ord sem hier eptter skrifat stendr:

[Hér kemr dómr Godsvins biskups um reka á milli Stjörnusteins og Dyralóns frá 18. Júli 1439, DI, IV, Nr. 631].

Og til sanninda hier vm settu vid fyrnefnder prestar ockur jnnsiglle firir þetta transkriptarbrief skrifad j skalholltte annañ dag jola. Anno dominj ꝳ. cd. lxxvj.

---

93. 8. Janúar 1477. á Sjávarborg.

Þorleifr Björnsson kvittar Svein Guðmundsson um andvirði jarðarinnar á Kryddhóli.

AM. Fasc. XXII, 19, frumrit á skinni með heilu innsigli Þorleifs Björnssonar. — AM. Fasc. XXII, 20, transskript á skinni frá 7. Maí 1490. Apogr. 3248 og 3249.

vm kryddhol[1].)

Þath giore ek þorleifur biornson godum monnum kunnigtt med þessu mino opnu brefe ath ek medkennumztt ath ek hefi fulla ok alla penninga vpp borit af sueine gud-

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

mundzsyne suo mier uel ꜳ næger. fyrer iordena kryddhol. Ok þui gefur ek fyrr greindur þorleifur biornson adur nefndan suein gudmundzson aullungis kuittan ok akiæralausan[1]) fyrer mier ok aullum minum erfingium vm̄ fyrr sagtt jardar uerd. Ok til sanninnda hier um̄ setta ek mitt innsigle fyrer þetta bref skrifad ꜳ siauarborg j skagafirde miduikudagen næsta epter þrettan̄da dag j iolum þꜳ er lidid uar fra hingadburd uors herra jesv christi ꝏ. cccc. siautiger ok sian ꜳr.

---

94. 9. Janúar 1477. á Hólum.

Fjórir menn votta, að Þorleifr Björnsson hafi 2. Janúar 1477 selt Sveini Guðmundssyni alla jörðina á Kryddhóli í Skagafirði fyrir Ásgrímsstaði í Hegranesi og þar til lausafé.

AM. Fasc. XXII, 17, frumrit á skinni. Af 4 innsiglum er eitt dottið frá. — Apogr. 3246. — AM. Fasc. XXII, 18, transskript á skinni frá 7. Maí 1490. Apogr. 3247.

kryd(d)hol.[2])

Þat giorum vier eggell grimsson. steinn brandzson. kolle magnusson ok sniolfur brandzson godum monnum kunnigt med þessu uoru oppnu brefi ath þa ær lidit uar fra hingatburd vors herra jhesv christi þushund fiogur hunndraud siotiger ok siau aar. a siouarborg j skagafirdi niunda dag jola[3]) vorum uier j hia saum ok heyrdum a ord ok hanndabannd þessara manna þolleifs biornssonar af einne alfbu. en sueins gudmundssonar af annari. ath suo firir skilldu. æt fẏr nefndur þorleifur biornsson selldi adurnefndum sueini gudmundssyni jordina alla krẏddhol j skagafirdi ær liggur j uidemẏrar kirkiu sokn. med ollum þeim gaugnum ok giædum hlutum ok hlunnindum sem greindri jordu fẏlger ok fyllgt hefer ath fornu ok nẏiu ok þolleifur vard fremst eigandi ath. Hier j moti gaf tittnefndr sueinn gudmundzson þratt nefndum þorleifi biornssyni jordina alla as-

---

[1]) ækiærulausan XXII, 20; [2]) Utan á bréfinu (tvívegis) með fornri hendi: „(vm) jordina asgrimsstade“ XXII, 18; [3]) þ. e. 2. Janúar.

grímsstadi ær liggur j hegranesi j borgar kirkiu sokn med ollum þeim gavgnum ok giædum hlutum ok hlunnindum sem greindri jordn fyllger ok fyllgt hefer at forñu ok nýiu ok greindr suein uard fremst eigandi ath firir .x. hundraud ok þar til þriatigi hundrada j suo uordnum peningum j silfri smiori ok vadmalum ok i slatrum j millum jardanna skýlldi huor um sic suara laga Riptingum a sinni saulu jordu en hallda sinu kaupi til laga. Ok til sanninnda hier um settum vier fýr nefnder menn uor jncigle firir þetta jardakaupsbref ær skrifad uar a holum j hialltadal fimtodagin næsta epter þrettanda dag jola. a sama ari sem fýr seger.

---

## 95. 10. Janúar 1477. á Seylu.

Dómr tólf presta útnefndr af Jóni presti Broddasyni officialis Hólabiskupsdæmis um ákæru hans til Bjarnar Jónssonar, er Tjaldsson er kallaðr, að hann hefði flntt Hallóttu Hákonardóttur þrotbjarga vestan úr Húnavatnssýslu og á bú Hólastaðar á Flugumýri *(Tjaldssonardómr)*.

AM. Fasc. XXII, 16, transskript á skinni frá 26. Janúar 1477.

Þat giorum uier sigurdr þorlackson. ketill grimolfsson. steinn þorualldzson. gunnar ionsson. ion þorsteinsson. andress ionsson. þordr ingemundarson. olafur klængsson. steingrimur steinmodsson. loduik hallzson. þoruardr oddabiarnarson. haluardur biarnason prestar hola biskupsdæmis godum monnum uitanligt med þessu uoru brefe ath þa er lidet uar fra hingatburde uors herra iesu christi þushund fiogur hundrut siotiger ok sio ar a seylu j skagafirde fostvdaginn næsta firir geisladaginn uorum uier j dom nefnder af ærligum manne sira ione broddasyne officialis holabiskupsdæmis ath dæma um da akiæru er nefndr sira ion kiærde til biarnar ionssonar ath hann hefde flært þrot uestan ur hunauazþinge til flugumyrar j skagafirde ok sett þar nidr a holastadar bu j fullt forþrot ok hvgmod med heilaga kirkiv ok hann. þui j fyrstu grein dæmvm nier fyr nef(n)der prestar stefnnna rietta ok fyr greindan biorn ionsson. er tialldsson er kalladr. hier

logliga firir kalladañ j dag. en saker þess ath stefnan var þar suarin firir oss en biorn kom ecke ok einge af hans hende. þa dæmdum uier biorn skylldvgan ath luka mork j stefnufall ath næstvm fardogum nema hann syne loglig forfoll ath hann matti eigi koma. J annarre grein sor firir oss hallotta hakonardotter fullañ bokareid ath hun uard ofær j fyrra uetur j hunauazþinge æ breidabolstad j uazdal ok titt nefndr biorn flutti hana uestan ofæra ok sette hana nidr æ flugumyri. uar hun þar j ellefu uikur ok lagde þat til j sinn eidstaf ath hun uæri eigi enn fær ath flyttia sig neinstadar. hier til soru tuo loglig uitne firir oss ath þeir sav þrattnefndañ biorn æ flugumyri æ sama uiettfange er fyrnefnd hallotta var þangat flutt. þui firir þesse prof ok likende dæmdum vier optnefndañ biorn skylldugañ ath sueria siettareid innan siondar ath heyrdum domenum firir sira ione eda hans umbodsmanne ath hann hefde þetta riett giort ok huorke hefde hann þetta giort j forþrot ne hugmod uid heilaga kirkiv ne sira ion radzmannen æ holum. ath vnnum þessum eidenum dæmdum uier þrattnefndan biorn skyllduguan ath luka heilagre holakirkiu fimtan merkur firir sina heimsku ok ofdirfd ok ellefu aura j mat firir kosnad adur greindrar konu ok luka hann innan siondar heima a flugumyri ath heyrdum domenum. fellz honum þesse fyr greindr eidr þa dæmdvm uier tittnefndan biorn ionsson skylldugan ath lykia heilagre holakirkiu þriatige marka enn sira ione officiali niu merkur j ofundarbot. skoulu[1]) þesser fẏrr greinder peningar aller lukaz ath næstum fardogum heima æ flugumyre frider eda friduirder atta sex alna aurar j huerre mork sira ione j hond eda hans umbodsmanne. hier til dæmum vier titt nefndan sira ion broddason skylldugan ath lata fæ̈ra aptur fyr sagt þrot til breckv j fyr sagg(d)a sueit j uazdal. Ok til sanninda hier um settum vier fyr nefnder tolf prestar uor insigli firir þetta domsbref skrifat j gelldingaholllti j skagafirde sama dege ok are sem fyr seger.

---

[1]) Svo.

96. 12. Janúar 1477. á Sjáarborg.

Lýsing Árna Geirssonar um landamerki milli Guðlaugsstaða og Langamýrar.

AM. Apogr. 748 með hendi Jóns Magnússonar 1729 „Ex originali“ meðal Guðlaugsstaðabréfa, sem hefir verið afskript á skinni, gerð c. 1608, og átt hefir að transkribera, en aldrei af orðið.

Þat giore eg Arne Geirsson godum monnum knnnugt med þessn mynu opnu brefi ad þesse eru landamerke i millum Gudlaugstada og lángamyrar. vt ad hólagrof hid efra og fram um gilzuatn. heirda eg nichulas einarsson segia þad ad Einar skrafmadur fader hans hefde sagt þad ad Gudlaugstader ætti j asendann fyrir framan Gilsuatn. er þar sijn þufa huoriu megenn er standast a. á asendunum og Riettsynis. ifer i gotur þær ed liggia framan ad Gudlaugstada sele þar þuert i ana. og til sanninnda hier um set eg mitt innsigle firir þetta bref. Skrifad a Siáarborg i skagafirdi sunnudaginn næstan firir geisladag. uar þá lidid fra hingadburdi uors herra iesu christi .m. iiij (c). lxx. og vij ar.

97. 20. Janúar 1477. í Vallanesi.

Brandr Eiríksson selr Oddi presti Teitssyni hálfa jörðina Eyjólfsstaði á Völlum, og eru tilgreind ítök og ummerki.

AM. Apogr. 4467 „Ex originali Biörns Peturssonar á Bustarfelle“ (AM.). „2. þau fyrstu innsiglen eru burtu. það þridia er: S THOR[ST]EINI TOFV“ (AM.). „Collatum cum originali Hafniæ 7. Junii 1709. Arnas Magnæus. Snorro Jonæus“.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda sæmundur prestur þorsteinsson. kolbeinn helgason ok þorsteinn touason kvediu guds ok sína kvnnigt gerandi ath þa er lidit war fræ burd cristz þusund. cccc. lxx. ok. vij. ár wnder asi j fliozdalshieradi sunnudag næsta firir pals messo[1]) vorum wer j hia saum oc heyrdvm á þa er brandur eireksson selldi oddi prest teitzsyne jordina halfa eyiolf-

[1]) þ. e. 19. Janúar.

stadi ꜳ vollvm med ollum þeim gognvm ok gædvm er jordunni hefer fẏlgt at forno ok nyio ok hann vard fremst eigandi at. sagdi [hann] þessi landamerki vt at beinꜳ. þar hvn fellr ofan j aurida watn. enn auridalæknr rædur ofan or vatnino j grimsæ ok fram at tunghagalæk hid nedra enn þa rædur kelldu drag vpp or læknum er honum sneider fram ok upp j laufenni, ok þa sionhending upp j haugana ẏtri ok austur a fial[l]it at kaldakuisl. tuo skogar teiga. annar j hofda merki vt fra hofdꜳ firir nedan ʀeidgotur ok ut at gardi er geingur or hofdanum ofan j fliot. annar j sandfelzmerki firir ofan hatunagotur ok upp at hrẏg fra gilsꜳ ok heim at dalslæk. seliord a þuridarstodvm j eyuindardal milli slednadalsar ok valagilsár. afrett j fagradal ok vnder skagafell. uitum ver ok firir sanninde at þessi landamerki ok skogarteigar hafa hafder verid ok eingi at fundit suo ver vitvm.

Ok til sannenda hier vm settvm ver fẏrr nef(n)der menn vor insigle firir þetta bref skrifat j vallanese sama æri degi sidar enn fẏrr seger.

---

98. **24. Janúar 1477.** **á Hólum.**

Jón officialis Broddason úrskurðar löglegan Tjaldssonardóm frá 10. Jan. 1477 (Nr. 95).

AM. Fasc. XXII, 16, transskript á skinni frá 26. Janúar 1477.

Þath giorer eg ion prestur broddason officialis holabiskupsdæmis godum monnum niturligt med þessu minn opnu brefe ad þa er lidet var fra hingatburd uors herra iesu christi þvshundrut cd° lxx. ok vij ar æ seylu j skagafirde fostvdaginn næsta fyrir geisladaginn[1]) beiddu mic ok kraufdu þeir xij prestar sem eg hafde har til nefnt ath dæma vm þa akiæru er eg kiærde til biarnar ionssonar heilagrar holakirkiv vegna ok þeirra doms bref þar vm giort vtvisar urskurdar upp æ hnort mier litizt sa domur logligr edr ei sem þeir hofdu dæmt þar um. Nu saker þess ath eg uar

[1]) þ. e. 10. Jan.

þar logliga til krafdr af adr greindum xij kirkinnnar sonum þui seger ek fyr nefndr sira ion broddason oficialis mier j domsæti sitiande. jn nomine domini amen. med fullum laga ursknrdi þenna þeirra dom sem þetta mitt bref er medfest j alla stade lavgligañ med ollum sinum greinum ok articulis ok obrigdeliga halldaz eiga kirkiunnar uegna. uar þessi minn urskurdr upp sagdr j sama stad dag ok ari sem fyr seger. Ok til sanninda hier (vm) setta eg officialatus insigle firir þetta urskurdarbref skrifat æ holum j hialltadal fostvdaginn næsta fyrir conversionem apostoli pauli æ sama æri sem fyr seger.

---

## 99. 26. Janúar 1477. á Hólum.

Transskriptarbréf.

AM. Fasc. XXII, 16, frumritað transskript á skinni með þrem innsiglum.

transkriptabref af domi tiallzsonar[1]).

Þath giorum uier þoruardr prestvr semingsson. ion diackne pallsson ok jon stefansson godum monnum uitvrligtt med þessu uoru brefe ath uier saum ok yfer lasvm opin bref med heilum ok hangandum innsiglum suo latande ord epter ord sem hier epter skrifat stendr.

[Hér kemr: 1) Seyludómr tólf presta um þrotfærslu Björns Jónssonar 10. Jan. 1477, Nr. 95. 2) Úrskurðr Jóns officialis Broddasonar upp á þann dóm frá 24. Jan. 1477, Nr. 98].

Ok til sanninda hier um settum vier fýrnefnder menn vor incigle firir þessi transkriptabref skrifut æ holvm j hialltadal svnnvdagin næsta epter conversionem apostoli panli æ sama ari sem fyr seiger[2]).

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi; [2]) þ. e. 1477.

100. **30. Janúar 1477. á Ljósavatni.**

Dómr sex manna, útnefndr af Finnboga Jónssyni kóngs umboðsmanni í Þingeyjarþingi, um vitnalanst mál.

ÍBfél. 125A. 4to, bl. 54b—55a skr. c. 1680. — ÍBfél. 67. 4to, bl. 49b—50a, með hendi séra Eyjólfs á Völlum. Til eru margar misjafnar afskriptir af þessum dómi framar en hér greinir. Ein af betra taginu er i AM. 199. 4to, bls. 94—95.

Domur Finnboga l[og]m[anns] wmm vitnalanst mal.

Ollum monnum þeim sem þetta Breff sia edur heyra senda Magnus Magnusson. biarnni olaffsson. Eireknr yvarsson. Narfi benidictsson. Jon gndmundsson og Hallur Magnusson Quediu gndz og sijna kunnugt giorandi ad þa lidit var fra hingadburdi vors herra Jesu Christi 1477 ar ꝺ fimtvdaginn næstann eptir palsmessn vmm veturinn a Liosavatne j bardardal ꝺ þijngstad rettnm vorum vier j dom nefndir af finnboga Jonssyni er þꝺ hafdi kongsins syslu j þijngeyarþijngi ad dæma millum þeirra Jons Magnussonar og Arna Jonssonar vmm þa akiæru er adur greindnr Jon Magnusson kiærdi thil [adur greindz[1]) arna Jonssonar ad hann hefdi felltt sig tuisnar og hnykt sier .xxx. sinnum. handrænt af sier lia sijnum og orfi. og ad þeirri steffnu vpplesinni ad adur greindur arnni var þangad stefndur j adur sagdan stad og dag fyrir allar fyrr greindar sakir og hann medkiendist ad hann heffdi þessa steffnu heyrtt. So hofum vier sied[2]) syslu Breff tijtt nefndz finnboga. Þui dæmdum[3]) vier steffnuna logliga og þrattneffndann arna Jonsson þar logliga fyrer kalladan. og saker þess ad huorgi vændist hier vitnum ad Jon nie arnni. dæmdum vier opt neffndan arnna skylldugann ad sueria lyritareid hinn minna ba þar[4]) fyrir finnboga Jonssyni kongs vmmbodzmanni[5]) ad hann heffdi ei hnygt Joni Magnussyni. fellt edur handrænt sem fyrr skriffad stendur. Enn eff arnni villdi [þennann eid[6]) sueria. enn þau vitni sem honnm eru thil neffnd vilia

---

[1]) [fyrr nefnds 67. [2]) og heyrt b. v. 67. [3]) dæmum 67. [4]) strax b. v. 67. [5]) Manh. 23 (á spássiu). [6]) [ei(!) 67.

ei med honum sanna. dæmdum vier þau skylldug ad sueria bokareid þa[1]) samstundis. þad[2]) þau hygdi þennann hans eid ei særan vera. huorn ed þau[3]) soru[4]) þa fyrer oss og odrum dandismonnum. og þui dæmdum vier arnna fallinn ad þessum malum[5]) og skylldugann ad giallda Joni Magnussyni .iiij. merkur j fullretti fyrir handran. Enn finnboga Jonssyni kongs vmmbodzmanni halfa mork j kongdomsins[6]) sekt. Enn fyrir tuo foll og .xxx. hnyckinga er sagdur Jon kiærdi thil fyr greindz arnna dæmdum vier arnna skylldugann ad giallda Joni Magnussyni .xij. alnir a huoriu þessu atviki og finnboga Jonssyni adrar .xij. alnir j kongdomsinz[6]) sekt. fyrir huertt þetta eitt atvik. foll og hnyckingar. skal þessi allur sakeyrer kongdomsinz vegna gialldast ad næstum fardogum tittneffndum finnboga Jonssyni edur hans vmmbodzmanni heima j asi ꝺ᷃ hans heimili. Enn sektarfie og rettarfar Jons Magnussonar skal gialldast j felli ad hans heimili ad næstum fardogum honum edur hans vmmbodzmanni.

[7])Samþyckti þennan worn dom [med oss ædrgreindr finnbogi Jonsson kongs sislomann et cetera[8]).

---

## 101. 28. Febrúar 1477. í Vébjörgum.

Kristján konungr hinn fyrsti leyfir Þorleifi Björnssyni og Ingveldi Helgadóttur að giptast, þótt þau sé nánari að frændsemi en lög votta.

AM. Apogr. 733, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali á pergament“. — AM. Fasc. Lxxɪɪ, 2, A, ɪ, transskr. á skinni frá c. 1528.

Wij Cristiern meth gudz nade Danmarcks Suerigis Norgis Wendes oc gothes konigh. hertug j Slessuijch oc Arus[9]) ȷ holsten. Stormarn oc Ditmarsken. greffue j Oldinborgh[10]) oc delmenhorst gỏr alle vitherligt at æn toch at

---

[1]) þar 67. [2]) að 67. [3]) þeir 67. [4]) þar b. v. 67. [5]) Landzl. 44 (á spássíu). [6]) kongsins 67. [7]) Logsamdi og b. v. 67. [8]) [67; et cetera 125. [9]) sl. Lxxɪɪ, 2. [10]) Lxxɪɪ, 2; oldinborge, 733.

thesse breffviiser Torlaff biörnsou oc engulde helgesdotter hör til sammen paa slecht oc byrdz vegne sva at the eij matte leffve sammen j æchteskab oc ær toch til hobe i læye kompne modh then helge kirkes lagh oc haffve mange börn till hobe oc nu ær begærende at wii velde tilstæde at the her effter mue sammen bliffve j æchteskab vppa thet at theris börn mue bliffve æchte oc eij forsymes modh oss oc kronen. Thaa efftir thii at the haffve loff aff wor helgeste ffather[1]) paven. som hans legatis breff the ther vppa haffve ydermer vtviise. haffue vii oc vnt oc tilladet oc meth thette wort obne breff vnne oc tillade at the mue her efftir bliffve til hobe i æchteskab efftir forscreffne breffs vtviiselsse. oc ath the eller theris börn thet eij vntgelde skule. tilgiffue og fordraghe wii them hves rett wii till them ther fore paa kronens wegne haffve kune. Thii forbiude wii alle ehwa the helst ære eller wære kudne[2]) oc serdelis wor fogethe oc embitsmen them eller theris börn for then sagh paatale hinder eller j nogen made her emodh vforrette vnder wor koninglige heffnd oc wrede.

Datum in castro nostro Wijborgh fferia sexta quatuor temporum post cinerum. Anno domini millesimo qvadringentesimo septuagesimo septimo nostro sub secreto presentibus inferius appenso.

[ad ipsius domini Regis mandatum[3]).

---

**102. 11. Marts 1477. á Grund.**

Heitbréf Eyfirðinga.

AM. Apogr. Nr. 5875a—b, og er *b* skrifað fyrir Árna Magnússon, og skýrir Árni svo frá: „Þad exemplar sem þetta (5875b) er epter skrifad sendi mier Mag. Biorn þorleifsson, skrifandi þad utcopierad vera efter originalnum. þad sama exemplar var med hendi Halldors þorbergssonar meatann part og nockud af því med hendi Sr Einars Sigurdzsonar, sem i þad mund var þienare Mag. Biörns. Originall þesse hefur

---

[1]) Lxxıı, 2; ffarhr 733. [2]) kvnne Lxxıı, 2. [3]) [vantar í Lxxıı, 2 og í 733 er það óhöndulega eptirstælt, því að Jón Magnússon hefir verið í vafa um, hvað það ætti að merkja.

leiged (kannske liggur ennú) á Grund i Eyiafirdi. þo skrifar madur mier 1701 ad hann nu uppfunadur og fortærdur sie. Eg skylldi snarara geta til ad Mag. Biörn hefdi teked med sier til Hola originalin. þvi þar mun hann utcopieradur vera fyrst tveir heimilismenn á Holum hann skrifad hafa". (AM.). ÍBfél. 69. 4to, með hendi Hallgríms djákna Jónssonar (d. 1836), og er bréfið þar tekið upp í ritgjörð eigaaða Páli Vídalín (en sem er yngri) um heitdag eða Einmánaðarsamkomu, og hefir höfundr hennar haft fyrir sér afskript með hendi Þorsteins prófasts Ketilssonar á Hrafnagili, sem prófastr ritaði eptir „þeim forna original". Bréfið er prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 233—36 eptir afskriptinni í heitdagaritgjörð Páls Vídalíns.

Á lausum blöðum ritar Árni svo um heitdaginn: „Relatio er i nordurlandenu ad orsökin, hvar firir heitdagarner, sem þar halldast, inn setter eru, hafe vered i fyrstu sandfall sem komed hafe (ur iöklum) yfer þau nordurlandsens pláts, sem nu halldast heitdagarner i. Ean hafi fri vered, sem ei hallda nu heitdagana. og sie þetta skied firir æde laungum tima. J Hunavatzþinge eru eiager heitdagar. austan til á skagannum eru og einger. Annars um allann Skagafiörd eru heitdagar halldner. Um allann Eyafiörd eru þeir og halldner. J Þiageyarþingi ecke nema j Reykiadal, og er samkomann á Greniadarstödum. Þridiudagurinn fyrstur i Einmanudi er allstadar heitdagurinn". — Bréf þetta er til í fjölda pappírsafskripta, og hefir verið almenningi einna kunnast þeirra heitbréfa, sem nú eru til, og eru þau ekki fá: heitbréf Jóns biskups skalla 2. Febr. 1365 (Dipl. Isl. III, Nr. 174), heitbréf Norðlendinga í Svartadauða 25. Dec. 1402 (Dipl. Isl. III, Nr. 569) og 16. Jan. 1403 (Dipl. Isl. III, Nr. 571), heitbréf Eyfirðinga 14. Marts 1562, heitbréf Skagfirðinga 12. Marts 1566, heitbréf Akrnesinga 1592, heitbréf Eyfirðings 13. Marts 1633, heitbréf Skagfirðinga 10. Marts 1668, heitbréf Sigurðar lögmanns Björnssonar 22. Apr. 1692, heitbréf Reykdælinga 24. Marts 1716 og heitbréf Eyfirðinga 26. Marts 1726. Heitdagarnir voru afteknir 1744. Prédikun á heitdaginn er í viðbæti Björns biskups við Gíslapostillu. Hólum 1706.

Jn nomine Domini Amen.

Þridiudaginn fyrstan j Einmanude þa er lidit var fra hingatburd vors herra jesu christi ꝺ. cccc. lxx. og vij. vetur a Grund j Eyiafirdi komu saman lærder og leiker. millum Vargiar og Glerar. og tauludu þar um þau undur. odæmi og ognaner[1]). sem þa yfer geingu af elldsgangi. sandfalli og ôskumyrkrum og ogurligum[2]) dunum. af þessum undrum þreifst fienadr ecki uid. enn þo var sniolaus jôrd. kom[3])

---

[1]) óró, *b*; ógner 69. [2]) ognarlegum, *a*. [3]) kemnr, *b*.

þeim asamt. at þetta muni vordit hafa fyrer syndagiold og ranglæte manna. þvi kom þeim[1]) ollum saman. at leita þangat hialpar og myskunar. sem nog er til. sem er Gud sialfur. at hann med sinne nad og myskun villdi snua af oss bardaga reidi sinnar. þvi skulum vier nu beidast framar undan Guds hirtingu og hans radningum hier a jardriki. enn so at þat[2]) byrgi ei[3]) veg firir oss himnarikis. Bidium vier at Gud [giori rad fyrir[4]) oss ǫllum bæde j brad og lengd. þann[5]) er allt veit og ma og a þann veg vill sem best er.

At upphafi heitum[6]) ver a[7]) allsvalldanda Gud[8]) þann[9]) sem er upphaf alls hins goda. þar næst til hinnar dyru drottningar jungfrv[10]) sanctę Mariæ. hins[11]) heilaga Michaelis hofutengils og[12]) allra[13]) gudz engla. ens heilaga Johannis baptistæ og Petrum. Paulum og Johannem og allra[13]) Gudz postula. til Stephanum. Thomam. Olavum. og allra Gudz piningarvotta. til Marthinum. Nicholaum. Augustinum. Thorlacum. Johannem. Gudmundum. Benedictum og allra Gudz jatara. Mariam Magdalenam. Ceciliam. Margretham[14]). Brigidam [og] allra Gudz heilagra meya. og alla Gudz helga menn. Bidium vier at þeir sieu oss arnande allrar hialpar og myskunar bæde j þessum heime og audrum vid Jesum christum. faudur. son og heilagann anda. þessu heite heitum vier oss og alþydu til fridar og farsælldar bædi fyrir[15]) lif og sal til heilsu og hæginda. til ars[16]) og audræda. veideskapar og vedrattu godrar. til sattar og samþyckis allra manna. og ollum monnum[17]) til gagns og goda þessa heims. enn til eylifrar sælu annars heims.

J fyrstu heitum vier at hallda oll þau heit sem hier hafa adur heitin verit og hier greinir. .

Jn primis. at aller bufaster menn eru skyllder at koma til Grundar j Eyiafiord[18]) þridindaginn fyrstann j Einmanndi

[1]) þat, *b*; [2]) hann, 69; [3]) sl. *b*; [4]) [gefi(!) *b*; [5]) þess, b; [6]) hetum, b; [7]) til, *a*; sl. 69; [8]) guds, *a*, gudi, 69; [9]) þeim 69; [10]) jungfrur, *b*; jomfru 69; [11]) á, *b*; [12]) svo, b. v. *b*; [13]) alla, *b*; [14]) sl. *a*; [15]) 69; sl. *b*; [16]) ara, *b*; [17]) oss, *a*, 69; [18]) Eyjafirði, 69.

og hallda þar logsamkomu og hafa þar lofmessu af vorre fru. skal hver madur sa sem j bui er giefa so[1]) olmusu sem gud skytur honum j hug. [ei minna enn alin þeir sem koma. enn þeir sem ei koma og eru i skatti gialdi[2]) einn eyrir. [enn þeir sem minna fe eigu og ei koma gialdi halfan eyrir[2]). enn bulausir menn þeir sem eiga .x$^c$. giefi klipping. enn þeir sem eiga. v$^c$. giefi kalfskinn. skal þessi olmussa gefast[3]) þeim sem j bui liggia. og luka ei seinna enn j fardogum. og hreppstiornarmenn giora rad fyrer. sitt ar j huerium hrepp.

Jtem ad huer madur sa sem j bui er giefi malsverd einmanadardag[4]). halfa þridiu mork smiors edr annann mat jafnvirdann.

Hier med er huer madr skylldur at syngia Pater noster. Psalltara. sa sem er xij vetrum elldri. og niu sinnum ave Maria mariumessu j fôstu.

Svo og hietum vær at syngiazt skylldi nu fimm messur at huerri alkirkiu. en fyrsta af helgum anda. onnur af vorri fru. þridia af ollum Gudz englum. fiorda af Patronus þeirrar kirkiu. fimta af ollum helgum. Skylldi hier med þeir sem messurnar lata syngia. giefa matarverd[5]) edr fæda [fatækan mann[6]) med hverri messu. hier til skyllde almuginn syngia þria[7]) pater noster psalltara og tvo Mariu vers psalltara og hafa uti hvorttveggia fyrer paska.

Svo og hietum vier þvi at hallda heilagt visitatio Mariæ at helgi ok tidagiord sem adrar Mariumessur og þurfasta firir messudaga Johannis hvorutueggiu og ens goda Gudmundar.

Svo og lofudum vier at hallda betur drottensdaga [og kirkiubunad epter þvi sem christinn rettur utvisar[8]) [og allar hatider og svo fostutider og einkannliga friadaginn[9]).

Nu siai gud og signi heit vort þetta hvort er vier festum med vorri drottinligri bæn pater noster. hueria uier

---

[1]) slíka, *a*, 69; [2]) [sl. *b*; [3]) greidast, *b*; [4]) á Guðmundardag, *a*, 69; [5]) malsverd, *a*, 69; [6]) [fátæka menn, *a*. 69; [7]) þrisuar, *a*; [8]) [laugarkveld og vinna ei framar enn kristinn (kirkju 69) réttr vor útvisar, *a*, 69; [9]) [sl. *a*.

syngium ollum oss til hialpar og myskunar med þessum bænum. Ostende nobis Domine. Salvum fac populum tuum. [Domine Deus exaudi or: Protector in te spe[1]).

Samþyckte þetta vort heit[2]) abote Einar a Mukaþuera. Semingur prestur Magnusson og Brandur Jonsson logmann og aller adrer[3]) bændur og almuge j greindu takmarki.

---

**103.** **23. Marts 1477.** **á Þingeyrum.**

Jón ábóti á Þingeyrum vottar um upplestr á Tjaldssonardómi (10. Jan. 1477, Nr. 95) fyrir Birni Jónssyni í Þingeyrakirkju.

AM. Fasc. XXII, ad 16, frumrit læst með innsigli ábóta saman við XXII, 16, sem er transskript frá 26. Jan. 1477 (Nr. 99).

Þat giorer eg broder jon med gvdz nad aboti æ þingeyrum godum monnum viturlickt med þessu minu opnu brefi. ad æ benedictus messo nu et var j kirkiunni æ þingeyrum var yfer lesit firir birni jonsyni þat sama transkriptadomsbref sem hier er vid fest þetta mitt[4]) bref at mier ok fleirum dandimonnum hia verandi. las ok fyr greindr biorn þetta sama transkripta doms bref suo at vær heyrdum ok skodadi bædi dominn ok urskurdin. Ok til sanninda hier vm setta eg fyr greindr broder jon aboti [mitt innsigli[5]) firir þetta bref giort æ þingeyrum j hunauazþingi in dominica passione. anno domini m° cd° lxx septimo.

---

**104.** **31. Marts 1477.** **á Munkaþverá.**

Sáttarbréf þeirra Bjarna Ólasonar og Einars ábóta á Munkaþverá um rekann fyrir Vík í Flateyjardal.

AM. Fasc. XXII, 27, frumrit götugt á skinni. Af 4 innsiglum eru nú 3 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 3016.

---

1) [fiat pax d: ex et(!), *a*; fiat &c. Ste Deus &c. Domine exorat &c Protector in to &c., 69; 2) herra, b. v. *a*, 69; 3) goder 69; sl. *a*; 4) mitta, frbr. (dittogr.); 5) [gleymt úr frumritinu.

rekabref vm uik j flateyiardal[1]).

Þat giorum uær semingur magnusson magnus einarsson stigur ingimundarson ok ellendr broddason prestar holabýsknpsdæmis godvm monnum uiturligt med þessv noru brefi ath þa er lidit uar fra hingadburd uors herra ihesu christi þushund fiogur hundruth siotiger ok siau ǽr ǽ eyrarlandi j eýiafirdi uoru uær j hia sǽum ok heýrdum ǽ ord ok handaband einars abota af einne ǽlfu ok biarna olasonar af annari at suo firir skildu ath þeir skylldu vera ollungis satter um allan þann æskilnad ath þeirra hafdi j milli farit um rekan firir iordunni uik er liggur i flateýiardal ok þa fleiri hluti sem þar uoru fram sagder. lofadi sagdr biarni olason ath hafa ok hallda um greindan reka allt efter þui sem registrum sagdi ok þar uar opinberliga vpp lesit j þeirri grein ath þar sem maldaginn sagdi klaustrinu þria hluti j avllum reka skýllde þat suo standa ok biarni skýlldi hafa fiordunginn. jtem þat sem mǽldaga skraiñ sagdi klaustrinu ǽ munkaþvera þria hlvti ur þrimur fimtungum skýlldi klausturith hafa þria hluti úr huerium þeirra j aullum reka huala ok uidar ok flutningum en opt nefndr biarni fiordunginn. jtem iatadi biarni olason ath lambs eldi skýlldi vera fra klaustrinv munkaþvera æfinliga æ avllvm þeim iordvm sem hann atti j eýiafirdi. ok til sanninda hier um settum uær nor incigli firir þetta bref skrifat ǽ munkaþvera næsta dag firir festvm marie magdalene ǽ sama æri sem fýrr segir.

---

105. 12. Apríl 1477. í Ási í Kelduhverfi.

Jarðakaupabréf þeirra Jóns Þorkelssonar og Finnboga Jónssonar um Þverá í Laxárdal, Jörfa í Haukadal, Hofstaði við Mývatn, Hamra og Hornstaði í Laxárdal, og eru til greind landamerki og ítök jarðanna.

AM. Fasc. XXII, 14a, frumrit á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá nema eitt. — AM. Apogr. 114 (eptir þessu frumrit). — Í AM. Fasc.

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

XXII, 14b, er transskript af þessu bréfi á skinni, gert af séra Ólafi Brandssyni, Birni Guðmundssyni og Birni Ólafssyni í Þykkvaskógi 16. Nóv. 1618.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heẏra senda jon gudmunzson. asgrimr hallzson. eymundr jonsson. helge gudmunzson. kollbeirn hakonarson. magnus markusson oc[1]) haflide hallzson. kvediu guds oc sina kunnigt giorande ath anno domini. ꝏ⁰. cd⁰. lxx⁰ septimo. a faustudaginn j paskaviku[2]) j æsi j kellduhuerfe j avxarfirde voro vęr j hia saum oc heyrdvm a ord oc handaband finboga jonssonar ok[3]) jons þorkelssonar ath sua firir skildu. ath jon þorkelsson sellde finboga jonssyni iordena þueræ j laxardal j þingeyiarþingi til fullrar eignar oc frials forrædis med aullum þeim gaugnum oc gięđum sem greindri iordu fẏlger oc fẏlgt hefer ath fornu oc nyiu oc hann vard fremstz eigandi ath. med þessvm jtokum ath iorden a þvera a tolf fedming ellde torfskvrdar j hola iord j laxardal arlega oc tueggia manna isgaungo oc aungolveide a kringlovatn arlega. oc gielldfienadar resktr[4]) til afriettar a kroksdal arlega. sagde jon alkirk(i)u skẏld a adr nefndre iordu. gieck greindr finbogi j borgan ath giallda kirk(i)vni a þvera þriatigi hundrada firir gamla kirk(i)vnar jnnstædv. oc siau ara porcio þvi er fiell medan sagdr jon oc hakon hallson attu titt nefnda jord. hier j mote gaf oc þrattnefndr finbogi titt nefndum jone þorkelssyni jordena jorfa er stendur j vatzhorns kirk(i)u sokn j haukadal til fullrar eignar med aullum þeim gaugnum oc gięđum sem greindri jordu hefer ath fornu oc nẏio fylgt epter þui sem hann oc malmfridr kona hans hofdu fremzst eigandi ath ordit ath tilskildum þeim afriettardal oc skogarparti sem greindri iordo iorfa hefer ath fornv fẏlgt. sagdi finbogi halfkirk(i)u skylld a þratt nefndre jordu.

J sama handabandi selldi tittnefndr jon þorkelsson opt nefndum finboga jonssyni jordina hofstadi er liggur j reẏkia-

---

[1]) Svo hér og víðar. [2]) Þ. e. 11. Apr. [3]) Svo hér og líka víðar.
[4]) Svo = rekstr.

hlidar kirk(i)usokn vid mýuatn til fullrar eignar med avllvm þeim gavgnvm oc giędvm sem greindri jordo fýlger oc fylgt hefer ath forno ok nyio oc hann oc gudrun biornsdotter eiginkona hans hofdo fremzst eigandi ath ordit. a jordin hlut j almeningi j mýuatni. oc skipstaudv j geirastada jordo. oc stodhrossa gaungu. hier j mote gaf sagdr finboge greindum jone þorkelssyne jardernar hamra oc hornstadi er standa j laxardal j hiardarholldz kirk(i)v sokn til fullrar eignar med avllum þeim gaugnum oc giędum sem greindum jordum fýlger oc fýlgt hefer ath fornu oc nýiu. sem hann oc malmfridr kona hans hofdo fremzst eigandi ath ordit. skýldi huor hallda þeim jordum til fvllra laga sem keýpt hafdi. en sa þeirra skýlldi suara laga riptingvm sem att hafdi. en ef iardirnar þveræ oc hofstader geingi af finboga med logvm þa skilde hann taka aptur þęr jarder sem hann hefde firir giefid huorar vm sig. en ef jorfe. hamrar eda hornstader ganga af med logvm af fyr greindum jone þorkelssyne. þa skýlde þratt nefndr finbogi giallda[1]) optnefndum ione aptr firir vestan haukadals skard adra jafndyra jord mote huerre þeirre sem af geinge ath laugum. Jtem skýllde finboge suara kirk(i)v skýlld oc bęnhvs skýlld æ þveræ oc hofstodum. enn jon halfkirk(i)v skylld a iorfa oc þeim reikningi sem þar til heyrer.

samþýckte malmfridr thorfadotter eiginkona finboga jonssonar med handabandi þessi adr greind iarda kavp,

Ok til sanninda hier vm setivm ver fyr nefnder menn uor innscikgle[2]) firir þetta jardakavps bref skrifad j sama stad oc are degi sidar en fyr seger.

---

**106. 15. Apríl 1477. á Hóli í Sæmundarhlíð.**

Séra Magnús Einarsson selr Þorgeiri Þorsteinssyni frænda sínum tíu hundruð í Sólheimum í Sæmundarhlíð með tilgreindum velli, ummerkjum og húsum, fyrir tíu hundruð í Hóli í Sæmundarhlíð.

---

[1]) skbr.: giallga. [2]) Svo.

AM. Apogr. 353, eptir frumriti, sem var sent Jóni Magnússyni til Íslands 1731 eptir beiðni hans.

Þath giorum uær petur bryniolbsson. uigfuss juarsson ok biorn̄ sygurdzson ok jon haflidason godum monnum uiturligt med þessu uorn opnu brefe ath þar vorum vær j hia saum ok heyrdum æ j solheimum j sæmundarhlid j glaumbæiarkirki(u) sokn æ ord ok handaband þessara manna sira magnus einarssonar ok þorgeirs þorsteinssonar ath suo fyrir skildu ath sira magnus selde fyr greindum þorgeire þorsteinssyni frænda sinnm tiu hundrud j solheimum j sæmundarhlid ok nefnde honum uaull tueggia daga slatt med þessum ummerkium redur gata heiman af hladi ok suo ofan fyrir sunan kirkiu j lækiar uad þar lyritar ligia ok rædur same lækur upp j gard ok sa enn same vallargardur ut j læk þann fellur j mille fioss ok bæiar ath gautu þeirre sem geing(it) er upp til fioss fyrir nordan skemmv. æ nefnde sira magnus optuefndur tittnefndum þorgeire heiman af uiku verkenu tueggia daga slattu uad dregna af skynsaumum monnum ut ath lek ok sudur j adur greinda gautu. þetta j husum. hus j gaungunnm ok ganga korn af fram̄ ok suo sem setta part j aullum man̄husum ok suo j aullum vthysum[1]) ok j tauptum[2]) ok toptarstandum. skilde þrat(t) nef(n)dur þorgeir af sier kirkiu fyrn̄d ok þetta sambykte sira þosteinn jonsson ok stod upp yfer þessum giorninge ok beidde þæ til ath kaupa. sellde tittnefndur sira magnus optnefndum þorgeire þenna iardarpart med þeim gaugnum ok gædum sem greindre iordu hefer fylgt ath fornu ok nyu ok hann hefer fremzt eigande ath ordet ok eige hefer med laugum undan geinget. skyllde fyr nefndur sira magnus suara lagariptingu æ greindum iardar parte ok þorgeir til laga hallda. gaf þorgeirr hier j mote .x. hundrvd j hole er liggur j sæmundarhlid j reynesnesstadar þingum. ok til meire sanninda hier nm settum uærr fyrr nefnder menn uor inzsigle fyrir þetta jardarkanpsbref er skrifat uar

---

[1]) ofskr.: ut ythysum. [2]) Svo (= tóptum; ekki: rauptum).

a hole j sæmundarhlid þridiudagen næsta epter paskauiku anno domini ꝏ.° cccc. lxx.° septimo.

---

107. 17. Apríl 1477. í Ási.

Vottorð fimm manna um kaup þeirra Jóns Þorkelssonar og Finnboga Jónssonar á jörðunum Þverá í Laxárdal og Jörfa í Haukadal (sbr. bréf 12. Apr. 1477, Nr. 105).

AM. Fasc. XXII, 15, frumrit á skinni. Öll (5) innsigli eru dottin frá nema tvö, og er þó annað bráksð. — AM. Apogr. 113 (eptir frumritinu).

Þath giorum uier jon gudmundzsson. asgrimur hallzsson. eẏmundr jonsson. helgi gudmundsson og magnus marksusson godum monnum uiturligt med þessu uoru opnu brefi ath uier uorum þar hia j asi j kellduhuerfui j avxarfirde þa er þeir finbogi jonsson og jon þorkelsson keyptu jordunum þueræ j laxardal og jorfua j haukadal epter þui sem þeirra kaupbref þar um giort utuisar. uar þat tilskilid j adr greindum iardakaupum ef kirkiu godzs a nefndri jordu þueræ kẏnne meiri ath uerda suo ath sagdr finboge ẏrde þeim med laugum skylldugur ath suara en þau þrirtiger hundrada sem hann geck j borgan og suo sem fẏr sagt jardakaups bref utuisar. þa skyllde þrattnefndur jon þorkelsson giallda kirkinne a þuera suo mikla peninga eda hans erfuingiar sem med laugum kynne ath propuazst[1]) sem fẏr skrifuat stendr. suo og skẏllde optnefndr jon afhenda þrattnefndum finboga jonssẏne þat ornamentum jnnan kirkiv sem sira þorkell fader hans hafde lukt tittnefndri kirkiu a þueræ j porcio og reikningskap. reiknade jon þorkelsson þat nera halft atianda hundrad eda meira. og þar til skẏllde jon giallda og afhenda sangdum finboga j nefndrar kirkiu reikningskap tnęr klukur og eirn kalek j gamallt mariu likneski þat kirkiune hefer ath fornu fẏllgt. skille[1]) og þratnefndur finbogi j fẏrsaugdu jardakaupi ath su sama

---

[1]) Svo.

landeign sem grafuid hafdi af leikskala jordu j haukadal skyllde hedan af fýlgia leikskalum en jorfue skyllde eiga landareign ath grandanum fýrir uestan nesid sem ǻ hefer ath fornu fallid. og til sannenda hier um settu uier fýrnefnder menn uor ȷncigli fýrir þetta bref giort j asi j kellduhuerfi fimtudagin epter paska uiku. anno domini. ꝏ.º cd.º lxx.º septimo.

---

108. 15. Júní 1477. í Laufási.
27. Marts 1478. á Grýtubakka.

Séra Þorkell Guðbjartsson selr Magnúsi syni sínum jörðina Yztu-Vík í Laufásþingum fyrir Voga við Mývatn, og skyldi séra Þorkell gefa í milli þrjátigi hundraða í fljótgildum peningum.

AM. Apogr. 5625, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali á kalfskinn".

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heýra senda magnus ionsson. rægnualldr æsgrimsson. jon olafsson prestar. jon ꝏarteinsson. pǻll þorǻlfsson oc jon sigurdzson leikmenn quedio gudz oc sina kunnict giorandi med þessu vóru oppno brefui at þa er lidit var fra hingatburd vǻrs herra ihesu christi. ꝏ. cd. lxx vij ǻr i lafǻsi i eýiafirdi sunnodagin næstan fyrir sancte botolfsmesso dagh vorum vær j hia sǻm oc heyrdum ǻ ord oc handaband þessarra manna sira þorkels prestz gudbiartzsonar af einni ælfo enn magnusar þorkelssonar sonar hans af annari ǻlfuo med suo felldum skildaga sem hier greiner at fýr sagdr sira þorkell selldi greindum magnusi til fullrar eignar iordina yztuvik er liggr i laufaas kirkiu sokn. med ollum þeim gagnum oc gædum er þessarri jordu fýlger oc fýlgt hefer at fornu oc nýio oc ædur greindur sira þorkell vard fremst eigandi at. En hier j mot gaf magnus þorkelsson fýrr sagdr opptt nefndum sira þorkeli til fullrar eignar iordina vóga er liggr vid myuatn oc i reykiahlidar kirkiusokn med ollum þeim gagnum oc gædum er greindri iordu fýlger oc fýlgt hefer

at fornu oc nÿio oc hann vard fremzt eigandi at. suo oc ei sidr i þessu fÿrrsaugdu iardarkaþi ætti sira þorkell i milli at gefua fÿrr sagdra iarda magnusi þorkelssyni. xxx hundrada i fliotgilldum penningum þeim sem Magnus tittnefndur lætur sier vel ænægia at taka i millum þessarra iarda er suo heita vikur oc vǒga. skal oc sa suara lagariptingum er selldi en hinn halldi sino kaþi til laga er keyptt hefer huór vm sigh ef nockur vill ækæra. Oc til sanninda her vm setium vær fÿrrnefnder menn vór inscigli fyrír þetta bref er giort var á grytubacka i hafdahuerfui faþstudagin i pæscauico æri sidar enn fyrr segir.

---

**109.** **27. Júní 1477.** **á Skarði á Skarðsströnd.**

Svartr Þórðarson kvittar Jón Ásmundsson um andvirði sjö hundraða í Hofstöðum í Þorskafirði.

Bisk. Skalb. Fasc. XVI, 16. Frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2495, með hendi Árna Magnússonar eptir frumritinu „accuratè“. Prentað í Arkiv f. nord. Filologi XV, 245.

Kuittanarbref jons Asmundz(sonar) vm hofstade j þoskafirde.

Þat giore eg suartur þordarson godum maaunnum kunnigt med þessu minu opnu brefe at eg medkeunnzt at eg hefe fulla peninga og alla uppborit sem mier uel anæger af jone asmundzsyne fyrir þau saumu siau hundrud er eg sellda honum j hofstaudum i þorskafirde j reÿkhola kirkiusokn. þui giðre eg fÿrgreindr suartur þordarson adrnefndan jon asmundzson aulldungis kuittan og ækærulausan um greintt jardaruerd fyrir mier og aullum minum epterkomaundum. og til sanninda hier um setta eg mitt insiglle fyrir þetta kuittunarbref er skrifat uar æ skarde æ skardzstrond faustudaginn næsta fyrir festum apostolorum petri et pauli þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi. M. cccc. lxx og siau ær.

---

**110.** **10. August 1477.** **í Hvammi.**

Ólafr Grímsson lofar Jóni Hallgrímssyni til fullrar eignar

tuttugu hundruðum í fullvirðisgózi fyrir þann peningaskakka, er Jón þóttist eiga í garð Ólafs eptir Hallberu systur sína.

AM. Fasc. XXII, 25, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Sattargiordarbref[1]).

Þad gvere[2]) eg olafur grimsson godvm monnum viturlegtt med þessv minv opnv brefe ad eg hefe lofad jone hallgrimssyne til fvllrar eignar tvttvgv hvndrvdum j fvllvirdissgoze j ollvm peningvm firir þann peninga ska(c)ka er hann þottezt eiga j minn gard j arf eptter hallberu systr sina ok suo vm̄ allan̄ þann peninga reikni(n)g sem ockar hefer j millvm fared. ockr til alsættess j svo mata ad eg skal þes(s)a peninga vt lvka a tveimr arvm. kann min vid ad mis(s)a fyr enn peningarner erv lvkter þa æ hann svo mikid j minn gard sem olvgtt er af fyrskrifvdum peningvm. ok til sannennda her vm̄ setta eg mitt jnsigli fyrir þetta bref er giortt var j hvame j nordardal svnnvdagenn næsta fyrir mariu messo seinne vm svmared anno domini m° cd° septvagess(i)mo sept(im)o.

---

111. 15. August 1477. 2. Maí 1478. { á Þingeyrum.

Jón ábóti á Þingeyrum selr, með samþykki fjögurra conventubræðra, Þórði Þórðarsyni jörðina í Króki undir Brekkum, að fráskildum reka, fyrir jörðina Langamýri í Svínavatnsþingum.

AM. Apogr. 465, afskript staðfest 7. August 1712 í Skálholti af Árna Magnússyni og Páli Hákonarsyni „Ex originali monasterii Thingeyrensis, accuratè“, og var frumritið skrifað „á kalfskinn“.

A

[Bréfið sjálft eins og það var innsiglað].

Þat giorum uier broder jon med gudz næd aboti æ

---

[1]) Utan á bréfinu með forni hendi. [2]) gv'e frbr.

þingeyrum. godum monnum uiturligt med þessu uoru opnu brefi at þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi þushund fiogr hundrut siautiger ok siau ær æ þingeyrum j uatzdal jn assumcione sancte marie uirginis. Selldi eg fyrr greindr aboti jon med samþycki fiogura suo heitandi uorra conuentis[1]) brædra. æsgrims jonsonar. gudmundar geirmundzsonar. sigurdar biornzsonar ok jon(s) signrdssonar. Þordi Þordarsyni jordena j kroki er liggr ut under breckum j hofs kirkiu sokn at fra skildum rekanum er stadurenn hefer einatt att med fullu handabandi til æfinligrar eignar. med ǒllum þeim gognum ok gædum sem greindri jordu fẏlger og fẏlgia eigur. at fornu ok nẏu ok uier urdum fremst eigandi at med logum. hier j mot gaf þordr fẏrgreindr. jordena æ langamẏri. er liggr j suíjnauatz kirkiu sokn. med ǒllum þeim gognum ok gædum. sem greindri jordu fylger ok fẏlgia eigr at fornu ok nẏu. ok hann uard fremst eigandi at med logum. med þeim skilmala at stadurenn at þingeẏrum skẏlldi hallda jordunni til laga. ok hallda ǒllum logsuorum fyrer greindri jordu ok klaustursens formadr. en þordur bẏggia jordena ok taka leigu af. þar til er þeir giora annan ueg æ og[2]) suara ollum logskylldum fyrer jordena. Suo ok skẏlldi klanstrid taka landskylld af jordunni kroki ok suara samaleidis. sem fyr er skilt um langamẏri. æ þord. en þordur suara lagæriptingum a suo miclu sem hann selldi stadnum j jordunni kroki. Voru þesser kaupuottar eigell grimson ok gijsle þorgijlsson. huerir sin jncigli settu med abota jons jncigli ok conuentubrædra jncigli fyrer þetta bref er giort uar einri nætt fyrer krossmessu. æ uorit j sama stad. æri sijdar enn fẏrr seiger.

B

[Uppkast bréfsins, sem skrifað hefir verið með sömu hendi og bréfið sjálft, en var rist niður í innsiglaþveingina, og Árni Magnússon skrifaði upp af þeim].

---

[1]) „ita est" (AM.). [2]) Þannig hér; annarstaðar er þetta orð bundið í þessu bréfi.

Þat giorum uier broder jon med gudz naad æboti æ þingeyrum. med fiogura coñuentu brædra samþycki. næruerandi egli grimsyni og gisla þorgilssýni. Godum monnnm niturligt. þæ er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi þushund fiogur hundrut siautiger og siau ær. æ assumtio sancte marie. Medr kennzt eg at eg hefer sellt þordi þordarsyni jordena alla krok æ skagastrond er liggur j hofs kirkiu sókn til fullrar eignar. med óllum þeim gognnm og giædum sem greindri jord[u fylger og] fýlgia eignr at fornu og nýu. og eg vard fremst eigande at med lognm. hier j mot gaf þordur þordarson . . . . . . . . . er liggur j suijuanatz kirkiu sókn til fullrar eignar klaustrinn . . . . . .

---

## 112. 5. Október 1477. á Þingeyrum.

Helga Þorleifsdóttir kvittar Skúla Loptsson, bónda sinn, um tuttugu og fimm málnytu kúgildi og tólf geldfjár kúgildi, er hún hafi upp borið og burt feingið af þeim peningum, sem hún hafði erft eptir Guðnýju Þorleifsdóttur systur sína í Auðbrekku.

AM. Fasc. XXII, 25, frumrit á skinni frá Staðarhóli. Öll (3) innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 1486.

Þat giorum vier broder jon med gudz nad abote æ þingeýrum oddr brandzson ok gisli þorgilsson godum monnum viturlickt med þessu vorv opnu brefi at vier vorum þar j hia sævm ok heyrdum æ ord þeirra ok handaband af einne alfv skula bonda loptsonar. en af annari helgu þorleifsdottur kuinnu hans at suo firir skildu at hon med kenndizst at hon hefdi vpp borit ok burt feingit fim malnýtu kugilldi ok xx ok þar til xij gelldfiar kugilldi af þeim peningum sem hvn hafdi erft eppter gudnyio þorleifsdottur systur sina j avdbreckv. þui gefur adr greind helga þorleifsdotter fyrr nefndan skula lopztson aullvngiss kuittan ok akærnlausan firir sier ok aullvm sinvm erfingivm vm adr greind kugilldi. Ok til sanninda hier vm settvm vier fyrr nefnder menn vor jnnsigli firir þetta kuittanarbref skrifat

a þingeyrum j hunauazþingi sunnudagin næstan fyrir vetur. at þa er lidit var fra hingatburd vors herra ihesu christi þusund fiogr hundrut siotiger ok sio ar.

---

## 113. 19. Nóvember 1477. Í Laufási.

Helmingalagsbréf Magnúsar Þorkelssonar og Kristínar Eyjólfsdóttur.

AM. Fasc. XXII, 24, frumrit á skinni. Öll (5) innsiglin eru dottin frá.

Bref er Magnus Þorkelsson og hans kuinna kristin Eyolfsdotter laugdu helmingafielag sin j milli[1]).

Þat giorum vær ion prestr olafsson. thomas gudmundzson. gunni þorleifsson oc augmundr hakonarson godum monnum viturlict med þessu voru oppno brefui at þar vorum vær j hiá sám oc heýrdum á ord oc handaband þessarra manna magnus þorkelssonar oc kristinar eýiolfsdottur konu hans med suo felldañ skildaga at þau ádr nefnd hion magnus oc kristin laugdu helmingafelag sin j milli af feingno fe oc ofeingno fausto oc lausu huerñueg sem vnder þa kunno at falla med erfdum edr odrum hlutum. var j þann tima med lifui eýiolfur magnusson er greind hion áttu sin j milli. Suo oc ei sidur gafuo fýrr nefnd hion huortt adru er leingur lifdi fiordungsgiof af þessum peningum aullum er þa eigu edr eigandi verda af þeim helmingi sem til erfda er fallin huort hiona sem fýrr kann fra falla magnus edr kristin. for þessi giorningr fram j lafási j eýiafirdi fastudagin næstan efter sancte Martinus messo dag[1]) anno domini M° cd° lxx° septimo. Oc til sanninda her vm settum vær fýrrnefndir menn vor jnscigli firir þetta bref er giort var á Midvicudagin næstan firir sancte sesscilio messo dagh j sama stad oc ari sem fyrr segir.

---

[1]) Utan á bréfinu með nokkuð gamalli hendi. [2]) Þ. e. 14. Nóv.

114. 20. Nóvember 1477. á Eiðum.

Hallsteinn Þorsteinsson selr, með samþykki Seciliu Þorsteinsdóttur konu sinnar, Bjarna Marteinssyni jörðina Fljótsbakka í Fljótsdalshéraði fyrir tólf hundruð í kúgildum, slátrum og smjöri.

AM. Apogr. 4293 „Ex originali Peturs Asmundzsonar á ketilsstöðum i Fliotzdalsherade" (AM.). Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu. Fjórða innsiglið var dottið frá.

Þath gerum vier sira arngrimur prestr birgisson. biorn benedictzson. gudmundr halluardzson. pall ormsson. jonn jonsson ok kodran biornsson leikmenn godum monnum kunnigt med þessu voru brefi ath þa lidit var fra hingatburd vors herra jehsu christi þusund fiogur hundrot siautiger ok siau ar. fimmtadaginn næsta firir seciliu Messo vm vetrin a eidum j fliotzdals heradi a vtmannasueit. voro vier j hia saum ok heyrdum a ord ok handaband þessara manna. biarna marteinssonar af einne alfu. en hallsteins þorsteinssonar af annari. at sua firir skildu at fyr greindr hallsteinn selldi adr nefndum biarna jordina fliotzbacka er ligur j fliotzdalshieradi j eida kirkiu soknn til fullrar eignar med aullum þeim gognum ok gædum sem hann vard fremtz eigandi ath. samþyckti ok upp lagdi med handabandi þetta fyr greint jardar kaup secilia þorsteinsdotter kuinna hallsteins þorsteinssonar. hier j mot gaf þrattnefndr biarne marteinsson titt nefndum hallsteine þorsteinssyni tolf hundrot. sex malnytu kugillde ok sex hundrot j slatrum ok smiori ok luka vt a næstum fardaugum verdit. skylldi ok opt nefndr hallsteinn þorsteinsson suara lagariptingum a fyr greindri jordu backa en biarne marteinsson hallda til laga.. Ok til sanninda hier vm settum vier fyrnefnder menn vor jnsigli firir þetta bref skrifat j sama stad. degi ok ari sem fyr segir.

**115.** **27. Nóvember 1477. á Möðruvöllum.**

Vitnisburðarbréf um lýsing Þorvalds Jónssonar um landamerki Skóga í Fnjóskadal.

AM. Fasc. XXII, 26, frumrit á skinni, og eru öll (4) innsiglin fyrir. — AM. Apogr. 3015.

landamerkiabref j millvm skoga ok
hroadzstada 1477 (ár[1]).

Þat gerum ver magnus prestur einarsson. are diakne olafsson. sygurdr runolfsson ok eigill jonsson godum monnum kunnigt med þessu voru brefi at þa lidit var fra gudz burdh. þusund fiogur hundrut siautigir ok siau ar. æ maudruuaullum j eyiafirdhi fimtadaginn næsta fyrir andreasmessu vorum vier j hia ok heyrdum á. ath þorualldr jonsson lyste firir oss. ath þa hann atte jordina skoga er liggur j hnioskárdal j hals kirkiu sokn. at þa hefdi verit reiknud eign greindrar jardar sudr at saurkelldu þeirre sem liggur mille jonshaufda ok stora gils ok alldre uisse hann audru uiss haft ne halldit suo leinge sem hann atte greinda jordh skoga. ok suo sagdizt fyrr skrifadr þorualldur bædhe hafa keypt hana ok selldt. Ok til sannennda hier um settum ver vor jnncigle firir þetta bref er gert var j sama stad. deghi ok are sem fyr segir.

---

**116.** **29. Nóvember 1477. á Grýtubakka.**

Árni Þorsteinsson selr Magnúsi Þorkelssyni svo mörg hundruð, sem hann átti í jörðunni Grenivík, með samþykki Þorbjargar Eyjólfsdóttur konu sinnar, fyrir Hæringsstaði í Svarfaðardal, en Magnús skyldi gefa í milli tiu kúgildi og tuttugu og sex fjórðunga smjörs.

AM. Fasc. XXII, 22, frumrit á skinni. Öll (5) innsiglin eru dottin frá.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

senda ion prestr petursson. thomas gudmundzson. oddur gunnarsson. ion oddzson oc ion ormsson quediu guds oc sina kunnict giorandi med þessu uoru oppno brefui. þa er lidit var fra hingatburdh vors herra ihesu christi ɱ. cd. lxx oc víj ǻr ǻ sancte leodegaríj messo dagh[1]) j nesi j hofdahuerfui vorum vær j hia saum oc heýrdum ǻ ord oc handaband þessara manna arna þorsteinssonar af einni alfuo enn magnus þorkelssonar af annarri ælfuo med suo felldum skilmala sem her segir at greiṅdr ærni selldi til fullrar eignar suo marg hundrvt j iordunni grenivik er liggr j grýtubacka kirkiusokn sem hann vard fremzt eigandi at fýrrsagdum magnusi þorkelssyni med samþýcki þorbiargar eýiolfsdottur eiginkono ærna med ollum þeim gognum oc gædum er greiṅdri iordu hefir fýlgt oc fylgir at forṅu oc ṅýio eftir þui sem þav kaupbref þar vm gior wtvisa sem eýiolfur heitin aṅfiṅsson hafdi ǻdr giora latid. En ædr sagdr magnus selldi arna þorsteinssyni til fullrar eignar iordina hæringsstadi er liggr j suarfadardal med ollum þeim gognum oc gædum er greindri iordu hefuer fylgt at fornu ok nýio oc hann vard fremst eigandi at. samþycti kristin eyiolfsdotter eiginkona magnusar þorkelsonar þenna giorning stadugan. Skal tittnefndr magnus giallda árna þorsteinssýni tiu mælnytu kugilldi oc vi fiordunga smiors oc xx j milli ædrsagdra iarda. Skal huorr hallda sinne iordu til laga er keýptt hefuer enn sa suari lagariptingum er sellt hefer ef nokurer vilia med laugum ækæra. Oc til sanninnda her vm settum vær fýrrnefndir menn vór innscigli firir þetta kaupbref er giort var ǻ grýtubacka j havfdahuerfi laugardagin næstan firir sancte andressmesso dag postola ǻ sama æri sem fýrr segir.

---

**117. 17. December 1477. á Hólum.**

Þorsteinn prestr Illugason fær Ólafi biskupi á Hólum tólf

---

[1]) Þ. e. 2. Okt.

hundruð í jörðunni Tungu í Vatnsdal með einu málnytukúgildi.

AM. Fasc. XXII, 21, frumrit á skinni. Öll (4) innsigli eru dottin frá. — AM. Apogr. 3250.

bref vm jardarpart j nedri tungu j vatzdal[1]).

Þat giorum uier ketill grimolfsson eirikur einarsson ok nicholas þormodsson prestar ok jon þordarson leikmenn godum monnum viturligth med þessu voro opnu brefui ath vier vorum j hia vnder studivm á holum j hialltadæl sunnodaghenn næsta fyrir jmbruviku j jolafostu[2]) saaum ok heyrdum á ord ok handaband vors nadugha herra. herra olafs med guds nad biskups á holum af einne halfu enn þosteins prestz jllughasonar af annari. ath suo firir skildu ath þosteinn prestur fieck adurnefndum biskup olafi tolf hundrut j jordunne nedri tungu er liggur j vaztdæl j grimstungna kirkiu sokn til fullrar eignar med ollum þeim gognum ok gædum sem greindum jardar parti fylger ok fylgt hefer ath fornu ok nýio ok hann vard fremst eigandi ath ok þar til eitt malnýtu kugillde sem bygt er med fyr nefndum jardar parti. skal ok fyrnefndur þosteinn prestur suara laga riftingum á adur greindvm jardar parti en biskup olaf skal hallda til lagha. Ok til sannenda hier vm settum vier fyrnefnder menn vor jncigle firir þetta vitnisburdarbref skrifat á holum j hialltadæl miduikudagen næsta fyrir festum sancti thome apostoli anno domini ᴍ° cd° lxx° vij°.

---

118. 1477.

Máldagi Pétrskirkju í Saurbæ á Kjalarnesi, þá er Magnús biskup Eyjólfsson gerði yfirreið sína.

Landsb. 268. 4to, bl. 121b, skr. 1601.

SaurBær á kialarnese.

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi. [2]) Þ. e. 14. Dec.

anno dominj m° cd° lxx° septimo þa herra magnus reid j sijna visitacionem.

Peturskirkia j saurbæ a kialarnese a xxx hundrud j heima lannde oc jordena hiardarnes. x kýr oc þriatiju asaudar oc iij hundrud j kavplum. ij hundrud j frijdum peningum.

Jtem þetta a hun jnnan sig et cetera.

porcio ecclesie xj hundrud oc half onnur mork oc ij kýr j mortualia.

---

119. [1477].

Ágrip af Brautarholtsmáldaga á Kjalarnesi.

Landsb. 268. 4to, 121b, skr. 1601.

Brautarhollt.

Nicholaskirkia j brautarholltte a þetta jnnann sig et cetera[1]).

var þad giort fyrir halft v hundrad.

---

120. [1477].

Ágrip af Garðamáldaga á Álptanesi.

Landsb. 268. 4to, bl. 121b—122a, skr. 1601.

Gardar á álftanese.

Pieturskirkia j gordum a alftanese a heimaland allt. hausastade. selskard. hlyd. Backa. dysiar. hraunsholt. hiallalannd. afrett j mulatune.

iij kyr . . . x allz ij kapla.

fimm mann(a) messuklæde et cetera[2]).

---

[1]) Hér er feldr úr heill kafli með vilja í máldagabókinni, af því að skrifaranum hefir þótt nægja að annar máldagi var áðr ritaðr í bókina.

[2]) Hér fellir máldagabókin úr niðrlagið viljandi.

121. [1477].

Ágrip af Kálfatjarnarmáldaga á Vatnsleysuströnd.

Landsb. 268. 4to bl. 122a, skr. 1601.

kalua Tiornn.

Peturskirkia ad kalfuatiornn a heima lannd allt oc backa oc fleckuvijk. fiara á hraunsnese.

iiij messoklæde et cetera.[1])

atta kýr. þriu asaudar kugillde oc j hestur.

---

122. [1477].

Máldagi Maríukirkju í Krýsuvík [er Magnús biskup Eyjólfsson setti].

Landsb. 268. 4to, bl. 122b—123a. skr. 1601. Er rétt sem hinn forni máldagi frá 1307, sem er hjá Vilchni. Er þó yngri en Oddgeirs máldagi 1375 og yngri en Vilchins tíð. Gæti verið máldagi Magnúsar biskups Eyjólfssonar 1477.

Krysuvijk.

Mariukirkia j krýsuvijk a heima land allt. herdijsarvijk. ix mæla lannd á þorkautlustodum̄. halfann hualreka j raunnese j millum rannga giogurs oc mark vid bedstædijnga oc einnga[2]) grasnautnn med þria hlute hualz. enn videýijngar fiordunng. enn frá mijgannda grof til kirkiu fioru eiga stadir j skalhollte oc krýsuvijk helmijng hualz oc vidar og alla grasnautnn. krýsuvijk á allann reka a kirkiufioru. enn fra kirkiufioru til marks vid herdijsarvijk halfann hual oc vidreka oc alla grasnautnn. Enn j herdijsarvijk á stadurinn j skalhollte helmijng vidar vid krýsuvijk. þridiunng hualreka eiga stadir badir samann til marks vid stranndarmenn. Enn fiordunng hualz vid stranndar menn til vogs. halfann tolftunng hualz a krysuvijk j stranndarhluta.

ein messoklæde et cetera.[1])

---

[1]) Hér hleypir máldagabókin viljandi úr kafla; [2]) einngia, Vilch.

fimm kýr .xij ær. einn kapal.
Jtem a kirkian þridiunng j vatleysu[1]).

123. [1477].

Máldagi kirkjunnar á Stað í Grindavík [er Magnús biskup Eyjólfsson setti].

Landsb. 268. 4to. bl. 122a—122b. Yngri en Vilchins máldagi, því þar á kirkjan að eins *hálft* heima land. Líklega er þetta máldagi Magnúsar biskups Eyjólfssonar 1477. Sbr. Stefáns máldaga c. 1518 (AM. 238. 4to).

Grindavijk.

Kirkian ad stad j grinndavijk er vijgd med gude oc sælle gudz modur mărie. jone postula. stephano. olauo. Blacio biskupe. Thorlacho Biskupe oc heilagre katrijnu meyiu fiorum nottum eptir allra heilagra messo. hun a allt heima lannd oc halft annars mælis lannd ad husatoptum oc mork vadmala. af jarñgerdarstodum. alldreij skal minna gialldast þott să hafi einngiñ fee sem þar býr. giallda skal oc alla kirkiutijunnd þott hann giore meire, oc allir heimamenn. þadan skal oc eıj giallda lægkaup vnndir heimamenn. giallde þo preste legsaungskaup. hun ă ă grasnautnnar hualreka fiorar vættir oc settunng vr þeim hluta er husatoptum fylgir. enn sa hualreke er fră valagnupum til bíarnnargiăr. enn ef hualur er meire enn iiij vætter þa skal skipta j helmijnnga oc skal hafa stadur j grinndavijk oc jarnngerdarstader oc husatoptir helmijnng.

þar skal vera heimilisprestur sa er kirkiu vardveitir (oc) skal abyrgiast hana oc allt kirkiufee.

kirkia a reka fra gardzbiargz ennda oc til gardz ennda er geingur fyrir vestann arfuadale. hălfur vidreke j mille biarnnargiăr oc marks ă arfadalznese. halfur vidreke ă oddbiarnnarkelldu.

kirkia a skogfell.

hun a iiij kýr. xij ær. iiij saude veturgamla.

---

[1]) Margrét lauk í testament Ívars Hólms fjórðung í Vatnsleysu. Oddgeirsmáldagi 1375.

nockrer hluter jnnann gꝺ́tta feelitlir et cetera.[1])
giallda skal til skalhollts. vj. hunndrud skreidar huert ꝺ́r oc flẏtia til hialla.
hun a fiordunng j lonalannde oc skal sa hafa leigu af þeim sem kirkiu vardveitir slijka sem hann sættist a vid þann er þar bẏr.
skalhollt a helmijnng i hualreka ollum̃ vid stad j grinndavijk. ef meire er enn iiij vætter millum ranga giogurs. (oc valagnupa).

---

124. [1477].

Máldagi Pétrskirkju á Kirkjubóli á Rosmhvalanesi [er Magnús biskup Eyjólfsson setti].

AM. 263. Fol. bls. 64 skr. 1598; („Adrer maldagar vr gomlum bokum um halfkirkiu eiguer j þeirra somv syslu", en á undan eru máldagar úr Vilchinsbók). — Landsb. 268. 4to bl. 122a; er meðal máldaga Magnúsar biskups Eyjólfssonar, og mun því vera hans. Sbr. Oddgeirsmáldaga 1379, Dipl. Isl. III, Nr. 288.

Kirkiubol [forn maldage.[2])

Peturs kirkia a kirkiubole a xl hvndrad j heimalandi. fiordung j geirfuglaskeri. vidreka allann a skarda vrd. atta kẏr. hest og hross. ein messv klædi. [tabulum. glodarker. eitt Alltarissklædi: kalek. eina kertistikv. vij alna langtt tialld med duki .v. kluckur. Peturs skriftt. mariu skriftt. kross med likneskium. kista olæst. vj bækur flestar fanẏtar. paxspialld med eir gillt.[3])
þar skal vera prestur og diakn edur ku(e)nngilldur omagi vr kẏni svarthofda.[4])
Jtem einn kross.

---

125. [1477].

Máldagi Maríukirkju í Kirkjuvogi í Höfnum [er Magnús biskup Eyjólfsson setti].

---

[1]) Hér er hleypt úr í máldagabókinni viljandi.
[2]) [263; [3]) [et cetera 268 og fellir úr þennan kafla viljandi; [4]) nefndr i Vilchinsb. í Vogsmáld.

AM. 263. Fol. bls. 64, skr. 1598. — Landsb. 268. 4to, bl. 122a; er hér meðal máldaga úr tíð Magnúsar biskups Eyjólfssonar, og er því ef til vill hans.

Kirkiuvogur [forn maldage.[1])

Mariu kirkia j kirkiuvoge a þridiung j heimalandi. halft geirfuglasker. xij kýr. xxx asavdar. ij kapla. hun a vidreka onnur huer missere j millum klavfar oc os. v alna tre oc þadan af stærre. og þridiung j valagnvpa fiorum. hvn á iij krossa [oc eru med tueimur vnderstodum. marivskriftt. ij peturs likneske. ein messuklædi. oc kalek sæmilegann. eitt Alltarissklædi oc dukar þar med. kertistikur iij. kluckur iiij. paxspialld. glodarker.[2])

---

126. 8. Janúar 1478. á Munkaþverá.

Einar ábóti á Munkaþverá selr Árna bónda Höskuldssyni tuttugu hundruð í jörðunni Vík á Seltjarnarnesi (Reykjavík), og skilr af sér kirkjufyrnd, fyrir Tyrfingsstaði í Skagafirði.

AM. Fasc. XXIII, 2, frumrit á skinni. Öll (6) innsiglin eru dottin frá. Frumritið átti fyrrum séra Skúli Þorláksson á Grenjaðarstað. — AM. Apogr. 176.

bref vm tyrfingsstadi ok uik.[3])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heýra senda erlendr prestvr broddason ok are diakne olafsson. þorleifvr arnason grimvr arngrimsson grimur gvdmvnzson ok ion þorsteinsson kvediv gvds og sina kvnnigt giorande ath þa er lidith var fra hingatbvrd vors herra ihesv christi þvsvnd ok cccc lxx ok atta ær æ mvnkaþvera íj eýiafirde atta dag iola[4]) uorvm uær íj hia sævm ok heyrdvm æ ord ok handaband einars æbotha med samþykke hans conventvbrædra af einne alfu ok arna bonda havskvldzsonar af annarre alfv ath suo fyrir skildv ath einar abothe selde greindvm arna xx hvndrvd íj iordvnne vik er liggr æ seltiarnarnesi íj svnlendinga fiordvngi med ollvm þeim gǫgnvm ok gædum sem greind-

---

[1]) [263; [2]) [sleppir viljandi 268.

[3]) Utan á bréfinu með gamalli hendi; [4]) þ. e. 1. Janúar.

vm iardar parthe fyllger ath fornv ok nyio ok klavstrid vard fremz eigande ath. sagde æbothenn ath graftrar[1]) kirkiv skylld vere æ iordenne vik ok skilde af ser ath suara fyrnd ok ollvm reikninge æ henne nema þeim iiii kvgilldvm er þar fÿlgia. her íj mot gaf títtnefndvr arne einari æbotha ok klavstrenv æ mvnkaþvera iordina thyrfingsstade er liggr íj skagafirde íj silfararstada[1]) kirkiv sokn med ollvm þeim gognvm ok gædvm sem greindri iordv fÿllger ok fyllgt hefer ath fornv ok nyiv og hann vard fremzt eigande ath. skyllde hvor svara lagarifttingv æ þeirre iordv er sellde ok hvor hallda til laga þeirre iordv er keypti. ok til sanninda her vm settvm ver fyrr sagder menn vor incigli fyrir þetta bref skrifad æ mvnkaþvera fimtadagenn næsta efter iol æ sama ári sem fyrr seger.

---

**127. 14. Febrúar 1478. á Reykhólum.**

Vitnisburðarbréf um bókareið að því fyrir Þorleifi Björnssyni hirðstjóra norðan og vestan á Íslandi, ad Bjarni Þórarinsson hefði sagt við Þorleif, að hann skylldi aldrei þurfa að trúa sér, ef hann slyppi, hversn fögrn, sem hann lofaði honum.

Kriegers safn 2. 4to, bls. 355—357, með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700, eptir transskr. frá 5. Júlí 1490.

Þad giörum vit Bryniolfur Jonsson og Kolbeirn Þorolfsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi. ad vid vorum þar i hiá. og heyrdum á. at Viliamur[1]) Jonzson og Eyolfur Eivensson[2]) soru fullañ Bokareid fyrir Þorleifi Biörnssyni hirdstiora nordañ og vestañ á Jslandi ad Biarni Þorarinsson hefdi talad þeim ordum til Þorleifz Biörnssonar. ad ádurnefndur Þorleifur skylldi alldrei þurfa (ad) trua sier ef hann slippi. hversu fögru sem hann lofadi honum. þa skylldi hann þad alldrei hallda þar eptir. Og til sanninda hier um settum vid fyrnefndir menn ockur Jnsigli fyr-

---

[1]) Svo; [2]) þ. e. Eyvindsson.

ir þetta bref. er skrifad var á Reykholum á Reykianesi á laugardæginn uæsta eptir Sancte Skolastike virginis et[1]) martiris. þa er lidid var frá hingadburd vors herra Jhesu christi ꝏ. cccc. [lxx. og atta ár.[2])

---

128. 7. Apríl 1478. á Möðruvöllum.

TESTAMENTISBRÉF Magnúsar prests Einarssonar.

AM. Fasc. XXIII, 21, frumrit á skinni frá Staðarhóli, nokkuð götugt. Innsiglið er dottið frá. — Apogr. 1487.

Gamallt Testamenta brief[3]).

Jn nomine domini amen.

Egh magnus prestur einarsson heill ath vithe ok skynseme enn nauckut siukur j likama. Gefur mik ok mina sæl j valldh ok vardueizlu almáttigs guds ok hans bledzudu modhr jungfrv sancte marie ok bæna fulltingh sancte michaelis haufut Eingils ok allra guds eingla. sancte peturs ok allra gudz postola. iohannis baptista ok hins helga jons holabiskups ok goda gudmundar biskups. Sancte martinus Erchibiskups ok allra guds heilagra manna ok hier med kys ek likama minum legstadh ath haufudkirkiunne æ hoolum þar sem biskupin edur hennar formenn firir gudskylld[4]) uilia til skipa. hier med gefur ek kirkiunne til æfinlegrar eignar fimm kugillde. ij hia petre bryniolfssyne ok þriv hia þorgeire þorsteinssyne.

Minum herra biskupinum kross med feste ef hann vill syngia mig til molldar.

Gudrunu jonsdottur brodrdottur minne .x. hundrut j jaurdune hole j sæmundarhlíjd ok mannz hlut er ek eigur von firir sunnan.

sira arnoddi brodr minum kapu.

jone brodr minum stack blán.

---

1) v̄, hdr. = &.; 2) [og attatijger ára hndr., en Árni Magnússon leiðréttir, án efa eptir frumriti bréfsins, þótt nú sé það týnt, og setur á spássíu „corrige 1478"; 3) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld; 4) Svo.

Jorunne asbiarnardottur kugilldi er stendr hiæ pæle bonda.

hustrv margrethu vigfusdottur skipit ok kapla mina alla sem ek æ j eyiafirdi v. eru þeir þo golldner meir enn gefner. þuiat vpp æ maurg ar hefer ek verit hennar omaghi saker mins krankleika. sem fleire adrer miner fatæker frændur er hun hefer firir gudskylld[1]) ok mina vid hialpad. sem gud lavne henne. ok hier til skipar ek henne æsaudar kugillde hiæ magnuse bonda brandzsyni. firir þann vmbuningh sem mier ber at hafa til molldar.

markuse magnussyne .xx. alner j sama stad.

þuride pælmadottur atian alner firir þionusto sina. hia þordi siguazsyne.

biorgu frændkono sine[1]) .xx. alner. hia pale bonda.

kirkiunne sancte martinus heima a maudrvvollum ok sira klængi ordubok mina.

Enn þat sem afhlaups verdur skipar ek at skiptizt med fatækum monnum. skal nu þesse minn gerningnr standa obrigdiliga ok bydh ek erfingium minum at luka ok hallda þessa alla mina skipan ok gerd epter skipan heilagra laga suo sem þeir uilia fordaz haska sinna salna. skulu þeir allir peningar lukter ok afhenter i sierhuerium stad. sem ek hefer skipat edur stadt radh firir gert at næstum fardaugum. Bidur ek vm alla ok sierhuern lærdañ mann ok einkañliga vorn andaligan faudur biskup olaf ok alla hola stadar kirkiu formenn ok alla leikmenn sierliga minn kæra husbonda sem leinge hefer verit hustrv margretu ok alla mina vine ok ovine. einkum ok fatæka menn guds ath þeir ok sierhuer gere firir gudskylld[1]), ok firirgefe mier. vil eg ok giarna aullum firirgefa huad huerr hefer med mic brotid. þackar ek aullum minum vinum allañ þann goda sem þeir hafa mic til gert ok bidit nu firir mier til guds med einne pater noster ok versinu aue maria. ok finnumzt j paradiso med glede allir saman firir myskunardom vors herra ihesu christi. bidur eg vm almattigan gud at þat komi fyrst ok sidazt til hialpar þeim aullum sem mier syna ok gera til goda ok

[1]) Svo.

min(n)i syndugri sal tilfridar ok nada suo alldri þrotni enn þeim til syndalausnar ok gledi af lifanda gudssyne jhesu christo er med fedur ok helgum anda lifer ok riker vm allder allda verallda.

ok til sannennda hier vm setta eg mitth innscigli firir þetta testamentumbref skrifat a maudruuaullum j eyjafirdi þridivdagin sidazta j vetri Anno domini ↀ° cd° lxx° viij°.

---

## 129. 26. Apríl 1478. í Westminster.

Kristján Danakonungr fyrsti og Edvard Einglakonungr fjórði endrnýja samning sinn frá 1. Maí 1473 og 16. Marts 1476.

Rymeri Foedera, ed. Holmes V, III, 81—82.

4. Diffinitum est, quod intra Biennium antedictum &c. [Orðrétt samhljóða samningnum frá 1. Maí 1473, DI, V, Nr. 618].

Teste Rege apud Westmonasterium, vicesimo Sexto Die Aprilis [Anno Regni nostri xviij.°]

---

## 130. 28. Apríl 1478. á Ingjaldshvoli.

Transskriptarbréf.

AM. Apogr. 2277. „Ex originali Hiardarholtensi. accuratissime" (AM.). Jnnsiglin voru öll dottin frá og bréfið grautfúið.

Þat giorum uær þorlakr diakni palsson. narfi þor[valds][1]) son. sigmundur ionsson. þorlakur grimsson. godum monnum kunnigt med þessu uoru brefi ad uær hofum sééd og yferlesit so latanda domsbref med þeirr[a hei]lum og oskoddum hangandi inzciglum ord epter ord sem hier seigir.

[Hér kemr dómr um Hjarðarholt frá 30. Júlí 1464, DI, V, Nr. 376].

Og til sanninda hier um settum uær fyrrnefnder menn uor inncigli firir þetta transskriptarbref skrifat a jngialls-

---

[1]) „Residui ductus literarum i originalnum syna nockurn veigen, ad helldur hafi hier *þorlaks* staðeð enn *þorsteins*. þo er eckert þar um ad fyllyrda" (AM.). En hér hefir án efa staðið *þorvalds*, því þetta mun vera Narfi Þorvaldsson á Narfaeyri, sem kemur við mörg bréf á þessum tímum.

huoli a snæfellsnesi þridiudag hinn næsta[1]) festum apostolorum philippi et iacobi anno domini ɱ.° cd.° lxx.° octauo.

---

**131.** **5. Maí 1478.** **Í Hvammi.**

Samningr þeirra bræðra Guðna, Orms og Páls um skipti eptir foreldra sína, Jón heitinn Ásgeirsson og Kristínu Guðnadóttur.

AM. Fasc. XXIII, 16, frumritið á skinni. Öll (3) innsiglin eru dottin frá. — Apogr. 809.

Vitnesburder vm skiptti þeir(ra) brædra Gudna Jonssonar Orms og Páls[2]).

Þat giorum̄ uær þorgils jonson finnbiorn branzson ok knaur þordarson godvm monnum viturlegt med þessu woro opnu brefi æ stranzelinm j miouafirde j augr kirkiusokn þridiudaginn næsta firir jonsmessu holabiskups þa er lidit uar fra hingatburd uors hera jesv christi þusund fiaugr hundrud lxx ok atta ar.[3]) uorum̄ uær j hia. saum̄ ok heyrdum æ ord ok handaband þessara manna gudina jonsonar af einne alfu enn orms jonsonar ok pals jonsonar af annare ath suo firir skildu ath fyrrgreinder þrir brædur jatudu ok lofudu huerr firir sig ath hallda sin j millum firir Riett lagaskipte æfenlega firir sig og sitt afspringe þeir ormr jonson ok pall jonson firir sig þa peninga sem þa stodu til j augri j isafirde ok þar med fylgdu j faustu ok lausu epter faudr þeirra jon heitenn asgeirson og modr þeirra kristinu gudinadottur. en gudine jonson firir sig þa peninga er honum uoru heiman gefner j fystu til giptingar. lofudu þeir ath hallda þetta huer uid annann ok þetta skyllde eingenn þeira uid annann Riufa edr Rofsmenn til fa. Ok til sannenda hier um̄ settum uær fyrrnefnder menn nor jnnsigle firir þetta opid bref skrifat j huamme j huamsueit þridiudaginn næsta

---

[1]) „Hier vantar eitt ord, sem vered hefur *firir* eda *epter*. þad vantar eins i originalenn" (AM.). Sá þriðjudagr, sem næstr er tveggjapostulamessu er þriðjudaginn fyrir hana: 28. Apr.; þriðjudagrinn næsti eptir er 5. Maí; [2]) Utan á bréfinu með hendi Eggerts lögmanns Hannessonar; [3]) þ. e. 21. April.

firir festum johannes apostoli ante portam latinam æ sama are sem fýʀ seger.

---

132. 15. Maí 1478. í Laufási.

Þorkell prestr Guðbjartsson kvittar Magnús Þorkelsson son sinn af ráðsmanns starfi í Laufási.

AM. Fasc. XXIII, 13, frumrit á skinni með ósködduðu innsigli séra Þorkels.

Þetta eru skridubref j Reykiadal.[1])

Þat giori ek þorkell prestur gudbiarttzson godhum monnum viturligtt med þessu mino oppno brefui. Saker þess at ek hefui sett oc skipat Magnus þorkelsson son minn ʀǿázmann j laufæsi j eýiafirdi ǿá minum stadh er mier berr ath hallda heima ǿá stadnum oc suo annarstadar at wtbuum minum landskýlldum bufiarleigum kauppgiolldum wtlæatum oc inntecktum oc suo aullum odrum stadarins penningum oc minum faustum oc lausum kuicum oc daudum fridum oc ofridum huar hann kann þa vpp fretta. hefuer hann giortt mier fullañ oc allan reikningskap suo mier vel nægir. Oc þui giori ek ǿádr nefndur þorkell prestr fýrrgreinndan Magnus aullungis kuittan oc ækærulausan firir mier oc minum laugligum efterkomendum firir allan þann tima sem hefuer j þessi minni þionustu stadit oc til þess tima sem nu er komit. firirbýd ek hueriom manni hann at hindra edr ǿásaka vm ædur sagdan reickning oc ʀǿázmanzstarf. Oc til sanninda her vm setti ek mitt innsigli fyrir þetta kuittunarbref sem giortt var ǿá grýtubacka j haufdahuerfui sancte halluardzmesso dagh. þa er lidit var fra hingatburdh vǿárs herra ihesu christi þwshundrut fiogur hundruth siautiger oc ǿátta ǿár.

---

133. 2. Júní 1478. í Hítardal.

Grímr Aronsson selr Guðna Jónssyni hálfa jörðina Hersey fyrir Mýrum fyrir tuttugu og fimm hundruð í lausafé.

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1600.

AM. Apogr. 5584 með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali a pergament".

Þat giorum uær sigurdur prestr jonsson. oddr diakne bergson. jngimundr jonson. þordr jonson ok þorgils jonson leikmenn. godum maunnum uitrlegt med þessu uoru opnu brefi jn festo germani episcopi et confessoress[1]) þa eʀ lidit var fra hingatburd vors heʀa jesu christi ꝏ. cccc. lxx ok atta aʀ æ aukrum j hraunhrepp æ myrum. uorum uær i hia saum ok heyrdum æ ord ok handaband þessara manna gudina jonsonar af einne alfu enn grims aronsonar af annaʀe ath suo fyrir skildu ath greindr grimur aʀonson sellde nefndum gudina jonssyne halfa hersey er liggr fyrir myrum j hraunhrepp honum til frials foʀædis ok æfinlegrar eignar undan sier ok sinum erfingium en under optnefndañ gudina ok hans erfingia med aullum þeim gaugnum ok gædum. ʀekum ok ʀenningum uautnum ok ueidestaudum teigum ok taudum tollum ok tilgiofum ok aullum þeim eignum ok ummerkium. er adur greindre halfri jordu fylger ok fylgt hefer ath fornu ok nýu ok optnefndur grimur hefer fremst eigande ath ordit med þeim tueimur jordum er kirkiunne j optnefndre hersey til heýra ok suo heita sel ok hamurendar[2]) huara þeirra um sig med þeim ummerkium eʀ adurgreindum halfum jordum tilheyra fylger ok fylgia æ ath fornu ok nyu aullu tilteknu enn aungu fra. ok aullu þui fie sem finnatz kynne j optnefndum halfum jordum ok æ. nema laugleger kennendur yrde til ath laugum. hier i mote gaf optnefndr gudine jonson adrnefndum grime aronsyne .v. hundrut ok .xx. med þessum fridleika. xij. malnytu kugillde. fiaugur haustlagz kugillde. þreuett naut til kugilldes ok suo virt aunnʀ hundrut. ok fiaugr vorlagx kugillde i aullu gangande fie ok fimm hundrut ofrid þaʀ i greind ij hundrut i kauplum. tuær uoder i hundrat ok ij hundrut þessum jamvird. skylldu þesseʀ peningar alleʀ goldner ath næstum fardaugum efterkomañdum. vnderbattz tittnefndur gudine jonsson sig ath suara kirkiunnar instædu ath halfu ok porcio af

[1]) þ. e. 28. Mai. [2]) Svo.

tittnefndri iordu hersey vppæ .xl. vetur þott so leinge hefdi oreiknat verit ok fyrnd æ kirkiunni þeirre sem nu var. skylldi títtnefndur grimur ǻronsson snara lagariptingum ǻ títtnefndri iǒrdu hersey enn þrattnefndur gudine hallda til laga. ok til saninda hier um settum uær fyrnefnder men vor insigli fyrir þetta jardakavps bref skrifat i hitardal in festo marccellini et petri sama are sem fyrr seger.

---

134. 13. Júní 1478. á Þverá.

Tylftardómr, útnefndr af Finnboga Jónssyni sýslumanni í Þingeyrarþingi, um ákæru Hrafns Brandssonar til Guðna Eyjólfssonar, að Guðni hefði ólöglega haldið þeim peningum, er Margrétu konu Hrafns hefðu til erfða fallið eptir Eyjólf Arnfinnsson föður sinn.

AM. Apogr. 5603 með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali á kalfskinn".

Ollvm monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda asgrimr þorkielsson hakon hallsson tomas sveinbiarnarson magnus geirsson arnor biornsson jon vermundzson arnor magnusson þordr arnbiarnarson þordr magnusson asgrimr hardbeinsson. einar ionsson og sverer þordarson q(uediu) guds og sina kunnigt giorande at þæ lidet var fra hingatbvrd vors hera ihesv christi m cccc lxx og viij ar a faustydagin næsta epter jons Ꝋesso biskups[1]) æ hellgastavdvm i reykiadal æ þingstad ret(t)vm vorvm ver i dom nef(n)der af ærligvm manne finboga jonssyne er þa hafde kongsins syslv og vmbod i þingeyarþinge ath dæma vm þa ækiærv er rafn brandzson kiærde þæ þar til gudna eyiolfssonar at hann hefde olavgliga i settid og ath sier tekit þæ peninga sem margretu eyiolfsdottur konv hans hafde til erfdar fallit epter faudur sin eyiolf arnfinzson og eigie til lavgligra skiptta fram lagt vid adr nefnda margretu og hann hefde þessa hans og henar peninga haft og haldet vm tvena tolf manade i eyngu hans frelsi. var þar svarit af tveimur

---

[1]) þ. e. 24. April.

suo at naliga hellt eg þad fyrir satt j minv hiarta. nu med sagdri grein míer kunnugri fyrir hans framburd og eigi sídr fyrir mína grunsemd hefer eg iduliga med hann buit bædi med obrigdanligu hiuskaparbandi og likamligri naveru. þo tidliga med litilli alvǒru edr skyllduligri vndervorpning. og huerr og huílík mín sekt meiri (eda) minni er stendr saman j þessu efni. legg eg hana med sinum greinum vnder miskunnarvalld drottins míns ihesu christi og yduart fǒdrligt heilrædi. Hier med hefer eg misgert andligr fadir j ofmikilli gleiming vm þad godz sem eg a eda hefer att j ǒdrum sueitum edr landsfiordungum huílíkar ǒlmǒsur þar af gioraz guds fatækum monnum. og þar um haft litla atfrett þa eg hefer sialf til komit hueriar afveitzlur vordit hafa j minni bruttverv og þott eg hafi grun at smærri hafi ordit enn heyriligt væri. þa hefer eg litla edr einga skipan a giort til umbotar adr enn eg ridi j burt og ei helldr eptерhugsat þann tima sem eg kom heim at gefa fleiri ǒlmǒsur af þuí godzi sem þa hefer eg milli handa edr adrer med minni skipan. þui ma eg hrædd um vera j guds augliti at guds veslingar þoli og þolat hafi sakir þessa míns gudhrædzluleysis margfallt þrot bædi matar og dryckiar. klæda og herbergia læns lifs firring einshueria edr heilsution at þeir hafa matt fa fyrr og sídar fyrir mitt ofmikit manndomsleysi vm þetta efni. Vil eg feginsamliga þat allt samt gefa vpp vnder miskunnardóm drottins míns ihesu christi.

Misgiort hefer eg andligr fadir j haskaligri vanrækt minnar hæstu saluhialpar. þuiat eg hefer sialldan med gudhrædzlu edr kristiligri fyst og girnd bergt drottinligum likam og stundum eigi hirdt huort eg hefdi bergt edr eigi holld og blód míns sæta lausnara. helldr svo sem nǒckut misgrunandi med efasemd hiartans ofalsada sannleiksins vnderstǒdu til fullrar syndalausnar j þui gudliga stormerki eilífliga rikiandi vnder asionu brauds og víns at mína sal mundi þad mega tælma fram a eilífa lífs braut þo at eg bergdi eigi. og j adra grein duldizt eg vid at mier mundi þungt og æbyrgdarfullt j guds augliti med huilikum vidbunadi eg leiddi at mínu hiarta helgaztan likama og dyran

dreyra lifanda gnds. þad heimskliga hugsandi at ognrlig reidi hins rettlatazta domara mnndi mig eigi nalgazt mega edr makliga slæ ef eg ein stædi j milli margra annara manna þeirra sem hreinliga vaktadi sínar samvitzknr. med þessum hætti firdiz og fiarlægdizt mitt hiarta lifanda braud einglanna og bnrtt skyfdizt af fagnadarfullri nalægd og samvistn heimsins grædara. Enn fylldi fwlan falsaradom diöfulsins og hans eitrligvm teygingum. sno radlansliga reikandi j fyrrgreindu transti dular og ovitzkn stad af stad at sia og heyra margfalldañ ovinarins vondskap. þad til leggiandi af minni mannillzku sem adrer knnnv eda villdn eigi giöra. sediandizt alldri af lausungarfullri flöktan hngskotz og likama. sem þad himintvngl er at þrimligvm arum lidnvm fyllir sína ræs og nyar hana þegar æn duöl edr huilld.

Nn veit eg at omilldr daudi verdr endalykt a fyrr sagdri minni reikan. mun eg þa byria adra ras j salina þo at naudigr[1]) se. eigi lika helldr skapliga. þad er at skilia bvrt af porthwsi míns relega[2]) líkama og fram j syrgilig og þo maklig vmskipti píslanna saker minna synda þær sem mig ottar nn þo at sidla sie at fiandinn mnni til elldzneytis geymt hafa minni hörmuligri sal til bótlausrar bölvanar. nema hinn hæsti gud virdizt sínvm miskunnaraugum til hennar líta j hverium eg set nv feginsamliga alla mína vón. Einkañliga hefer eg misgiört j siniligum stuld og osyniligum. þvi j syniligum at eg hefer optsinnis kugat lítilmagnan med okursamligri fiar vtheimtan. livgandi suo margan pening inn j minn gard þann sem eg hafdi huorki heimilañ fyrir gialld ne giöf. og þo at eg ætti mæla æ nockurs mannz fe fyrir ymisligañ kaupskap milli hans og mín. hafdi eg optliga þann mvn sem mier stod verr. þui at eg heimta mína skulld miklu frekara enn eg vissa sannindi til vera j vnderstödu kaupsins afflettandi suo naunginn sinu godzi med sviksamligum plóg fiandligrar agirni svo hörmuliga sem omannliga at þar fyrir vard hann öreigi og stafkall þolandi hier med hungnr og þorsta. kullda og krankleika og at síd-

[1]) Svo. [2]) ıelega, hdr. = ꝛelega.

uztu lífstion og reiduleisi andar og líkama. enn eg hiellt hia mier hans godz og þa skulld sem eg átta honum at giallda. lockandi adra menn med mier at neyta þeirra peninga j kosti og klædum sem eg hefer so sviuirdliga aflat. Hier med fylgdi þad sem enn var hörmuligra at þvrd og minkan a mínv godzi tiadi eg og greindi olatliga saker olmösuleysis vid hinn volada. Enn vöxt og aukan minna peninga sagda eg nandig og þo med falsi og vnderhyggin þá sialldan er þad vard leggiandi þar vid minn bokareid med mörgum málakrókum at mitt godz væri eigi meira enn eg sagda. Huar fyrir aller tollar og tiunder er eg atti at lwka kirkiu. prestum. biskupum og fatækum monnum vorn sialldan edr alldri af mínvm peningvm rettliga lukt. Enn saker míns ofsa og oiafnadar þordi eingi madr mier asakan at gefa. þo at þeir vissi mín rangindi sno afskapliga öflgaz móti guds lögum og heilagra fedra setningu. Enn þui hefer eg misgiort j osyniligum stuld andligr fadir at þeir hlutir sem mier vorv feingner til geymslv edr bedin at giöra eitthuad wr þeim skutladi eg med odygd og afdrætti og umskipti. afhendandi þeim er mier feck minna edr verra enn eg medtók j fystu vefiandi fyrir þeim aptr og fram sem eg kendi eigi iafnklókan mier j brögdum og kyndugskap suo hann trvdi minni sögn. glöddumzt eg omögvliga med sialfri mier af þessari lymsku sem eg hefda rettliga fyrr greindra hluta aflat. J annarri grein sem enn var haskasamligra. at þa er eg var j nöckörum naudum stödd heitandi ymissum hlutum. pilagrimsferdum edr offri til heilagra stada. j föstum og vökum edr bænahalldi. eda aflati einhuerra glæpa þeirra sem minni sálu vóru til eilífs obata þa rauf eg þetta þegar allt samt er eg komzt vr minum þravngingum. takandi þad aptur under mig med eiginligum illvilia sem eg iatadi gudi og hans helgum monnum. og eigi fanzt mier meira vm þennan gudræka glæp enn eg hefdi dærat minn lika. Optliga hefer eg minn sæti fader stolit frægdinni burt af mörgum manni med gallblandinni bakmælgi. j aleitni og vmlestri þuiat þa leynda hlute sem minn nævngur lagdi vnder mig j truskap. rauf eg litlu sidar med hropligri opinberan. vid

aukandi marga hluti illa. med lygiligum falsradum. þa er eg heyrdi giarna adra vmlesturinn frambera. þar med neitadi eg sanna vera þa góda hluti sem madur ber j sialfs síns samvitzku. enn eg kostadi af öllu megni illskunnar at fordrifa og opinbera mannzins goda hluti. og at síduztu snere eg vm goda hluti míns samkristins mannz j þa hluti sem honum yfergæfuzt iduliga j vesta efni epter þui sem eg gat minni illsku fremzt tílkomit. Enn eg sialf var sem annar skröksmadr. likiandi mig goda hluti fremiandi fyrir manna augum. enn eg ottudumzt eigi at reita guds asiónv med svivirdligum og skemdarfullum odædum. girnandizt at kallazt heilagur[1]) af monnum. enn eg var liót og leidilig j guds augliti. Optsinnis fiell eg j greypiliga gudlastañ. þuiat eg eignadi þa hluti gudi sem eigi woru hans. þa er eg sagda med mier hann skapat hafa efni og vndirstödu syndanna. Neitadi eg og diarfliga hans hluti þa vera sem hans vorv. leggiandi hans helgazta nafn vid hegoma hluti med hæsta svardaga.

Enn nu allar fyrr nefndar greiner med sierhuerium articulis legg eg vnder miskunnarvalld drottins míns ihesu christi.

Hier med hefer eg misgiört vitandi og ovitandi. vakandi og sofandi. viliandi og oviliandi a nótt og degi og a huorri stundu. fleiri og meiri erv mínar synder enn eg mega ordum inna edr hug til koma. Enn nu vil eg fegiñ . . . . . . .[2]).

---

## 234. 6. Febrúar 1480. á Reykhólum.

Þorleifr Björnsson hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi gerir þá menn kvitta og ákærulausa kongdómsins vegna, er fǎunguðu Bjarna Þórarinsson.

---

[1]) Svo. [2]) Hér þrýtr handritið og hefir aldrei verið ritað meira. Vantar hér því niðrlag skriptamálanna, og mun þó ekki mikið vanta, því að mjög sýnast þau vera hér að lokum komin.

Kriegers safn 2. 4to, bls. 345—347, með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

Kvittunarbref þeirra sem faungudu
Biarna Þorarinsson.

Þad giörer ec Þorleifur Biornsson hirdstiori nordañ og vestañ ǻ Jslandi godum monnum viturlegt med þessu mijnu opnn brefi. ad eg medkiennunst ad eg hefi gefid alla þa menn kvitta og ǻkiærulausa kongdomsins vegna. sem faungudu Biarna Þorarinsson. ef þeir hafa þar nockru afvega uti farit framar meir enn lög standa til. fyrir þa sök ad narfi þorvalldsson og Jon Biornsson beiddu mic og kröfdu ad giora sier riett af fyrgreindum Biarna fyrir Rǻn og grip og heimsokn. er hann hafdi þeim veitt og fleijrum ödrum. Svo og i annari grein hafdi fusi Biarnason kongs nm̄bodsman j milli Gijlsfiardar og Lǻnganess lyst ǻdurgreindañ Biarna og hans filgiara utlæga fyrir þann skulld ad þeir forn heim ǻ hans gard og drogu upp hans hus. enn bǻru i burt peninga. og þvi lyste optnefndur fusi Biarnason fullri og allri heimsokn ǻ ǻdur greindañ Biarna og hans filgiara svo sem hann mætti þad fremst giöra med lögum. Og til sanninda hier nm̄ setta eg mitt Jnnsigli fyrir þetta kvittunarbref. Skrifad ǻ Reikholnm ǻ Reÿkianesi sunnudaginn næsta eptir purificatio sancte Mariæ. þa er lidid var frǻ hingadburd vors herra Jesu Christi ꝏ. cccc. og ǻttatijge ǻra.

---

**235.** **10. Febrúar 1480.** **í Holti.**

Transskriptarbréf þriggja manna.

Bisk. Isl. Skalh. Fasc. XIV, 1, transskriptið á skinni. AM. Apogr. Nr. 2467, stafrétt afskript.

Þath giorum uær narfi prestur bauduarsson. þordur jonsson og gudmundur olafsson godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi. ath uær haufnm sed og yferlesid opith domsbref þessara manna sem hier epter skrifader

standa med þeirra oskanddum ok hanganda jnzsiglum suo lꝺ̃tanda ord epter ord sem hier seger.

[Hér kemr dómr Godsvins biskups um eyristolla Holtskirkju í Önundarfirði frá 18. Júlí 1444, Dipl. Isl. IV, Nr. 698].

Og til meiri audsyningar hier nm settum nær fyrnefnder menn vor inzsigli firir þetta transcriptarbref skrifath j hollti j aunundarfirdi fimtadagin in festo scolastice. anno domini ꝏ°. cd.° octogesimo.

---

## 236. 29. Febrúar 1480. á Reykhólum.

Samningr þeirra Þorleifs Björnssonar og Einars Björnssonar af einni álfu, en Rafns lögmanns Brandssonar af annari um mál Bjarna Þórarinssonar og þeirra bræðra Þorleifs og Einars, og geingr Rafn í borgan fyrir Bjarna, að hann verði laus úr fangelsi og komi til næsta Öxarárþings.

Kriegers safn 2. 4to, bls. 335—345, með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

Giorningsbref at Þorleifur Biörnsson gaf Biarna Þőrarinsson lansañ űr fãngelsi.

Þad giörum vær Einar Brandsson. Bartholomeus Kolbeinsson og Þorvalldur Jonsson. gődum mönnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad vær vorum þar j hiã. saum og heÿrdum ã ord og handaband þessara manna Þorleifz Biörnssonar. hirdstiora nordañ og vestañ ã Jslandi. og Einars Biörnssonar brodur hañs af eirni ãlfu. og Hrafns Brandssonar af annare. lögmadur nordañ og vestañ ã Jslandi. ad þã er greindur Hrafn lögmadur dagþingadi Biarna[1]) Þorarinsson med þvi fãngelsi er Þorleifur Biörnsson hafdi lãtid hann fãnga fyrir þær sakir er þessir menn kiærdn til hans. Jon Biörnsson og narfi þorvalldsson. ad fyrnefndur Biarni Þörarinsson hafdi gripid þeirra peninga. Lÿsti Þorleifur Biörnsson þvi fyrir oss fyrgreindum monnum. ad hann hefdi

---

[1]) Biörn, hdr.

fyrir þann skulld látid fánga Biarna. ad þeir hefdi beitt sig og krafid Jón og Narfe og fleyri menn adrer ad giora sier Riett af honum. og i þessari dagþingan lofadi Hrafn lögman. og i borgan gieck fyrir hönd Biarna. ad optnefndur Biarni skylldi koma til næsta Öxarárþings ad forfallalausu. og svara þar sem löglega stefndur öllum þeim málum sem þar verda med lögum til hans töłud. Hier i mót lofudu fýrnefnder brædur Þorleifur og Einar Hrafni lögmanni. ad þann sama gardinn Bæ á Raudasandi sem Biarni Þorarinsson hafdi ad sier tekid. skylldi hann hallda med frij til næsta Öxarárþings. og alla þá peninga sem þar voru heima á gardinum þá er hann kvam til. og landskylldirnar af jördunnm þeim sem hustru Olufu hafdi tilheyrdt vestur frá Skalanesi og til Vijka. og hann hafdi ad sier tekid. og þeir villdu honnm audvelldlega luka. er á jördunum búa. án nockrar þvingunar edur hrædsln j þessu takmarki um greindar landskylldir. at fráteknum Eyunum Hvallátrum. og fiórum málnýtukugilldum. er Philippus Sigmundsson átti j býggingu hia hustru Olöfu þar heima á sandi og þau malnýtukugilldi. er Biarni rak i burt frá Læk med marki Gudrunar Aradottur. og hun atti i býggingu hiá hustru Olofu. Enn þær landskýlldir. sem Biarni hafdi ecki ad sier tekid þridiudaginn næsta fyrir fardaga. og þá væri olycktar edur þeir villdu honum ecki giallda er á jördunum búa skylldi þeir brædur ad sier taka. Þorleifur og Einar. Medkendust þessir þrattnefndir menn Þorleifur og Einar. ad hveria linun sem þeir giördi hier uti um þessa peninga vid Biarna. ad þeir giördi þad fyrir sijns herra naadng herra kongs Kristiern skylld. ef þad bevijsadist svo. ad hann hefdi kongsins bref fyrir sier. enn ef einginn endilegur lagavegur geingur á um þessa peninga sem Biarni hefur at sier tekid. ad næsta Öxarárþingi þá skylldi optnefndir brædur Þorleifur og Einar aptur taka Gardinn (j Bæ) á Raudasandi. og alla þá peninga frijda og ofrijda. sem hann tok þar. enn gripin standa til laga og svo landskylldir af jördunum. j svo máta. at þeir skylldu giallda þær er á jördunum búa. Enn Biarni bitala þeim er honum gulldu npp á riettan Reikningskap.

enn þa peninga alla sem Biarni hefur fyrir þeim tekit Þorleifi og Einari skylldi hann aptur leggia fyrst landskylldir af þeim jördum sem þeim heyrdi til sialfum og hafa aptur skilad fyrir fardaga. nema hann kunni ödruvijs ad forlijkast vid þá sem á jordunum búa. Svo og eij sijdur alla þá peninga adra sem hann hefur fyrir þeim haft. skylldi hann aptur skila strax er hann kiæmi vestur þangad sem hann tók. hvert þad var ur Gardi Fusa edur annarstadar. smior edur adra peninga. nema þeir vilie jnndælla giöra. enn gripiñ standi til rietta. skylldi Biarni öngva peninga hafa med frelsi edur þeirra heimilld framar meir enn hier fyr stendur skrifad i brefinu hverki minni nie meiri. Gaf þorleifur Biornsson Biarna Þorarinsson kvittañ og lidugañ ut af sitt fángielsi j þessari dagþingan fyrir þann skulld. Enn hann lofadi ad svara lögum fyrir sig á þingi med vissri borgun. Svo og eij sijdur gaf optnefndur Biarni tijttnefndañ þorleif Biörnsson og alla hans menn kvitta og ákiærulausa med handabandi fyrir þad er hann liet fánga hann og i járn setia. edur hver hindran edur hugmód honum var þar uti giört. edur i hverium stad er þat skiedi med ordum edur verkum. svo framarlega sem hann mátti þad fremst med lögum giöra. Lofadi tijttnefndur Biarni ad hann skylldi ecki ómak edur hugmód giöra þeim brædrum þorleifi og Einari nie þeirra mönnum um þá peninga sem Gudmundur Arason hafdi átt. hverki gripa nie grijpa láta. og i aungum Rádum þar um vera ad þeir sieu gripnir edur ómakadir fram um Öxarárþing. Svo og eij sijdur lofudu þessir þrattgreindir menn þorleifur. Einar og Biarni. Hrafni lögmanni. ad þeir skylldu koma til næsta Öxarárþings. eda þeirra löglegir umbodzmenn. med öll sijn próf og skilrijki er hverer höfdu um þessa peninga under dandimanna skodan og Ransak. hvad þeim lijst svarlegast. Hier med lofudu hverer ödrum gridum og fullum fridi. þorleifur og Einar fyrir sig og sijna menn. Enn Biarni fyrir sig og sijna menn. og alla þá sem honum vilja lid veita. og hann má vid ráda. og fyrir hans skulld vilia giöra fram yfir þingid. til þess hver kemur til sijns heimilis. ad riettum dagleidum. Medkiennunst eg Hrafn Brandsson lögman. ad ec hefi geingit i

þorgnn fyrir Biarna þorarinsson. ad hann skal allan þennan skilmála hallda sem hier staar uti brefid. ad koma til næsta Öxararþings. edur hans löglegur umbodzmadnr. ad svara þar hverium manni Lög og Riett. Og til meiri audsyningar hier um setta ec Hrafn Brandsson Lögman mitt jnsigli med þessara manna jnsiglum sem hier ero skrifadir fyrir þetta bref. er skrifad var á Reykhólum á Reykianesi á þridiudaginn næsta fyrir Jonsmesso um veturinn þá lidid var frá Guds burd m. cccc. og Lxxx.

---

**237. 1. Marts 1480. á Reykhólum.**

Bjarni Þórarinsson lýsir því, að hann hafi viljugr og ókúgaðr geingið til handabands við Hrafn lögmann Brandsson, að hann skyldi halda allan þann gjörning, er þeir höfðu gert, hann og Björnssynir (Nr. 236).

Kriegers safn 2. 4to, bls. 358—359, með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

Lofunarbref Biarna Þorarinssonar vid Hrafn Brandzson.

Þad giöri eg Biarni Þorarinsson godum monnum kunnigt med þessu mijnu opnu brefi. ad eg medkiennunst. ad eg hefi viliugur og (med) minn godan vilia utan nokkra kugan eda þreyngingu geingid til handabandz med Hrafn Brandsson Lögman nordan og vestan á Jslandi. ad eg skylldi hallda allan þann giörning sem hier stendur skrifadur i þessu sama brefi sem mitt bref og jnnsigli hanger vid. Og til sanninda hier nm setta ec mitt jnsigli fyrir þetta bref. er skrifad var á Reykholum á Reykianese midvikudaginn næsta fyrir Jonsmesso Holabiskups um veturinn. þá er lidid var frá hingadburd vors herra Jesu christi m. cccc. og áttatijger ára.

---

**238. 6. Apríl 1480. á Grýtubakka.**

Vitnisburðr um illskiptafund þeirra Hrafns lögmanns Brandssonar og Magnúsar Þorkelssonar.

AM. Fasc. XXV, 14, frumritið á skinni. Síðara innsiglið er dottið frá.

Jllskipta fundur hrafns lögmans og
Magnusar þorkielssonar[1]).

Þat giorum vid ion prestr olafsson oc thomas gudmundzson godum monnum viturlict med þessu ockrv opno brefui ad vid vorum þar j hia sám oc heýrdum á þa er þeirra fundr vard Rafns branzsonar oc Magnus þorkelssonar fyrir sunnan hnioská á gætum þeim er kallazt backagætur fram j skogin. ste greindr Rafn af baki hesti sinum oc hans fýlgdarmenn þa þeir mættu sia adurnefndan Magnus oc hans fýlgiara. dro þa rafn vpp oc hans menn stælhanzka enn suerd sin or slidrum oc geingu þangat at sem fyrrnefndr magnus stodh fyrir kýrr oc þeir menn er med honum voru. hiellt opt nefndr Rafn á næstu snerdi oc vpp reitt til hæggs oc sno hans menn med honum. Oc þa er hann var sno nær komin opptnefndum magnusi at hann mátti vel hans ord heyra. lysti titt nefndr magnus þui at hann uilldi ængu illu vid Rafn skipta helldur godu ef þess væri kostur. Oc þui fyrirbæd þrattnefndur Magnus sinom monnum at hægua sla edr stinga rafn branzson edr hans menn oc sagdizt ængua skæmm edur skada veita vilia rafni branzsyni ne hans monnum. Oc efter þessi ord hio rafn branzson fýrri at Magnusi þorkelssyni huert hægg at ædrn oc suo ei sidr hiuggu þeir sem rafni fýlgdu. Oc til sanninda her vm settum vid fyrnefndir menn ockur inscigli fyrir þetta bref er giort var á grýtubacka j hæfdahuerfui fimtudagin j páscaviku anno domini M° cd° lxxx°.

---

239. **14. Apríl 1480.** **á Skarði.**

Þorleifr Björnsson handleggr Haldóri ábóta á Helgafelli jörðina Bjarnarfoss í Staðarkirkjusókn klaustrinu til æfinlegrar eignar, og kvittar Þorleifr um andvirðið.

---

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá 16. öld.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, bl. 131a—b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Ágrip af þessu bréfi með ártali 1480 er í AM. 252. 4to, bl. 47; AM. 430. 4to, bls. 6, og AM. Apogr. 1583.

Kaupbrief fyrir Biarnarfosse.

Þad giorum vier Oddur prestur Þorleifsson. Þordur Helgason. Þorarinn Stephansson godum monnum kunnugtt med þessu voro opnu briefe ad vær vorum j hia sáum og heyrdum á a Skarde a skardzstrond fostudaginn næstañ eptter paskavijku þa lidid var fra hingadburd vorz herra 1480[1]). ord og handaband þessara manna Herra Halldorz abota a Helgafelli af einne alfu og Þorleifs Biornssonar af annare. ad so fyrir skildu ad firneffndur Þorleifur Biornsson handlagde adurskrifudum abota jordina Biarnarfoss. er liggur j Stadar kirkiusokn j Stadarsueit optnefndum Halldore Abota og klaustrinu a Helgafelli til æfinligrar eignar med ollum þeim gognum og giædum sem greindri jordu fylger og fylgtt hefur ad fornu og nyiu. medkiendist og adurskrifadur þorleifur ad hann hefdi fulla og alla peninga vppborid af abotanum Halldore fyrir greinda jord epter þui sem honum vel anægier og gaf hann kuittañ og akiærulausañ vm̃ adurskrifad jardarverd fyrir sier og ollum sijnum epterkomendum. Lofade Þorleifur ad suara lagariptingum a sagdri jordu. enn abotinn skilldi hallda til laga.

og til sanninda hier vm̃.

---

**240. 15. Apríl 1480. á Skarði.**

Skiptabréf eptir Ólofu Loptsdóttur milli Þorleifs og Einars Björnssonar.

AM. Fasc. XVII, ad 9, frumritið á skinni, og er samanstungið við skiptabréfið eptir Björn Þorleifsson frá 1467 (DI, V, Nr. 441). Til eru margar pappírsafskriptir af þessu bréfi, en þær eru allar ónýtar úr því frumbréfið er til, og ekki til annars en að glepja fyrir og villa, og hafa margar þeirra rangt ártal bréfsins. Ein, sem hefir haft ártalið 1477, hefir leitt Espólín í villu um dauðaár Ólofar ríku (Árb. II, 105).

---

1) Svo ágripin; misskr. í 858: „148“.

Þat giorvm ver oddr petursson. gisli filippusson. einar oddsson. þorarin aronsson. finnr petursson oc þordr helgason godnm monnnm uitnrlegt med þessv woru opnu brefi at þa er lidit var fra hingatburd vors herra iehsv christi ꝍ. cd. oc lxxx ára. ꝍanndagin næsta firir tiburcius ꝍesso vm vorit[1]). á skarde a skardstrannd. worum ver til nefnder af ærlegnm monnnm þorleifi biörnnsyni oc einari biörnsýne. at skipta oc j sundr telia alla þa peninga kvika oc danda. fasta oc lavsa. frida oc ofrida er þeim hafde til erfda fallit epter hvstrv olofv loptzdottur modr sina sem gud hennar sál hafi.

Nv saker þess at fyrgreinder brædr þorleifur oc einar lofndn hnorr firir sic med fullu handabandi at hafa þat oc hallda firir fullt oc logligt eignarskipti sem ver fyrr nefnder menn giordnm oc skiptvm þeirra j milli.

Jn primis skiptum ver skarde á skardstraund einare biörnsyne med halfre saurbæiar fiöru oc aullum þeim eyinm sem skarde fylgia firir hnndrad hnndrada. þar med skiptvm [ver] honum ollum þeim eignvm sem þar ero med. fra tekit galltardalstungv. Reiknnduzt þessar eigner .xxxx. hundrada oc cccc hundrada. med þessum eyium er til woro lagdar til skardz. ravdzeyiar oc hrvteyiar. suidnnr oc sndr lavnd. ase j holltvm oc þeim iordvm er þar til liggia. hraungerdi. xxx. hundrada. liotastader .xx. hnndrvdum. uetleifshollt. .xx. hundrndvm. eyr j skoradal .xvj. hundrudum. hreimstader j nordrardal .xvj. hnndrudum. tnær iarder j hnappadal auluiskross oc þuerfell firir cccc oc .xx. reiknuduzt þesser peningar .cc. hnndrada oc .x. hnndrud betur. Hier med skiptum uer einare saurbæ a ravdasandi oc melanes. mafaberg oc hlidarhuamur. kluka oc grauf. stackar oc lambauatn. kirkivbol j kollzuik. uazdalr. geirseyr. hamar a hiardarnesi. ccc j audnum. illugastader oc half eyr j kollafirdi. galltargia oc klavfastader. reiknuduzt þesser peningar er sandi fylgia. lxxx hundrada oc .ccc. hundrada. Jtem hlaut einar nordr a straundum. kamb oc ofeigsfiord. kleifar oc anik. finnboga-

---

[1]) Þ. e. 10. April.

stader. kios oc nastvíjk. kersuogr oc giögr. bær oc eyr. ingolfsfiordr oc hruteyiarstraund. Reiknuduzt þessar iarder .c. hundrada oc .xx. c^m betur.

Hlaut þorleifur biornsson j sinn hlut til motz uit einar brodr sinn þessa peninga.

flatey a breidafirdi med styckis oc sandeyium. reykeyium. hrauneyium oc hergilsey oc ollum flateyiar löndum oc þar til suefneyiar oc galltardalstungu firir .c. hundrada. ɱafahlid oc þær iarder er þar fylgia. hris. hollt. oc tungahaufdi oc uik oc skerdingstader firir halft annad .c. hundrada. alftanes oc þær iarder er þar fylgia. straumfiordr. kalfalækr oc krossnes. annastader oc uodalækur. einifell oc .xxx. c.^a ueidurin j nordræ. ij. iarder uestur j sandzhrepp saudlausdalr oc keflauik. reiknazt þessar iarder .cc. hundrada oc .xxxx. c.^a betur. siofarborg j skagafirdi oc þær iarder er þar fylgia med firir .cc. hundrada oc x. c.^m betur. þessar iarder med brianslæk a bardastraund. hrakstader oc haukaberg. litlu hlid. v. c.^d j uavllvnum. cc j drapskeri. halft þridia .c. j hvammi oc tuttugu. raudzdalr oc arnorstader. hlid oc þuera. forsa oc uattarnes. eyiarnar huallatur. þessar iarder j kroksfirdi. skogar. gillastader oc tunga. bær. holar oc klettur. tindar oc ingunnarstader. ualshamar oc backi. brecka oc suarfholl. reiknuduz þessar iarder ccc. oc lxxx. c.^a betur. kalladarnes oc þessar iarder med. hamar oc suidinsuik. skard oc sunddalr. guddaler oc kluka. bruara oc eyrar. kallbakur. reik[n]azt þessar iarder sem nesi fylgia .c. hundrada oc xx. c.^d betur. Hlaut þorleifur so micil lausagoz. v. c.^d oc .xx. med alftanesi j ollum fridum peningum at auk skulldanna. oc skylldi þesser peningar standa firir kirkiu reikningi. xiij. c.^d med mafahlid. med einv kugilldi hia sigmundi þorsteinssyni oc tueimr kugilldum sudr j hnappadal a auluiskrossi landskyldar kugilldi oc innstædv kugilldi. Enn med flatey oc suefneyium. einu .c^i. fátt j .xxxx. c.^da sex kugilldi med iordunum j kroksfirdi. oc sex kugilldi med iordunum hia kalladarnesi oc halft ɪx.^da c. med galltardals tungu oc eigr kirkian þar sex kugilldi af.

Enn einar biörnson j sitt hlutskipti þetta j lausagozi.

xix kugilldi oc .xx. heima med skardi oc halft fimtanda c. oc xx. er kirkian a skardi eigur. oc halft ed ix$^{da}$ .c. med daugurdarnesi oc eigur kirkian þar af sex kugilldi. oc sex kugilldi j kroksfirdi. sex kvgilldi med iordunum nordr a straundum.

Suo oc skiptum uer fyr nefnder menn j helminga ollum þeim peningum sem dauder woro a skardi innan gatta. silfri oc tygium. klædnate oc bordbunate. sængarklædum oc ollum avdrum ofridum peningum þeim sem innan gatta woro. woro þa epter oreiknader. xvij hestar er þeir villdv skipta med ser sialfir.

Og til sannenda hier vm settvm ver fyrr nefnder menn vor jnncigli firir þetta bref skrifat æ skardi æ skardzstraund laugardaginn næsta epter tiburcius Messo et ualeriani æri sem fyrr seger.

---

## 241. 17. Apríl 1480. á Skarði.

Þorleifr Björnsson selr Gísla Filippussyni jörðina Keflavík á Rauðasandi til fullrar eignar og kvittar um andvirðið.

AM. Apogr. 1155, að því er virðist, eptir frumriti.

Þat giore ek þolleifur bio(r)nzson godum monnum viturligth med þessu minu opnu brefi ath egh hefi selt gisla filipussyne jordina keflavik er liggr j saurbæiar kirkiusokn med ollum þeim gognum ogh gædum sem greindre iordu keflavik fylger ogh fylgth hefur ath fornu ogh nýu ogh eg uard fremzt eigandi ath epter modr mina olofu lopztdottur. hefi egh fulla peninga ogh alla vppborit i adrgreint jardar verd suo mier vel ǻnægir ogh i kaup okath kom. ogh þui giore egh fyrgreindur þolleifur adrnefndan gisla orlungis kuit(t)an ogh ǻkærulausan um adur skrifat jardar uerd fyrir mier ogh ollum minum logligum erfingium. Ogh til saninda hier vm sett(a) eg mith insigli fyrir þetta iardarkaupsbref er giorth var a skardi æ skardzstrond. manudagin næstan fyrer jons Messu holabiskups vm uorit. þa

er lidit var fra hingatburd vorss hera ihesu christi ɱ°. cccc ogh lxxx ar.

---

**242.** 25. April 1480. á Reynivöllum.

Fjórir menn transskríbera fjögur bréf um Hvalsnes á Rosmhvalanesi.

AM. Apogr. Nr. 5607 „Ex transscripto", þ. e. frumtransskriptinu sjálfu, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. „Brefed er á kálfskinn, með tveimur oskirum jnsiglum, og tveimur lausum þveingium".

Þath gerum vær sigurdr jonsson. bryniolfur jonsson. oddur sigurdzson ok gudmundur loptzson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe ath vær haufum sied ok yferlesit ok heÿrt yfer lesin open bref med heilum ok oskauddum hangande jnnsiglum ok suo latande ord epter ord sem hier seiger.

[Hér kemr:

1. Vitnisburðr um Hvalsnes frá 16. Dec. 1435, Dipl Isl. IV, Nr. 592;
2. Vitnisburðr um sama frá 17. Jan. 1436, Dipl. Isl. IV, Nr. 593;
3. Vitnisburðr um sama fra 10. Apr. 1436, Dipl. Isl. IV, Nr. 595;
4. Alþingisdómr um sama frá 30. Júní 1436, Dipl. Isl. IV, Nr. 599].

Ok til sanninda hier vm settum vær fyrnefndir menn vor jnnsigle firir þessi transkriptarbref er skrifut voru ᷓ Reykholum ᷓ Reykianese þridiudaginn næsta epter jonsmesso holennsis episcopi þa er lidit uar fra hingatburd vors herra jesu christi ɱ. cccc. ok lxxx ᷓra.

---

**243.** 10. Maí 1480. í Hjörsey. 27. Júní 1481. í Hvammi.

Helgi Aronsson selr Guðina Jónssyni hálfa jörðina Hjörsey fyrir jörðina Skiphyl í Krossholtsþingum, fyrir sextán hundruð og þar til átta hundruð í lausafé.

AM. Fasc. XXV, 10, frumritið á skinni. Af fimm innsiglum eru nú þrjú fyrir bréfinu.

Þat giorum uer sigurdur prestr ionson. jon sigurdzson. þorgils jonson. grimr aronson ok eilifr . . . . . . . [1]) godum monnum uitrlegt med þessu norn opnu brefi. æ miduikudaginn næsta fyrer nppstigningardag. þa er lidit nar fra hinngatburd uors heʀa jhesu christi. ꝳ. cccc. ok lxxx aʀa j herseẏ fyrir mẏrum eʀ liggr j hraunhrepp norum nær j hiæ sauꝯ ok heyrdū æ ord ok handabañd þessarra manna gudina jonsonar af einne hal(f)u enn helga aronsonar af annaʀe ath suo fyrer skildu ath greindr helgi aronson sellde nefndum gudina jonsyni fẏr nefnda halfa jord herseẏ til frials forrædiss ok æfinligrar eignar uṅdan sier ok sinnm erfingium. enn uṅdeʀ adur nefndañ gudina jonson hans erfingia ok epterkomendnr. med anllum þeim gaugnum ok geduꝯ. ʀekuꝯ ok ʀenningum uantnum ok ueidestandum teiguꝯ ok taudum. tollum ok tilgiofuꝯ ok anllum þeim eignuꝯ ok uꝯmerkium er opt nefndri halfri jordu fylgeʀ ok fẏlgia hefer att ath fornu ok nẏu ok optnefndr helgi hefer fremst eigande ath ordit ath aullu tilteknu enn anngu fra. med aullu þui fie sem finnatz kynne j iordn ok æ nema laugleger keneṅdr yrde til ath laugnm. hier j mote gaf optnefndr gudine jonson tittnefndnꝯ helga aronson[2]) .v. hnñdrut ok xx med þeim fridleika. jordina skiphẏl fyrer .xvi. hundrut er liggr j hraunhrepp æ myrum j krossholltz kirkiu sokn. þar til fiaugr malnẏtu kugillde tuau gelldfiarkugillde. iij hundrut j anllum peningum. skylldu gialldaz ij kyr ok gelldfiar huñdrat ath næstuꝯ fardaugum. enn allt annat ath audruꝯ fardauguꝯ þar epter komande. uṅder batz tittnefndr gndine jonson ath suara kirkiunnar jnnstædu ath halfu ok porcio af tittnefndri jordu herseẏ upp æ xl uetr þott suo leinge hefde oreiknad uerit ok fyrnd ꝍ kirkinnne þeiʀe sem nu uar. skyllde tittnefndr helgi aronson suara laga ʀiptingum æ þrattnefndri jordu hörsey enn þrattnefndur gudine jonson hallda til laga.

samþykte adrnefndr grimur aronson þennaṅ giorning ok

---

[1]) eyða í frumbréfinu fyrir föðurnafni Eilífs, og innsigli hans er ólesandi. [2]) Svo.

jardar saulu helga aronsonar brodur sins med handabañde. suo ok eigi sidr samþýckte þrattnefndr helge aronson þa saumu jardarsaulu er optnefndr grimr aronson hafde adr sellt tittnefnduñ gudina jonsyne þrattnefnda half(a) jörd herseý.

Ok til sannenda hier uñ settum uær fyrr nefnder menn uor jnncigle fyrer þetta jardar kaupsbref skrifat j huamme j huamsueit miduikudaginn næsta fyrer petursmessu ok pals are sidar enn fyr seger.

---

**244. 12. Maí 1480. á Hólum.**

Ólafr biskup á Hólum lýsir jarðirnar Núpufell og Hnappstaði fallna undir heilaga kirkju og hennar formenn samkvæmt Eyrarlandsdómi frá 7. Júní 1479 (Nr. 202), er Árni Höskuldsson hafði rofið.

AM. Fasc. XXV, 16, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 3274.

vm arne hoskuldzson[1]).
aliktan vm Nupufell og Hnappstade ad fallnar
sie vnder Hoola domkirkiu[2]).

Vij olaf med guds nad biskup á holvm giorvm godum monnum viturligt med þess(v) vorv opnv brefi at saker þess at arne havskvldzson hefur rofit þan dom ok eigi af halldit sem dæmdur var a almenneligri prestastefnv a eyrarlandi j eyiafirdi af tolf prestvm vegna kirknanna nvpvfellz ok nappstodum vm þav kirkivgoz sem þar hafa fallit hofum vij latit beida ok krefiá kirkivgodzana fyrir badar kirkivnar j hinn sidasta eindaga ad michaelsmesv ok eigi feingit þvi holldvm vij jardernar badar nupvfell ok nappstadi fallnar vera vndir heilaga kirkiv ok hennar formenn epter þvi sem dæmt var ok at avk svo mikit lavsagooz sem kirkivgoozin erv meir enn jardernar eru dyrar til. fyrirbiodvm

---

[1]) Utan á bréfinu með forni hendi. [2]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

vij hvorivm manne at hallda þessar fyr skrifadar jardir nupufell ok nappstadi nema med vorv leyfi j moti retti heilagrar kirkiv ok þeim domi sem dande menn hafa dæmtskipum vij sira klæng einarsson vndir hlydne at lesa þetta vort bref heima a nupvfelli suo allir heyre med tveimur vottvm j fardogvm nv næst er kemur svo ok logfesta strax epter fyr nef(n)da jord nvpvfell med somum vottvm j vorv vmbodi vndir heilaga kirkiv epter þui sem logbok vottar. Vilivm vij yduart bref vm allt þetta fa seinna at þer hafit þessa vora skipan trvliga giort. Ok til sannenda hier vm settvm vij vort jncigle fyrir þetta bref er skrifat var a holvm j hialltadal fostvdagin næsta epter vppstigningardag anno domini ꟿ° cd° octogesimo.

---

## 245. 16. Maí 1480. á Hólum.

Ólafr biskup lýsir því, að hann haldi jarðirnar Núpufell og Hnappstaði með öllu því gózi, er þar fylgi, fallnar undir heilaga kirkju og hennar formenn samkvæmt Eyrarlandsdómi 7. júní 1479 (Nr. 202), er Árni Höskuldsson hafi rofið, og fyrirbýðr hverjum manni hald á þessum jörðum, nema með sínu leyfi.

AM. Fasc. XXV. 17, frumrit á skinni. Innsiglið er skorið neðan úr faldi bréfsins. AM. Apogr. 3275.

vm arne hoskuldzson[1]).

Vij olaf med gvds nad biskup a holvm giorvm godvm monnvm viturligt med þessv vorv opnv brefi at saker þess at arne havskvlldzson hefur rofit þann dom ok eigi af halldit sem dæmdvr var a almenneligri prestastefnv a eyrarlandi j eyiafirdi af xij prestvm vegna kirknanna nupvfellz ok hnappstada vm þav kirkivgooz sem þar hafa fallit hofvm vij latid beida ok krefia kirkivgoozana [fyrir badar[2]) kirkiunar j hinn sidasta eindaga at michae(l)ssmessv ok eigi feingit. þvi holld-

---

[1]) Utan á bréfinu tvívegis með fornri hendi; á seinna staðnum stendr: „arna". [2] [fyrir bodit (?), frbr.

vm vij jardernar badar nvpvfell ok hnappstadi fallna(r) vera vndir heilaga kirkiv ok hennar formenn epter þvi sem dæmt var ok at avck svo mickil lausagooz sem kirkiv gozin erv meir fallin enn jardernar erv dyrar til. fyrirbioodum vij hvorivm manne at hallda þessar fyr skrifadar jarder nupvfell ok nappstadi nema med uorv leyfi j moti retti heilagrar kirkiv ok þeim domi sem dande menn hafa dæmt. skipvm vij sira geir fvsason vndir hlydne at lesa þetta vort bref heima a hnappstodvm svo allir heyre med tveimur vot(t)vm j fardogvm nv næst er kemur svo ok logfesta strax epter fyr nefnda jord hnappstadi med somum uot(t)vm j vorv vmbodi vndir heilaga kirkiv epter þvi sem logbok vottar. vilivm vij hafa ydvart bref vm̃ allt þetta seinna at þer hafit þessa vora skipan trvliga giort. Ok til sanenda her vm heingium vij vort jncigle fyrir þetta bref er skrifat var a holum j hialltadal þridivdagin næsta epter vppstigningardag anno domini ꝏ⁰ cd⁰ octogesimo.

---

**246.** **20. Maí 1480.** **í Kaupmannahöfn (?)**

Bréf Jakobs bróður Davíðssonar til Tideka Bernharðssonar (Bernhardi) og reglubræðra hans af Luciureglu um inntekning manna í regluna.

Bisk. 2. Fol., bls. 151, skr. c. 1693; er það kopíubókin frá Hólum hin lakari, og er bréf þetta hér svo meinlega afbakað, að eingin tök eru á að leiðrétta það til hlítar, og er það því hér prentað eins og það stendr í bókinni. Lítr út fyrir, að frumrit af þessu bréfi hafi verið sent til Íslands í öndverðu og borizt í hendr Ólafi biskupi á Hólum, og hafi síðan legið þar við skjalasafn stólsins. Síðan hefir það verið fært inn í skjalabók biskupsstólsins með öðrum bréfum.

Brief Jacobs Davidssonar Daterad Anno M. D.(!) Lxxx med Einu brákudu Jnnsigle.

Honestis Deoque devotis personis Tideco Bernhardi ac consortj Suj prædilectæ Luciæ Frater Jacobus Davidis Gardianus Hassilenus in Dej filio pax continua cum Salute omnium salvatoris clementia eiusque Vicarij in eodem

Sanctissimi Sixti scilicet Pate[1]) Qvarti. nec non vestræ devotionis affectu exigente. qvod dum ad ordinem nostrum diligitis vos Speciales benefactores ad amicos ordinis nostræ[1]) ad omnia suffragia fratrem Micj commisserem fænore tenes. pro qvanta mihi ex alto datur. recipio personam vobis praticipalidem[1]) bonorum omni concedens tam post mortem qvam vita proprios die noctuque i(n) missis vicibus. Jeiuniis. orationibus. prædicationibus. Laboribus. ac aliis piis exersitijs[1]) operarj dignabitur. filius virginis benedictionis super addens in Specialj ut dum obitus vestrj fuerint. cum Christo ꝗ̃ Deo natj idem officiis fiet pro vobis qvoque fratribus nostris defunctis fierj est consvetus.

Datum Haffi anno Dominj M. CD. Lxxx in Vigilia [feste Pendedesis[2]) Gardianatus officii sub Sigillo.

---

**247.** **30. Maí 1480.** **í Felli.**

Geir prestr Vigfússon vottar, að hann hafi lesið bréf Ólafs biskups (Nr. 245) á Hnappstöðum í Eystrum-Fljótum eptir boði biskups, og síðan lögfest jörðina undir heilaga kirkju.

AM. Fasc. XXV, 18, frumritið á skinni með nokkuð bráknðu innsigli fyrir. — AM. Apogr. 3272.

vm napstadæ.

uitnisburdur um hnapstadi[3]).

Þat giore ek geir prestur vigfusson godum monnum viturligt med þessu minv opnv brefi at ek hefer lesit mins herra biskupsins opit bref vnder hans hanganda jnsigli ꝗ̃ faustvdagin j fardaugvm nv næst er var. heima ꝗ̃ hnappstavdvm j eẏstrvm fliotum epter þui þat þar vm giort vtvisar ok hann hefer mik tilskipat med ollum þeim greinvm sem̃ þar vt j standa. svo ok lavgfesta ek strax vpp ꝗ̃ stadin fyr greinda jord hnappstadi epter mins herra biskupsins

---

1) Svo. 2) [r.: festi pentecostes. 3) Utan á bréfinu með gamalli hendi.

vmbodi vnder heilaga kirkiv ok hennar formenn epter þui sem laugbok vottar fyrir tveimur vottum magnvse hallzsyne ok brandi palsyne. Ok til sannenda hier vm setta ek mitt jnsigli fyrir þetta bref er skrifat uar j felli j slettahlid a þridiudagin næsta epter de trinitate. anno domini ꝏ⁰ cd⁰ octogessimo.

---

**248.** **13. Júní 1480.** **í Miklabæ.**

Transskript af bréfum um Miklabæjarmál.

Bisk. 3. Fol., bls. 494 & 500, bréfabók frá Hólum, skr. 1641—42. — AM. Apogr. 3593, með hendi Páls Hákonarsonar.

Brieff vm mykla Bæ ȷ Blonduhlıȷd ȷ skagafıȷrdi.

Þad giorum wær Andries Ormsson. Arne Eıȷnarsson. Olafur Jonsson. og Gudmundur Jwarsson. godum monnum witurligt med þessu woru Briefui ad wier sǻum og yfferlǻsum. og einvirdiliga skodudum opiñ brief. med heilum og hangundum ȷnsiglum. so lǻtanda ord epter ord sem hier seiger. [Hér kemr:

1. Bréf frá 22. Júní 1476, Nr. 77 að framan.
2. Bréf frá 17. Febr. 1476, DI, V, Nr. 724.
3. Bréf frá 14. Febr. 1476, með niðrlagi af bréfi 9. Apr. 1476. DI, V, Nr. 723.
4. Bréf frá 13. Dec. 1479, Nr. 230 að framan].

Og til sanninda hier vm settum wær fyrr nefnder menn wor Jnsigli fyrer þessi Transskrifftar Brief er skrifud voru a myklabæ ȷ skagafyrdi ȷ Blonduhlıȷd. þridiudaginn næsta fyrer Botolffsmessu. þa er lidid war fra hingadburd wors herra Jesu Christi ꝏ. cccc. og attatýger aara.

---

**249.** **14. Júní 1480.** **í Miklabæ.**

Transskript af bréfum um Miklabæjarmál.

Bisk. 3. Fol., bls. 258 & 261, bréfabók frá Hólum, skr. 1641—42.

Þad giorum vier Andres Ormsson. Arni Einarsson. Olafur Jonsson og Gudmundur Jvarsson godum monnum viturligt med þessu voru Brefi ad vier saum og yferlásum og einvirdiliga skodudum opin bref med heilum og hangandum innsiglum so latandi ord epter ord sem hier seiger. [Hér kemr:
1. Bréf frá 27. Okt. 1474, Dipl. Isl. V, Nr. 680;
2. Bréf frá 28. Okt. 1474, Dipl. Isl. V, Nr. 681;
3. Bréf frá 16. Marts 1475, Dipl. Isl. V, Nr. 691].

Og til sanninda hier (vm̄) settum vier fyrr nefnder menn vor ȷnnsigle fẏrer þesse transskriptar Bref. er skrifud voru a Miklabæ ȷ Skagafıȷrdi ȷ Blonduhlıȷd midvıȷkudægin næsta fyrer Botolfsmessu. þa er lidid var fra hingadburd vors herra Jesu christi þusund fiogur hundrud og attatiger ára.

---

250. 16. Júní 1480. á Reykhólum.
23. Júní 1481. í Flatey.

Gunnar Jónsson fær Ingveldi Helgadóttur jörðina Auðunarstaði í Víðidal til meðferðar, og skyldi hún standa fyrir peningum þeim, er Kristín Þorsteinsdóttir átti undir Lopti Ormssyni, og hafði feingið Ingveldi til fullrar eignar, en Bólstaðarhlíð fær hann Ingveldi til fullrar eignar, svo framt sú jörð yrði eign Stepháns Loptssonar, dóttursonar Gunnars.

AM. Fasc. XXV, 15, transskript á skinni frá 11. Aug. 1495.

bref gvnars jonsonar og ȷngueldar helgadottur.

Vitnizburdur vm Audunarstadi og Bolstadahlíjd[1]).

Þath giorum vær einar brandzson. haflidi skulason. ok hauardr tumason. godum monnum kunigth med þessu voru opnv brefi. ad þar vorum vær j hia. saum ok heẏrdum á ord ok handaband þessara manna. gunars jonssonar af einne alfu. enn jnguelldar helgadottur af annari ad suo fyrir skildu. ad fyr nefndur gunnar jonsson feck adr nefndri

---

[1]) Utan á bréfinu með tveim höndum frá 17. öld, eða jafnvel 16. öld fyrri línan.

jnguelldi helgadottur jordina audunarstadi til medferdar er liggur j vididal j asgeirsáár kirkiu sokn til allz abata þar til sem hun fienge þa peninga sem kristin þorsteinsdotter moder hennar atti vnder lopti heitnvm ormsýne. enn kristin moder adr greindrar jnguelldar hafdi feingit henne til fullrar eignar ok logligrar epterkæru. hier med handlagde optnefndur gunnar jonson. þrattnefndri jnguelldi helgadottur j þessu þeirra handabandi. oss fyr nefndum monnum nær verandum jordina bolstadarhlid j suartáárdal. henne til fullrar eignar j fyr greinda skulld ok reikningsskap. suo framarlega sem þessi fyr greind jord ýrde fullkomiñ eign stefans lopztsonar erfingia loptz heitins. enn dottursonar þrattnefndz gunnars. enn tidtnefndur gunnar jonsson hafdi þa hans vmbod ad logum. for þessi giorningur fram a Reýkholum áá Reykianesi faustudagin næsta fyrir botolfsmesso. þa er lidit var fra kristburd þusund fiogur hundrut ok attatiger ara. Ok til saninda hier vm settum vær adr nefnder menn vor jncigli fyrir þetta bref er skrifad var j flateý a breidafirdi áá laugardagin fyrir jonsmessu baptista ari sidar enn fyr seiger.

---

**251.** **17. Júní 1480.** **á Hólum.**

Transskript af Núpufellsdómi.

AM. Fasc. XXIV, 2, frumritað transskript á skinni. Af 4 innsiglum er eitt dottið frá.

Þath giorum uier sira ketell grimolfsson. andres ionsson. gvdmundr jonsson ok olafur klængsson prestar godvm monnum uiturligth med þessv voru opnv brefi ath uier saum ok ýferlasvm opith bref med heilum ok oskoddvm hangañdum inciglum svo latanda ord epter ord sem hier efter skrifath stendr. [Hér kemr dómr um kirkjugózin í Núpufelli og á Hnappstöðum frá 7. Júní 1479, Nr. 202 að framan].

Ok til sannenda hier um settum uier fýr nefnder prestar vor incigli firir þetta transkriftarbref er skrifat var áá

holum j hialltadal in die botholfui abbatis. anno domini. ϻ⁰. cd. lxxx.

---

252. 18. Júní 1480. á Sjávarborg.

Runólfr Guðmundsson selr Símoni Pálssyni jörðina Skinnþúfu í Glaumbæjarþingum fyrir tuttugu hundruð í lausafé.

AM. Apogr. 3592, að því er virðist, eptir frumriti.

Þadh geÿrum vid arne þorarensson ok sigurdur ionson godum monnum vitu(r)ligt med þessu okkru opnu brefe ad þar vorum vid i hia saum ok heÿrdum a ord ok handaband þessara manna runols gudmunssonar af eirne alfu ok simunar palssonar af annare ad sua firer skildu ad fÿrnefndr runolbr sellde adrgreindum simune iordena er sua heiter skinþufa er liggur i skagafirde i glaumbæar kyrkiusokn til fulrar eignar med ollum þeim gognum ok gædum sem greindre iordu filger ok fÿlt hefur ad fornu ok nÿu ok hann vard fremst eigande ad. skÿllde titt nefndr simun gefa adr greindum runulbe vid fyrnefndre iordu xx. hundrud i fridum peningum ok friduirdum. skÿlde simun hallda iordune til laga en þrattnefndr runolbur suara lagariftingu. for þesse gerningur fram a siofuarborg i skagafirde sunnudagin næsta firer ionsmessu babtista þa lidit var fra hingadburd vors herra ihesu kristi. ϻ⁰ cccc lxxx. Ok til saninda hier vm settum vid fir skrifader menn vor insigli firer þetta iardarkaups bref er gertt var i sama stad dege ok are sem fir seiger.

---

253. 18. Júní 1480. í Saurbæ á Rauðasandi.

Bjarni Þórarinsson kvittar séra Jón Gíslason fyrir andvirði Hrauns í Dýrafirði.

AM. Fasc. XXXVII, 7, transskript á skinni 1504.

Þad giori eg biarni þorarinsson godvm monnum kvnn-

igt med þessv minv opnv brefi ath eg medkenumz ath eg hefi suo marga peninga upp borit af sera joni gislasyni fyrir jordina hravn er ligur j kelldudal i dýrafirdi sem mier vel anæger upp a mina vegna og minar konu vegna og þui giorer eg fyrgreindan sera joñ ollvngis kuittan og akiærvlavsan vm adr greinda jord fyrir mier og avllum minum rettum eptter komendum. Og til sanninda hier vm setta eg mitt jncigli fyrir þetta kuittunarbref skrifat j saurbæ a raudasandi svnnudagin næsta fyrir jonsmessv baptista þa lidit var fra hingatbvrd wors herra jesv christi ꝏ.° cccc. og atta tiger ara.

---

**254.** **[1480].**

Máldagi Stafholtskirkju í Stafholtstungum.

Landsbókasafn 108. 4to, bls. 446—449 (máldagasafn séra Jóns Halldórssonar í Hitardal; þetta er þó ekki með hans hendi, heldr þeirri hendinni, sem mun vera Finns biskups í föðurgarði). Sbr. DI, I, Nr. 28.

Stafhollts kýrkiu gamall Maldage.

[Steirn prestur Þorvalldsson[1]) sette fyrst Beneficium Stafhollt og gaf til kyrkiunnar sem þesse Maldage innehelldur og giörde sialfur þennann Mắldaga.

Jtem þắ lắ Hiardarhollt med sinne sokn under Stafhollt allt til þess ad biskup Thorlakur sette kyrkiu i Hiardarhollte og þessa bæe þar til. Vijdelæk. Eijnufell. Höll. Lækiarkot. Spőamýre. Steinar. Luudur. Kadalstader og Backakot.

Kyrkiañ j Stafhollte ắ heimaland allt med gögnum og giædum. Þessar jarder i heimalande. Svarfhől. Biargastein. Hofstadi. Skőga. Laxhollt. Eingenes ắ Ströndum og Reka med. afriett j Vesturắrdal. middalsmula. biarnardal allann firir framan mælefellsgil. afriett i bodzbiargardal[2]). Hrijsey ắ Roduvatne. Ey vid Hvijtắ sem Þverarþijng stendur j. Þræley sudur frắ Bilshömrum. Selför ắ Þverắrdal upp frắ

---

[1]) [Svo. [2]) „forte Hrobiargardal" á spázíu.

Kvijum. þriá hlute veidar i þverá. enn feriubacka kirkia fiordung(.) kerveide i laxfosse i nordurá. sem kallad er Niculasskier.

Jtem Skogarhollt i Skardstungu þad kallad (er) Kyrkiuhollt og kyrckiutijunder af xiiij bæum og xx.

J Hiardarhollte. j Skarde. j Eskhollti skal hafa heimatijund. Enn ur Galltarhollti skal giallda vj aura voru á hveriu áre.

---

255. 27. Júní 1480. á prestastefnu.

Dómr sex presta, útnefndr á prestastefnu af Magnúsi biskupi Eyjólfssyni, um máldaga og bréf Hjarðarholtskirkju og Stafholtskirkju í Stafholtstungum.

Landsbókasafn 101. 4to, bls. 366—367, með hendi séra Jóns Halldórssonar í Hitardal: „NB Guðmundur sálugi Árnason, skýr og skynsamur maður, sem leingi var lögréttumaður í Þverárþingi, vottar með sinni handskript, að Deildartungu Anno 1666 d. 22. Martij, að þessi dómur hafi þá hjá sér verið“.

Um máldaga dómur í millum Hjarðarholts og Stafholts kirkna, Magnúsar biskups. Anno 1480.

Öllum mönnum, sem þetta bréf sjá eður heyra senda Þorbjörn prestur Ámundason, Pétur Þórðarson, Arni Þorsteinsson, Rafn Gilsson, Sveinn Jónsson og Jón Þorsteinsson prestar Skálholtsbiskupsdæmis kveðju guðs og sína kunnugt gerandi með þessu voru opnu bréfi, að þá liðið var frá hingaðburð vors herra Jesu Christi 1480 ára vorum vér í dóm nefndir af virðuglegum herra og andlegum föður Magnúsi með guðs náð biskupi í Skálholti á þriðjudaginn næstan fyrir Pétursmessu og Páls á almennilegri prestastefnu að skoða, rannsaka og dæma um þau bréf, er lágu fyrir kirkjunum Stafholts og Hjarðarholts, hvorrar skilríki skjallegri væri, um þá fimm bæi, er ýmsar kirkjurnar höfðu tíundir af tekið, Stafholtskirkja og Hjarðarholtskirkja, er svo heita Steinar, Lundar, Kaðalstaðir, Bakki og Einifell. Nú sakir

þess, að Hjarðarholtskirkja hafði fyrir sér gamlan máldaga, er sancte Thorlákur hafði gera látið, og þar til styrkingarbréf biskups Jóns kranba[1]), góðrar minningar, Skálholtsbiskupsdæmis, og þriggja annarra biskupa, er styrktu og staðfestu þennan sama máldaga og bréf með sínum bréfum.

Í annarri grein kom þar fram bréf biskups Matthesar[2]), er þá var lénsbiskup heilagrar Skálholtskirkju. Kom þar og fram officialsbréf ábóta Steinmóðar, er dæma hafði látið Stafholltskirkju til halds, þar til eignarbiskup kæmi til, og gerði aðra skikkun á eður lagaveg um áðurgreinda bæi og tíundir af þeim. Því dæmdum vær fyrrnefndir prestar öll þau bréf, sem Stafholtskirkja hefði að halda, öldungis ónýt og aungva makt hafa. En Hjarðarholtskirkju máldaga og bréf gerðum vér stauðug[3]) og óbrigðuleg eptir öllum greinum og articulis, sem þar út í stendur.

Jtem í þriðju grein kom þar fram transcriptarbréf út af bréfi biskups Jóns Stephánssonar, er var eiginbiskup í Skálholti, svo látandi, að hann skipaði aptur tíundir af optskrifuðum jörðum til Hjarðarholtskirkju. Var fyrir það skrifaður ábóti Haldór og síra Finnur Magnússon. Því dæmdum vér optskrifaðir menn síra Finn skyldugan að sverja eptir sínu innsigli eptir því sem transcriptarbréfið útvísar. Að unnum eiðnum dæmdum vér síra Odd Pétursson skyldugan að gjalda kirkjunni í Hjarðarholti slíkar tíundir og lýsitolla, presttíundir og kirkjutíundir, slíkar sem fallið hefði síðan hann tók Stafholts stað, en ef síra Finnur sværi ekki, þá skyldi síra Oddur kvittur við Hjarðarholtskirkju um þær tíundir, sem hann hefði meðtekið þar til.

Samþykti þennan vorn dóm með oss virðuglegur herra og andalegur faðir herra Magnús með guðs náð biskup í Skálholti.

Og til sanninda hér um.

---

[1]) „mun eiga að lesast *krabba*, sem var auknefni Jóns biskups Stephánssonar“ (séra Jón á spázíu). [2]) Þ. e. Mattheusar. [3]) standug. hdr.

256. 30. Júní 1480. á Öxarárþingi.

Tylftardómr útnefndr á Öxarárþingi af Hrafni lögmanni Brandssyni um vígsmál Þorsteins Finnssonar, er í hel hafði slegið Ingimund (Önund) Jónsson.

Dómabók, sem átt hefir Jón Hákonarson á Vatnshorni (d. 1748), skr. c. 1608 (= *a*). — AM. 211c. 4to, bls. 171—72, skr. c. 1700 (ártal hér 1580! = *b*); dálítið önnur röð á nöfnum dómsmanna, felt niðr sumt og vikið við mörgu.

Domur vm viglysing.

Þat giaurum vær Oddur petursson[1]). Gunnar Jonsson. Steffan Þorarinsson. Gudmundr Stephansson. Bessi kollason. Ketill teitsson. olafur þoruardzson[2]). Jon Þorsteinsson. olafur sueirnsson. þordur audunar[3])son. þorualldur jonsson og þorleifur[4]) Gunnsteinsson. Godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi ad [uær medkiennvnst. þa er lidit var fra hingad Burd vors herra Jhesu christi þushuñd og iiijc og lxxx ar[5]) á faustudæginn næstañ eptir pieturs messo og pals. a almenniligu avxxararþingi. vorum vær j dom nefndir af ærlegum manni Hrafni Brandzsyni. laugmanni nordan og vestan á Jslandi. ad skoda og dæma vm þa viglysing sem þar kom fram̃ og adur hafdi suarit[6]) verit. at Þorsteinn Finnsson[7]) hafdi oforsyniu j hel sleigit Jngimund[8]) Jonsson. Suo og eigi sıȷdur vm vigsbætur huorsu hafar vera skylldu. Epter fyrnefndañ Jngimund Jonsson. og enn hier til huort vegandinn skylldi vera feriandi edur eij.

J fyrstum dæmdum (vær) viglysingina laugliga j allañ mata. Enn hæd á vigsbotum dæmdum vier xx hundrud. med suo ordnum saulum og fridleika. sem hier eptir skrifad stendur.

Nu fyrstu saul jnnañ manadar heim(a) j Bæ j Borgarfirdi. þriu hundrud med suo ordnum fridleika [sem hier er effter skrifad[9]). j huoriu sem golldit væri.

---

[1]) *b*; prestur *a*(!) [2]) þorarensson, *b*. [3]) gudnason, *b*. [4]) þorlakur, *b*. [5]) [arum effter gudz burd 1580(!), *b*. [6]) suareñ, *b*. [7]) Jonsson, *a* (hér). [8]) Aunund, *a* (hér). [9]) [b. v. *b*.

viij stykur klædis fyrer hundrad. edur[1]) ij aurar silfurs fyrer hundrad smidat edur osmidat.

tuær vodir fyrer hundrad.

xuiij fiordungar miols fyrer j^c^.

Tiu stikur liereptz fyrer j^c^. tueggia alna breitt.

hundrad ıarns fyrer j^c^. Eda adra peninga þessum ıafngoda.

afhendi pietri ıonssyni þessi fyrskrifud þriu hundrud edur hans laugligum vmbodzmanni. Enn ef [sa er þar einginn[2]). skiliest uid med Riettu þar heima j gardinn med tueimur vottum.

Aunnur saul j haust heima j liarskogum ꝏ heimili finz pieturssonar ij^c^ [3]).

[þri(di)u at uori fimm hundrud[4]).

fiordu at audru hausti fimm hundrud. allt med sama fridleika og enu fyrstu og gialldist aull heima ȷ liaskogum ȷ fullum aurum. Nu sakir þess ad þad syndist þar ad grid voru selld af laugligum Erfingia og j Borgan geingit vm vigſsbætur. og þui dæmdum vier þennañ sama mann. þorstein finnzson[5]). laugliga feriandi til mīns herra kongsins nada.

Og til sanninda hier (vm) setium vier fyrnefndir domsmenn vor ȷnnsigli fyrer þetta domsbref skrijfad ȷ sama stad og are deigi sijdar enn fyrr seigir.

---

**257. 1. Júlí 1480. á Öxarárþingi.**

Hrafn lögmaðr Brandsson samþykkir alþingisdóm um vígsmál Þorsteins Finnssonar, er í hel hafði slegið Ingimund (Önund) Jónsson (Nr. 256).

Dómabók, sem átt hefir Jón Hákonarson á Vatnshorni (d. 1748), í 4to, skr. c. 1608.

---

[1]) og, *b.* [2]) [hann er þar eıȷ, *b.* [3]) 7c, *b.* [4]) [Enn iijc hundrud ad vore, *b.* [5]) Þorsteinn *Finnsson* (*ekki* Jónsson) mun vera hér hið rétta; Þorsteinn hefir verið sonr Finns Pétrssonar í Ljáskógum, og bróðir Arnórs, Ingimundar og Guðmundar föður Daða. En Ingimundr (eða Önundr), sem veginn var, hefir verið bróðir Pétrs Jónssonar í Bæ.

Þad giori eg Hrafn Brandzson Laugman nordan og vestan á Jslandi. Godum monnum viturligt med þessu minu opnu brefi ad eg medkiennvnst ad ec hefi samþykt þennañ sama dom sem hier er medfestur þessu minu brefi staudngañ og laugligañ med aullum sinnm greinum og Articulis sem hann vtvijsar. Og til sanninda hier vm setta eg mitt Jnnsigli fyrer þetta mitt samþycktarbref. Er skrifad uar á þingvelli at Auxará laugardæginn næsta eptir pieturs messo og pals þa er lidit var fra hingatburd vors herra Jhesu christi m. cccc. og lxxx ara.

---

258. **1. Júlí 1480.** **á Öxarárþingi.**

Skipti á peningum Guðmundar Arasonar á Reykhólum, gerð á alþingi samkvæmt skipunarbréfi Kristjáns konnngs hins fyrsta sendu til Íslands með Bjarna Þórarinssyni, og þykir konungi þeir peningar, er Björn Þorleifsson og hústrú Ólof keyptn af þessn fé, hafa verið meira verðir en þeir hafi verið keyptir, og hafi verið óréttilega fyrir sig flutt um þetta peningakaup.

JSig. 308. 8vo, með hendi séra Ásgeirs Bjarnasonar 1778.

Skipta Bref æ peningum Gudmundar Arasonar epter kongsins Skipan.

Þad giörum vier Olafur med Guds naad Bisknp a holum. Brodir Steinmodur abóte i Videy. Broder halldor abóte á helgafelle. Doctor Hans Sudurmann. Ejolfur Einarsson lögmann firir sunnañ og austañ á Jslandi. Rafn Brandsson lögmann firir nordan og vestan á Jslandi. Þorsteinn Arnason. Oddur Petursson. halldor hákonarson. Ejolfur hialltason. Nichulas Gunnarson og Stephan Þorarinsson lögriettumenn godum mönnum knnnugt med þessu voru opnu brefe. ad vær höfum skodad þad Bref sem vor nadugi herra kong Kristian sendi hingad til landsins med Biarna Þorarinssyne svo latandi ad minn herra kongurenn skipadi Magnuse Biskup i Skalhollte og Didrich Pining hirdstióra yfer Jslandi ad kalla til med sier xij Jslendska menn til ad reikna

yfir og sundur skiffta i iij Deil[1]) allt þad gots og peninga fasta og lausa sem Gudmundur heitenn Arason hafde ått og forbroted. og Biörn Þorleifsson og ħustru Olöf. sem gud þeirra sål hafe. haufdu ad sier teked og einn Deil af keiffte og mijns ħerra nåd þötte i sijnu Brefe. at orietteliga firir sig være flutt. um þetta peninga·kaup. þvi ad þesser peningar voru ytar meira verder. enn þeir voru keiptir. fyrer þvi hofum vær giört eptir vors ħerra kongsins skipan og sundurreiknad firrgreinda peninga effter þvi sem vitnisburder fram̄ komu af tveimur skilrijkum vottum Odde Magnussyne og Markuse Pieturssine sem þeir baru vitni um. ad Gudmundur hafe sag(z)t tijunda þad sama haust sem peningarner voru tekner 50c hundrada. fiellu þå Solveigu Gudmundardottur til Erfda effter modur sijna ħelgu heitina Þorleifsdottur xxc hundrada og vc hundrada. enn efftir faudur hennar halfft xiijc hundrada enn annad xiijc hundrada þad sem Gudmundur heitinn hafdi forbroted möt krununni. reiknudum vær i sundur i iij stadi. kom þå i mijns ħerra kongsins part iiijc hundrada og xxc og somuleidis i hvern hinna partinn. sem hafa åttu erfingiar Biarnar b(onda) Þorleifssonar oc hustrúr Olufar oc Solveigar Gudmundardottur. ħier med samþicktum vær ad Dydrych pijning skilldi bidiast afhendingar af Þorleife Biörnssyne og Einare Biornssyne a adurgreindum peningum edur låta beidast. enn ef þeir vilia ei afhenda epter mijns ħerra kongsins skipan. þå take firnefndur Didrich pyning edur hans umbodsmadur ad sier med vj skinsamra manna yfersiön og afhendi hvörium sitt.

Samþickte Biskup Magnus i Skalhollti og Didrich pijning þennan̄ vorn giörning med oss.

Og til meire sanninda hier um settu þeir syn ynncigle med vorum ynnciglum fyrer þetta Bref. er skrifad var å Auxarærþingi laugardaginn næstan̄ eptir Petursmesso og Pauls. eptir Gudz Burd ∞ cccc og lxxx årum.

---

[1]) Svo.

259. **1. Júlí 1480. á Öxarárþingi.**

Tylftardómr, útnefndr á Öxarárþingi af Hrafni lögmanni Brandssyni, um kaupmálabréf Lopts Ormssonar og Gunnhildar Pétrsdóttur (frá 4. Febr. 1470, DI. V, Nr. 501).

Eptir skjalabók úr safni Jóns báyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600, í transskripti frá 4. Aug. 1480. — AM. 252. 4to, bls. 41—43, með hendi Jóns Steindórssonar á Knerri c. 1660 eptir sama transskr. ófullkomnu. Sbr. AM. 430. 4to, bls. 1—3. AM. Apogr. 1581.

Brief vm̄ peninga Hustrur Gunnilldar pieturzdottur.

Ollum monnum sem þetta brief sia ednr heyra senda Fimboge Jonsson. Stulle Magnusson. Jon Sugurdsson[1]). Einar Magnusson. Magnns Magnnsson. Finnnr Steindorsson. Hoskolldnr Einarsson. Biarne Olason[2]). Kolle Magnusson. Þorgrijmur Þorfinsson. Þordur Audunarson[3]) og Sniolfur Brandsson Quedin gudz og sijna kunnugtt giorandi. þa er lijdit var fra hingadburde [vorz herra Christi[4]) [ꝏ cccc og lxxx[5]) ǘra. laugardaginn næstan̄ epter pieturz messo ǘ Almenneligu oxararþinge[6]). vorum vier j dom nefnder af ærligum manne Hrafne Logmanne nordan̄ og vestan̄ a Jslande. ad skoda ʀansaka og yfer ad dæma þeim briefum og skilrijkium. er Sugnrdur Dadason vm̄bodzmann[7]) gunnhilldar Pietursdottur þar fram̄ lagdi og domz a beiddist vm̄ þann skilmǘla. og skildaga sem gior hafde verid j millum Loptz heitinz Ormssonar og fyrnefndrar Hnstru[8]) Gunnhilldar Pietursdotter. j þeirra giptarmǘlum[9]) huortt er Hwstru Gunnhilldnr greind skillde helldur eiga helmings fielag eda þa motgǘfu sem til hennar var giefin og þad brief vtvijsar er þar fram̄ kom sem vottar vppa xx merkur gwllz. Stod og so j sama briefe ad Hustrū Gnnnhilldur skilldi kiosa mega epter Loptt andadan̄ huortt er hun villde [wr hanz garde[10]) helmingzfielag. ednr þa motgǘfu sem fir skriffad stendur.

---

1) Sigurdzson 252. 2) Olaffsson (!) 252. 3) Ødunarson 252; Aunundarson 858 (!) 4) [252; Christz 858. 5) [252; 1480, 858. 6) 252; oxarþinge 858. 7) — madur 252. 8) husfrur 252. 9) gifftijngarmalum 252. 10) [sl. 252.

komu þesse kior hennar þar [ecki[1]) fram̄ fyrir oss. Enn so sannar vor Landzlagabok ad hier ǻ lande skal eigi giefast mey edur konu meire thilgiof enn lxc. Nu saker þess ad greindur skildægie. giorningur og gifftumǻl foru fram̄ ǻ Helgalande[2]) j Noreigie. enn eigi hier a Jslandi þui dæmdum vier fyrrnefnder domzmenn H(ustru) Gunnhillde Pietursdottur thil fullrar eignar af peningum Lopts heitinz Ormssonar þeim sem epter hann fiellu. alla þa medgǻfu[3]) j sijna thilgiof. so haafa og so mickla sem su landz laga bok vt uijsar. er þar yfer geingur epter Riettum Noregz lögum ad giefast ǻ j logligum giptumǻlum og thittnefndur Loptur matte[4]) þa[5]) framast ad logum giefa. skilldu þesser peningar kiærast og sækiast af vm̄bodzmanne optnefndrar Hwstrur Gunnhilldar Pieturzdottur j vestfirdingafiordunge ǻ Jslande af loglignm Erfingium Lopttz heitinz Ormssonar edur hanz[6]) vm̄bodzmanne.

Og thil sanninda hier vm̄ setium vier fyrrnefnder menn vor ȷnsigle [fyrir þetta domzbrief giortt og skrifad sama stad og ǻre degie sȷjdar enn fir seigier[7]).

---

**260.** **2. Júlí 1480.** **á Þingvelli.**

Tylftardómr, útnefndr af Hrafni lögmanni Brandssyni á Öxarárþingi um umboð það, er hústrú Gunnhildr Pétrsdótt-

---

1) [sl. 252. 2) Halogalande 252. 3) Svo 858; motgaffu 252. 4) mætte 252. 5) þar 252. 6) Svo bæði. 7) [hier vnder 252. — Þ. e. 2. Júli. Aptan við þenna dóm stendr í AM. 252. 4to, (sbr. AM. 430. 4to, bls. 3) svo látandi grein: „Eptir þetta dæmir ráðið í Noregi að gjöfin skuli standa, því fríborið fólk megi vel gefa svo mikið. Þá gjalda erfingjar Lopts Ormssonar hennar umboðsmanni Sigurði Daðasyni í þessa gjöf hálfa þriðju jörð, er svo heita: Munaðarnes og Fell, er liggr í Trégillisvík í Árneskirkjusókn fyrir xxviijc og hálft Þverfell, er liggr í Saurbæ í Staðarhólskirkjusókn fyrir xijc og hálfa sölvafjörn í Saurbæ fyrir xxc. Eptir það selr Sigurðr Daðason Munaðarnes ábóta Haldóri á Helgafelli (fyrir) xxc í lausafé, kviku og dauðu. Datum þess bréfs er M cccc. lxxxij“. En þetta er ágrip eitt af bréfum frá 24/3 1481, 30/4 1481, 27/10 1481, 9/5 1482.

ir hafði gefið Helga Ísleifssyni til þess að kjósa henni umboðsmann á Íslandi.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar. Framan við þetta bréf stendr svo látandi bréfs upphaf, sem aldrei hefir verið ritað niðrlag að: „Þad giorum vier Magnus Halldorsson. Skwle þordarson och stulle Halldorsson godum monnum kunnugtt med þessu voro opnu brefe ad vier hofum sied och yferlesid bref þessara dandissmanna och Thranskrifttabref sem hier epter standa skrifut med heilum og oskoddudum hanganda Jnsiglum so latande ord epter ord sem hier segier". Í þessu transskr. hefir auk þessa bréfs verið bréf um þessi mál frá 24. Marts 1481, frá 25. Marts 1481, kaupmálabréf frá 4. Febr. 1470 í transskr. 25. Júní 1478, og ef til vill fleiri.

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda Oddur Pietursson. Jon Sugurdsson. finnur pieturson. Olafur Þorvardsson. Jon Þorsteinsson. Gijsle Magnusson. Þorlakur Suartsson. Biarne Olason. Hoskolldur Arnason. Hoskolldur Einarsson. Þorsteinn Gudmundsson. Magnus Magnusson kuediu gudz og sijna. kunnugtt giorandi ad þa lidid var fra hingatburd vorz herra 1480 ára á almenneligu oxarárþinge vorum vier j dom nefnder af Erligum manne herra hrafne Logmanne nordan og westan a Jslande. ad skoda og Ransaka huortt afl edur magtt hafa skilldi þad sama vmbod sem hwstru Gunnhilldur hafdi gefid Helga Jsleifssyne ad hann skilldi mega kiosa þann mann thil hennar vmbodz j Jsland sem hann villdi. ef Hraffn Brandsson villdi þad eigi hafa. vm þann skilmala edur kaupmála sem fram hafdi farid mille Lopttz heitinz Ormssonar og hennar. vm hennar thilgiof. nu af þui oss leist þad sama vmbod logligtt sem firnefnd Gunnhilldur hafdi feingid áadurgreindum Helga Jsleifssyne j alla stade. Och þui dæmdum vier firnefnder domzmenn hann ad fullu og ad frialsu meiga fá huorium hennar vmbod sem hann villde frialsum manne og fulltijda þar jnnan fiordungz sem Erfingie situr. edur hennar logligur vmbodzmadur. þann sem fullar vordslur hefur. so peningurinn mætti ad skilum fara sem hann medtekur. og til sanninda hier vm setium vier firgreinder domzmenn vor Jn-

sigle fyrir þetta domzbref. skrifat a þingvelle sunnudaginn næstañ epter pieturz messo og pa̋lz 1480.

---

261. 2. Júlí 1480. á Öxarárþingi.
23. Janúar 1481. á Helgafelli.

Þorleifr Þórólfsson fær Einari Þórólfssyni bróður sínum þann part, sem hann átti í Brimilsvöllum milli Ennis og Höfða og hafði erft eptir Ástríði Sæmundardóttur móður sína, og þar með þrjú kúgildi, er hann átti undir Ásgrími Þórólfssyni bróður sínum, og kvittar Einar um andvirði alls þessa.

Eptir afskript staðfestri 27. Júní 1703 á Reykhólum af Gísla Jónssyni og Einari Oddssyni, og rituðu þeir eptir frumritinu á „pergamenti“.

Þad giorum̄ uær Einar Oddsſon. Asmundur Jőnsson og Magnus Oddsson gődum monnum̄ kunnugt med þessu voru opnu brefi a̋ sunnudagienn næsta epter Petursmessu og Pa̋ls a̋ almennu settu Augsara̋rþinge þa̋ ed lidid var fra̋ hingadburd vors Herra Jesu Christi þushund fiogur hundrud og a̋ttatyger a̋ra. Vorum̄ vær j hia̋ sa̋um og heyrdum̄ a̋ ord og handaband þessara manna Einars Þőrőlfssonar af eıȷrnre a̋lffu og Þorleıȷffs Þőrolfssonar Brődur hañs af annare ad svo firer skilldu ad firrneffndur Þorleıȷffur Þőrőlfsson fieck Einare Þőrőlffssine til ævenligrar eıȷgnar undañ sier og sinum̄ erffingium̄. enn under hann og hañs erffingia þann ȷardarpart sem hann a̋tti ij Brimilsvollum̄ er liggur ij millum̄ Hoffda og Ennes ij Frőda̋r kirkiu sőkn og honum̄ fiell til erffda effter Astrıȷde Sæmundardőttur mődur sina. og svo part Asgrims Brődur sins ij greindre ȷordunne Brimilsvollum̄. fieck og a̋durgreindur Þorleiffur iij kugillde Einare Þőrőlffssine þad sem hann a̋tti under Asgrimi Þőrőlfssine Brődur þeirra til fullrar eıȷgnar med ollum̄ laga a̋vexte er staded hofdu um̄ fimm a̋r. Ef firrgreindur Asgrimur villde ecke þennañ giorning samþickia upp a̋ sinna vegna. Þad kiendest og Þorleiffur Þőrőlffsson a̋ einu vet-

fānge og ij einu sama handabande ad hann heffde fulla og alla peninga upp bored ā sinna vegna og offtnefnds Asgrims brōdur sins aff ādurgreindum̄ Einare Þōrolfssine svo ad honum̄ vel ānægde firer þessa ādurgreinda ȷardarparta.

Og til sanninda hier um̄ settum̄ vær firrneffnder menn vor innsigle firer þetta ȷardarkaupsbrieff skriffad ā Helgafelle ij Helgafellssveȷt þridiudaginn næsta firer Pālsmessu um veturinn āre sidar enn fyrr seger.

---

**262.** **4. Júlí 1480.** **á Lundi.**

Dómr, útnefndr á Öxarárþingi 3. Júlí af Þorleifi (hirðstjóra) Björnssyni, um arf þess barns, er maðr á í útlegð með eiginkonu sinni, og deyr móðir barnsins síðan áðr en faðir þess fær nokkra kvittan af konginum.

Dómabók Jóns landritara Magnússonar, í Fol., bl. 228—229, skr. 1604. — Landsbókasafn 115. 4to, I, 134—135, með hendi séra Jóns Haldórssonar í Hitardal c. 1730; þar með fylgir þessi athugasemd á spássíu: „Hirdstioradomur synest hlioda upp a arf Solveigar Gudmundsdottur effter modur sijna Helgu Þorleifsdottur fódursystur Þorleifs hirdstiora og synest effterfylgiande domur[1]) þessum motstædur og eru sömu domzmenn i badum domnnum". Dómr þessi mun því athugaverðr, og jafnvel hinn dómrinn líka. Afskript af 115. 4to, er í ÍBfél. 126. 4to, bls. 160—161. Ýmsar afskriptir fleiri eru og hér og hvar í skjalabókum af dómi þessum, og eru hér enn framar hafðar af þeim til hliðsjónar afskriptir í Ny kgl. saml. 1945. 4to, bl. 122b, með hendi Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði 1666 (dómsmenn sömu, en röð nafnanna önnur en hér) og MSteph. 61. 4to, bls. 127, skr. c. 1660 (nöfn nokknð afböknð). Það er athugavert að dómsmenn eru hér 13, en ekki 12, sé það ekki afskriptaglöp.

Domur um arftauku þess Barns sem gietid er ȷ vtlegd.

Þad giorum wier Eigill Grijmsson. Jon Biornssou. gijsle philippusson. Sigurdur dadason. finnbogi Jonsson. Þorlakur Þorkelsson. finnur pieturson. Þorsteirn̄ Jonsson. Jngimundur finnsson. Þordur Audunarson. Arnfinnur Jonzson. Arnor finnsson. narfi þorvalldzson godum monnum kunnigt med

---

[1]) Þ. e. dómr Finnboga lögmanns Jónssonar 30. Júní 1501.

þessu woru opnu[1]) brefi ad þa er lidit war fra hingadburd wors herra jesu christi ꝏ cccc lxxx ára æ manudaginn næstan epter pietursmesso [á almennelegu Oxarárþinge[2]) [um sumarid[3]). worum wier j dom nefnder af ærligum manni Þorleifi Biornssyni ad skoda og rannsaka vm þad ef madur æ barn med eiginkonu sinni j utlegd og deyr moderinn sijdan fyrr enn faderinn fær nockra kuijttun af konginum.

Nu saker þess ad R(ettar) B(ot) wirduligs herra E(ireks) k(ongs) Magnussonar so vtuijsar ad þad sama barn sem j utlegd er getid skal huerki taka arf epter fodur nie modur nema hann werdi jlendur sijdan. og þui kunnu wier eij betur ad skijlia edur uita. enn þeir somu peningar sem moder fyrrskrifadz barns atti fielli til erfda hinum nanustu frændum hennar epter riettu erfdatali [og fyrgreindur arfur fiell undan þeim. ádur enn nockur kuijttan feingist af kongdominum[4]).

Og til sanninda [hier um settum wier fyrrgreinder menn wor jncigli fyrir þetta bref er giaurt war æ lundi j lundareykiadal æ sama ári deigi sijdar enn fyrr seiger[5]).

---

**263. 4. Júlí 1480. á Lundi.**

Þorleifr Björnsson fær Gísla Filippussyni jörðina Sauðlauksdal í Patreksfirði og kvittar hann um andvirðið.

AM. Apogr. 1324, eptir Sauðlauksdalsbréfum 1726, „accuratè collatum“ við frumritið.

Þat giore egh þolleifur biornsson godum monnum kunigth med þessu minu opnu brefi ath egh hefi feingit gisla filipussyne jordina saudlaugsdal i patrexfirdi er ligur (j) saurbæiar kirkiusokn med ollum þeim gognum ogh gædum er greindre jordu fyllger ogh fylgt hefur at fornu ogh nyu og egh uard fremzt eigandi ath. Suo ogh medkenunz eg fyr

---

[1]) b. v. 115. [2]) [b. v. 115. [3]) [JM., 1945, 61; sl. 115; dagsetning þessi er 3. Júlí. [4]) [sl. 61. [5]) [JM., 1945; et cetera 115, 61.

nefndur þolleifur at eg hefi fulla peninga upp borit ogh alla af adrnefndum gisla suo mier uel anæger fyrir adrgreinda jord. Ogh þui gefr egh opthnefndur þolleifur bio(r)nzson þrattnefndan gisla filipusson ollungis kuittan ogh akærulausan fyrir mer ogh minum logligum erfingium (ogh) epterkomendum um adr greinda iord ogh iardar uerd. skal hann þessa jord at ser taka ath næstu fardogum til freials forrædis ogh æfinligrar eignar. Ogh til saninda hier um setti eg mitt jnsigle fyrir þetta jardarbref ogh kuittunar er skrifad uar a lundi j lundareykiadal þridiudagin næsta epter petursmesso ogh pals. þa er lidit uar (fra) hingatburd uors hera jhesu christi. m. cccc ogh lxxx ara.

---

## 264. 4. Júlí 1480. á Lundi.

Tuttugu og fjórir sýslumenn og lögréttumenn norðan og vestan á Íslandi rita Kristjáni konungi hinum fyrsta bréf um kvartanir þær, sem verið hafi á alþingi um vetrsetur útlendra manna og verzlan, því að þeim þyki lögmennirnir sljóir í að rita til konungs um lagaleysið í landinu og hvað almúgann stendr, og biðja þeir um styrkingarbréf um þetta efni með Þorleifi Björnssyni.

Jón Sigurðsson hefir af ásettu ráði í Safni II, 180 heimfært þetta bréf til 1479 þvert ofan í handritin, og byggir hann það á tvennn (Safn II, 89). Í fyrsta lagi á því, að konnngsbréfið, er svarar þessu bréfi, sé gefið út í Kaupmannahöfn vorið 1480, og svo árfærir hann það bréf í Lagasafni handa Íslandi I, 37—38, og setr, að það sé frá 30. Apr. það ár. Sannar hann þar með því, sem fyrst þnrfti að sanna, því að það fer einmitt tvennnm sögnnum um ártal þess konungsbréfs, og telja merkar heimildir það dagsett 20. Maí 1481, svo að ekki er hægt með því að fella það hiklaust, að þetta bréf Íslendinga sé frá sumrinu 1480, eins og öll handritin segja. Hitt væri sanni nær, að samhljóða sögn handritanna um ártal þessa brèfs (1480) styddi það, að konungsbréfið væri frá 1481. Í öðru lagi byggir Jón á því, að Eyjólfr Einarsson hafi verið lögmaðr orðinu 1480, því að 10. August gefr hann sem lögmaðr út úrskurð það ár, og hins vegar sé hér í bréfinu Oddr Ásmnndsson kallaðr lögmaðr. En á þessu er ekkert hægt að byggja um ártalið, og ekki einu sinni það, að Oddr hafi verið lögmaðr 1479, sem Jón Signrðsson þó gerir (Safn II, 89), því að þar sem Oddr er nefndr í bréfi þessu'

er það svo að skilja, að hann og Brandr lögmaðr Jónsson, sem ekki var lögmaðr leingr en til 1478, svo menn viti, hafi fyrir nokkrum árum gert samþykt um vetrarlegnmenn útlenda, en sú samþykt sé nú ekki og hafi ekki verið haldin (sbr. og Safn II, 656). Eins og Guðmundr Þorláksson tekr fram í Safni, voru þeir Hrafn Brandsson og Einar Eyjólfsson einmitt lögmenn þetta ár 1480. En með þeim og Þorleifi Björnssyni, sem var hinn mesti vinr beggja biskupanna, stóðst alt í odda, enda er hvorugr lögmanna við þetta bréf, sem þó hefði verið sjálfsagt, ef ekki stæði sérstaklega á. Þegar gáð er að hverir það eru, sem gefa bréfið út, þá er það fljótséð, að það eru nær eintómir Vestfirðingar og alt venzlamenn eða vinir Þorleifs. Er því skjal þetta eitt af gögnum þeim, sem Þorleifr hefir ætlað að hafa með sér utan, og sanna með því ódugnað lögmannanna. Maðr veit líka af öðru bréfi (Nr. 263), að þeir eru báðir staddir á Lundi í Lundarreykjadal 4. Júlí 1480 Þorleifr Björnsson og Gísli Filippusson, því að þá gerir Þorleifr kaup við hann, en ekki er þeirra getið þar 1479, þótt báðir væri þeir á alþingi það ár. En það ár 1479 var Gísli í óbótamálum og útlægr maðr, dæmdr á konungsnáð fyrir manndráp, svo að úr því að hann er einn af þeim, sem útgefa þetta bréf, *getr það ekki* verið frá 1479, heldr hlýtr það að vera frá 1480, eins og handritin segja. Sbr. og Lundardóm Þorleifs (Nr. 262) frá sama ári og degi sem þetta bréf, því að í honum sitja 10 hinir sömu menn og gefa út bréf þetta.

Hér er bréf þetta prentað eptir þrem handritum: *a*) afskr. frá c. 1550 í Ríkisskjalasafni Dana Isl. & Færö Supl. II, 20, og er það hin sama og fylgt er í Safni II, 180—181; *b*) afskript í syrpu séra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ í British Museum Add. 11, 242. 4to, bl. 33a—b (FM. 206), einnig frá c. 1550, og c) afskript frá c. 1650 í British Museum Add. 11,080. 4to, bl. 14b—15b (FM. 90), og er sú afskript afbökuð um sumt.

## Supplicatia Jslendinga til kongs um vtlendska uetursetumenn[1]).

Þat giorvm vær Gvdne jonsson. eigill grimsson. jon biornsson. Narfe þorualzson. dade arason. gisle p(h)ilpusson. Sigvrdr dadason. þorlakr þorkelsson. p(h)ilpus sigurdzson. gunlavgr þorkelsson. finnr petrsson. gvnstein jsleifsson. [gvnnar jonsson. jngemvndr finzson[2]). jon hrafnzson. olafur sveinsson. jon þorsteinzson. þordr avdvnarson. þorleikr gvnsteinsson[3]). halldor þorgeirsson. halldor svmarlidason[4]). magn-

[1]) c; Altingesdom om vtlenduskum med møgett skrawage anno 1480 hystyiore henrick daniel, *a*; kong kristiern, *b*. [2]) Arngrijmur Grijmsson, c (rangt). [3]) [*b*; þordur audvnarsson þorleifur finnsson(!) jon hrafnsson. olafur sneinsson jon þorsteinsson Gunnar Jonsson Jngemundur gunnsteinsson(!), *a*. [4]) Sueinzson(!) *c*.

us bisknpsson[1]). aʀnor finsson oc einar brandzson[2]). Syslumenn og logriettumenn Nordan og vestan ǡ Jslande godum monnum kunnigtt[3]) med þessu voru opnu brefe at vier vorum þar j hia oc heyrdum ǡ ǡ almenneligu oxararþinge at almvgen af[4]) ollu landinu klagade sig vm þann mykla osid er hier være j landit[5]) vm þa vetvrsetu[6]) er [vtlendzker menn[7]) hefde hier[8]) huad oss leitzt og[9]) ollum almuganum [vti fra[10]) vera stor skade fyri landit sakier þess at þeir hallda hier hus oc garda vid sioenn oc locka so til sin þionnstu folkit at bændurnir fa ecki sijna garda vpp vnnit eda neina vt vegu haft þa er þeim eda[11]) landinv mega til nytta[12]) verda. Hier med selia þeir onyttesamligan[13]) penning[14]) jnn j landit oc taka þar fyrer bæde skreid[15]) Smior oc slatnr og vadmal allt for dyrdt framar meir enn sett er oc samþycktt. [Nv med þvi at hirdstioren oc logmennerner oc allr almvge heyrdu[16]) hvern skada landit matte hier vt af fa. þa var þat samþyckt[17]) af hirdstioranum heyndrek[18]) Daniel og logmannnum badum brande jonssyne oc odde[19]) asmundzssyne oc ollum almuganum vtan logriettu oc jnnan[20]) at hier skylldi eingi vtlendzkur madur vera j landit eda vetursetur[21]) hafa nema sa sem fødur[22]) er oc[23]) jnnborinn j [minz herra[24]) noregx konungs riki. huad oss litzt[25]) nv ecki halldit vera eftter þui sem vor landz lagabok oc sattmale[26]) vt vijsar at hier skule eingin hirdstiore vera j landit nema sa hier er jnnlendur af gomlum hirdstiora ættum[27]).

---

1) *b*; bionsson (= Björnsson), *a*, og er rangt, því að hér mun átt við Magnús Þórólfsson, sem í bréfum finst nefndr Biskupsson, því að Þórólfr faðir hans var kallaðr biskup; fyrir föðurnafni Magnúsar er eyða í *c*, sem er vottr þess, að þeir hafi ekki getað lesið eða þorað að lesa. 2) Alt upphaf bréfsins hingað að, er tekið eptir *b*, því að þar eru nöfnin miklu réttust. 3) uitanlegt, *c*. 4) á, *c*. 5) landinu, *c*. 6) *b*, *c*; vetvrsetur, *a*. 7) [vtlendskar þioder, *b*, *c*. 8) j landit b. v. *b*. 9) af, *b*. 10) [hier j landit, *b*. 11) oc, *b*. 12) nýckta, *b*; nytka, c. 13) onyttsamligan, *b*. 14) varning, *b*. 15) oc b. v. *b*. 16) sier, *c*. 17) [b. v. *b*, *c*; vantar ranglega í *a*. 18) heinrech, *b*. 19) *b*, *c*; Oddz (!) *a*. 20) *b*, *c*; jnna (!) *c*. 21) vetrsetv, *b*, *c*. 22) *a*; fæddr, *b*, *c*. 23) eda, *b*. 24) [b. v. *b*. 25) leitz, *b*. 26) jnnehelldur oc b. v. *c*. 27) ættunum, *c*.

Hier med voru sodan køp[1]) sett og samþyckt vid vtlendzka menn a[2]) medan þeir hielldi sijna køpstefnu[3]) hier j landit. at[4]) iij vættir skreidar [skylldi vera[5]) fyrir [c huert[6]). [halfstycki klædis skylldi giallda fyrir huert hvndrat[7]). vj tunnvr maltz. iiij tunnur miols. jarfat[8]). xij fiordunga ketill og so virdan pening annan vppa huert c. En ef nockur vtlendzkur madr villde ecki hallda þessa samþyckt oc settu [sig oc[7]) sina peninga til vetrarsetu hier j landit þa skylldi[9]) vpp tækt konungs vmbodsmanni allt þeirra godz. Eru vier nu ydur og ydra nad[10]) kiære naduge herra oc allt rikissins rad j norege audmiukliga [oc uinliga[11]) vm bidiande at þier latid oss na at hallda vorum riett[12]) vm huad hellst þat er epter þui sem vor landz lagabok vt vijsar oc[13]) sattmale oc riettarbætur bæde fyrer leika oc lærda.

Skrifum vier ydar nad[14]) þui soddan [bref til[15]) at oss þikia[16]) logmennerner j landino helldvr sliofer j vera at rijta til ydar nadar[17]) huert lagaléysi j landit[18]) er huad er[19]) almugann stendur. Oc þui eru vier ydur og ydra [elskuliga nad[20]) vm bidiandi a minnande at þier vm hugxit og a litid vorar naudzyniar at þier sendit oss ydar[21]) Styrkingarbref med þorleife biornssyne vm þat sem vier hofum til [ydar nadar[22]) rijtad oc so vm þat fleira sem ydur er riettiliga vnder vijsat landzins[23]) naudzyniar og vorar.

Hier j mot vilium vier seigia vora tru og þienustu sem vorer [forfedur og[24]) forelldrar hafa giort[25]) til forna med sijna [nadugasta[24]) herra Noregis konunga med allann[26]) riett oc truheit [oc cetera[27]).

Og til sannenda[28]) hier vm setium vier [[fyrr nefnder

1) kavp, *b*, c. 2) sl. *b*, c. 3) kavpstefnu, c. 4) at, sl. *b*, c. 5) [sl. *a*; b. v. *b*, c. 6) [hvndrat skreidar, *b*, c. 7) [b. v. *b*, c; sl. *a*. 8) jarnfatt oc, *b*, c. 9) skyllda (!) *a*. 10) um bidiande b. v. *a*(!) 11) [*b*; vinsamliga, c; sl. *a*. 12) retti, *b*, c. 13) b. v. *b*, c; sl. *a*. 14) til b. v. hér *a*. 15) [b. v. *b*, c; sl. *a*. 16) þicer, *b*. 17) nad *b*; nada c. 18) landinu *b*, c. 19) sem. *b*, c. 20) [nad elskuliga, *b*. 21) yduart, *b*. 22) [ydra nada, *b*. 23) *b*; landins, *a*. 24) [sl. *b*, c. 25) haft *b*, c. 26) þann, b. v. *b*. 27) [sl. *b*. c. 28) *b*, c; sanneda (!) *a*.

menn vor Jnncigle fyrer þetta bref er[1]) skrifad var a lundi j lundareykia dal þridiudagen næstan eptir peturs messo og pals [þa er lidit var fra hingat[2]) burd vors herra Jesu christi m cccc oc lxxx ara[3]).

---

265. 5. Júlí 1480. í Westminster.

Kristján Danakonungr fyrsti og Edvard Einglakonungr fjórði endrnýja samning sinn frá 1. Maí 1473, 16. Marts 1476, 26. Apr. 1478, 22. Febr. 1479 (DI, V, Nr. 618; VI, Nr. 68, 129 og 180).

Rymeri Foedera, ed. Holmes, V, III, 106—107.

. . . . . . . . . . .

4. Diffinitum est, quod intra Biennium antedictum &c. [Orðrétt samhljóða hinum fyrri samningum].

Datum apud Palatium nostrum Westmonasterium Quinto Die Julij [Anno Regni nostri xx.°].

---

266. 16. Júlí 1480. á Hólum.

Ólafr biskup á Hólum skipar Jóni presti Helgasyni að taka saman osttoll þann, sem Hólakirkja á að hafa æfinlega af hverjum skattbónda milli Hrauns á Skaga og Hrauns í Fljótum.

AM. Fasc. XXV, 19, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 3276.

Bifalningsbrief biskups olafs vm osttoll[4]).

Víj olaf med guds nad biskup a holum giorum godvm monnum uiturligt med þessu voru brefi ath víj hofum skipath vorum kęra syni sira joni helgasyni saman ath taka þann osttoll sem hola kirkia æ ath hafa ęvenlega af hueri-

---

[1]) sem, c. [2]) leiðrétt; hinagt, *a.* [3]) [arum epter gudz burd 1400 og 80 aar, c; [[Datum m. cccc. oc lxxx, *b.* [4]) Utan á bréfinn með hendi frá 17. öld.

vm skattbonda allt j millvm hrauns a skaga ok hrauns j fliotum. skal þat vera fiortan merkr smiors eda fiordungs ostur a huerium tolf manudum af hverium skattbonda j þessv takmarkj. hefer þessi tollr leingi ecki luktur verith ok ei heimtur verith af kirkiunar formonnum. enn aller ellztu dandimenn vita ath þessi tollur hefer verith luktur adr ok ecki j mothi talath sem margra dandj manna bref þar vm gior wtvisa. þui bidium víj vm alla goda menn ath luka þennan fyrr greindañ osttoll sira jonj helgasynj sem víj hofum vort vmbod til feingith þessa fyrr skrifada heilagrar hola kirkiu eign saman at taka ok heim ath fęra til vor ok giora oss riettan reikningskap. suo ok biodum víj jonj helgasynj vnder skyllduga hlydne ath beidaz ok krefia fyr sagdañ osttoll af þeim sem hann vilia ecki lucka eda med þrioszku hallda. Ok til sanninnd(a) hier vm heingium víj vort jncigli fyrir þetta bref skrifath ꜳ holum j hialltadæl svnnvdagin epter diuisio apostolorum. anno domini ꝏ° cd° lxxx°.

---

## 267. 17. Júlí 1480. á Hólum.

Fjórir menn transskribera þrjú bréf um osttoll Hólakirkju.

AM. Fasc. XII, 13, frumtransskriptið á skinni, og eru öll innsiglin fyrir.

vm osstoll a Holum[1]).

Þath giorum vier ketill grinjolfsson[2]) radzmann a holum. andres jonsson. prestar. jon þordarson ok sueinn gudmundzson leikmenn godum monnum v[i]tturligt med þessv vorv opnv brefi ath vier saum ok yferlasvm opinn bref med heilum ok osko[d]dum hanganndum jnciglum suo latanda ord epter ord sem hier seger.

[Hér koma þessi bréf:

1. Vitnisburðr um osttoll frá 7. Júlí 1450, Dipl. Isl. V, Nr. 44;
2. Vitnisburðr Illuga Björgólfssonar um sama frá 31. Júlí 1448, Dipl. Isl. IV, Nr. 763;

---

[1]) Aptan á bréfinu. [2]) Svo; *rétt:* grimolfsson.

3. Vitnisburðr Steinþórs Jónssonar um sama frá 3. August 1448, Dipl. Isl. IV, Nr. 765].

Ok til sanninnda hier vm settvm vier fÿrr nefnder menn vor incigli firir þetta transkriptarbref skrifath a holvm j hialltadal manvdaginn nęsta epter divisionem apostolorum. anno domini ꝏ⁰ cd⁰. lxxx.

---

268. 27. Júlí 1480. í Flatey.

Vitnisburðr sjö heldri manna vestra, að Þorleifr Björnsson hafi farið vel með völdum þeim, er konungr hafi skipað honum á Íslandi, bæði upp á vegna míns herra kongsins og hans þegna.

AM. Fasc. XXV, 5, frumrit á skinni. Af sex innsiglum eru þrjú fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 5696.

vitnisburd um huersu torleifur hefer verit in j island[1]).

Þath gervm wær eigill grimsson. oddur petursson. sigurdr dadason. þorlakur þorkelsson. gunnar jonsson. finnur petursson ok jngemundur finnzson godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefe ath wær medkennunzt ath wær vitvm fÿrir full sannende ath þorleifur biornsson hefer stadit sig suo j island sem einn dande mann ok honum hefir borit sierliga vpp ꜵ míns herra kongsins wegna ok hans þegna. hefir fyrr greindr þorleifur biornsson alltíjd stutt ok stÿrkt kongsins ʀiett ok ʀiettugheit þat sem minn nædug herra kongenn hefir snortit ok hans þegna sierligana þar sem hann hefir werit yfer skipadur. Suo eige síjdr wissu uær ath nefndr þorleifur stÿrkte sin faudr biorn þorleifsson sem gud hans sæl nꜵde til þess ath stÿrkia mins nꜵdug herra kongs erende ok biorn kunne ecke sialfur af stad koma. war hann þa vppe med sig ok sitt folk ok peninga þar til. ok suo hefir hann jafnan giort síjdan. þar fyrir wít-

---

1) Utan á bréfinu með fornri hendi.

um vær ath opt nefndr þorleifur hefir verit ok er hollur ok trur minum nadug herra konginum ok hans rike. sem honum ber ath gera. Enn huer annat hefer flutt til mins herra nada er ecke af voru vite. Ok til sannenda hier vm settvm vit fyrrnefndir menn ockur innsigle fyrir þetta bref skrifat j flatey á breidafirde fimtudag hinn næsta fyrir festum sancti olafi regis et martiris þa er lidit var fra hingatburd vors herra jesv christi. m. cccc ok atta tiger ára.

---

**269. 1. August 1480. í Flatey.**

TRANSSKRIPTARBRÉF.

AM. Fasc. XXI, 20, frumrit transskriptsins á skinni með þrem innsiglum af 5, sem fyrir hafa verið. — AM. Fasc. XXI, 21, forn afskript á pappír. Sbr. AM. Apogr. 2896—97.

Þat giorum uær haflidi skulasou. einar branzson. ion stephansson ok gudmundur eyuinzson godum monnum uiturligt med þessu uoru opnu brefi ath uær haufum sied ok yferlesit ok heyrt yferlesit opit domsbref med heilum ok oskavddvm hangande jnsiglum ok suo latande ord epter ord sem hier seigir. [Hér kemr:

1. Fíflholtsdómr Erlends Erlendssonar um Efra-Dal og Kollabæ frá 30. Okt. 1475, Dipl. Isl. V, Nr. 715;
2. Kirkjulækjardómr Erlends Erlendssonar um Efra-Dal undir Eyjafjöllum frá 23. Okt. 1475, Dipl. Isl. V, Nr. 714].

Ok til sannenda hier vm settum vær fyrr nefnder menn vor jnnsigle fyrir þessi transskriptarbref skrifut j flatey a breidafirde þridiudagenn næsta fyrir translacio sancte olafe regis et martiris. ærvm eptir guds burd. m cccc. ok atta tiger æra.

---

**270. 4. August 1480. á Litlu-Þverá.**

TRANSSKRIPTARBRÉF.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Sbr. AM. 252. 4to, bls. 41—43; AM. 430. 4to, bls. 1—3; AM. Apogr. 1581.

Þad giorum vier Stulle Magnusson. Biarne Olason og Þorlákur Þorsteinsson godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad vier hofum sied og yferlesid domzbref Logriettumanna. med heilom og oskoddudum[1]) hangande jnsiglum. so latande ord epter ord. sem hier epter seigier. [Hér kemr Alþingisdómr frá 1. Júlí 1480 um kaupmálabréf Lopts Ormssonar og Gunnhildar Pétrsdóttur, Nr. 259 að framan].

Og thil sanninda hier vm̄ setium vier fyrrnefnder menn vor jnsigle fyrir þetta thranskriftarbref. skrifad á Litluþuerá j eyiafirde fostudaginn næstañ epter Olafsmesso þa lijdit var frá gudz burd 1480 ára.

---

271. 5. August 1480. á Keldum.

Úrskurðr Eyjólfs lögmanns Einarssonar með ráði sex lögréttumanna um Esjubergsdóm, er gekk í eignamálum þeirra Sophíu Loptsdóttur og Gunnlaugs Teitssonar um jarðirnar Horn og Papafjörð, og úrskurðar hann Gunnlaugi jarðirnar til halds og meðferðar.

AM. Fasc. XXV, 11, frumritið á skinni með bráknðu innsigli. — Bisk. Skalh. Fasc III, 3, transskr. frá 7. Aug. 1480 (ekki gott); afskr þar af meðal Apogr. 2525.

Domur vm peningagialld a millvm gunnlaugs ok sophiv[2]).

Ollvm monnum þeim sem þetta bref seia[3]) edr heyra sen̄dir eẏiolfur einarsson logman fẏrir svnnan og avstan a jslande. kuediv gvds og siña kvnnegt gioran̄di anno domini ɱ.º cdº octogessimo faustudagin nęsta epter olafs ɱesso env seinne vm sumared a kelldvm j averiahrepp kom fyrir mic gunnlavgur teizson og tiedi mier þann xij manna dom sem dęmdur hafde verit a esivbergi j kięlarnesþingi millvm þeirra soffiv lopzsdotter og fyr nefnzs gvnnlavgs suo latan̄da at þeir hefdi dęmt stefnvna logliga og sofiv þar logliga fyrir kalladæ. syndi þratt nefndur gvnnlavgur þar sitt

---

[1]) oskoddum 252. [2]) Utan á bréfinu með fornri hendi. [3]) = siaa

skiql bref og jnnsigle dañde manna at teitur gvnnlaugsson hefde gefit gvnnlavgi syni sijññvm[1]) til eignar med vpplagi og samþýcki kristinar dottur sinnar hvñdrad hvndrada. tuer jardir horn og papafiordur og þar til lavsagozs. Nv af þui at fýr sagdur domur var suo latañde at þeir hefde dqmt vnder logmanz o(r)skurd. oll bref og skiql þratt nefnzs gvnnlavgs. beidde hann mic laga o(r)skurdar æ. hvert afl hans skilʀicki skýllde hafa. þvi at suo profudu og fyrir mic komnv og sex logrettvmonnvm mier samþyckivndvm. j domsqti sitiande. Sagda eg j guds nafne amen med fvllvm laga o(r)skurdi þessa fyrr sagda peninga alla oppt nefndvm gvnlavgi til hallz og fullrar [medferdar[2]) epter þui sem hans bref og skilʀici þar vm giort vt visar. nema oppt nefnd soffia legdi fram fyrir mic jnnan siav natta þau skilriki mier þqtte meira afl hafa. og oppt nefnda sofiv skylldvga at afennda þessa alla fýrr sagdæ peñinga oppt nefndvm gvnnlavgi jnañ tueggia manada at heýrdvm o(r)skvrdinvm. enn ef soffia uill eigi afhendæ þa sa time er vti skal gvnnlavgur rettliga mega at sier taka adur greindar jardir og þat sem þeim æ at fýlgia med[3]) rettv. og oppt nefndan gvnnlavg skýlldan at koma til nqsta oxararþings og suara þar sem logstefndr fyrir þessa peninga soffiv[4]) vegna. [Og til sannennda hier vm setta eg mitt logmans jnsigli fyrir þetta o(r)skurdarbref skrifat j sama stad deigi og a(ri) sem fyrr seiger[5]).

---

272. 7. August 1480. í Skálholti.

Transskriptarbréf.

Bisk. Saalh. Fasc. III, 3, frumrit transskriptsins. — AM. Apogr. 2525, með hendi Árna Magnússonar eptir frumritinu.

Þat giorum vid jon jons(son) ok þordur þordarson godvm monnum viturligtt med þessu ockru opnv brefe ad uid

---

[1]) Svo. [2]) [með öðru bleki (daufara), en er þó álíka fornt. [3]) tvískrifað. [4]) kongdomsins III, 3. [5]) [þessu sleppir III, 3, alveg(!)

saum ok heyrdum yferleset logmannz urskurdarbref med hans heilu ok oskoddv ok hanganda logmannz innsigli. suo latanda ord eptter ord sem hier stendur skrifat. [Hér kemr úrskurðr Eyjólfs lögmanns Einarssonar frá 5. Aug. 1480, hvergi nærri orðréttr við frumbréfið, Nr. 271].

Ok til sanninda hier um settum uid fyrnefnder menn okkur innsigli fyrer þetta uitnisburdarbref skrifat j skalhollti. manudaghinn næsta fyrer laurencius messo. þa lidid uar fra hingadbvrd uors herra iesu christi þushundrud iiij. c. at(ta)tige ær.

---

273. 16. August 1480. í Viðey. 26. Maí 1494. á Álptanesi.

Vitnisburðr tveggja manna um það, að Þorleifr Björnsson hefði fest Ingveldi Helgadóttur sér til eiginkonu.

AM. Apogr. 1166, að því er virðist eptir frumritinu. — AM. Fasc. LXXII, 2, A, 6, transskript á skinni frá c. 1528. Þar hefir „quartho" gleymzt aptan af ártalinu, svo það verðr 1490.

Þat giorum uid einar brandzson ok olafur mikelson godum monnum kunnegth med þessu ockru opnu brefi at þa er lidid uar fra hingatburd uors herra jhesu christi. m. cccc. ok attatiger ara j uidey um sumarit næsta dagin epter mariumesso fyre worum uid j hia saum ok heyrdum æ. at þorleifur biornson feste jnguellde helgadottur sier til laugligrar eiginkonu epter bokarenar ordum at hiaueranda biskup magnuse med gudz nád ok audune presti þoruardzsyne ok maurgum audrum dande monnum. Suo ok heyrdu uid jayrde jnguelldar helgadottur adur hun uære festh. Ok til sanenda hier um settum uid fyrnefnder menn ockur jnsigle fyrir þetta uitnisburdar bref skrifat a alptanese a myrum manudagin næsta fyrir festum corpus christi anno domini. m.° qcd.° nonagesimo [quartho[1]).

---

[1]) sl. Lxxii, 2 e.

274. 23. August 1480. í Viðey.

Steinmóðr ábóti í Viðey og fjórir klerkar aðrir, Margrét Vigfúsdóttir (á Möðruvöllum) og sjö leikmenn votta, að Þorleifr Björnsson, er „nú vill með guðs hjálp byrja sína reisu í burt af voru landi Íslandi“, hafi „hér verið og blifið með heiðr og æru sem réttum höfðingja og ærligum höfuðsmanni ber“.

AM. Fasc. XXV, 6, frumritið á skinni. Af tólf innsiglum eru nú tvö fyrir.

huernen þorleifur for af landet[1]).

Wær Brodher steinmodhr med gudhz nadh aboothi j widheẏ ordinis canonicorum regularium sancti augustini skalholltzbiskupsdæmis. Brodher jon med samri nadh abothe a þingheẏrum hoolabiskupsdæmis. olaf oddzson. sygurdr jonsson. gunsteinn asgrimsson prestar. Margreth wigfwsdotthir. Pall brandzson. Erlendhr Erlendzson. sygurdr jonsson. gudhmundr jwarsson. filax þorarinsson. þorkell þorsteinsson ok eigill jonsson. Godhum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. ath vier vitum þat fullugliga ok sannligha ath þesse dandhimann þorleifr biornsson hwerr ath nu will med gudhz hialp bẏria sina reisu j burth afh worv landhi íjslandhe. hefir hier weridh ok blifit med heidr ok æru sem retthum haufdingia ok ærligum haufudsmanne berr med alla dandhi menn hier j landit lærdha ok leika. Ok sierdeilis med aull stẏcke ok ærlighheit sem honnm hefir burt ath giora med vorn naduga herra konunghinn badhi med dygdh ok ærw ok alltíjdh skotith sigh ok sitt añswar til hans konunghligra nadha ok retta sem margir dandi menn hafa optliga heyrt. Ok til sannendha hier vm heingdum wier for nefndir menn vor jnnscigle fyrir þetta bref scrifath j vidhey j kialarnesþinghi miduikudaghinn næsta jn octaua assumpcionis sancte marie wirginis. anno domini M.⁰ cd.⁰ lxxx⁰.

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

275. 8. September [1480 eða 1479]. á Grenjaðarstað.

Tveir prestar votta um reið sína til Skriðu til þess, eptir boði Ólafs biskups, að birta Rafni lögmanni boðskap erkibiskups um hálfkirkjureikninga í Hólabiskupsdæmi, og skýra þeir frá hörðum svörum lögmanns.

Bisk. 3. Fol. bls. 252, með hendi Hákonar sýslumanns Gíslasonar 1641—42, eptir transskripti frá 13. Júlí 1481. Hið fyrra bréf Gauta erkibiskups um hálfkirkjureikninga er frá 15. Sept. 1478 (Nr. 153). Er þetta bréf því frá 1479 eða 1480.

Þad giorum vid Eirikur Einarson og árni Hallsson prestar Hola Biskupsdæmis godum monnum viturligt med þessu ockru Brefi ad vid Ridum til Skridu midvijkudæginn næsta fyrer festum Nativitatis Beatæ mariæ virginis[1]) epter Bodi og skipan ockars andaligs faudurs Biskup Olafs med Guds nad. Biskup a Holum. ad birta og sina Hrafni Logmanne þa skipan sem erki Biskupinn Bodadi med sijnu Brefi og Jnnsigle. ad Biskup Olaf skilldi visitera og taka Reikning (af) aullum halfkyrkium j Hola Biskupzdæmi. en Hrafn Logmann gaf þad suar þar til. ad hann sagdi nei til ad giora Reikning Biskup Olafe fyrer sijna halfkyrkiu. og eij gisting hallda fyrer hana epter þessu Brefi. lysti hann og þar fyrer ockur og fleijrum odrum ad hann skilldi fyrerbioda vm allt sijtt logmansdæmi og a aullum þingum ad nockur madur giordi Reikning fyrer sijna halfkyrkiu. edur taka nockurar slijkar nýungar vpp þo þad væri giort j Skalholltz Biskupzdæmi. ad Biskup tæke þar Reikning af halfkyrkium. og til sanninda Skrifad a Greniadarstad Mariumessu sijdari.

---

276. 3. Október 1480. í Odda.

Magnús biskup í Skálholti vottar, að Þorleifr Björnsson hafi fastnað sér Ingveldi Helgadóttur, og lýsir hann því, að hann hafi séð páfabréf, þar sem umboðsmanni Skálholtskirkju sé

---

[1]) Þ. e. 7. Sept. 1479 eða 1480.

boðið að gera endilegan veg á þessu hjónabandi, ennfremr kongsbréf og erkibiskupsbréf.

AM. Apogr. 736, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali“, sem var á kálfskinni. — AM. Fasc. LXXII, 2 A 5, transskr. á skinni frá c. 1528.

Wær broder magnus med guds nad biskup j skalhollti. giorum godum monnum kunnigtt med þessu woru opnv brefi. ath uær worum þar j hia saum ok heyrdum a̋. ath þorleifur biornson keyptti ok fasnadi jnguelldr[1]) helgadotter[2]) sier til laugligrar eiginkonv. eptter guds laugum ok lands ok bokarenar ordum. Suo ok eigi síjdur saum vær ok yferlasum pafans bref wn̄der suodan skilnin̄g. ath hann gaf lof til af pafaligu walldi. ath þetta hionaband mætti saman bin̄daztt. ok bíjfaladi wmbodsmanni heilagrar skalhollz kirkiv. ath giora endiligan weg a þessu hionabandi. ok hier med hofum wær sied mins herra kongsens bref suo latanda. ath hann gefur lof til ath born þeirra getin ok ogetin skule lauglig til arfs. eptter landzins laugum. Somvleidis hefer ok worr nadugi herra erkibiskupin gefit sitt samþycki til ok bodit oss ath fullkomna þetta adurskrifad hionaband. þui hofum wær eptter adurskrifudum brefum ok bodskap samþycktt. ath adur skrifad hionaband sie laugligtt ok staudugtt j aullum greinvm.

for þessi giornin̄gur fram j witey miduikudagin næsta efter mariumesso fyrri[3]). þessum monnum. nær weraundum med oss narfa þoruallzsyni. olafi mikelsyni. ok einari brandzsyni.

Ok til sanninda hier wm settum wær wort innsigli med þeirra fyrskrifadra manna innsiglum fyrir þetta bref skrifat j odda a rangárwollum j aueriahrepp[4]). þridivdagin næsta eptter mikelsmesso. anno domini. m.° cd.° octogesimo.

---

[1]) Svo 736; jnguelldi Lxxıı, 2. [2]) helgadottur Lxxıı, 2. [3]) Þ. e. 16. August. [4]) alueriahrepp (!) Lxxıı, 2.

277. 8. Október 1480. á Staðarhóli.

KAUPMÁLABRÉF Einars Oddssonar og Ásu Egilsdóttur.

AM. Fasc. XXV, 1, frumrit á skinni, og hefir aldrei verið innsiglað. Komið frá Staðarhóli. — AM. Apogr. 1488.

Jn nomine domini amen.

var suo felldr kaupmale lýstur ok stadfestur ꝺ brudlavpsdegi þessara manna einars oddzsonar ok æsv egilsdottur eiginkonv hans at fyrr nefndr einar hafde til kaups med asu konu sina ij hvndrut hundrada er fader hans oddr peturson hafde gefit honum. var þar vt j tilskilen jordin bar j eyrarsueit med þeim iardarpaurtum er þar fylgia fyrir. lx. hundrada. jtem jordina gravf j grvndarfirde fyrir xx hvndrut. lavgar j huammsueit fyrir xvj hvndrvt. goddastade j laxꝺrdal fyrir iiij hundrut ok xx. jtem part j iordvnne brandagile ok geithole er liggia j hrutafirde fyrir xvj hundrut ok þar med jordina þoroddzstade fyrir iiij hvndrut ok xx ok hier til .lx. kvgillda ok xx hvndrvt j þarfligvm peningvm.

hier j mꝺt hafde fyrr nefnd asa eigilsdotter til kavps med einar oddzson bonda sinn ij hvndrvta c. var þar til greind jordin ey ꝺ skagastrond fyrir lx hvndrata ok ij hluti j iordunne hofe er liggr j vazdal fyrir xl hundrata. jordin brusastader fyrir xlc. savrbær xx hundrudvm ok þar til lxxx hvndrada j lausagoze. jtem gaf oft nefndr einar oddzson asu konu sinne lxxx hvndrata vr þessum peningvm j tilgiof at fraskildum jordvm̄ j hrvtafirde.

samþykti þessa giof oddr peturson er þa uar laugligur erfingi optnefndz einars.

fꝺr þesse giorningur fram æ stadarhole j saurbæ med laugligri festingv æ sunnvdaginn næsta fyrir kalixtusmessv þessvm̄ godvm monnvm nær veravndvm broder jon gamlason med gvdz nad aboti ꝺ þingeyrvm. þosteinn gvdmvndzson. sveinn helgason. sueinbiorn palsson ok gvnnsteinn asgrimsson prestar. gudne jonson. oddr peturson. vernard einarson. biorn jonson. þorbiorn biarnason ok sigmundur halldorsson leikmenn.

Ok til sannenda hier vm̄ settvm vær fyrr nefnder menn uor ȷnnsigle fyrir þetta kaupmalabref er skrifat uar j sama stad ok dag sem fyrr seger arum efter gudz burd. ꝏ. cccc ok lxxx ara.

---

278. 12. Október 1480. á Staðarhóli.

Steinunn Gunnarsdóttir arfleiðir Pétr Loptsson son sinn til alls þess fjár, er hún gefr honum, en það reiknast hundrað hundraða.

AM. Apogr. 5891, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna, eptir „transscripto“ á skinni frá 7. Júní 1580. — Afskriptir í AM. 234. 4to, bls. 136—38, 192—93, 264, 284—85. MSteph. 27. 4to, bls. 176, með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1730.

Þad giorum vær Gudni Jonsson. Oddur petursson. jon asmundsson. Bryniolfur sigurdsson. jon sueinsson og skeggi stullason. godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi at þa er lidit var fra hingatburd vors herra iehsu christi ꝏ. iiij^c og lxxx. ara firir kirkiudyrunum a stadarholi i saurbæ fimtudagin næsta firir kalixtusmesso vorum vier i hia saum og heyrdum a. at steinun gunnarzdotter arfleiddi son sinn petur loptsson til fiar þess sem hun gaf honum. ʀeiknadist þat hundrad hundrada. voro þar til skildar jardirnar huitadalir firir .xl^c. er liggia i Saurbæ i huols kirkiusokn oc .xv^c. i jordunni sælingsdalstungu er liggur i huamssueit oc hier til .v^c. og .lx^c. j fridum peningum og ofridum. arfleiddi hun þenna man til giallds og giafar. sess og sætis og til alls þess riettar sem lögbok skyrir at ættleidingur a at hafa at logum. hielldu þessir menn allir a eirni bok. Steinun Gunnarsdottir er arfleiddi og pietur loptsson er arfleiddur var og Gunnar Jonsson er iatadi og samþyckti þessa somu arfleiding.

for þessi greind arfleiding framm epter ollum bokarinnar ordum.

Og til sanninda hier vm setium vær firnefnder menn

fridr firir oss fyrskrifvdvm monnum at hun hefdi gefit ok lagt þorlake syne sinvm þegar j fystu þa hann giptizt avnnr. xl. tiger. c^a^. j iardagodze. en vigdiise dotr sinne sagdizt hvn lagt hafa .xx. c^a^. iord ok þar til atta hundrvd. tok þorlakr giislason bondi hennar vid þessvm huorvm tueggivm peningum. suo ok reiknadi hun ath þorgerdr dotter sin hefdi haft or favdr ok modr gardi þegar j fyrstu tíív-tiger. c^a^. skipadi þrattnefnd sniofridr þessa peninga sierhveriv adrnefndv sinv barne til riettra arfaskipta epter sig nær gvd villdi hana til sín kalla efter þvi sem tala rennr til ok lavg votta. Ok til sannenda her vm settv ver fyrskrifader menn vor jnscigli firir þetta bref skrifad j sama stad a**a** **a**re ok degi sem fyrr segir.

---

**333. 4. Maí 1481. á Hólum.**

Kolli Magnússon fær Ólafi biskupi á Hólum jörðina Vatnsenda í Ljósavatnsþingum með fimm málnytukúgildum til fullrar eignar fyrir þann reikningskap, er Kolli varð biskupi skyldugr fyrir brytastarf.

AM. Fasc. XXVI, 16, frumrit á skinni. Af 7 innsiglum eru 6 fyrir. — AM. Apogr. 3287.

vm vatzenda [j liosauatns kirkiusokn[1]).

Þat giorum vier eirekur einarsson. andres jonsson. biorn þorsteinsson. gudmundr jonsson. ellendr broddasson prestar ok sveinn gudmundzson leikmann godum monnum viturligth med þessv voru opnu brefi ath þar vorum vier j hia j skrvdhvsinu a holum j hialltadal saum ok heyrdum ǫ́ ord ok handaband vors nadaligs fodurs biskups olafs ǫ́ holum af einni alfu en kolla magnussonar af annari ath svo fyrir skildv ath fy̆r nefndr kolli fieck biskupenum ok heilagri holakirkiu jordna[2]) vatzenda er ligur j liosavaz kirkiv sokn

---

[1]) Utan á bréfinu með gamalli hendi, nema frá [sem er ritað á 17. öld. [2]) Svo.

til fvllrar eignar fyrir fimtan hundrvt med ollvm þeim gognum ok giædum sem greindri iordu fylger ok fylt[1]) hefer ath fornu ok nyo ok hvn[1]) vard fremz eigandi ath ok þar med fim malnytu kvgilldi er standa med jordunni ath næstvm fardogvm fyrir þann reikningskap er fyrr nefndr kolli magnusson vard skylldugur heilagri hola kirkiu ok biskupenum fyrir þat brytastarf er hann hafdi adr haft heima a holum upp áá morg áár. skal adr nefndr kolli svara lagariftingvm a fyr greindri iordv. en biskupen hallda til laga. Ok til sanninda hier vm setur oftnefndr kolli sitt incigli med vorum inciglum fyrir þetta bref er skrifat var ath domkirkiunni á holum j hialltadal fostvdagin næsta efter iuvencionem sancte crucis vm vorith anno domini m° cd° octogesimo primo.

---

## 334. 14. Maí 1481. í Víðvík.

Dómr tólf presta, útnefndr af Ólafi biskupi á Hólum, að Bjarni Ólason, sé skyldr að halda þær skriptir, er honum verði settar af biskupi og hann sé maðr til að bera, og að alt hálft fé hans sé fallið undir Ólaf biskup og heilaga kirkju.

AM. Fasc. XXVI, 9, frumritið á skinni. Tólf innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en eitt af þeim er dottið frá. AM. Fasc. XXVI, 10, transskript á skinni frá 6. Marts 1489.

vm biarna olason[2]).

Þath giorum uier sigurdr þorlacksson. jon broddason. olafur klængsson. þoruardr semingsson. gudolfur magnusson. þordr ingimundarson. bergfinnur iussason. ellendr broddason. gudmundur ionsson. briann olafsson. halluardur biarnarson ok helgi illugason prestar holabiskupsdæmis godum monnum uiturligt med þessu voro brefe ath þa lided uar fra higath burd uorss herra iehsu christi m cccc lxxx ok eitt ar manudaginn næsta firir halluardz messu j viduik j vid-

---

[1]) Svo. [2]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

uikarsueit voru vier j dom nefnder af vorum uirdulegum herra ok andalegum faudr olafi med gudz nad biskup a holum ath dæma um þa medurkenning sem biarne olason hafdi medr kentz firir vorum andaligum fedr biskup olaf ok fleirum dandi monnum odrum opinberliga ath hann hafi[1]) legit likamliga med fullu uerki med randide dottur sinne suo opt ath[1]) hann mynde þath ecki ok suo skamliga ok suiuirdliga med hana[2]) farit sem skam er fra ath segia ok þar um giord bref ut visa. soru med fullum bokareide tueir prestar þar firir oss ath hann hefdi þetta medkenttz firir biskupenum ok odrum dande monnum okugadr j alla stade. þvi epter þessvm eidvm nnnum ok þeim profum sem þar kuomu fram firir oss ok brefum ok skilrik(i)um syndum ok upp lesnum. nu saker þess ath adr nefndr biarne hefer geinget nnder skript ok lausn vid biskup olaf firir þessi sin brot þui dæmdum uier fyr skrifader prestar titt nefndann biarna skylldugan ath hallda þa skript sem biskup olaf setur honum epter kirk(i)unnar logum ok hann er mann til ath hallda. Suo dæmum uier ok alla halfa peninga þrattnefntz biarna fasta ok lausa frida ok ofrida fallna under biskupen olaf ok[3]) heilaga kirkiu[3]) epter þui sem kristenn riettur ut uisar um slickt[4]) obotauerk.

Var þessi uor domur upp sagdr skrifadr ok incigladr j sama stad dag ok ær sem fyr seger[5]).

---

[1]) XXVI, 10; vantar í XXVI, 9. [2]) XXVI, 10; ha XXVI, 9. [3]) tvískrifað í XXVI, 9. [4]) skliekt XXVI, 9. [5]) Aptan við afskriptir Hvassafellsmáls bréfanna í Landsb. 115. 4to, og ÍBfél. 126. 4to, (sem gerð er eptir Bisk. 3. Fol.) stendr svo látandi klausa: „Hér næst skrifast dómur biskups Ólafs geinginn á Viðvik föstudag næsta eptir Marteinsmessu 1481, að Bjarni sé skyldugr að halda settar skriptir (honum), en peningar hálfir fallnir undir biskup og kirkju, eptir öllum þeim bréfum og útskriptum, sem eru skrifaðir í þeirri stærri Hólakirkju máldagabók“. En hér er blandað saman tveim bréfum, dóminum frá 17. Nóv. 1480, Nr. 285, (þaðan er *dagsetningin* tekin) og þessum dómi (14. Maí 1481), og er þaðan tekinn *staðr*, *ártal* og *efni*.

335. 20. Maí 1481. í Kaupmannahöfn.

Bréf Kristjáns konungs hins fyrsta um útlenda vetrarlegumenn á Íslandi og um skuldir við kirkjurnar.

Elzta og aðalheimildin að þessu bréfi er nú: AM. Fasc. XXV, 3, transskript á skinni, gert á Reykhólum 23. Júní 1483. En svo hefir viljað óheppilega til, að allr síðari hluti ártalsins hefir gleymzt hjá transscriptoribus af einhvorjum flýti eða vangá, svo að í handriti þessu stendr nú ártalið „1400" (!). Af þessu hefir orðið mikill glundroði og óvissa um það, hvenær bréf þetta væri út gefið, en helzt hefir ágreiningrinn verið um það, hvort bréfið væri frá 1480 eða 1481, og óvissan hefir ekki minkað við það, að menn hafa viljað ugga ártal bréfs þess frá Íslendingum, sem þetta bréf er svar upp á (sbr. bréf frá 4. Júlí 1480, Nr. 264). En það hefir verið sýnt hér að framan í safninu, að Íslendingabréfið hlýtr að vera frá 1480, og að þetta bréf því einnig verðr að vera frá 1481. Það má reyndar ekki tæpara standa, að bréf þetta geti verið frá 1481, því Kristján fyrsti dó 21. Maí það ár, eða daginn eptir að bréf þetta er útgefið, en annað fær þó ekki staðizt. Svo stendr (1481) og í annari elztu afskript bréfsins, AM. 174A. 4to, bl. 1a, sem er skinnbók frá c. 1500, en ekki er þar nema síðari hluti bréfsins um kirknaskuldir, og er sá hluti prentaðr í Kirkjusögu Finns biskups II, 241—242, einmitt eptir því handriti (AM. 174A. 4to). Ennfremr stendr ártalið 1481 í góðri afskript og heilli, en ekki gamalli (c. 1740—50), í safni Finns Magnússonar í Advocates Library í Eidínaborg 14. 4to, (21, 3, 5), sömuleiðis í afskript Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði frá 1666, í Ny kgl. saml. 1945. 4to, bl. 190a—b, og er þar bæði fyrri hluti bréfsins um vetrarlegumenn og hinn síðari, en dagsetning eingi. Enn er ártalið 1481 í afskript Guðbrands biskups í syrpu hans í Biskupsskjalasafni 4. 4to, bl. 9, með hans eiginhendi rituðri c. 1580, og sýnist sú afskript standa frumritinu næst; er texti sá hér prentaðr sem B. Flestar eru afskriptir bréfs þessa að eins hálfar, og halda að eins annað hvort fyrra eða síðara hluta þess, og flestar eru þær annað hvort ártalslausar eða þær hafa ártalið 1480, ellegar þá eitthvað enn þá fjarstæðara, svo sem AM. Apogr. 5755, sem hefir ártalið 1408. Eitt handrit í AM. 458. 12mo (bl. 76—77), sem er skinnbók frá c. 1570, hefir enda ártalið 1550 („dominica cantate anno domini. M. d. l."), og heldr hún að eins seinna hluta bréfsins. Auk þeirra afskripta, er nú hafa verið taldar eru þessar elztar: Add. British Museum 11, 242. 4to, bl. 73a, í syrpu séra Gottskálks í Glaumbæ frá c. 1550 (ártal 1480); AM. 345. Fol. bls. 161—162 í lögbók Einars Íslcifssonar á Reykjum, sem er skinnbók frá c. 1570 (ártal 1480); AM. 158A. 4to, bls. 126, rituð aptan við Hlíðarendabók af Jónsbók með hendi frá c. 1600 (ártalslaus); Stockhólmssafn C 8 (bl. 235b—236), skinnbók frá c. 1608 (ártal 1080!), og halda þær allar einungis seinni hluta bréfsins. Þá kemr fjöldi á við og dreif af papp-

írsafskriptum. Bréf þetta er prentað í Lagasafni Magnúsar Ketilssonar í tvennu lagi I, 59—64, fyrst í heilu lagi á dönsku, sem Magnús mun sjálfr hafa sett á bréfið að nokkru leyti, og er sá texti þar árfærðr til 1481, en þó tilfært neðanmáls eptir nýlegri hondi, að aðrir árfæri bréfið til 1480, og sé það réttara eptir frumritinu („alibi 1480 idquo rectins juxta Originale"), og mun lítið á því að byggja. Eptir þessum texta hjá Magnúsi er bréfið svo prentað í Lagasafni handa Íslandi I, 37—38, en rithætti nokkuð breytt. Því næst prentar Magnús bréfið að síðara hluta eins og það kemr venjulegast fram í afskriptunum, og er sá texti hjá honum með ártali 1480. Auk þessa prentar Magnús I, 57—59, eptir einu handriti þessa klausu, — í sjö kongsbréfasöfnum af átta, som hann hafði undir höndum, stóð hún ekki, — sem sérstaka réttarbót heimfærða til 1480:

„Réttarbót kong Christierns útgefin Anno 1480
um kirkna portion.

Eigi viljum vér að kirkna portio leysiz með höfnðbóli né heimalandi eður fastaoign, heldr með lausafé eður sæmilegum þingum til kirkjuprýðingar; en sé það ei til, þá með útjörðum og loysi erfingjar aptur, nær þeir geta, með fullvirði; því það hefur fyrir oss klagað verið, að skatturinn af landinu og krónunnar renta hefur minkaz af biskupanna ásetningi, því þeir hafa so frekir verið, að draga jarðagózið af bændunum, sem um portion hafa skyldugir orðið. Þeir menn, sem kirkjur smíða allar upp eður meiri bót á þeim gjöra en prestur eður kirkjubóndi hefur portion meðtekið, þá skal kirkjan honum skyldug vera af tíundum".

Að efni til er öll þessi grein nokkurn veginn hið sama og stendr hér í síðara hlnta þessa bréfs, þegar frá er skilið um kirkjusmíði, og er því vant að segja, hvort þetta sé annað en umskript einhvers lagamanns eða kirkjneiganda af síðara kafla þess. — Þess er enn að geta, að Finnr biskup (Kirkjusaga II, 233, neðanmálsgr. g; sbr. Lagasafn MKet. I, 61) telr fyrra hluta bréfsins, um vetrarlegumenn, dagsettan fjórða sunnudag optir páska („Dominica qvarta post pascha"), en það kemr alt í sama stað niðr og „Dominica cantate", því að það er einmitt fjórði sunnudagr eptir páska. Enn getr þess í Lagasafni handa Íslandi, að sumar afskriptir dagseti þetta bréf fyrsta sunnudag eptir páska (= 29. Apr.) 1481. Hér or nú farið svo með þetta bréf, að prentað er fyrst eptir gamla transskriptinu, síðan á blandinni dönsku eptir afskript Guðbrands biskups, því næst tvær þýðingar alls bréfsins, sín með hvoru móti, og síðast síðari hluti bréfsins eins og hann kemr fram í elztri mynd og svipaðr því, som tíðast er í afskriptum (A, B, C, D og E).

## A

AM. Fasc. XXV, 3, transskript á skinni, gert á Reykhólum 23. Júní 1483.

vm þyſska[1])

Wij kristiern med guds nad. Dannmarks. Suiarikis. Norigis. Wenndis ok gotes konung. hertug j slesvijk ok j hollsten. Stormari ok tittmerskin hertug. Greifi j olldinborg ok delmenhorst

Giori alle uiturligt ath wor kiæri vnndersathe ok menek allmuugi. semm byggia upp ǫ́a uort ok krununar lannd island. Hafum nu haftt theiris bod huus os. med theiris bref ok skrifelsi. kiærenndis [ath· at[2]) utlenski menn liggi þar j lanndit winterlægi ok holldur ther hus ok garda vit strranndin. moti lanndzins lag. ok giori inbygiaren stortt forfang. ok locke fra þeim theris thinestefolk. suo byndurner kunna ei ath hafa maktt ath byggia ok upp hall(d)a theirris iordum. Ok ath utlenski menn eigi uile blíjuve nit þau kaupp semm want er ath gǫ́a ther j landit. ok til forna sett ok sammþyckt err. men sette theris goz suo dyrt semm the wele. mot suo dane preuilegie ok frijheit. semm worer undersatj thar j lanndit hafi ath uorr emmbættismann mǫ́a upp taki suo dantt goz. semm vtlen(s)ki menn thar nidur setti. wmm winterinn ok sameleidis. wmm then kaupp semm giorizt mot thann semmi ok sammþyckelsi. semm thar giorizt. Tha uilivm wij at eingi vtlenski menn skulu thar ligia upp æ landit winterlægi thar hws ok gard ath hallda. ellur kaupi ok seli mot landzins lag. Preuilegie ok friheit. Ok ath their suo dann kanp hier eftter hallda skuli. semm til forna want er ath uera ok giortt ok sammþycktt err.

Jtem hafi thé so latit bíjretti fore oss ath narr swo sker ath krunan ok kirkian hafi nockur gardj saman ok the semm wpp æ gardiñ bo ok blíjfa kirkiunni nockut skulluger thǎ uill biskupin ellur forsuarari npp ǫ́a kirkenes uegna· eigi annath hafi af bonden. enn hans deilld. ellur hofutgardin sem hann j bur til betaling. Ok forminkazt kronens rennte ok riettigheit thar medur. Huilkit uíj eigi til stedia muñe. Menn uile ath huilkin bondj semm blíjfur kirkiuni j suodann mata nockut skylldng. ath hann ellur

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi. [2]) Svo XXV, 3.

hans erfingi mvne þat bítale med suo dann woru. semm the kunne af stad koma ellr med þeirra andres smǽ́ iorde. Wmm eingi af theiris erfinge wile suo dane iord til sig inleysi. ok theris giolld betale. Tíj forbiudu víj alle huo the hellztt ero ellur uera kunne. hier ǽ́ mot thenne uornn vilie (ok) skickelsi hier efftter ath giora. Suo fremtt worr embætismann skal eıj[1]) maktt hafi vpp a uorra uegna ath anami huers the j suo dann mate hafa med. vmm suo sker ath thette uortt bref blíjfur lesit. suo betíjdenn ath fornefnd vttlenski Menn betíjdin kunne kome ther af landet forer vinterenn.

Datum in castro nostro hafniensi[2]) dominica cantate anno domini M° quadrin̄gen̄tesimo [lxxx primo[3]) nostro sub secreto precentibus appenso.

**B**

Bisk. 4. 4to. bls. 9—11, syrpa Guðbrands biskups með hans eiginhendi c. 1580.

Cop(ia) af kong ch(ristians) brefe vm kaupskap vtlendskra og hondlan og kirkna portio.

Wij christiern med Gudz nade. Danmarks. Suerigis. norgis Vendes og Gothes konvng. hertug ȷ Slesvig och ȷ holsten Stormarn og dythmerschen hertug Greffe ȷ Oldenborg og Delmenhorst. Giore aller witherligt ath vor kære vndersate og mene almue. sem bygge och bo pa vort og kronen(s) land ijsland. haffue nu haft theres bud hoss oss med theres (breff) oc skriffuelse. kærendis ad vdlendske mend ligge ther j landit vinterlege. oc holde ther hus og Garde vid Stranden mod landsins lag. og giore jn̄byggeren stort fforfang. och locke ffra them theres thienestefolck. so ad bonderne kunde (ey) haffue magt at bruge och vppholdis theres gǒrde. och ad vdlendske men ei vile bliffue vid thet kǒb sem vant er ad ga ther j landit. og til fforn sett og samtyckt er. men sette theris gotz so diurt som de vele. modt

---

[1]) XXV, 3: ty(!) [2]) hafnin XXV, 3. [3]) [174, 4, 2135, 1945; sl. XXV, 3(!).

soddan priuilegie og ffriheder som wore wndersate ther j landet haffue. ath vor embitzmann ma vpptage soddan gotz som vtlendske men ther ned[1]) sette vm̄ vinteren. och samleidis vm̄ the kôb. som giore(s) mod then semie oc samtyckelse som tha giorde(s). tha wele vy ad jnge vdlendske men skule her effter ligge ther pa landit winterleye ther hws och garde at holde eller kôbe og selge mod landsins lagh privilelegie og ffrijheit. og at the soddan kôb her effter holdes skal som til fforne want er at wera og giort og samtyckt er.

Jtem haffue og the ladet berette fore oss. ad nar so sker ath bun̄en og kirkien haffuer noge garde til samen och the som pa gardene bu bliffue kirkien noget skylldige. tha vill Bispin eller fforsuar pa kirkiens vegne ey annad haffue aff bunden enn han̄s del j hoffuitgarden som han j bor til betalings. og forminkis kronen(s) rente och riettigheid ther med. huilkit vy ey tilstede mwe. men wele ad huilken Bonde. som bliffuer kirkierne j soddant made noged skylldig. ath han eller han̄s arffuinge mwe the betale med soddan ware som the kunde aff stad kome. eller med andre theres smajôrde om jnge af theris arffinge. wele soddan jorde til sig wdleyse og theres geld betale. thi forbiude wij alle ehuo the helst the ere eller vere kunde. her emod thenne wor wilge och skickelse her effter. ad giore so ffrempt wor embitzmann skal eij magt haffue pa vor wegne ath anname hues the j soddane made haffue med at fare. om so skier ath thette vore breff bliffuer lest swo betijden ath forne wdlendske men. betiden kunde koma ther aff landet for winteren.

Datum in castro nostro Hafniensi dominica cantate. Anno domini millesimo quadringentesimo. octuagesimo primo nostro sub secreto presentibus appenso.

C

Ny kgl. saml. 1945. 4to, bl. 190a—b, með hendi Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði 1666.

Kongs Bref um̄ Þyska veturlegumenn.

[1]) med, hdr.

Christian med guds nǻd danmerkur et cetera.

giorum godum monnum kunnugtt ad vorir kiærer under sǻtar og almwge sem bwa ǻ voru skattlande Jslande. hafa nw haft sinn bodskap fyrer oss. kiærande ad wtlendsker menn liggia þar j landed veturlegu og hallda þar hws og heimile ǻ mote lands logum. giorande Jnnbyggiorunum storañ skada og baga. locka fra þeim þeirra þionustufolk so bændurner geta ecke hallded sijnum Jordum vit mactt edur þær nytkad. Somuleidis ad wtlendsker menn vilia ecke hallda almwganum þar j landed vid gomul Jslendsk kaup ǻ varnijnge setiande sitt gots so hatt wpp sem þeim lijkar mote gomlum frijheitum. sem vorer undersǻtar þar j landed hafa. þvi hofum̃ vier uñt og lofad ad vorer um̃bodsmenn þar j landed meige upptaka soddañ gots sem þar um̃ veturenn liggur. So og fyrer þeim sem giora ologlig kaup þar j landenu edur þar hallda hws edur garda. og þar skule halldast soddan kaup sem til forna hefur vered.

J annare grein hafa þeir lǻted oss undervijsa. ad hvar ed krwnañ og kirkian hafa nockrar Jarder til samans og þeir upp a Jǿrdunne bwa verda kirkiunne nockud skyllduger. þǻ vill biskupenn upp a kirkiunnar vegna ei annad hafa af bændunum enn hañs bestu hofudgarda og jarder sem hann ǻ byr j þennañ betaling hvad vier j aungvañ mata tilstedium̃ nie vilium. helldur vilium vier ad sierhvor bonde sem kirkiunne nockud skylldugur verdur med þessum hætte. ad hann edur hans erfingiar meige þa skulld betala med audrum aurum edur smǻgordum. ef erfingiarner vilia þær ecki leisa og hans skulld betala. þvi fyrerbiodum vier ollum og sierhuerium. hvorier hellst þeir ero edur verda kunna j mote þessare vorre skipan og vilia ad giora hier effter so framt sem þeir vilia ei ad vor um̃bodsmadur med soddan hætte upptake sama gots ef þeir eru ej ǻdur þar af lande sigldcr ǻdur enn þetta vortt bref þangad kemur.

gefed ǻ voru slote kaupenhoffñ 1481.

**D**

Advocates Library i Eidinaborg (í safni Finns Magnússonar) 14. 4[to], (21, 3, 5), skr. c. 1740—50.

Um ka/pskap utlendskra og höndlan. og kirkna portio.

Vier Christian med Gndz nád Danmerkur. Sviarikis et cetera giörum öllum vitanligt. ad vorer kiæru undersatar. og allur almugie. sem byggia og bua á voru og kronunnar lande Jslande hafa nn haft bodskap til vor med þeirra brefum og skrifum. kiærande. at utlensker menn liggia þar i landinu vetrarlegu og hallda þar hus og garda vid siosiduna. mot landsens lögum. og giöra jnnbyggiurunum stora hindran. og locka fra þeim þeirra þionustufólk. so ad bændurner meiga ecke ad bruka og vidhallda þeirra jördum. og at utlendsker menn ei vilia blifa vid þad kaup. sem vant er ad ganga þar i landenu. og til forna sett og samþyckt er. helldr setia þeir gotz so dýrt sem þeir vilia i mot þeim privilegier og frijheitum sem vorer undersatar þar i landenu hafa. at vor umbodsmadur meige upp taka soddann gotz. sem utlendsker menn þar nidur setia um vetrar tijmann. og sömuleidis um þau kaup sem þeir giöra. mot þeim sama og samþyckt sem giörst hefur. þvi vilium vier ad eingver ntlendsker menn skule hier efter liggia þar i landenu vetrarlegu. þar hus og garda hallda ellegar kaupslaga og selia mot landsenz lögum. privilegie og frijheitum. og at þeir soddan kaup hier eftir hallda skule. sem til forna vanalegt er. og giört og samþyckt er.

Jtem hafa þeir láted tia oss. ad þegar þad ber vid ad bondenn og kyrkiann hafa nockra garda til samans. og þeir sem bua á gardenum verda kyrkiunne nockud skylduger. þá vill biskupinn edur kyrkiuveriaren kyrkiunnar vegna ei annad hafa af bondanum. enn hanz deild i höfudgardenum. sem hann á býr. til betalingz og þar vid mijnkar kronunnar Renta og Rettugheit. hvad vier meigum ei lijda. helldur vilium ad hver bonde. sem med soddann mote verdur kyrkiunne nockud sklldugur. ad hann edur hanz erfingiar meige þá betala i slijkre vörn. sem þeir gieta ute láted. edur med ödrum þeirra smájördum. ef einginn af þeirra erfingium vilia soddann jarder til sijn innleysa. og betala skulldena. þvi forbiodum vier öllum. hverier hellst þeir eru eda vera knnna. ad giöra i mot þessum vorum vilia og

skickan. so framt vor umbodsmadur skal ei magt hafa vorra vegna at upp taka hvad þeir i soddan mata hafa med at fara. ef so skedur ad þetta vort bref verdur so tijmanlega birt. ad fyrnefnder utlendsker menn kunne i tijma ad komast þadan fra landenu fyrer veturenn.

Datum Castro nostro Hafniensi. dominica Cantate. Anno Domini millesimo Qvadringentesimo. octuagesimo primo nostro sub secreto presentibus appenso.

E

Add. British Museum 11, 242 (FM. 206) bl. 73a, syrpa séra Gottskálks í Glaumbæ, skr. 1543—1590, með samanburði við AM. 174a. 4to, (c. 1500), AM. 345. Fol. c. 1570 og Stockh. C8, c. 1608 (ártal „m. 80“!). Sá einn orðamunr er tekinn, sem máli skiptir.

vtskript af kong kristierns brefi.

Vij kristiern med gvdz nad Danmarkz Sviarikis noregis vendiz oc gotes konvng. hertvg vt i slesvic oc j holsten stormarn oc dettmersken. greifve j olldenborg oc delmenhorst. giore alle viturligt at vor kære vndersate oc meine almvge sem byggia oc bva vpp æ vort krvnv land island. hafa nv haft deris bod hvs nær oss theires bref oc beviselsi kærandis et cetera. og latid berietta oc vndervisa firir oss at nær svo skier at biskupen oc kirkian hafa nockra garda saman. at þeir sem vpp æ gardana bva blifa nockvt kirkivnne skylldvger. þa vill biskupen vpp æ kirkivnnar uegna ei annat hafa af almvgan en hanz deilld j hofudgardenvm [sem helldr til betaling[1]). oc forminkaz krvnvnar [renta oc[2]) riettugheit[3]) þar med. hvilket vij ei tilstede mege nie vilia ad huilken bondi sem blifr kirkivnne j soddan mata nockud skylldvger at hann ellr hanz erfingiar megi þat vel[4]) bitala med suodan voru sem þeir kvnna af stad at koma. ella med andre þeirra [sma jarder[5]). ef einge af þeirra erfingivm vile svodane jarde til sig at leysa oc teres peninga[6]) gielld bitala. þvi forbiodum vier alle ei hue tei

[1]) [sem helldur bæri ad leisast med odrv 345, C8. [2]) [sl. 174. [3]) verdugheit 345, C8(!). [4]) sl. 174. [5]) samjordir 174; smæri jordum 345, C8. [6]) reiknings 174.

hellz eru ellr vera kvnna hier j mot þenna vilia vorn oc skickelsi hier efter at giora. Datum in castro hafniensi dominica cantate anno domini ɱ. iiijc lxxx. [primo nostro sub cecreto presentibus appenso[1]).

Var þetta bref kong kristerns samþyckt a alþingi med lofatake af badum[2]) logmonnum oc logrettomonnum [oc ollum almnga oc hirdstiora[3]).

---

336. 24. Maí 1481. Í Saurbæ.

Dómr Jóns Sigmundssonar kongs umboðsmanns í Vöðluþingi um peninga Bjarna Ólasonar í Hvassafelli.

AM. Fasc. XXVI, 12, transskript á skinni frá 24. Marts 1489. — Afskrr. í Lbs. 115. 4to, og ÍBfél. 126. 4to.

transkriptarbref vm dom peninga biarna olasonar[4]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref siæ edr heyræ. senda pall bransson. jon sigurdsson. arñe hoskolldsson. hoskolldur arnason. þorllackur þorsteinsson. olafur halldorsson. þorlackur semingsson. olafur helgason. steinn snorrason. eyuindur eyuindsson ok þorlackur gislason quediu guds ok sina kunigt giorandi ath þa er lidit uar fra hingat burd vors herra iesv christi þusund .cccc. attatigir ok eitt ar. ffimtudagin j fardogum j saurbæ j eyiafirdi a þingstad rettum uorum uær j dom nefnder af æ(r)ligum mane jone sigmundzsyne. er þa hafdi mins herra kongsins syslu ok vmbod j vodluþingi. beiddi hann oss ok krafdi a ath lita ok inuirdiliga at skoda ok ransacka. hner afendingarmadnr skylldi vera æ peningum biarna olasonar ok medtoknmadur. Nu sacker þess ath þar kom eingi sa sem med peningunum uilldi giora edr afenda logligar skulldir. En peningarnir dæmdir fallnir undir kirkiu halfir. þui leidzt oss þath suarligt ath logligr kongsins umbodsmadur j uodluþingi

---

[1]) [b. v. 174. [2]) sl. 174. [3]) [ok hirdstiora og avllvm almuga 174. Þessa samþyktarklausu vantar í öll, nema 174 og 11,242. [4]) Utan á bréfinu með fornri hendi. „Dómr Jóns Sigmundssonar um peninga Bjarna Ólasonar“, Lbs. 115, ÍBfél. 126.

lucki allar logligar skulldir af peningum biarna olasonar epter fiarmagni til motz vid[1]) þa peninga hans sem ligia j nodluþingi ok tacki ath sier helming til haldz ok allra laugligra skullda lykninga kongdomsins uegna. lidzt oss suarligt ath margret olafsdotter. kuinna biarna olasonar. fyrst [eige hafi[2]) sin mala fyr en adrar skulldir luckidz. en þeir peningar sem af geingi skulldunum hier j uodloþingi þæ dæmdu nær under halld ok forsio kongs umbodsmanz med fullum uorslum til næsta auxararþings nu j sumar ok þat leingur sem ei geingr lagauegnr a᷈ huer eignarmadur skal uera af skyllda afgangi greindra peninga. En ef fyr uerdr kongs umbodsmanna skipti hier j uodluþingi en endiligur uegur geingr æ þessi mæl. þa dæmdum uær fyr skrifada peninga med sama skilordi ok uorslum sem hinn fẏre hafdi ok sa þa uid skildur sem fyr med tock epter rettum reikningi ok þui afentn. sem hann upp bar under þa grein ath huorigir flyti burtt ur sueitini fyrskrifada peninga fyr en endiligur negur[3]) gangi æ huer eignarmadur er dæmdur logliga greindra peninga.

Ok til sanenda hier vm settum uær fyr nefnder domsmenn uor incigli firir þetta bref med samþycki jons sigmundzsonar er þa hafdi mins herra kongsins syslu ok umbod j uodluþingi þenna uorn dom med oss. er skrifadur uar æ grnnd j eyiafirdi laugardagin næsta firir ionsmessu baptiste æ sama are ok fyr seiger[4]).

---

337. 29. Maí 1481. á Helgastöðum. 17. Apríl 1482. á Ási í Öxarfirði.

Sex menn votta, að Þorálfr Þorgrimsson seldi Magnúsi syni sínum til fullrar eignar hálfa jörðina Granastaði í Köldukinn fyrir lausafé, og að Páll Þórálfsson seldi Magnúsi bróður sinum það hálft þriðja hundrað í jörðinni, er

[1]) 115, 126; sl. XXVI, 12. [2]) [þannig XXVI, 12; megi hafa 115, 126. [3]) lagavegr 115, 126. [4]) Þ. e. 23. Júní.

honum hafði til erfða fallið eptir Steinuni Þorkelsdóttur móður sína.

AM. Fasc. LXVI, 17, frumrit á skinni. Af sex innsiglum er nú eitt fyrir bréfinu.

Ollvm monnvm þeim sem þetta bref sia edr heyra senda þorsteinn þorleifsson. hakon hallsson. thomas sveinbiarnarson. asgrimur hallsson. gvdmvndr olafsson og jon vermvndzson Q. G. og sina kvnnigth giorandi ath þa lidith var fra gvdz bvrd þvshvnnd fiogr hvndrvd attatiger og eitt áár á þridiadaginn j fardagavikv á helgastodvm j Reykiadal vorvm vier hia sævm og heyrdvm á ord og handaband þoralfs þorgrimssonar af eirne alfv en magnvsar sonar hans af annarri at sva fyrir skildv at þoralfur selldi greindvm magnvsi syne sinvm til fvllrar eignar jordina halfva granastadi er liggur j stadar kirkiv sokn j kinn med avllvm þeim gavgnvm og giædvm eignvm og itavkvm sem greindri halfri jordv hefer fyllgt ath fornv og nyiv og hann hafdi fremzst eigandi ath ordith. hier j mote gaf fyr nefndr magnus adr nefndvm þoralfvi .vı. malnytv kvgilldi og .iiij. gellfiar kvgildi. skylldi þav lvkazst á þrennvm tolf manvdvm en giallda lavgleigvr epter hvert kvgilldi vm nefndan tima þat ei veri lvkt at næstvm fardogvm. skylldi magnvs hallda jordvnne til lagha. en þoralfr svara lagha Riptingvm.

Svo og ei sidr j sama stad degi og áári sem fyr seger vorum vier fyrnefnder menn þar hia savm og heyrdvm æ ath pal þoralfsson selldi magnvsi þoralfssyni brodor sinvm med handabandi til fvllrar eignar þat halft þridia hvndrad j fyr nefndri jordv granastodvm sem honum hafdi til erfdar fallid epter steinvnne þorkelsdottur modr sina. hier j moti gaf titt nefndr magnvs greindvm pali halft þridia kvgilldi j fridvm peningvm. skylldi magnvs hallda þessvm jardar parti til laga. en pall svara laga Riptingvm.

samþycktv þrattnefnder menn þoralfur og pall hvor annars greint kavp og savlv med handabandi vid tittnefndan magnvs þoralfsson.

Og til sanninda hier vm settvm vier fyrr nefnder menn vor jnnscigli fyrir þetta bref giort j ǻsi j avxarfirdi hinn næsta dag epter magnvsdag vm vorid are sidar en fyr seger.

---

**338. 31. Maí 1481. í Ögri.**

Kristín Guðnadóttir gefr Sigurði Daðasyni kvitta og ákærulausa alla þá tiltölu, sem hún mætti eiga í Snóksdal, ef Hamrendar kynni að ganga af Sigurði með lögum vegna kirkjunnar í Hjarðarholti, og skyldi Sigurðr sjálfr þá svara lagaripting á Hamrendum.

AM. Apogr. 1437, án efa eptir frumriti.

Þat giorvm uær þordr audunarson. ormur jllugason. jllvgi halldorsson ok sandr þorsteinsson godum monnum viturlikt med þessu voro opnv brefi a uppstigningardag j augre j ísafirdi anno domini ꝏ cccc octvagessimo primo vorum uær þar j hia savm ok heyrdum a ord ok handaband kristinar gudnadotter ok sigrdar dadasona(r) at svo fyrir skildv at kristin gudnadotter gaf sigrdi dadasyne kuitta ok akærvlausa alla þa tiltavlv sem hvn mætti eiga j iurduni snoxdal er liggr i middaulum ef hamrenda iurd [er liggur[1]) j saudafellsþīgvm kynne at ganga af greindvm sigurdi med lavgvm vegna kirkiunnar j hiardarhollti. hafdi þrattnefndr sigurdr þa at hallda badar adrgreindar iarder. þa skylldi ok sigurdr svara sialfur laga Ripting a hamrendum sem optnefndre kristinv bæri at svara ok þui gaf tittnefnd kristin adrgreinda jvrd snoxdal kvitta ok akærvlausa undan ser ok sinvm erfingium enn under sigurd ok hans erfingia. Ok til sannenda her vm settvm vær fyrnef(nd)er menn uor jnsigli fyrir þetta bref er skrifat uar j sama stad a degi ok ari sem fyr seger.

---

1) [le', Apogr(!)

339. 8. Júní 1481. á Hólum.

Þrír prestar og einn leikmaðr votta, að Hrafn Brandsson beiddist lausnar af Ólafi biskupi af forboði því, er biskup hafði sett hann í heilagrar kirkju vegna, og sagðist biskup vilja leysa hann, þá er hann skilaði aptr Randíði Bjarnadóttur, sem Bjarni Ólason faðir hennar hefði legið með, og skyldi það gert fyrir langaföstu (18. Febr.).

AM. Fasc. XXVI, 5, frumrit á skinni. Öll innsiglin eru fyrir bréfinu, en nokkuð bráknð.

vm hrafn[1]).

Þath giorum vier jon broddason. eirekur einarsson. ellendur broddason. prestar holabiskupsdæmis ok jon þordarson leikmann godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi ath þar vorum vier j hia saum ok heyrdum æ æ mycklabæ j blondvhlid manudaginn næsta firir purificacionem sancte marie[2]) þa hrafn brandzson beidditz lausnar af biskup olaf firir þath forbod sem hann hafdi hann j sett heilagrar kirkiu vegna. En biskup olaf sagditz vilia leysa hann þa hann skilade aptur randide biarnardottur[3]) þeirre somu sem biarnė olason hafdi kentz ath hann hefdi legit med likamlega ok bætti sin afbrot þau sem hann hefdi ordit brotligur vid heilaga kirkiu. baud hann honum þetta hafa giortt firir langafaustu ef hann villdi til hlydne ganga.

Ok til sanninda hier um settum vier fyr skrifader menn vor jncigli firir þetta bref er skrifath var æ holum j hialltadal faustudaginn næsta firir huítasunnu. anno domini ɱ⁰ cd⁰ lxxx⁰ primo.

---

340. 8. Júní 1481. á Stapa.

Ketill Ormsson selr, með samþykki og upplagi Bjargar Snorradóttur, konu sinnar, Haldóri ábóta á Helgafelli hálfa jörðina Arnarstapa í Breiðavík fyrir lausafé.

---

1) Utan á bréfinu með fornri hendi. 2) Þ. e. 29. Janúar. 3) Svo.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsbókasafni 858. 4to, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. Ágrip þessa bréfs, alls ónýtt, er í AM. 252. 4to, 44; AM. 430. 4to, bls. 4, og Landsb. 108. 4to, bls. 142, og hafa þau ártal 1485, nema hvað 108 hefir í orðamun ártalið 1497, og er eins víst, að hvorugt af því sé öruggara en það, sem hér stendr.

Kaupbref fyrir Arnarstapa halfum.

Þad giorum vier Magnus Halldorsson. Skwle Þordarson og Jon fwsason godum monnum kunnugtt med þessu voro opnu brefe þa lijdit var fra gudz hingadburd 1481 ár a Stapa j knarrar kirkiusokn fostudaginn næstañ fyrir ħuijtasunnu vorum vier j hia saum og heyrdum á ord og handaband þessara manna. af einne alfu Herra Halldorz Abota a Helgafelli. enn af annari alfu Kietils Ormssonar og og hanz konu biargar Snorradottur ad so fyrir skildu ad kietill Ormsson selur sijra[1]) Halldore og klaustrino a Helgafelli med vpplægie og samþycke sijnnar kuinnu Biargar Snorradottur Jordina halfa Arnastapa j Breidawijk sem liggur j knarrar kirkiu sokn til fullrar eignar og frialz forrædis med ollum þeim gognum og giædum sem greindre Jordu halfri fylger og fylgtt hefur ad fornu og nyiu og fyrskrifud ketill og Biorg vrdu fremst eigandi ad. hier j mot gefur optnefndur Halldor (aboti) xx^c med þessum frijdleika xiiij malnytu kugilldi. og xij fiordunga smiorz og vj^c j þarfligum peningum ofrijdum. skilldi greindur Kietill suara lagaripttingum a greindre jordu. enn Aboti hallda til laga. og til sanninda hier vm et cetera.

---

341. 15. Júní 1481. á Þverá.

Ingibjörg Snæbjarnardóttir og Finnbogi Jónsson reiknast við, og telr hún sig eiga undir Finnboga hálft sétta hundrað af þeim peningum, sem Þorgerðr móðir hennar hafði gefið henni; fær hún honum fult umboð yfir þessum peningum um næstu tólf mánuði, en gjalda skyldi hann henni

[1]) Svo.

eða Þorgerði móður hennar, ef hún kynni við þurfa, jafnmikla peninga að næstum fardögum, og þar með kvittar hún Finnboga um alla aðra innstæðu.

AM. Fasc. XXVI, 23, frumrit á skinni, komið frá séra Skúla á Grenjaðarstað. Bæði innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 554.

Þat giornm uit gamli þorsteinsson og sygrdr broddason godum monnum uiturligt med þessu ockru opnu brefi at þar uoru uid bia saum og heẏrdum æ ord og medtal finnboga ionssonar og ingibiargar snøbiarnardottur j fyrsstu adh hun reiknadi epter standa hia greindum finboga halft setta hundrat af þeim peningum sem þorgerdr moder hennar hafdi gefit henni vnder opt nefndvm finboga. feick[1]) hun honum þa fullt og laugligt vmbod ẏfer þessum peningum[2]) vm nǫstu tolf manade j so mata at hann skẏldi giallda henne eda þorgerdi modur hennar ef hun kẏnni nid þurfa iafn mẏckla peninga at nǫstum fardogum. suo og gaf og giordi opt nefnd ingibiorg þratt nefndan finboga med handabande anllvngis kuitan og akǫrvlausan vm alla adra peninga instǫdu og medferd þa sem hann hafdi halldit a hennar uegna fra því fyrsta er moder hennar gaf honum opt nefnda peninga. for þessi giorningr fram a þuera j laxardal faustndagin j fardavgvm[3]) þa lidit uar fra hingatburd uors herra iesu christi. ꝏ. cd. lxxx. og .j. ar. og til sannenda hier um settu uit fẏrnefnder menn ockur incigle fyrer þetta bref skrifat j sama stad og ari fimtadagin nǫsta epter festum barnabe apostoli marteris[3]) gloriosi.

---

342. **15. Júní 1481.** **á Hólum.**

Vitnisburðr þriggja presta, að Bjarni Ólason hafi lýst því með þeim orðum og endimörkum, er bréfið greinir, að hann hafi legið með Randíði dóttur sinni.

Bisk. 3. Fol. 247—48, með hendi Hákonar sýslumanns Gíslasonar

---

[1]) Svo. [2]) peninga, frbr. [3]) Þ. e. 25. Maí.

1641—42, *eptir transskripti frá 13. Júlí 1481.* Yngri afskrr. eru í Landsb. 115. 4to, II, 85—87 og ÍBfél. 126. 4to, bls. 239—241.

Þad giorum vier Ketill Grijmolfsson. Eirikur Einarson. Andres Jonsson og Gudmundur Jonsson prestar Hola Biskupz dæmiz godum monnum viturligt med þessu voru opnu Brefi. ad þar voru vier j hia og heyrdum a. vorum andaligum faudur Biskup Olaf med Guds naad nærverandi. og morgum dandi monnum odrum nærverondum og ahey(r)ondum bædi lærdum og leikum ad Biarni Olason lysti soddañ lysing okugadur og ospurdur. fyrst sagdist hann hafa leigid hia Randidi dottur sıjnne alnakiñ Bædi vnder einum klædum. þa hun var þrettan vetra gomul. . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . [1]) J annañ tijma epter fiandans aeggian seirna sagdist hann hafa Borid sig ad ad liggia med henne þa hun var 14 vetra gomul. . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . Sagdist hann þetta skiemdarverk giort hafa fiorum sinnum med henne . . . . . . . . . enn so opt vpp fra þuj fullkomliga henne innan hollds verid hafa ad hann minde þad eij. . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . Var hann þa epter spurdur þui hann hefdi þessa skamm giort. enn hann suaradi ad hann villdi eij ad Barngietnadur mætti af verda. og sagdist hallda sig þa sannañ ad sok. og Beiddist nadar af Biskup Olaf med guds nad. vndrudust þad aller bædi lærder og leiker. ad Biarni sendi epter Biskupinum til þess ad seigia slijka skamm vpp a sig ospurdur. okrafdur og okugadur. sem eingi villdi heyra og skamm er fra ad seigia. Nockrum dogum sıjdar sendi firr nefndur Biarni Bod epter Biskupinum og sagdist þa hafa leigid Randide dotter sıjna likamliga

---

[1]) Sjá neðanmálsgrein á 241. bls.

med fullu verki atta sijnnum og so opt ad hann munde eij . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . sagdist Biarni þuj ecki so frekt firre hafa kienst sijnn giorning. ad hann þeinkti þad mundi bæta hans mál. Beiddist Biarni þa enn firer þesse sijn adurgreind brot morgum dandi monnum nærverondum og aheyrondum Bædi lærdum og leikum. sem þetta Bref þar vm̃ giort vtvisar. skriptar og lausnar fyrer þesse sijn adurgreind brot. og lagdi sig vpp a dom heilagrar kyrkiu. og tok skripter af Biskupinum. og til sanninda hier vm̃. settum vier firr nefnder prestar vor Jnnsigle fyrer þetta Bref. er skrifad var a Holum j Hialltadal fostudæginn j Huitasunnu anno domini m.[o] cd.[o] lxxx primo.

---

343. 22. Júní 1481. á Hólum.

Vitnisburðr sex presta um það, að Bjarni Ólason hafi lýst því, að hann hefði haft nógan mat og klæði, síðan hann kom undir kirkjunnar vald, nema fastað annan hvern dag um jólaföstu, en annan hvern etið fisk.

AM. Fasc. XXVI, 11, frumritið á skinni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá.

Witnisburdur vm lising Biarna Olafssonar(!)[1]).

Þath giorum vier sveinbiorn þordarson. ketill grimolfsson. eirekur einarsson. þolleifur magnusson. gudmundur jonsson prestar holabiskupsdæmis godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi ath þar voru vier j hia ok heyrdum æ æ sunnudaginn næsta epter geisladaginn æ holum j hialltadal þa lidit var fra hingat burd vors herra iesu christi þushund fiogr hundrut attatiger ok eitt ær ath biarne olason lysti firir oss ath hann hefdi haft nogann mat ok klædi sidan hann kom vnder kirkiunnar valld nema um jolafaustu sagdistz hann hafa fastad annan huern dag enn annann huern etid fisk efter þui sem biskupen hafdi honum skipad

---

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

firir sin brot. vissu vier ok aller badi lærder ok leiker þeir sem heima æ stadnum voru ath þath var satt ath honum brast huorki matur ne dryckur klædi nie þionusta sem hann sagdi sialfur ath allir sier hefdi gott giortt. sagditz hann ok alldri hardara fangelsi haft hafa helldur enn fioturlæs rumann til skipta æ sinum fotum en opt þess j mille laus geinget. sau þeir dandi menn sem ei vissu adur ath biarne olason var bædi feitur ok vel fęr ok ath aullu uel halldinn.

Ok til sanninda hier um settum vier fyr nefnder prestar vor jncigli firir þetta bref er skrifath var æ holum j hialltadal faustudaginn næsta firir jons messu baptiste æ sama ære sem fyr seger.

---

**344. 22. Júní 1481. á Hólum.**

Vitnisburðr fjögra presta, að séra Jón Jónsson hafi lýst því og svarið það, að hann hafi séð Bjarna Olason 1479 liggja hjá Randíði dóttur sinni í Vík í Flateyjardal um nótt í einni sæng undir einum klæðum, með fleira því, er bréfið greinir.

Bisk. 3. Fol., bls. 244—45, með hendi Hákonar sýslumanns Gíslasonar 1641—42, eptir transskrípti frá 13. Júlí 1481. Yngri afskrr. eru í Landsb. 115. 4to, II, 81—82 og ÍBfél. 126. 4to, bls. 236—37.

Þad giorum vier Ketill Grijmolfsson. Eirikur Einarson. Andres Jonsson og Gudmundur Jonsson prestar Hola Biskupzdæmis godum monnum viturligt med þessu voru opnu Brefi ad þar voru vier j hia saum og heyrdum ä. a fostudægin næsta fyrer Jonsmessu Baptistæ heima a domkyrk(i)unne ä Holum ȷ Hialltadal ad sijra Jon Jonsson sor fullañ Bokareid fyrer vorum virduligum herra og andaligum faudur Biskup Olafe ad hann hefde sied Biarna Olason liggia hia dottur sıȷnne Randidi vm̃ nott ȷ einne sæng og vnder einum klædum ȷ vijk ȷ flateyardal nu fyrer tueimur ärum og firrnefndur sijra Jon sagdist hafa spurt ad heimamennina huor kona hia Biarna læge. enn þeir suor(u)du honum ad hann læge hia Randidi dottur sıȷnne. og þad sama

sa hann sialfur a sama vietfangi er hann gieck ad sænginne. lyste og adurnefndur Biarni og medkiendist fyrer þrattnefndum sijra Joni nu j haust ed var a Þuerá j Hnioskadal adur enn Biskupinn liet fanga hann vnder kyrk(i)unnar Riett ad hann hefdi optliga leigid hia Randidi dottur sijnne j einne sæng. og ønguañ ad fordast. Og til sanninda hier vm̄ settum vier firr nefnder prestar vor Jnnsigle fyrer þetta Bref er skrifad var a Holum j Hialltadal fostudægin næsta epter dýra dag Anno Domini m.° cd.° lxxx° primo.

---

345. 29. Júní 1481. í Viðey.

Steinmóðr ábóti í Viðey stefnir séra Guðmundi Skúlasyni í Skálholt 19. Júlí fyrir Magnús biskup fyrir þá sök, að hann vilji ekki halda testamentum Skúla Loptssonar, föður sins, „guð hans sál náði", er hann gaf klaustrinu í Viðey jörðina Heiðarhús (Nr. 149).

AM. 238. 4to, bl. 3, skr. c. 1570. (Bessastaðabók). — Prentað á latínu í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 87.

Stefnvbref.

Vier broder Steinmodr med gudz þolinmædi aboti j Videy stefnnr[1]) þer Gvdmvndr prestr Skvlason stvndarstefnv j Skalhollt fimtudeiginn[1]) næsta fyrir translatio sancti Torlaci episcopi nv j svmar fyrir herra Magnvs biskvp i Skalhollti fyrir þa sok at vær kærvm þat til þin at þv villt ecki hallda testamentvm ok giof er þinn fadir Skvli Loptsson sem gvd hans sal nadi gaf iordina Heidarhvs kirkivne j Videy sem þar vm giortt opit bref vtvisar. vnder þan dom edr orskvrd er biskvp Magnvs þar yfir seigir edr seigia lætr. hverra svara edr seckta þv verdr skylldvgr klavstrinv hier fyrir ok fyrir þær fleiri sakir adrar er ver megvm þar med logvm til þin tala. Sertt kominn at hadege ok sit suo leinge stefnvna sem endeligr laga vegr fellr a þessi þin mal. stefni ek þer j adr greindan stad ok dag med ollv þvi profi ok skilriki er þer ma til gagns ok bata verda j fir-

[1]) Svo.

greindv mali. stefni ek þer at ordfvllv ok heilagrar kirkiv lavgmali riettv at vitne þinv .N. oc þinv .N. oc allra þeirra er ord min heyra.

Biodvm vier brodvr þormodi vorvm konventvbrodvr vnder krapti heilagrar hlydne at lesa þetta vortt stefnvbref firir sira Gvdmvndi Skvlasyni svo hatt oc skilid at hann megi vell heyra ef hann vill.

Og til sanninda hier vm settv ver vortt insigle fyrir þetta stefnvbref skrifad j Videy jn festo apostolorum Petri et Pauli anno domini ꝏ.º cd.º lxxxj.

---

**346. 30. Júní 1481. á Öxarárþingi.**

Tveggja tylfta dómr, útnefndr á alþingi af Hrafni lögmanni Brandssyni, um eiðvætti og undanfæri Randiðar Bjarnadóttur og Bjarna Ólasonar, föður hennar, af legorðsmáli því, er Ólafr biskup Rögnvaldsson hafði á þau borið.

Ny kgl. saml. 1945. 4to, bl. 336b—337a, með hendi Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði 1666 (ártal 1490). — AM. 196. 4to, bl. 40a—41a, með hendi séra Sigurðar Jónssonar í Ögri 1657—1665 (ártal 1490). Þessar tvær afskriptir eru nær samhljóða. — Landsbókasafn 115. 4to, I, 370—371, með hendi séra Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1730 (ártal 1480, nokkuð afbökuð afskript um sumt). — MSteph. 62. 4to, bl. 173b—174b, Eirspennla, skr. c. 1650—60 (ártal 1481). — ÍBfél. 125B. 4to, Nr. 188, skr. c. 1680 (ártal 1481, nokkuð styttr dómrinn; maukfúið). — AM. 211c. 4to, bls. 80—82, skr. c. 1700 (nokkuð afbakað um mannanöfn; ártal 1481). Fleiri afskriptir eru til af dómi þessum í skjalabókum, en eingar afskriptir hans eru vel góðar og nær er eitthvað að þeim öllum. Ártalið 1490 fær með eingu móti staðizt, því að þá er Hrafn lögmaðr dáinn. Ártalið 1480 getr heldr ekki verið rétt, því að af skjölum þessa máls er ekki hægt að sjá, að Ólafr biskup hafi tekið Bjarna fyrri en um haustið 1480, og þá 17. Nóv. geingr prestadómrinn biskups um fangan Bjarna. Ártalið 1481 verðr því að vera hið rétta. Svo stendr og í ágripi því „Vmm Eydvætto“ úr dómi þessum, sem stendr í dómasyrpunni í ÍBfél. 114. 8vo LVIII. Þorsteinn sýslumaðr Magnússon í Þykkvabæ (d. 1656), einn hinn mesti lagamaður á 17. öld, hefir samið ritgerð um dóm þenna all-langa, og telr hann dóminn þar ólöglega dæmdan (AM. 229. 4to, AM. 232a, 4to, MSteph. 58. 4to). Alt það, sem eru bersýnilegar afbakanir í handritunum, svo sem Bjarni *Ólafsson*(!), *Ragnheiðr*(!) Bjarnadóttir, og því um líkt, er leiðrétt hér þegjandi.

Dómur um Bjarna Ólason og hans dóttur[1]).

Öllum mönnum, sem þetta bréf sjá eður heyra, senda Gunnlaugur Þorkelsson, Einar Magnússon, [Finnbogi Jónsson, Þorlákur Þorsteinsson, Þorvaldur Jónsson, Magnús Magnússon[2]), [Ari Jónsson, Kolli Magnússon[3]) Gunnar Jónsson, Gunnsteinn Ísleifsson, Haldór Sumarliðason, Ólafur Sveinsson[4]), Arnór Finnsson, Stephán Þórarinsson, Guðmundur Stephánsson, Þórður Auðunarson, Jón Hrafnsson, Finnur Pétursson, Þorleifur[5]) Gunnsteinsson, Ólafur Þorvaldsson[6]), Einar[7]) Andrésson, Höskuldur Einarsson, Einar Árnason og Þorsteinn Guðmundsson kveðju guðs og sína, kunnugt gerandi, [að þá liðið var frá guðs burð[8]) 1481[9]), laugardaginn næstan eptir Péturs messu og Páls á almenniligu Öxarárþingi vorum ver í dóm nefndir af erligum manni Hrafni Brandssyni, lögmanni norðan og vestan á Íslandi, að rannsaka, skoða og dæma, hvort Randíður Bjarnadóttir skyldi ná lögligu undanfæri eður ei fyrir þann áburð, að Bjarni Ólason, [faðir hennar[10]), hefði vænzt því[11]), að hann hefði legið [með henni[12]) líkamliga.

Nú af því að vor lögbók vottar svo, að kona skal færast undan með eiði, ef maður vænist henni, því dæmdum vér henni tylftareið fyrir Hrafni lögmanni, og skyldi hún þennan[13]) eið unnið hafa fyrir Michaelsmessu í haust að forfallalausu. Skyldu með henni sanna[14]) ellefu[15]) konur þær, sem Hrafn lögmaður [nefndi til[16]) [með henni[17]), og

---

1) 62; Dómur nm nndanfærslu óbótamanns 196, 1945. 2) [196, 1945 og 211, nema hvað það hefir „Kiele Magnusson" (fyrir: Magnús Magnússon), som mun afbökun úr: Kolli (sbr. 3. neðanmálsgrein); sl. hin. 3) [115; sl. hin, en nöfn þessi oiga auðsjáanlega að standa, því að þau fylla einmitt aðra tylftina; 211 hefir hér: Árni Jónsson, Magnús Magnússon. 4) Svo öll, nema 115, sem hefir: Steinsson. 5) Þorlákur 211; *rétt*: Þorleikur. 6) 196, 1945; Þorvarðsson 62, 115, 211. 7) Gunnar 211. 8) [62, 115 (burði); Anno Domini 196, 1945. 9) 62, 125, 114; 1480, 115; 1490, 196, 1945. 10) [62, 115; sl. hin. 11) b. v. 196, 115. 12) [115, 62; hana 196, 1945. 13) þann 62, 115. 14) sverja 62, 115. 15) 62, 115; níu 196, 1945. 16) [tilnefndi 1945. 17) [b. v. 62.

skyldugar að sanna þenna eið með henni, eður fá lögmæta grein fyrir sig og sverja þar að fullan eið, að þær hygði[1]) henni [eiðinn heldur ósæran eður[2]) særan. En ef þær vildu hvorki gera, þá dæmdum vér þær aungra vitna njótandi [verða mega[3]). En hver, sem vald[4]), vél eður styrk veitir þar til, að hún nái ei undanfæri[5]) eptir vorum dómi, svari slíku fyrir kongdóminum sem sá, er rænir mann þjófi eður útlægum manni.

Jtem í annari grein vorum vér [í dóm[6]) nefndir af Hrafni lögmanni að skoða og dæma, hvort Bjarni Ólason væri[7]) rétt[8]) fangaður eður ei af biskup Ólafi og hans mönnum fyrir þá sök, að biskup[9]) sagði, að Bjarni Ólason hefði legið sína dóttur Randíði, og lét þar upp á fanga hann að óprófuðu máli, og lét hann ei ná fram að koma lögligu undanfæri. En svo[10]) vottar vor landslaga bók, að[11]) með tylftareiði skal synja allra óbótamála. Vísa og svo til kyrkjunnar lög: Ef biskup kennir manni það eður hans lögligur[12]) umboðsmaður, að hann hafi það ódáðaverk unnið, að liggja sína dóttur, en hann kveður nei við, þá skal hann[13]) synja með tylftareiði. Og fyrir því að Bjarni Ólason náði ei lögligu[14]) undanfæri fyrir áður [greindan atburð[15]), þá dæmdum vér hann ólögliga fangaðan, og hann aptur undir kongs vald að sverja tylftareið fyrir Hrafni lögmanni, að hann hafi sína dóttur Randíði aldrei líkamliga legið, og ellefu[16]) skynsama menn að sverja með honum, þeir sem Hrafn lögmaður tilnefnir, og skylduga að sverja. En ef þeir vilja þann eið ei sverja eður fá lögmæta grein fyrir sig, og sverja þar að fullan bókareið, að þeir hugðu[17]) þann eið [heldur ósæran[18]) en særan, þá dæmdum vér þá aungra vitna njótandi verða eiga þaðan af.

---

1) 115; hugðu 62; hugi 196, 1045. 2) [115; eiðinn ósæran heldur en særan 62, 196, 1945. 3) [mega verða 196, 1945. 4) eður b. v. 196. 5) 62, 115; sínu framfæri(!) 196, 1945. 6) [til 62, 115. 7) 62; var, hin. 8) 62, 115; rettilega 196, 1945. 9) biskupinn 62. 10) þó 1945. 11) sl. 1945. 12) sl. 62, 115. 13) sl. 62, 115. 14) b. v. 196. 15) [greindum atburði 196, 1945. 16) níu 196, 1945. 17) hygði 62, 115. 18) [ósæran heldur 62, 115.

sekan þrim morkum fyrir þionuztutekiu. skal opt nefndr einar biornson edr hans wmbodzmadur hafa lukt allt adr greint sektafe herra magnuse biskupi j schalhollte edr hans wmbodsmanni at næstum fardogum ȷnnañ þessa biskups dæmis. samþyckti þenna worn dom med oss wor andligr fader herra magnus med guds nad biskup j schalhollti. suo og war þessi uor domur uppsagdr og jñ skriptis framborinn at einare biornsyne nærueranda. Og til sanninda hier um settum wer fyrr nefnder prestar wor jnnscigli fyrir þetta domsbref skrifath j sama stad degi og are sem fyrr seger.

---

**413. 28. Október 1482. á Hofi í Vatnsdal.**

Steinþór Sölvason fær Einari Oddssyni, með samþykki Oddfríðar Gísladóttur konu sinnar, til fullrar eignar tuttugu hundruð í jörðunni Hofi í Vatnsdal, en Einar geldr Steinþóri Fjós í Svartárdal og níu hundruð að auki.

AM. Fasc XXVII, 4, frumrit á skinni með þrem innsiglum, og hafa þau aldrei fleiri fyrir bréfið komið.

Þath giorum uer gunlaugur þorkelsson. liotur þorleïfsson. gisli filpusson. runolfur arnbiarnarson og jon biornzson. Godum monnum uiturligt med þessu woru opnu brefi. at þa er lidït war fra hingatburd uors herra ihesu christi þusuñd fiogur hundrut attatigïer og ii ár manudaginn næsta fyrir allra heilagra messu á hofï j uaztdal uorum uier j hia saum og heÿrdum æ ord og hañdaband þeirra einars oddzsonar af einne halfu og steinþors soluasonar af annare. at suo fyrir skildu at nefndr steinþor selldi fiek og handlagdi greindum einare til fullrar eïgnar med upplagi og samþÿck(i) oddfridar gisladottur kuinno sinnar xx hundrata jardar part j greindri jordu hofi j uazdal med ollum þeim gognum og gædum sem fÿr sogdum jardarpart fylgir og fylgt hefer att fornu og nÿu og adr nefnnd hion urdu fremz eigandi at med logum. hier j mot gaf oppt nefndr einar tittnefndum steinþori jordina fïos er ligur j suartardal i

hlidar kirkiu sockn med samþycki asu eigilsdottur konu sinar med ollum þeim gognum og gædum sem greindri jordu fylger og fylgt hefer at fornu og nýu og þar med vi malnýtu kugilldi og iii[c] j ollum peningum. attu þessir peningar gialldaz æller at næstum fardogum. skylldi huor oppt nef(n)dra mana einar og steinþor suara lagariptingum a þeirre jordu er att hafdi en huor vm sig hallda til laga [er keýpti[1]) og hier til lofadi einar at suara kirkiv reikningi suo miclum sem steinþori hefer borit at suara upp æ suo langan tima sem han hefer halldit fyr greindan jardar part. Og til saninda hier um settum ver fyr nefnder men vor incigli fyrir þetta bref er giort uar j sama stad dag og ar sem fyr seiger.

---

**414. 30. December 1482. í Þórsnesi í Harðangri.**
Aflátsbréf Ólafs Rögnvaldssonar biskups á Hólum handa Nikulásargildinu (gildisbræðrum) á Austursyn í Harðangri í Noregi.

Ferðamannen, Bergen 1865, Nr. 4—5, bls. 19, eptir frumritinu á skinni, er fanst á Austursyn, en er nú komið í Ríkisskjalalasafn Norðmanna. Dipl. Norveg. VIII, bls. 424—425, eptir frumritinu.

Vij Olaf med gudz nad biscup aa Hoolum j Islandi heilsum ollum godum monnum sem þetta bref sia edr heyra kiærliga med gudi ok vorri fru. kunnigt giorandi. ath Halldor Eysteinsson oldurmann j sancti Nicolaj gillde aa Austursyyn j Hardangur ok tuo dandimenn med honum Jon Andresson ok Vikingur Olafsson kuomu til voor ok badu ooss aa gudz vegna. ath vij skulldim gifua til fyrsagt gilldi nockurar afgifter synda ok aflat þeim til styrktar ok hialpar. er fyrnefnt gilldi hialpa ok styrkia. þuj gudi til heidur. jomfru Marie. sancto Nicolao ok ollum gudz helgum. hofum vij forer þeirra bænastad skulld af þuj valldi. gud hafur ooss vntt fioratigu daga aflat. ollum brædrum ok systrum j nefndu gilldi er sinar synder vilia skripta jdraastz ok bæta vid gud. samaleidis ok skulu þeir niotandi

---

[1]) [b. v.; vantar í frumbréfið.

vera fyrsagt aflat er optnef(n)t gilldi stydia ok styrkia med sinar godar tillogur. testamentum. gafur. messum ok salutidum. pater noster. et aue Maria forer ollum gilldisbrædrum ok gilldissystrum. ok ollum kristnum salum. ok suo forer allt annath gott. er þeir vilia giort hafua.

Ok til sannenda hier vm þa þryckium vij vortt sigl forer þetta bref sem skrifath var æ þorsnesi sietta dag jola anno domini m° cd° lxxx° secundo.

---

## 415. [1482].

Andsvör Norðlendinga til Ólafs biskups á Hólum um skyldur presta og kirkna, einkum um tíundareikning af hálfkirkjum og um biskupsgistingar, svo og varnargreinar þeirra um þau efni.

AM. 381. Fol., 5 blöð laus í arkarbroti með hendi Hákonar Ormssonar. Grunnavíkr-Jón skrifar á spássíu: „giört i tid Olafs biskups circa ann: 1479. er mod hendi Hakonar Ormssonar exaratum 1644". Ártalið 1479 er þó rangt, því að þessi skrá er meðal annars svar upp á bréf Gauta erkibiskups frá 22. Sept. 1481 (Nr. 364 og 365). Skrá þessi mun því gerð sumarið eða haustið 1482. Ólafr biskup er í Noregi vetrinn 1482—1483; hefir farið utan haustið 1481 (Sbr. bréf frá 24. Júlí 1481, Nr. 355) og hefir þá verið utan þrjú ár (1481—1483). Sjá bréf frá 18. Apr. 1486.

Andsvar Nordlendinga wm̄ presta og kyrkna skylldur.

J Naffne Vors herra Jesu Christi. biodum vier med einu samþycke bændur og almugie sem byggia og bua i holabiskupsdæme. þeir nu eru hier samankomner so felldann bodskap.

J fyrstu ad vier biodum oss audvelldlega vnder lǒg og riettende. bæde med kongdomenn. heilaga kirkiu og þeirra vmbodsmenn. og þǎ ad styrkia og stydia til allra riettra mǎla epter lǒgum og vorre skylldu epter fornu og nyiu. Suo og beidunst vier ad þeir late oss faa og haffa þaug lǒg og riettende sem þeir skylldast oss epter lǒgum og gǒmlum siduana og Biskupsdæmenu og almuganum i þui byggiande kann þǒrff og naudsyn til ad verda. Enn beiduust vndan allre þuijngan og olǒglegre ǎsokn og yffer-

gånge mote gömlum vanda og landssins lagariette. Virdest oss kongdomssins riettur og heilagrar kyrkiu so saman settur med stöddu endemarke og framsettum greinum. ad huörke mega höffdingiarner eff þeir geima laganna riettelega. ad ånaudga edur þreyngia folkenu med off mikillre ågyrne. og ad ei meige favitrer menn synia höffdingium þeirrar skylldu sem þeir haffa ådur riettelega vnder geinged. Þui vilium vier konge vorum og Biskupe og þeirra vmbodsmönnum eige[1]) synia slijkrar hlydne og þegnskylldu sem vier og vorer forelldrar haffa þeim og þeirra forfedrum loffad og jåtad epter þui sem lögmålid kongdomssins og kyrkiunnar skipar og skyrer med stöddu endemarke huorratueggia vegna suo vier meigum med nåd og frelse byggia og bua vnder vernd og fyrerhyggiu þessara tueggia Guds vmbodsmanna. Skulum vier fyrst allra heidra Gud. heilaga kyrkiu og hennar formenn. og veita þeim þa hlydne og riettende sem vier erum ad lögum skyllduger. enn vernda ei til þeirrar ogiptu sem optlega heffur yffergeinged aff missætte og sundurþycke mille kyrkiunnar formanna og leikvalldssins og annars almuga i landinu. Vilium vier med sönnum godvilia giallda og greida tolla og tijunder og skipadar skylldur. þær sem vier eigum heilagre kyrkiu og hennar vmbodsmönnum ad giallda epter lögum. sem forn renta og gamall landssins sidvane heffur a verid og huorskyns haattar edur tegundar þad kann helldst ad verda þad christendomenum ber epter lögum ad hallda og naudsyn kann til verda. Vilium vier og hallda þaug lög og bodord sem lærder menn boda og skipa i heilagre kyrkiu. þau sem biskupleg formæle heffur fyrer geinged og lærder og leiker haffa med einu samþycke åsatter orded. ad oskierdum vors nåduga herra kongssins riette i alla stade.

Giörum vier nu öllum godum mönnum heyrum kunnugt. ad vier höffum sied og heyrt og yfferlesed breff og bodskap virdulegs herra Erchibiskupssins aff Nidarose[2]) suo hliodanda ad vor andligur fader Biskup Olaff å Holum

---

[1]) eigia, hdr. [2]) Það er bréf Gauta erkibiskups frá 22. Sept. 1481 (Nr. 364), en ekki bréfið frá 15. Sept. 1478 (Dipl. Isl. VI, Nr. 153).

haffe klagad fyrer sier. ad vier vilium honum ǒnguann ʀeikningskap giǒra aff tijundum og ǒdrum eignum sem hálffkyrkium tilheyra. suo ad kyrkiurnar margar fordiarffast og nidurfalla fyrer vort forsǒmmelsis skulld og ǒnguastads synest huort kyrkiunnar skyllda bliffur stǒd. og so i Erchebiskupssins breffe. ad hann ried oss og hǒglega baud vnder hlydne ad giǒra hiedan i frá riettann reikningskap aff kyrkiutijundum og ǒllum ǒdrum kyrkiunnar rentum. Enn vm̄ kostnad og næturlegur aff hálffkyrkium skyllde fara epter þui sem Biskups naudsyn tilseiger i hañs frid og kyrkiunnar magt er ad hallda og fielle i þeirra reikningskap huad standa kynne þesse biskups gıjsting. heffur og Biskup Olaffur beidt hier suars vm̄ huad dándemenn vilia hier ad giǒra edur suar til gieffa. Geffum vier og nu þad suar aff vorre hende. ad vier vilium allann erchebiskupssins bodskap og lǒgliga skipun og annarra vorra yfferbodara styrkia og hallda epter þui fremsta sem vor skilningur til ber epter fornum landssins laganna riette og kyrkiunnar lǒgmále tilheyrer sem konganna skipaner. ʀiettarbætur og saattmále vtvijsar. ad fornu og nýiu skal i Holbiskupsdæme yffer ganga.

Enn þar sem so stendur i Erchebiskupssins bodskap. ad hann baud oss ad giǒra reikningskap aff kyrkiutijundum aff halffkyrkium edur vm̄ gisting og næturlegur ad þeim. vitum vier eingen lǒg. breff edur máldaga. heffd edur vana edur nockra lǒglega játan þar til vera nie verid haffa. helldur vitum vier ad fornu og nyiu haffa yffer geinged. ad þo Holabiskup haffe visiterat annadhuort ár huorn hluta sijns Biskupsdæmis. hafte þeir gist ad alkyrkium enn alldre ad halffkyrkium og teked so ad stadarkirkium allann þann ʀeikningskap aff ǒllum þeim tollum og tijundum. skylldum og skipunum sem til þessarar kyrkiu heffur leiged og aff bænhusum til kaups edur kostar þeim preste er ad þeirre kyrkiu syngur þar sem máldagar so tilseigia ad fornu. ad prestur take heima j kaup iiij merkur. enn vtangardz sem til telst ij merkur aff huorre halffkirkiu. enn halffa mǒrk aft bænhusum. Hǒffum vier vijda sied og heyrt breff og skilrijke huorsu halffkyrkiur haffa giǒrdar vered. og huor

æffenligur vane heffur fylgdt halfkyrkiuskylldum i holabiskupsdæme.

J fyrstu ad þeir dandemenn sem halffkyrkiurnar haffa giöra lated haffa gieffed til þeirrar soknarkirkiu sem jördin heffur til tijundar vnnder leiged. sumer v.e sumer xc eda meire peninga til þess ad su leiga er aff þeim peningum fellur aarlega. skal kyrkian til sijn taka fyrer þá tijund sem aff þeirre jordu og peningum skyllde falled haffa. Virdest oss flestar stadarkirkiur edur nær allar ad þessum reikninge og kaupmála skadlausar aff verda. þar sem þær taka aarlega leigu aff sögdum peningum. hundrad edur meira. Enn vier vitum faar jarder edur nær önguar ad meire kyrkiutijund aff falle enn xviij alner. halffmörk edur v aurar. Haffa þui þeir goder menn sem þessa sálugiöff haffa gieffed sierdeilis og einvirdelega vpp á sijna peninga teked med suo ordnum skildaga. ad á þeirre sömu jordu skal hálffkyrkiu kalla med biskups atquæde og suo vordinne rentu. ad þar skal syngia annann huorn helgann dag messu. enn taka þar ij alner i kaup á messuna og máltijd med huorre. enn sitia ei framar. Reiknast þá messukauped til tueggia marka á huorium xij mánudum. Skyllde og sá bonde er þessare kyrkiu skyllde vppe hallda til sijn taka kyrkiutijund og preststijund aff þeirre jördu og lausapeningum. og so liostolla sem forn vande heffur á vered. Vitum vier öngua rentu edur reikningskap vm̄ kostnad. vtgliölld edur gistingarskylldu vera eiga nie vered haffa ad halffkyrkium adra enn nu höffum vier fram̄ sagdt. Og þennann sama reikningskap giörum vier nu aller ydur Biskup Olaffur med einu játyrde aff þeim öllum hálffkyrkium sem vier hölldum og vmbod yffer höffum i Holabiskupsdæme. Suo og aff þeim kyrkium sem og þeirrar rentu haffa giöruar vered. ad þar skyllde syngia huorn dag helgann. suo ad kaupe og koste sem þar til heyrer. Suo og biodum vier þessa halffkyrknanna skylldu sem fyrrskriffad er vnder ydar Biskupslega skipun og vallde sem kyrkiunnar lög tilvijsa þar ed suo seiger. ad Biskup skal kyrkium ráda og öllum eignum þeirra og suo ollum Christnum dome. tijundum og tilgiöffum þeim sem menn gieffa Gude og helg-

um̄ monnum löglega sier til sálubiálpar. þui ad eckert valld meigu leikmenn yffer slijkum hlutum haffa vtan Biskupa skipan. Presta og lærda menn skal Biskup til kyrkna skipa sem máldagar standa til. Þui biodum vier og beidunst ad þier tilskiped so lærda menn þessa kyrknanna rentu vpp ad bera sem fyrr sagdur skilmále og maldage tilseiger.

Enn þo ad fyrr seige ad Biskup skule kyrkium ráda og kyrknanna eignum. er þad auglioslega skilianda. þad hanns valld sem allra annara yfferbodara skal blijffa og vera epter riettu og settu lögmále og stöddu endemarke þui sem sá heffur játad og vnder geinged er þa skylldu heffur i fyrstu sett og tilgiöff. enn ei framar sem skriffad stendur. ad ei skulu höffdingiar sitt endemark yffergánga til ad anaudga sijna vndermenn framar enn lög votta. Stendur so i R. B. virdulegs herra Eireks med Guds myskun Noregs kongs. ad þar sem hann skipade med Biskupanna samþycke og sáttmala leikmonnum halld og forræde á kyrkiu og kyrkna eignum sèm þad kongsins breff tilseiger. skyldu þeir hallda þar med þuilijkum kiennemannaskylldum sem sa haffde fyrer skilt er gaff. enn luka aff ecke framar. Nu eff nockur su fyrnd edur forsoman kann á ad proffuazt optneffndum halffkyrkium er þeirra skylldum sie ei suo riettelega vpphallded sem greindur skilmále tilseiger. þa vilium vier þar audvelldlega til suars og vmbotar med Biskupssins ráde vmmgánga ad heilög kyrkia haffe sijna fulla skylldu. hallda stade sem lög tilseigia.

Riettarbot Magnus kongs[1]) stendur suo skriffud. Honum var tied med breffum Nordlendinga vm̄ ymissa affdráttu og þuijnganer er Biskupar og lærder menn giöra þeim i mote lögum og fornre landssins veniu. villde hann med önguu mote þuilijka ohlydne og ránginde leinge hlijda láta. og þui fyrerbaud hann Biskupum og lærdum mönnum ad strijda á þegna sina mote lögum og fornre sidveniu. so þo ad Holabiskup visitere huort ár Biskupsdæme sitt. þá skyllde hann koma i huorn löghrepp sem forn lög votta og gista ad annarehuorre soknar kyrkiu. biodande þegnun-

[1]) þ. e. Ögvaldsness-sættargerðin 2. Mai 1297, Dipl. Isl. II, Nr. 167.
[2]) þ. e. réttarbót 10. Júní 1320, Dipl. Isl. II, Nr. 342.

um og ollum almuga ă ad standa og hallda riettendum sijnum og fyrrneffndum Articulis epter þui þeir vita fyrer Gude ad fornu heffdc vered. skylldande hirdstiora og alla landssins formenn ad styrkia þennann sinn bodskap epter þui sem þeir villdu suara fyrer Gude og hǒnum.

R. B. H. K.[1]) er suo stenndur. ad syslumǒnnum hæffer dyggilega[2]) ad geima til vpphallds og riettenda þegnanna og vndermanna virdulegs herra Noregs kongs. fyrst ad ǒnguar sekter leggiast ă framar enn fornu lǒg votta. og ǒnguar adrar nyiar ălǒgur. huorke fyrer forbodan nie taksetningar. bydur og kongurinn ad þesse hanns bodskapur og allur annar sem hann heffdc skipad godum monnum til frelsis enn ostyrelătum til yfferbotar verde stadfastlega halldinn. skipande stadfastlega og obrigdulega. ad huor sem hanns breff brytur. þo ad ei sekt ăgreindre sie sakadur 8 mǒrkum. biodande þar laga vrskurd ă ad leggia og dæma þar fyrer 8 merkur neffndar sem adrar lagasekter þær sem ăneffndar eru i lands laga bokenne sialffre ă huorn þann mann er ad þui verdr kunnur og sannur[3]). Nu fyrer allar þessar fyrrskriffadar greiner og konganna og Biskupanna samþyckt og skipaner ad fornu og nyiu. vogum vier nie meigum i onguann handa măta nockrar nyiar alǒgur eda þuijnganer jăta edur vnder ganga. kongenum og ʀijkenu Norege til obæteligs skada. enn oss og vorum epterkomendum fătækum sem rijkum til æffenlegrar ănaudar og oendanlegrar fiepijnu. kunnum vier þui ǒnguann reikningskap kostnad edur vtelukningar aff halffkirkiu jata edur samþyckia framar meir enn forn vande heffur ă vered og fyrrskriffad stenndur.

Nu so sem vier hǒffum ădur greindt og suar til geffued vm̄ þă ăkiæru sem vor virduligur herra Biskup Olaffur heffur tilkall veitt vm̄ halfkyrkna reikning i hanns Biskupsdæme. vilium vier nu og ei sijdur audueldlega andsuor til gieffa vm̄ þă adra hlute sem nockur ăskilnadur heffur ă verid ă millum lærdomssins og leikmannanna hier i Biskups-

[1]) þ. e. réttarbót frá 1309, Dipl. Isl. II, Nr. 196. [2]) leiðrétt; dyrilega (!) hdr. [3]) Sjá réttarbót um bréfabrot frá 25. Nóv. 1315, Dipl. Isl. II, Nr. 221.

dæme huad hellst er þad kann verda. huort þad er helldur vm̄ reikning kirknanna edur rentu lærdra manna edur adrar skylldur þær ed huorer haffa til annara heimt og kraffed og ei ǻsatter orded sijn ǻ millum. suo og vm̄ þær lagasokner er huorutueggiu valldenu tilkiemur til fiarsekta og þar kunna ei huorutueggin ad einum skilninge vm̄ verda. huorer edur huorsu þad skal til fullra laga sektast. suo og ei sijdur vm̄ þær sokner er leikmenn þykiast framar meir sokter vera med forbodun og vtsetningum enn þeim þyke lȯg til standa. þo þeim verde saker gieffnar edur nockud kunna brotleger verda mot heilagre kyrkiu. Villdum vier þessa hlute og alla adra med Biskupssins rǻde og samþyckt til þeirra lykta leida sem ȯllum dandemȯnnum lærdum og leikum hier i Biskupsdæmenu meige aff beggia hende samþyckelegast verda. Suo þo ad heilȯg kyrkia og kongdomurinn haffe sitt oskierdt valld i alla stade sem þeir haffa ǻdur sett og samþycker ǻ vorded. Nu þar sem telur vm̄ alkyrkna skylldur og þeirra rentur og þann reikningskap sem þar skal aff giora. og so er skriffad i fyrstu ad þeir sem kyrkiurnar haffa i fyrstu giȯra lǻted skal haffa so miklar tillȯgur og heimanfylgiu sem Biskupe syndest hun meiga halldast aff og hennar þionustumenn. þar med skyllde Biskup skipta hierade til þess ad akueda huorsu marger menn þangad skylldu tijund giallda. atte til þeirrar kyrkiu ad gialldast helmingur tijunda sem er kyrkiutijund og preststijund og gialldast i þeim peningum sierhuor vm̄ sig sem lȯg tilseigia. þangad skulu og liostollar leggiast aff þui hierade sem ǻdur er tijunnd vnder skipud. Skyllde preststijunden leggiast preste til tidakaups enn kyrkiutiund kyrkiunne til vpphelldis edur annarar sæmdar sem skriffad stenndur. Eff olærder menn taka lysetoll og kyrkiutiunnd og prestsfiordung. þǻ skulu þeir luka preste tidakaup fyrer hanns fiordung. enn kaupa kyrkiu nockra sæmelega gripe med hennar fiordunge so sem fie þad vinnst til. nema kyrkia þurffe ȯdruvijsu sier til vpphelldis og hier vppǻ haffa mǻldagar setter vered med þuilijkum kiennemanna skylldum vm̄ saung og setu sem forn lȯg tilvisa og gamall vannde heffur ǻ vered. Skulu prestar syngia a stadarkyrkiu huorre

huorn dag helgann messu. ottusaung og aptansaung og so vm̃ lángaföstu og jolaföstu og ymbrudaga alla. enn messa til halffkyrkna annann huern dag helgann enn ad bænhusum messu i huorium mánude. Og fyrer þessa og adra skyllduga þionustu skulu kiennemenn kaup taka slijkt sem su kyrkia var funderut med og þá reiknadest til iiij marka tijund til prestskaups liggia enn slijkt vtangards sem tiltekst og máldagar tilseigia. Tijdakaup presta ad fornu til viij marka edur ix. trautt meira edur ecke á tolff mánudum huorium vtangards og heima. Vitum vier nu fáar edur nær öngua alkyrkiu ad iiij marka tijund til ligge. helldur þær fleire ad haff(e) .ij.[1]) mörk edur minna fyrer jmislega audn og vndandratt sem dregst vndan kyrkiunum bæde fastaeigner og lausar. Og þeir sem þær haffa ad hallda vilia ei tijund aff giöra sem verda[2]) kongs eigner edur kyrkna. þiker bændunum prestarner aungualeidis þá skylldu fremia vm̃ kyrknanna saung og setning sem þeim þyker forn vande til haffa vered. þikiast þeir og ei skyllduger vera meira kaup edur peninga vtgreida enn kyrkiunnar renta tilstenndur i þeim sama tijma. i huorn handa máta sem hun heffur vndan geinged. huort þad kann helldur verda fyrer fátækdom edur forsoman þeirra sem þar skylldu vm̃hyggiu á haffa. Nu þar sem kong Eirek med Biskupanna saattmála og samþycke haffa vm̃ eins orded. þar leikmenn skylldu haffa valld og forræde a kyrkium og kyrknaeignum ṁed þeim kiennemanna skylldum er sá haffde skilt er gaff. enn ei meira vtgiallda. Stendur og suo i Christnum ʀiettenum. ad þar olærder menn taka kyrkiutijund skulu þeir kaupa kyrkiunne nockra sæmelega gripe med hennar fiordunge edur annars konar vpphelldis. Þyker oss þui þennann kyrkiunnar hluta einginn annar meiga vtkreffia edur burt taka. vtan hann falle til slijkrar rentu kyrkiunne til handa sem fyrr seiger. Vtvijsar so skipan og ʀiettarbot virdulegs herra Vilhialmi Cardinalis og stadfesting Jnnocentij páffua. ad eingenn Biskup skal dyrffast ad leggia vnder sig edur sinn stad eigner edur odul annara kyrkna. Og þar

---

[1]) ij, hdr.; [2]) þannig.

sem þad kann giörast edur giört heffur vered. þá skulu eignernar aptur gánga til kyrknanna og þad allt vpp gialldast er þar heffur vered aff teked fyrer vtan þad er Biskup heffur lagdt til vmbotar eignarinnar. Kann og kyrkia nidur ad falla. þá skulu eigner þær sem hun aatte leggiast aptur til þeirra kyrkna sem næstar eru og þo fátækar ad vpphellde med Biskups raade og annara godra manna. hinn fiorde hlutur er kyrkiunne er einkannadur skyllde hann fyrer henne huörge skierda huad sem hier til heffur vered huorke til veitslu vpphallds nie annara hluta.[1]) Nu huar sem þær alkyrkiur reiknast sem vier eigum forræde fyrer ad so mykla peninga haffe. ad þesse forn skyllda. sem er Biskupsgisting. prestsfæde og tijdakaup. meige so ad riettum reikninge vtkreffiast sem gömul skyllda heffur til vered. vilium vier þar öngualeidis motmæle vm̄ haffa edur nockra hindrun á giöra. Enn þær kyrkiur sem minne peninga eiga enn hier tilheyrer. þá vilium vier þar slijka skylldu aff giallda sem Biskupinum og ödrum dándemonnum med honum þyker sannast vm̄ vera. Nu þar sem almugenn heffur vm̄tal á veitt. ad þeir þykiast ei. þo þeim sieu saker gieffnar. löglega setter[2]) verda aff heilagrar kyrkiu vallde. heldur med forbodan og vtsetningum aff heilagre kirkiu og annare taksetning. vitum vier ej huor sannende hier mune i sierhuorium stad á vera vm̄ þar sem þad kann vera edur vered haffa. þiker oss þad þunglega mote landssins laga riette og kyrkiunnar lögmále giört vera. þui suo er skipad i huorutueggia lögmálenu. ad huar sem monnum eru saker gieffnar. þá skulu þeir steffnast og sækiast fyrer sijnum domara til slijkra suara. vitna edur vndanfæris sem þui málaeffne tilheyrer. enn sá er sæker edur sök gieffur. hann skal fá proffuan til sijns máls. nema hinn sem neijtar seige þann nockurn hlut i sinne neijtan sem hann eige fyrer sijna hönnd ad proffua. Skal og i alla stade huorutuegge veriande og sækiande med vitnum sijnum og gögnum koma fyrer sinn domara. Standa so konganna riettarbætur. ad þeir fyrerbioda Biskup og lærdum monnum ad strijda á þegna sijna

[1]) Við þessa klausu stendur „NB“ á spássíu í handritinu. [2]) þannig; *rétt:* setter?

mote lögum edur þröngua þeim med banne og ödrum hardendum. ad ganga vnnder sekter edur álögur. huorke fyrer forbodan nie taks setningar. Suo og þar med skipan á giörde virdulegur herra Jliffur Erchebiskup med ödrum sex biskupum jn consilio provinciali Anno Domini 1320. og budu ad halldast skyllde vm̄ alla Provinciam. Fyrst ad þeir stadfestu allar skipaner hinna fyrru Biskupa vm̄ styrk heilagrar truar og vm̄ heidran heilagra hluta og vm̄ goda sidu. Enn Banns pijnur allar og vtsetningar og forbodaner aff fyrrum Biskupum settar. edur þær pijnur adrar sem olöglegar eru kölludu þeir aptur. Budu þeir öllum lærdum monnum ad hallda sig aff deilum og þrætum og öllum osidsamlegum hlutum. þikia oss þui aller menn þeir saker verda gieffnar. eiga ad steffnast og til suars sækiast aan nockurs forbods edur banns áfellis ad þeirra måle oproffudu. enn vm̄ þann áskilnad og effasemd sem huoru tueggiu kyrkiu vallds og kongssins haffa. vm̄ þær sokner sem bádum sekten tilheyrer konge og Biskupe. huort þad er helldur i Christnum riette edur Landslaga bok. vm̄ stærre mál edur smærre. vm̄ eidatökur edur adrar arffaleidslur. huorer þad skulu fyrr edur sijdar til fullra laga sækia edur vndanfære taka. Kunnum vier hier ecke endelegt suar tilgieffa. vtan vier biodunst og beidunst med Biskupssins rade og annara danemanna lærdra og leikra þar til skodanar vm̄ ad gánga og lioslega skyring á ad giöra epter þui sem Biskupenum og öllum dandemönnum þiker löglegast og kongdomurinn og kyrkian skadlaust aff verda. Skipan og riettarbot Vilhialms Cardinalis stendur so skriffud. huor sem heffur nockurt andarlegt málaeffne (á) leikmenn ad kiæra. þá skyllde hann kiæra fyrer Biskupe. enn huör sem heffde nockurt veralldlegt málaeffne. huort sem hann være helldur leikmadur edur prestur. þá skyllde hann kiæra fyrer konge ellegar fyrer þeim domara er kongur skipar til ad giöra riett manna i mille. Enn huör er fyrersmár domarann og vill eige neirn riett standa. þá skal hann vita sig falla i bann bæde Guds og manna. Suo sette hann og i bann alla þá er vpprijsa i mote konunglegu vallde og vilia giöra ofrid i kongssins lannde og á hanns þegnum. Stendur og

so i vorre Lanndslaga bok vnder grein skriffad. ad eff kongssins lannd helldur ei sijnum fride fyrer þegnanna vangiætslu og vilialeyse. eru þeir sanner landradamenn er ad þui verda kunner og sanner.

Nu huad þad helldst er edur vera kann ad vier getum ei ad einum skilninge ǻsaatter vorded þad lǫgmǻle tilheyrer. vilium vier þad epter kong Hǻkonar skipan og bode rita og fram̃ skriffa til kongssins naada og Erchebiskupssins med rade og vitorde vors virdulegs herra Biskups Olaffs og annara lærdra manna i hanns biskupsdæme. þar med vorar tillǫgur allra samt. þad er vier hyggium kongenum og kyrkiunne skadlausast. enn landenu og almuganum til mestra nǻda og nytsemdar suo faatækum sem ʀijkum.

---

## 416. 17. Janúar 1483. á Reykhólum.

Vottorð Jóns Ásmundssonar og Geirmundar Guðmundssonar um vitnisburð þriggia manna um setu Andrésar Guðmundssonar í virkinu á Reykhólum og árás hans á Þorleif og Einar Björnssyni og þeirra menn.

AM. Apogr. 5759, stafrétt afskript gerð 1733 eptir transscripto gerðu 24. Júní 1483 á Reykhólum. — Afskript meðal Reykhólaskjala (hjá mér) með hendi Magnúsar Einarssonar á Jörva c. 1730—40 (eptir sama transscripto).

Þat giorum vid jon asmundzson ok geirmundr gudmundzson godum monnum kunnekt med þessu ockrv opnv brefi at ver vorum j hia ok heyrdum a at þesser menn petur suartzson. hromvndvr gvdmvndzson ok jon ȷonsson sorv fullan bokareid firir einare brandzsyne j vmbode þorleifs Biornssonar at þeir hefde verit j hia siet ok heyrt a ord ok giorning ok aull aunnur atuik þau er urdu a miduikvdagin næsta epter hinn þrettanda dag[1]) þa er þorleifur biornsson ok einar biornsson Broder hans ok þeirra menn komu þar fyrst heim under virket ok adr þeir gatv vid sett stigana edr þeir giordu þar nockurn giorning huorke med ord ne verk þa andres gudmundzson ok hans fylgiar-

---

[1]) þ. e. 8. Janúar.

ar lietu drifa a þa ofan griot ok skot sua at þorleifur ok hans menn haurfvdu jnn j kirkivgardin ok lietv hann hlifa sier. ball þar þa samt a þeim griot ok þa var skotin af þeim eirn madren j kirkiugardinum. þadan hrucku þeir under kirkivna a korbaki ok var þar skotin af þeim annar madurin j lærit allt vid korbakit. hier med hropudu þeir andres ok hans menn ofan af virkenv ok kanlludv þa alla þiofs sonv ok horusonu ok skækiusonv opptsinnes. vissv vær ok fýrnefnder menn at allr var þessi giorningur ok ord giordr j kirkivgardinnm adr þorleifur ok hans menn skyte eitt skot ok er allir vorv vpp gefnir þa uar skotin en þride madurin j kirkivgardinum a korbaki ok ur þui for þorleifur ok hans menn jnn j kirkiuna. Enn vm morginen skutv þeir ur uirkenn. .ij. lodbyssum j kirkiuna j gegnnm hurdina sva at hon brot[n]ade. þa skutu þeir einne pilu j kirkiuhurdina adr enn þorleifur ok hans menn haufdn nockura atsokn ueitt.

Voru uær fyrnefnder menn sem soru setter af hende þorleifs til at bera vitne um þann giorning ok atuik er þar forv fram.

Oc til saninda hier um settu uer fyrnefnder menn ockr insiglé firir þetta bref skrifat a reykholum a reykianesi faustudagin næsta firir festvm agnese uirgines þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jesn christi þushund .cccc. atta tiger ok þriu ar.

---

## 417. 20. Janúar 1483. Í Berufirði.

Tylftardómr útnefndr af Þorleifi hirðstjóra Björnssyni um viðreign þeirra Þorleifs og Andrésar Guðmundssonar á Reykhólum.

AM. Fasc. XXVII, 25, transskript á skinni frá 14. August 1484. — Afskript frá c. 1640 af þessum dómi er í dómasafni Jóns dans (Landsbókasafn 65. 4to II, bl. 36 a.—37), en þar er dómrinn nokkuð styttr, og rangt skrifaðr. — Kriegers safn 2. 4to, bls. 362—367 (heill) með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

transkriptarbref vtaf domenum vm vidreign þeirra þorleifs og andres a reykholum.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra Sender gvdne jonsson einar brandzson olafur kodransson eyvindr gudmundzson arnoddur tumasson jon asmundzson jon palsson þordr þorkelsson jon arason geirmundr gudmundsson jon þorkelsson ok gudmundr jndridason kvediv gvds ok sina kunigt giorande med þessv woro oppnv brefe. þa er lidit var fra hingadburd vo(r)ss herra jhesv christi ꝏ. cccc. lxxx ok þriv ǻr manvdagin næsta fyrer festum agñeti virginis j berufirdi a þingstad rettvm vorum vær j dom nefnder af ærligum manne þorleife biornssyni hirdstiora yfer allt jsland vpp a krununar vegna j norege at dæma. hvad oss þætti rettiligazt huerssu hann skylldi fara med andres gudmundzson er hann medkendizt at hann hefde fanga latid fyrer þær saker er greindr þorleifur bar til fyr nefndz andres at hann hefdi gripid ok gripa latid hans peninga ok jngvelldar helgadottr. suo ok kom þar fram tumas hrafnsson ok bar þat til andres gvdmvndssonar j vmbode einars biörnssonar ath hann hefde griped ok gripa latid hans peninga. suo ok eigi sidur kuomu þar fram̄ saker af fleirum monnum uppa hann huerer beitt haufdu ok krafit opttnefndan þorleif biornson ath giora sier laug ok ʀiett af optnefndum andrese fyrer þat ath hann hefde griped þeirra peninga suo mykla fyrer sierhuerium sem þesse skraen utuisar sem hier er med fest. nu saker þess ath uær uorum opttsinnes til krafder af ʀiettaranum huad oss lizt riettligazt hieʀ um̄. þess ok annars ath opttnefndr andres gudmundzson medkendizt fyʀer oss ath hann hefde[2]) þa saumu peninga haft ok ath sier teked sem þorleifur ok einar ok fleire adrer epter lystu ok þui lizt oss þessar fiar upptektter j[3]) allañ mata olaugligar ok optnefndan andres gudmundzson riettfangadan uera ok uered hafa þar til ath endiligr uegr fellr a hans malaferle. hier med beidezt optnefndur þorleifur biornson doms a huersu þeiʀ pening-

[1]) Utan á bréfinu með gamalli hendi. [2]) b. v. 65, Kr.; sl. XXVII, 25. [3]) b. v. 65, Kr.

ar skylldu fara sem andres atte a ʀeykholum ok annars stadar kuiker ok dauder. Nu med þui ath oss leizt tittnefndur andres gudmundzson storum saukum borenn enn eingin afbautun kom fram̄ af hans hende ok uær uissum eigi huersu hatt mal a honum stæde hier um̄ fyʀ en þat uære med laugum ʀansakat ok þui dæmdum uær fyr nef(n)der domsmenn alla þa peninga sem a reykholum voru þa þorleifur kom þar ok andres hafde þangat dreigit bædi kuika ok dauda j hans valld ok vardveizlv epter sex skynsamra manna virdingu Enn alla adra peninga þa sem anna(r)sstadar eru ok andres hefer med hondum haft skylldi þorleifur reikna lata huar sem hann kynne þa vpp at spyria. ok forbioda huerium manne þeim at rugla edr nockut brial a þeim at giora þar til rett rannsak kemur a hans mal. Ok til sanninda hier vm settum vær fyr nefnder domsmenn vor jnsigle fyrer þetta domsbref er skrifad var a reykholum a sama are deigi sidar enn fyr seger.[1])

---

**418. [20. Janúar 1483].**

Skrá um peninga þá og fjármuni, er Andrés Guðmundsson tók á Reykhólum fyrir Þorleifi Björnssyni og sveinum hans, svo og fyrir Einari Björnssyni.

AM. Fasc. XXVII, 26, frumrit á skinni, læst með tveim innsiglum saman við transskriptarbréf frá 14. Aug. 1484 af Berufjarðardómi um Reykhólaferð Andréss Guðmundssonar frá 20. Janúar 1483 (Nr. 417). — Í dómasafni Jóns dans (Landsbókasafn 65. 4to II, 37 a—b) er afskript af þessari skrá frá c. 1640, og virðist hún gerð eptir öðru frumriti, því að orðamunr er verulegr. — Kriegers safn 2. 4to bls. 367—370, með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700 (samkynja 65. 4to).

[Svo micla[2]) peninga atti þorleifur biornsson a reykholum þa andres gudmundsson [tok at sier[3]) gardinn [og adra peninga þar stodv saman.[4])

J(n) primis vii ok xl gamals fiar. siaū ok xx lomb.

---

[1]) þ. e. 21. Jan. [2]) [þessa 65. [3]) [settist á Kr.; [4]) [Enn tok (ad sier sl. Kr.) peninga sem hier seiger 65, Kr.

fim kyr. þrevett navt. vetrung og ii svin gomul og vi grise.

tuo hross. annad med fyle[1]) og hest æ annan vetur.

halfuætt smiors.

half aunnr kýr at kiotum.

fim tunur skyrs.

tvær huder.

kyr fra skællzstodum vr jnnstædv.

tuo asavdar kuillde vr bormvm.

fim ær fra grvnd.

sex ær fra havllvstodum.

eina ku vr fodre fra midianese.

Enn þessa peninga tok andres gudmundsson eda liet taka vr kirkiune æ reykholum er þorleifur og jnguelldr atti.

tuær kistur læstar [med jarnum og[2]) þar j klædnadr þe(i)rra beggia og silfur og bordbunadr og margur fanz annar sa er ecki hefer reiknadr verit.

[Þetta j silfre[3]) halfr setti eyrer silfv(r)s enar tolftu merkr med forgyllt silfur smellt med uirauirke og halfur enn xi eyrer med huitt silfur.

eyre midr enn tuær merkr j silkeskautum. kallmanzstakr. kapa og treyia og hosur. med tuigilld klæde og leidr.[4]) Eiñ treyia s(u)aurt med flugel vtlenzk otrurskinn[5]) vnder. kallmanzstakk. konu kapa[6]) med tuigilld klædi. [aunnr konukapa med skarlak og hempa med þridiunga klæde.[7])

Þetta j bordbunade. hringofin dukr att(a) alna langur med rondvm. annar dvkr ix alna med glitadr. þride dukr alhuitr hringofin xi alnar. tuo hæindissver. annat glitad. eitt bedver. sparlak vm sæng. skorningur fim alna. einn lereptzdukr glitadr atta alna ein bravt glitud.

Suo [mikit mistv sveinarner þorleifs æ reykholum vr kirkivne þa andres tok gardinn.[8])

---

[1]) folallde 65, Kr. [2]) [var 65, Kr. [3]) [sl. 65, Kr. [4]) leidz (!) Kr. [5]) otrskinn 65, Kr. [6]) kapur 65, Kr. [7]) [og ein konu (kvinnu Kr.) hempa med þrijgillt klæde. og aunnur konuhempa (kapa Kr.) med skarlat (skarlak Kr.) 65, Kr. [8]) [micla peninga mistu sueinarner á Reykholum vr kirkiunne þá Andrias (Andres Kr.) tok Gardinn vr kistum sijnum sem hier seiger 65, Kr.

[[fra þorgeire stak og treyiu og hosur. tuær skyrtur. tuo lasa. eitt par sko.

þetta fra þorkele oddzsyni. stakr og kapa. tvener svartaskor. hosur. skyrta og skyrtvlerept. saugubok. nyian pung og [tvinna og[1]) reimar og smidartol og kistuna med læsta.[2])

[Þetta gudmundr lopzson.[3]) vi stikr klædis og vii stikr liereptz.[4]) stak. tuena svarta sko. fiorar merkr tins. gran hatt. tuo lasa og kistuna[5]) med.

jtem tok andres svo mikid fyrir einare biornssyni og liet taka vr[6]) saurbæ æ raudasande.

atta kyr. xl. fiar. [iij kalfa[7]). tuo hesta og eitt hross. kuomu þessar allar saker fram æ þinginu.

---

**419. 1. Febrúar 1483. í Hálmstað.**

Ríkisskuldbinding Hans Danakonungs (Hálmstaðar-recess).

Dipl. Norv. XIII, Nr. 148 eptir tveonum frumritum í Ríkisskjalasafni Dana. — Norske Samlinger IV, 347—363 eptir samtíða afskript í Münchenersafni í Kristjaníu. — Hvitfeld: Danmarckis Rigis Krönicke bls. 965—973 og Kong Hansis Krönicke 1599 Bij—Dij. — Regesta Dan. Nr. 4739. — Aarsberetninger fra det Kgl. Geheimeark. II, 46—65. Hér er að eins tekið það eitt, er snertir Ísland.

Halmstads Recess.

Jtem wnne wii oc tillade at køpmen aff alle land mwe felige oc leydige segle till Bergen oc andre køpstedher i Norige me therres køpmanskap Noriges rige till nytte oc bestand wor oc kronens told vforsømet oc hwar the helst till riget komme ware wnder the gamle preuilegier som wore forfæthre konninge i Norge them tilforen giffuit haffde oc the køpmen j Bergen eller annerstedz i Norge ey skulle beware sig met nagre embethes men i købstæderne eller noget annet regemente som kronen eller

---

[1]) [tuennar (tuinna Kr.) vtlenskar 65, Kr.; [2]) [[frá er mjög stytt í 65, Kr. [3]) [Jtem miste Gudmundur Lofftsson so miced 65, Kr.; [4]) fotsijdan b. v. 65, Kr.; [5]) kisturnar 65. [6]) á 65, Kr.; [7]) [b. v. Kr.; iij kapla 65.

kyrken tillhører oc ey pante eller sla wnder sig nogre garde eller landzsens eygner Oc Hollendher segle effther therres sidwane.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

Jtem wele wii ey tilstede at nogre køpmen aff Hensestæderne segle till Iisland oc ey wele wij sette ther nogen wtlensken høvitzman.

---

## 420. 3. Febrúar 1483.

Þorsteinn Þórarinsson prófastr milli Gilsfjarðar og Langaness gefr Hrafni presti Oddssyni umboð til þess að afleysa Þorleif Björnsson og hans menn upp á kirkjunnar vegna, hvað sem þeir hafa brotlegir orðið um Reykhólaför.

AM. Apogr. 5759, stafrétt afskript gerð 1733 epter transscripto gerðu á Reykhólum 24. Júní 1483. — Afskript meðal Reykhólaskjala (hjá mér) með hendi Magnúsar Einarssonar á Jörfa c. 1730—40 (eptir sama transscripto).

Þat giore ek þorstein prestur þorarinsson profastur j mille gilsfiardar ok langaness godvm monnum kunigt med þessu minu opnu brefi at ek medkennunzt at ek hefe fengit ok gefit sira hrafne oddzsyne umbod til at leysa þorleif biornsson ok hans menn huat sem þeir hafa brotligir ordit j minu umdæmi vpp a kirkiunar uegna epter þvi fremzta vmbode sem minn herra biskupen hefer mier valld til gefit at ek skyllde fullt ualld til hafa at leysa hvern man sem brotligur kynne at verda j minu umdæme at jafnfullu sem hann sialfur. skal fyrnefndr sira hrafn afleysa þorleif ok hans menn firir þat er þeir ridv til reykhola um huat sem þeir urdu þar brotliger uid helga kirkiu þat er sauk bitur þui at optnefndr þorleifur beiddezt lausnar þar firir sig ok sina menn ef þeir hefdi þar nockut brotleger j ordit.

Var þetta bref giort a sancte blasiusdag. anno domini ꝏ.° cd.° [lxxx.°] oc. .iij. ar.

---

421. 4. Marts 1483. í Kálfanesi.

Vottorð tveggja manna, að Sigurðr Björnsson og Jórunn kona hans tóku Höllu dóttur sína aptr í sátt um alt það, er hún hafði orðið brotleg við þau.

AM. Apogr. 4214, eptir frumbréfi á kálfskinni frá Hallgrími Sigurðssyni á Svalbarði, með hendi séra Magnúsar Markússonar á Grenjaðarstað, staðfest af honum 18. sept. 1726 og séra Þorleifi Skaptasyni.

Þat gerum vid þolleikur gunnsteinsson ok kolbeinn gislason godum monnum kunnigt med þessu ockru brefi at vorum vid j hia saum ok heyrdum æ ord ok handaband þessara manna sygurdar biörnssonar ok jorunnar kono hans at þau toko haullu dottr sina aptur i satt vid sik vm allt þat sem hun hafde brottlig ordit med þau. ok til fulls arfs ok riettarfars epter þau bæde sem mæl hennar væri ospillt.

Ok til sannenda hier vmm settum vid fyrr nefnder menn ockur jnnsigli firir þetta bref skrifat i kalfanese i steingrimsfirde þridiudagen næsta epter translacio sancte Johannis holensis anno domini m.° cd.° lxxx.° tertio.

---

422. 19. Marts 1483. í Hruna.

Sigurðr Oddsson og Gróa Einarsdóttir kona hans selja séra Árna Snæbjarnarsyni jörðina Berghyl í Hrunamannahrepp, tuttugu og fimm hundruð að dýrleik, fyrir lausafé.

AM. Apogr. 2179, með hendi Árna Magnússonar „Ex orginali Hrunakirkiu", og hefir frumritið þá verið mjög skemt af fúa. Það, som hér stendr í hornklofum, hefir verið fúið úr frumritinu, en Árni hefir fylt það út.

Kaupbref firir Berghyl i ytrahrepp.[1])

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra senda gudmundr prestur þorkelsson. Ra[ugnvalldr hial]msson ok halldor Bryniolfsson kvediu guds ok sina. kunnikt giorandi med þessu voro opnu brefi þa lidit var fra hingat

---

[1]) „stendur utan á bréfinu med sömu hendi sem bréfid er med skrifad" (AM).

bur[d vors herra] jhesu christi þushund fiogr hundrut attatiger ok þriu ær i kirkiunni i Hruna i Hrunamannahrepp midvikudaginn næsta epter Jonsmesso b[aptiste[1]) vor]um ver i hia saum ok heyrdum æ ord ok handaband þessarra manna sira arnna snæbiarnnarsonar af einne alfu enn af annarri sigur[dar o]ddz[so]nar ok grou [e]inarsdottur konu hans. skildizt þat ok falzt under þeirra handabandi at fyrrgreind hion sigurdr ok groa selldu adrnefndum sira arna snæbiarnnarsyni iordina alla Berghyl fimm hundrudum ok tuttugu at dyrleika er liggur i Hrunamannahrepp í Hrunakirkiusoknn med aullum þeim gögnum ok gædum sem greindri iordu fylger ok fylgt hefer at fornnu ok nyiu ok sygurdur ok groa haufdu fremzt eigandi at ordit til yztu ummerkia vit adrar iarder. Hier i moti skylldi fyrnefndr sira arnne gefa ok giallda adrgreindum hionum sygurdi ok grou þriatigi hundrada med svo vordnum fridleika sem hier seger. fimtan malnytu kugilldi. gamallt naut firir tvö hundrut. sex vetra gamallt naut ok vetrgamalt firir tvö hundrut. tvö naut tvævetur firir hundrat. fimm hundrut i gelldum saudum. þriu hundrut i kauplum. hundrat i vadmalum ok eitt hundrat i þarfligum peningum. skylldi tittnefnd hion sygurdr ok groa svara lagariptingum æ adrgreindri iordu Bergghyl enn sira arnne hallda til laga. ok ef iordin geingi af honum med lavgum. þa skylldi hann ganga domlaust aptur at sinum peningum [med] svo vordnum fridleika sem inn kvomu. Ok til sannenda hier um settum ver fyrrnefnnder menn vor innscigle firir þetta kaupbref skrifat i sama stad. midvikudaginn næsta firir annunciacio beate Marie virginis æ sama ære sem fyrr seger.

---

**423. 1. Apríl 1483. á Vatnshorni.**

Vottorð tveggja manna, að Sigurðr Björnsson og Jórunn Jónsdóttir kona hans lýstu því, að eingir ætti peninga eptir sig dáin, nema Halla og Ingibjörg dætr þeirra.

AM. Apogr. 4215, eptir frumriti á kálfskinni frá Hallgrími Sig-

[1]) verðr hér að merkja = Johannis baptistæ capitis inventio, 24. Febr., og er miðvikudagr næsti þar eptir 1483 hinn 26. Febr., nema hér eigi að standa *b[iskups]*, og yrði það 5. Marts þetta ár.

urðssyni á Svalbarði, staðfest afskript 18. sept. 1726 af séra Magnúsi Markússyni á Grenjaðarstað og séra Þorleifi Skaptasyni í Múla.

Þat giore eg þorleikur gunnsteinsson ok kolbeirn gislason godum monnum kunnegt med þessu ockru opnu brefi at þar vorum vid i hia ok heyrdum æ ord sigurdar biornssonar ok iorunar jonsdottur konv hans at þau lystu þui firir ockur ok audrum dandi monnum at eingin ætte peninga epter þau daud nema dættur þeirra halla ok jngebiorg. lystu fyr greind hion þui at Olof dotter þeirra hefde fullan hlut ur sinum garde haft.

Ok til sannenda hier um settum vid fyr nefnder men ockur insigli firir þetta vitnisburdarbref er skrifat var i vazthorne i steingrimsfirde þridia dag paska þa er lidit var fra hinngatburd vors herra iesv christi þusund fiogr hundrut atatiger ok þriw ar.

---

424. 16. Apríl 1483. á Reykhólum.

Sættargerð þeirra Þorleifs Björnssonar og Andrésar Guðmundssonar um það, er Andrés tók Reykhóla og fleiri peninga Þorleifs.

AM. Apogr. 5759, stafrétt afskript gerð 1733 eptir transscripto gerðu á Reykhólum 24. Júní 1483.

Þat giorum ver gvdine jonsson. gisle filippusson. vigfus biarnason. þollacur þorkelsson. sygrdr jonsson. þorolfur augmundzson. pall jonsson. einar brandzson ok þorleikr gunnsteinsson godum monnum kvnnegt med þessv voro opnu brefi at þa er lidit var fra hingat bvrd vors herra jesu christi þushund .cccc. lxxx. ok þriu ar in fersto magni ducis et martiris a uorit a reykiaholvm a̋ reykianesi. vorvm ver j hia saum ok heyrdvm a at þorleifr biornsson giorde suafelldan sattmala uid andres gudmunzson og þorbiorgu olafsdottur kuinnv hans. adr nefndum andrese viliugum ok þorbiorgv olafsdottvr kuinnu hans samþykkiande firir þat hugmod fiarupptekt kostnad ok skada er nefndr þorleifur hafdi adr fengit af nefndum andrese þa hann tok ath sier hans

eign reykiahola ok fleire þorle[i]fs penninga þar ok annarsstadar so ok firir hvsabrot ok riettarfar ok allar adrar saker þær sem j mille þeirra haufdu farit at adrgreindr andres gudmundzson lofade at fa opptnefndum þorleife hvndrad hundrada j adr greint sakferle enn a þessu hundrad hundrada giorde þorleifur þa linvn at hann slo nidr .lx. hundrada firir sins heidrs skulld ok dandemana tillaugur ok bænastad enn þrattnefndr andres gudmundsson skyllde giallda aunr .lx. hundrada firir næstu fardaga med sua felldum fridleika jordin gnutzdalr er liggur j garpsdalskirkiusokn firir þria tigu hvndrada hier til grænseý ok skarfeyar tuær med avllum þeim holmvm ok skerium sem þar til ligia firir xvj. hundraud. liggia þessar eyiar j stadarhols kirkiu sokn. hier til halft tolfta malnytv kugilde halft annat hvndrat j gelldum saudvm ok kvgilldes hest. hier med lofade tittnefndr andres gudmundzson med suardum bokareide at vera tittnefndvm þorleife biornssyne hollur ok trur med ord ok uerk leynt ok liost alla sina lifs daga hier epter ok honum alldre motstaudu veita ok þat umbod sem tittnefndr andres hafdi til reykiahola ok annar[a] gudmundar peninga vegna solueigar gudmundardottur systur sinnar lagde hann j valld þorleifs biornssonar sva leinge sem hann hafde þat adr af henne til tekit ok þar epter alldre med þui giora eda þar nockur rad edr dad styrk eda tillaugur til veita hvorke leynt ne liost med þeim peningvm at giora j mote þorleife edr hans bavrnum ok þessa satt skyllde titt nefndr andres gvdmundzson alldre rivfa sialfr nie rofsmenn til fa. baud tittnefndr þorleifr þrattnefndvm andrese adr enn þeir giordv þessa sina satt at þeir skylldu eigazt riett laug vid enn andres uillde þat eige sua ok leysti tittnefndr þorleifr firir oss fyrrnefndvm monnum at hann drepi hvorke nidr kirkiv riette ne kongs.

Ok til saninda hier vm sette þrattnef[n]dr andres gudmundsson sitt insigle med optnefndra manna insiglvm firir þetta sæt(t)arbref skrifat j sama stad degi ok ari sem fyr seger.

425. 22. Apríl 1483. í Nesi.

SNJÓLAUG Guðnadóttir gefr Jóni Jónssyni með samþykki Margrétar dóttur sinnar í löggjöf sína jörðina Skinnþúfu í Skagafirði.

Bisk. Hol. Fasc. III, 4, frumrit á skinni skemt af fúa. — AM. Apogr. 3600.

Þat giorvm ver jon prestur olafsson þoruidr þormodsson. sn[iolfur] rafsson godum monnum viturlegt med þessv uorv optnv brefi at ver vorvm þar j hia saum ok heyrdvm a handabañd þesara manna sniolavgar gvdnadottur af einne alfv enn jons jonssonar af annare at suo fyrir skildv at fyr nefnd sniolavg gaf adrgreindvm jone jordina er svo heiter skinnþufa er ligr j skagafirdi j glaumbæiar kirkiv sokn̄ til fvllrar eignar med avllum þeim gavgnum ok gædum er greindri jordv[1]) fylger ok fylt hefer at fornv oc nyv ok hvñ vard fremst eigandi at lyste fyrnefnd sniolavg þetta j sina lavg[2]) giof svo mikit sem þat næme. samþykte margret dotter hennar þenan þeira giorning. skilldi tittnefndr joñ hallda fyr greindre jordu til laga enn þrattnefnd sniolavg suara laga riptiñgvm. for þese giorningur fram j nese j haufdahverfe þridiudaginn næsta fyrir jons ꝏesso holla byskvps vm uorit þa er lidit var fra hingatbvrdi uorss herra jhesv christi ꝏ⁰ cccc lxxx ok þriv ar. Ok til saninda hier vm setv ver fyr skrifader menn uorr jnnsiglli fyrir þetta vitnisbvrdarbref er giort var j nese j havfdahverfe j sama stad degi ok are sem̄ fyr seger.

---

426. 24. Apríl 1483. í Vestminster.

JÁTVARÐR Engla konungr hinn fimti veitir Hróbjarti Alcok verzlunarleyfi í öllu sínu ríki og á Íslandi um eitt ár.

Rymeri Foedera, ed. Holmes V, 3, bls. 129.

Super intercursu Norwegiæ de licentia concessa.

Edwardus dei gratia Rex Angliæ et Franciæ et Domi-

---

[1]) jordrv, frb. [2]) lavgv, frbr.

nus Hiberniæ, omnibus, ad quos præsentes literæ pervenerint, salutem.

Licet nuper in statuto Henrici sexti, nuper de facto et non de jure regis Angliæ, anno regni sui octavo tento, edito, prohibitum sit, ne quis ligeorum nostrorum propriæ temeritatis ausu aliqua regna, terras, dominia, districtus, territoria, jurisdictiones seu alia loca regis Daciæ, Norwegiæ, Swegiæ causa optinendi vel habendi pisces aut aliqua quæcunque bona seu mercandisas, præterquam ad stapulam suam de Norbarne, adire, ingredi, seu intrare præsumat sub poena forisfacturæ omnium bonorum suorum mobilium et imprisonamenti personæ ad voluntatem nostram prout in statuto prædicto plenius continetur, nos tamen de gratia nostra speciali concessimus et licentiam dedimus dilecto nobis Roberto Alcock mercatori de Kyngeston super Hull, quod ipse per se aut factores, attornatos, seu servientes suos, quandam navem, portagii ducentorum et quinquaginta doliorum vel infra quibuscunque bonis et mercandisis stapulæ nostræ Calesii minime pertinentibus carcare seu carcari facere, et dictam navem sic carcatam usque terram Islandiæ cum magistro et marinariis pro gubernatione et defensione navis prædictæ competentibus, totiens quotiens sibi placuerit durante præsenti licentia nostra, traducere et transmittere, aut traduci seu transmitti facere, et terram illam in quocunque portu seu alio loco ejusdem ingredi et intrare, ac ibidem morari et mercandisas hujusmodi vendere, ac alia bona et mercandisas quæcunque ibidem emere, et cum eisdem navem prædictam recarcare seu recarcari facere, et navem illam sic recarcatam in regnum nostrum Angliæ adducere seu adduci facere possit licite et quiete, absque impedimento, impetitione, molestatione seu gravamine quoqunque nostri aut officiariorum seu ministrorum nostrorum quorumcunque, statuto prædicto, aut alio statuto, actu vel ordinatione in contrarium factis, ordinatis seu provisis, non obstantibus, proviso semper quod de custumis, subsidiis et aliis deveriis nobis pro bonis et mercandisis prædictis debitis fideliter respondeatur ut est justum.

In cujus rei testimonium has literas nostras fueri fecimus patentes per unum annum duraturas.

Teste me ipso apud Westmonasterium vicesimo quarto die Aprilis anno regni nostri primo. [Anno domini ɱ.⁰ cd.⁰ lxxx.⁰ iij.⁰ [1])

---

427. 29. Apríl 1483. | 14. August 1484. | í Skálholti.

Vídímerað transskript.

Bisk. Skálh. Fasc. VIII, 5, transskriptið á skinni. AM. Apogr. 2592 „accuraté".

Þath giorum wer arne snæbiarnarson og sigurdr jonsson officiales heilagrar schalholltzkirkiu. Olafur oddzson og jon snorrason prestar schalholltzbiskupsdæmis godum monnum kunnigth med þessu woro opnu brefe at wer hofum sied og ifer lesid opit domzbref þessara presta schalholltz biskupsdæmis med þeirra heilum og oskauddum hangandi jnsciglum suo latanda ord epter ord sem hier seger.

[Hér kemr dómr frá 24. Okt. 1482 um aftöku Bjarna Þórarinssonar, Nr. 412].

Ok [2]) til meiri audsyningar og stadfestu hier wm settum wer vor jnnscigle fyrir þetta transkriptarbref skrifath j schalhollti j biskupstungum þridiudaginn næsta fyrir tueg(g)ia postula ɱesso philippi et jacobbi wm sumarit. anno domini. ɱ.⁰ cd.⁰ lxxx⁰ tercio.

Og [2]) til meiri audsyningar og stadfestu hier wm settum wer fyrrnefnder prestar wor jnscigle fyrer þetta trañskriptarbref skrifath j skalhollte j biskupstungum laugardaginn næsta fyrir assumpcio beate marie virginis vm sumarit. anno domini. ɱ.⁰ cd.⁰ lxxx.⁰ quarto.

---

428. 29. Apríl 1483. í Kálfanesi.

Sigurðr Björnsson gefr Steini Snorrasyni umboð sitt um eitt

[1]) [á spássíu. [2]) svo hér.

ár yfir þeim peningum kvikum og dauðum, sem hann á á Svalbarði, og ábyrgist Steinn féð, en hafi ávöxt þess.

AM. Apogr. 4216, eptir frumriti á kálfskinni frá Hallgrími Sigurðssyni á Svalbarði, staðfest afskript 17. Sept. 1726 af séra Magnúsi Markússyni á Grenjaðarstað og séra Þorleifi Skaptasyni í Múla.

Þat gior[i] ek sigurdr biornsson godum monnum kunnigt med þessu minu opno brefi at ek hefi fengit steine snorrasyne mitt fullt ok logligt vmbod æ ollum þeim penningum sem ek æ æ sualbardi kuikum ok daudum fra fardaugum er kemur ok til annara fardaga. skal firr greindr steinn æbyrgiatz þessa penninga enn eignatz ævoxt allann af penningunum. giori ek ecki ʀæd firir uist ara eirikssonar þar leingur. skipa [ek honum[1]) at fara vestur til min [æ] skalpanes ok eta þar maten.

Ok til saninda hier vm setti ek mitt insigli firir þetta umbodsbref skrifat i kalfanesi þridiudagen næsta epter ions ɱesso holabiskups. þa er lidit uar fra hingatburd vors herra iehsu christi þusund fiogur hundrut ættatiger ok þriu [ær].

---

429. 5. Maí 1483. í Skálholti.

Magnús biskup í Skálholti geldr klaustrinu í Kirkjubæ jarðirnar Skaptafell í Öræfum og Haukafell í Hornafirði með sex kúgildum fyrir jarðirnar Eyjar og Þverhamar í Breiðdal og Guðmundarnes í Stöðvarfirði, er biskup hafði feingið frá klaustrinu.

AM. 232. 8vo, bls. 80b 81a (bréfabók Gizurar biskups Einarssonar í frumriti). — Apogr. 2871 (að því er virðist eptir bréfabókinni).

Vær brodir magnus med gudz nad biskup j schalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefi. ath uier haufum feingit og golldit klaustrinu j kirkiubæ þessar jardir er suo heita skaptafell er liggur j auræfum j sandfellz kirkiu sokn og jordina haukafell er

---

1) [honum ek, afskr.

liggur j hornafirdi til æfinligrar eignar og frials forrædis med ollum þeim gaugnum og giædum sem greindum jordum fylger og fylgt hefer ad fornu og nýiu. og uier urdum fremst eigande ad og þar med uj kugilde fyrir þær jardir sem uier feingum burt fra klaustrinu j austfiordum er suo heita. eyiar er liggur j breiddal j heydala kirkiusokn og þuerhamar [er[1]) xij hundrud.[2]) er liggur í sama takmarki og gudmundarnes xij hundrudum er liggia i stauduar kirkiusokn. þiker oss þessir peningar jafnhagliger klaustrinu. skulu þeir suara lagariptingum a jordunum sem oss hafa sellt þær epter þui sem brefin utuisa. og suo klaustrid á þeim sem þad selldi. saumuleidis epter sinum brefum. Og til sanninda hier um setium uier uort jnnsigle fyrir þetta bref. Skrifat i schallhollti manudaginn næsta fyrir uppstigningardag vm woret. arum epter gudz burd. þusund fiogur hundrud attatiger og iij ar.

---

**430. 25. Maí 1483. í Laufási.**

Tylftardómr klerka útnefndr af séra Sveinbirni Þórðarsyni, officialis fyrir norðan Öxnadalsheiði, um ákæru séra Ketils Grímólfssonar til Magnúsar Þorkelssonar, „er umboðsmann var barna sinna, er erft höfðu séra Þorkel Guðbjartsson að þriðjungi“, um fyrnd á stað og kirkju í Laufási upp á hálfan fjórða tug vetra, er séra Þorkell, faðir Magnúsar, hafði haldið staðinn.

AM. Fasc. XXVII, 21, frumritið á skinni. Af 13 innsiglum eru nú 3 ein fyrir. — Apogr. 3292 & 3601.

Þath giorum vier sýgurdur Þorlaksson officialis heilagrar holakirkiu. semingur magnússon. jon broddason. magnus jonsson. nicholas þormodzsson. rogualldur asgrimsson. nicholas kollason. ari olafsson. jon olafsson. þoruardr seminghsson. olafur jngimundarson ok einar Halldorsson prestar holabiskupsdæmis godum monnum viturlight med þessu voru opnu brefi ath sub anno gracie ꝏ⁰ cd⁰ lxxx⁰ iij⁰ laugardaghen j

---

[1]) sl. 2871. [2]) svo.

fardoghum[3]) j laufæse j eyiafirde vorum vier j dom nefnder af ærlighum manne sira sweinbirne þordarsyne officiali heilagrar holakirkiu fyrir nordan óxnadalsheidi ath dæma vm þa áákæru er sira ketill grimolfsson kærdi til magnus þorkelssonar er vmbodsman var barna sinna er erft hofdu sira þorkel gudbiartsson ath þridiunge. var þat j fyrstu akæra sira ketils til magnus vm fyrnd æ kirkiune ok stadnum j laufasi vppa halfan fiorda togh vetra er sira þorkell gudbiartsson hafdi halldit stadinn fader magnus. geingu vier fyrskrifader prestar til skodunar ok giordar áá kirkiune ok stadnum. virtizst þar eitt hus fyrir hundrat þat sem þa hafdi verit giort fyrir þriu hundrvt þa er optnefndur sira þorkell tok med stadnum. savm vier ok ongua bot áá kirkiune nie stadnum. helldr rotinn ok fwen vith j ollum husum ok þar med veggirner. leist oss kirkian j onguan mæta suo megha standa atgiordalaust leingur. Þwi att guds nafne til kolludu ok suo profudu sem nu er fyrir oss komit. dæmdum vier adurnefnder prestar j fyrstu stefnuna logliga ok magnus þorkelsson hier laugliga fyrir kalladan hier j dagh. Enn fyrir þa fyrnd ok forsoman ath sira þorkell hefer ecki porcionem lagth vpp áá fyrnefnda laufæss kirkiu vpp áá suo langan tima sem fyr skrifad stendur. þwi dæmdum vier fyrskrifader prestar erfingia sira þorkels ok þeirra vmbodsmenn skyllduga ath luka kirkune j laufase fyrir forsoman ok fyrnd æ kirkiune j laufasi nitian hundrut j voruvirdu gozi eda friduirdu jnnan siondar ath heyrdum dőmenum heima j laufasi sira katle eda hans vmbodsmanne ath auk porcionem. j annarri grein dæmdum vier hundrat j stadarspell vpp áá huert áár fimtan vetur ok xx er greindur sira þorkell gudbiartsson hiellt staden ok erfingia sira þorkels eda þeirra vmbodsmenn skyllduga ath luka þessa peninga heima j laufasi jnnan siondar ath heyrdum domenom j fridvirdum peningum eda voruuirdum nema þeir leide tuo laugligh vitne jnañ siondar heima j laufasi fyrir sira sweinbirne eda hans vmbodsmanne ath kirkian ok staduren væri jafngodr sem þa er sira þorkell tok med honum dæmdum vier titt-

[3]) þ. e. 24. Maí.

nefndan magnus þorkelsson skýlldugan ath luka þridiung af fýrskrifudum peningum.

Var þessi vor dőmur vppsagdur ok jn scriptis fram borenn j sama stad dagh ok ǻr sem fýr seiger.

ok til sann^nda hier vm settum vier fýrnefnder prestar vor jncigle fyrir þetta bref skrifad j sama stad deghi sidar enn fýr seiger.

---

431. [25. Maí 1483. í Laufási].

Sveinbjörn officialis Þórðarson úrskurðar löglegan Laufásdóm frá 25. Maí 1483 (Nr. 430).

Bisk. Hol. Fasc. V, 2, frumrit. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 3571 með hendi séra Snorra Jónssonar.

Þath giorer ek sweinbiorn prestur þordarson officialis heilagrar holakirkiu fyrir nordan ǒxnadælsheidi godum monnum viturligt med þessu minu opnu brefi ath saker þess ath þeir xij prestar sem ek wt nefndi j laufasi j eýiafirde laugardagin j fardaghaviku ath dæma vm þǻ akæru er sira ketill grimolfsson kærdi til magnus þorkelssonar ok þeirra dőmsbref þar vm giort vtvisar dæmdu mic skýlldugan ath leggia wrskurd vpp ǻ þar wpp ǻ staden huort mier litizst sǻ dómur lǒgligur edur ei sem þeir hofdu dæmt þeirra j mille. þui at heilax anda næd tilkalladre ok ollu suo profuodu sem þar kom fram fyrir mic ok j þeirra domi stendur seiger ek sweinbiorn prestur þordarson officialis heilagrar holakirkiu mier j domsæti sitiandi med fullum lagha wrskurdi þenna þeirra dóm sem þetta mitt bref er med fest loglighan med ollom sinom greinom ok articulis. Ok til sannenda hier vm setti ek officialatus jncigle fyrir þetta wrskurdarbref er gior(t) var j sama stad dagh ok ǻr sem fýr seiger.

---

432. 25. Maí 1483. á Stafafelli.

Tilsögn Tjörva prests Björnssonar um landamerki milli

Einiholts og Borgar í Hornafirði eptir því, sem Ketilbjörn prestr hafði haldið.

Bisk. Skalh. Fasc. III, 7, transskript á skinni frá 10. Oktober 1526. — Apogr. AM. 2532 með hendi Árna Magnússonar eptir Skálholtstransskriptinu: „Mun ecki árstaled i þessu transscripto vera oriett og eiga ad vera M cccc. lxxxiii. Tiorfi prestur Biornsson lifdi ad visu þar eystra i nánd 1467. Vide Skalholltzbref[1]) og grunar mig þesse sie enn same" (AM.) — AM. Apogr. 2017 epter vidisse frá c. 1650, og er afskriptin staðfest i Skálholti 3. Sept. 1712 af Árna Magnússyni og þremur öðrum. Í þeirri afskript stendr ártalið 1389. „Ártaled þusund þriu hundrud l. x. xx og ix. ar. er skirt i brefenu, enn i Skalholltz vidisse er þetta sama bref dat. 1383. og er þad liklegra ad riettara sie, þvi Skalholltztransscriptum er ex originali. Enn þeir nyrri transscriptores kynni snart mislesed hafa. þo hefdi eg ætlad, ad arstaled ætte ei ad vera 13.. heldur 14.. „(AM.). Í Prestatali séra Sveins Níelssonar Kh. 1869, bls. 27, er heldr hneigzt að því, að bréfið muni vera frá 14. öld, en það getr varla verið nokkur vafi á því, að ártalið 1483 sé hið rétta. Þeir seinni transscriptores munu hafa lesið ix úr iii, og á þann hátt mun ártalið 1389 vera til komið, og í transskriptinu 1526 mun c hafa gleymzt úr í ártalinu.

Þessi maurk segi ec tiorfi prestur a millum einehollz[2]) og borgar.

ur þufu i austanuerdri stafney þuert ut a fiauruna a borg land og leirur fyrir uestan og upp ur þufunne i hèyhollt fyrir uestan prestateig gengr borgar land [austur so langt[3]) sem saman ber[4]) skogeyartanga uestanuerdan og mulaness[5]) [a borg[6]) alla fioru innan fiardar þatan[7]) fra og þar til er[8]) saman ber þufu i[9]) gridungsey og husen æ medalfelle utan fiardar fiorumark[10]) a millum holmstufs[11]) og borgar uestanuerder þernuueller þar er[12]) steinn[13]) liggr i melnum æ borg fioru utan fiardar. þar til er akhlid uerdur a millum hals[14]) og stafneyar ef stadit er æ fiorunne.

heellt ketilbiorn prestur [og hafdi þessi[15]) maurk fyrir

---

[1]) Sjá Dipl. Isl. V, Nr. 447. [2]) Einholltz 2017. [3]) [so langt austur 2017. [4]) b. v. 2017; sl. III, 7. [5]) — nes 2017. [6]) [Borg a 2017. [7]) þadan 2017. [8]) sl. 2017. [9]) a 2017. [10]) — mork 2017. [11]) holmsstufs 2017. [12]) ed 2017. [13]) steinnenn 2017. [14]) Svo, III, 7; Stadareyiar 2017. [15]) [þesse mork og hafde 2017.

mier meʀ enn tuttugu ær.[1]) medan hann [bio i einhollti[2]) og þessi[3]) hellt eg sidan medan ec bio þar.

Og til sanninda hier um setta ec mitt jnsigli fyrir þetta [bref skrifat æ[4]) stafafelle[5]) trinitatisdag. [anno domini ꝏ ccc(c). lxxxiij.°[6])

---

433. 14. Júní 1483. Í Odda.

Erlendr bóndi Erlendsson selr Hafri Ólafssyni jörðina Hrossatungu í Landeyjum fyrir tuttugu og fimm hundruð í lausafé.

AM. Fasc. XXVII, 22, frumrit á skinni; af þrem innsiglum eru tvö fyrir bréfinu. — Apogr. 2899.

Kaupbrief vm hrossatungu j landeyium.[7])

Þath giorum uier petur olafson. olafur oddzson. eirekur jonsson godum monnum kunnikt med þessu voro brefi ad þa er lidit uar fra hingatburd vors herra jesv christi þusund fiogur hundrud attatiger ok þriu ar. æ laugardagin næsta epter nyiahalld[8]) ꝍ nedra huole j huolhrepp. voro vier j hia saum ok heyrdum æ ord ok handa band þessara manna ellendz bonda erlendzsonar af einne alfu. Enn hafurs olafsonar af anare. ad suo fyrir skildu. ad adrgreindur erlendur selldi fyr greindum hafri jordena hrossatungu er liggur j skumstada kirkiusokn. med ǫllum þeim gǫgnum ok gædum sem greindri jordu fylger ok fylgt hefer ad fornu ok nyiu ok optnefndr erlendr vard fremstz eigande ad. hier j mot gaf titt nefndur hafur .v. hundrud ok .xx. med suo vordnum fridleika. xv. málnytu kugilldi fimm hundrud i kaupplum. þriu gelldfiar hundrud .cc. j ollum peningum. Skylldi þrattnefndur erlendr suara lagariptingu æ þeirre jordu sem hann selldi. enn optnefndr hafur hallda til laga.

---

[1]) vetur 2017. [2]) [hiellt Einhollt 2017. [3]) þessu 2017. [4]) [vitnisburdarbref hvort skrifad var ad 2017. [5]) vppa b. v. 2017; [6]) [ar epter gudz burd þusund þriu hundrud. l. x. xx. og ix ar 2017. [7]) Utan á bréfinu með gamalli hendi. [8]) „nýja hald“ verður *hér* að merkja dýradag (festum corporis Christi) sem þetta ár er 29. Maí á fimtudag; hafa því þessi kaup gerzt 31. Maí.

medkendizt erlendur erlendzson ad hann hefdi allt þetta jardar verd uppborit sem fyr skrifad stendur. ok j sama handabandi gaf tittnefndur erlendur þrattnefndan hafur öllungis kuittań ok ækærulausan fyrir sier ok sinum öllum erfingjum ok eptirkomendum. vm greint jardar verd. ok til sannenda hier um settum uier fyrnefnder menn vor jnnsigle fyrir þetta bref skrifath j odda j æveriahrepp laugardaginn næsta fyrir festum botulfi abbatis æ sama are sem fyr seger.

---

**434.** **14. og 15. Júní 1483.** **á Hólum.**

Tylftardómr presta útnefndr af séra Sigurði Þorlákssyni, officialis fyrir vestan Öxnadalsheiði, um ákæru Hrafns Haldórssonar, í umboði nefnds séra Sigurðar, til Böðvars Finnssonar, að hann hefði selt selland kirkjunnar á Barði í Fljótum, er heitir Blákápusel.

AM. Fasc. XXVII, 18, frumrit á skinni. Sjö innsigli eru nú fyrir bréfinu, og Sigurðar officialis hið áttunda, sem læsir það við úrskurð hans (Nr. 435). Hin eru dottin frá.

Þetta bref: ad ħraffn hefur haft Bard af ħolakirkiu formonnum. enn þo hann hafe heimugliga vnder nidre eignat sier ɉ kaupahluta. þuiat hefdi hann att jordina þa bar honum at klaga enn þo officialis hefdi vm dæmt[1]).

Þat giorum ver ketill grimolfsson. jon broddason. andres jonsson. biorn Þorsteinsson. gvdmvndr kollason. ellendr broddason. þoruardr semingsson. þorddr ingimvndarson. jon helgason. halkell gudmundzson. gudolfur magnusson. ok halluardur sueinsson prestar holabiskupsdæmis. godvm monnum viturligt med þessu uoru opnu brefe ad sub anno gracie Millesimo cd° lxxx° tertio. lavgardaghin næsta firir botholfsmessu. vorvm ver j dom nefnder af ærligvm manni sira sigurde þorlakssyni officiali heilagrar holakirkiu firir vestan oxnadalsheidi. ath dæma vm þa ækærv er hrafn halldorsson j vmbodi adurnefn(d)s sira sigurdar kærdi til

---

[1]) Utan á bréfinu með hendi Guðbrands biskups.

bavdvars fingzsonar. ath hann hafdi sellt selland kirkivnnar æ barde j fliotum er kallad var blakap(v) sel. var þat ok bíjvisad af tveimur dandi monnum med s(v)avrdvm eidum firir sira sigurdi ath brandr halldorsson hefde afhent hrafne syni sinvm fýr nefnt sel. ok sagt þat eign bardz kirkiv. svo ok svor einn madur enn at hann handfesti. ath fyr nefnd selfavr hefdi havf(d) verit fra bardi. xx. vetur edr leingur svo ath eingin hefde akært svo ath þeir vissi. ok mavrg onnur vittni kom[1]) þar fram vm fýr greint sel þo ath þau veri hvorki svarin ne inciglvd.

J annare grein kærdi fýr nefnd(ur) hrafn til adr nefndz bavdvars at hann hefde haft vid af reka kirkivnar a bardi. er hvn atti halfan lavgalandz reka vpp æ .iij. ar ok. xx. ok eingin skipti æ giort sem honum bar. var þat ok svarit firir sira sigurdi af þrimur monnum ath þratt nefndr baudvar hefdi haft allan vid vpp æ næstv .vij. ar af greindvm reka. þni ath guds nad til kalladre dæmdvm ver fýr nefnder .xij. prestar stefnvna lavgliga og þrattnefndan bavdvar finzsson lavgliga firir kalladan enn firir þa sauk ath suo stod j stefnvnne at bavdvfdiar hefdi. selt fýr greint selland ok þar geíngv vm eidar afhending ok vittne sem fýr skrifad stendr. beidvmz ver af bavdvare ath hann sýnde ef hann mætti hier nockud j moti ef hann mætti. kom þa fram firir oss bref med .iij. manna inciglum af alfu tíjt(t) nefn(d)s bavdvars. j hveriv svo stod ath steinaveller ok krakaveller voro selldar itavlavlavsar[1]) med avllvm dal firir avstan fram sem fyr greint sel stod j. enn saker þess ath suo stod j registrvm holakirkiv ath þar er diakns skýlld ok skal fara j millvm sels ok hvsa þa letvm ver tíjt(t)-nefndan bavdvar sveria fvllan bokareid ath hann hefdi fýr sagt bref med av(n)gv falsi feingit eda latit fa. þvi ath svo profavdv sem þar kom fram dæmdvm ver avngva savk æ bavdvar vm fýr greinda jardarsavk. enn þa skylldvga epter ath leita sem æ bardi bva ef þeir kvnna vpp ath spýria hvar bardz kirkia skal eiga selstavdvna sem (j) registrvm stendr ath diaknin skal til fara.

J annare grein stod suo j stefnvnne ath þrattnefndr

[1]) Svo.

bavduar hefdi haft vid oskiptan kirkivnnar æ bardi vpp æ .iij. ár og xx. en þar kom eingin afsavkvn j moti hvorki med brefvm ne vittnvm bavdvars vegna. þvi dæmdvm ver bavdvar finzsson skylldvgan ath leggia aptur svo mikinn vid kirkivnne æ barde vnder sinn svarin bokareid sem hann hefer j brvtv hapt ok kirkivnne til heÿrdi vpp æ suo morg ár sem j stefnvnne stendr innan siovndar ath heyrdvm dominvm. getur hann eigi þetta þa dæmdvm ver hann skÿlldugan ath sveria fullan bokareid enn innan siovndar ath hann hefdi eigi svo mikinn vid hapt kirkivnnar æ bardi sem henne veri halfrar merkur skadi. felz honum þessi eid(ur). þa dæmdvm ver hann skÿlldvgan ath leggia svo mÿkla peninga greindri bardz kirkiv vnder sinn svarin bokareid sira sigurde officiali j havnd edr hans vmbodsmanni jnnan svo langs tima sem fÿr skrifad stendur. nv saker þes(s) ath svo stendr j kristnvm retti ath hverr sem ræner edr stelvr fe heilagrar kirkiv þa fellvr hann i bann af sialfv verkinv. þvi dæmdvm ver xij prestar fÿr skrifader opptnefndan bavdvar finzsson skÿlldvgan ath taka lavsn ok skript af heilagri kirkiv ok skÿlldvgan ath lvka kirkivne æ bardi .vj. merkvr j sinn rett. enn domkirkivnne ath holvm .lx. marka j sinn rett ath nestvm fardogum sira sigurdi j havnd eda hans vmbodsmanni. Ok til sanninda hier vm settvm ver oppt nefnder prestar vor incigle firir þetta domsbref skrifad j sama stad ok ári deigi sidar enn fÿr seger.

---

**435 15. Júní 1483. á Hólum.**

Sigurðr officialis Þorláksson úrskurðar löglegan Blákápuselsdóm (Nr. 434).

AM. Fasc. XXVII, 19 frumrit á skinni læst saman við dóminn Nr. 434. með innsigli Sigurðar officialis.

Þat giorer ek sigurdr prestur þorlaksson officialis heilagrar holakirkiv firir vestan oxnadalsheidi godum monnum uiturligt med þessv minv opnv brefi ath saker þess ath þeir xij prestar sem ek vtt nefndi æ holvm j hialltadal laugardaghinn næsta firir Botholsmessv ath dæma vm þa akærv er hrafn halldorsson kærdi til Bavdvars finnzsonar og þeirra

domsbref þar‿vm giort vtt visar dæmdv mik skýlldugan ath legia urskvrd vpp æ þar vpp æ staden hvort mer litizt sæ domur lavgligvr edr ei sem þeir havfdu dæmt þeirra j milli og heilagrar kirkiv ath bardi. þui at heilags anda næd tilkalladri og ollv svo profvodu sem þar kom fram firir mic og j þeirra domi stendr seiger ek sigur(dur) prestur þorlaksson officialis heilagrar holakirkiv mer j domsæti sittianda med fvllvm laga vrskvrdi þennan þeirra dom sem mitt bref er med fest lavgligan med avllvm sinvm greinvm og artikvlis.

Ok til sanenda her vm setti ek officialatus incigle firir þetta mitt vrskvrdarbref skrifat æ holvm j hialltadal svnnvdaghin næsta firir Botholsmessv anno domini ꝏ° cd° lxxx° tertio.

---

**436** **23. Júní 1483.** **á Reykhólum.**

Transskript af bréfi Kristjáns konungs hins fyrsta frá 20. Maí 1481 (Nr. 335 A.).

AM. Fasc. XXV, 3, frumtransskriptið á skinni. Af 4 innsiglum eru tvö dottin frá.

ꝏedkennumzt wær gudne jonson magnus jonson haflide skulason ok jon asmundsson ath uær hofum sied ok yferlesit ok heyr(t) yferlesit opit bref wors næduga herra kong kristierns bref. gud hans sæl nædi. med hans heilu ok oskodu hanganda innsigle suo latanda ord eptter ord. sem hier fyr skrifat stær. Ok til sanninda hier um settum wær fyrr nefnder menn wor insigli fyrir þetta bref skrifat ǻ reykholum ǻ reykianesi ǻ mǻnudagin næsta fyrir ions ꝏesso baptista þǻ er lidit war fra hingatburd uors herra jesv christi þusund fiogur hundrud attatiger ara ok þriu ǻr.

---

**437.** **24. júní 1483.** **á Reykhólum.**

Transskriptarbréf.

AM. Apogr. 5759 „Ex originali Reykholensi in Islandia 1733".

Þat giorum vær haflide skulason. jon asmundzson. þiod-

olfur olafsson godum monnum kunnekt med þessv voro opnu brefi at vær haufum siet heyrt ok yferlesit opit bref þessara manna med hangande oskauddvm insiglum sva latande ord epter ord sem hier seger. [Hér koma þessi bréf um Guðmundareignir:

1. Gjafabréf Solveigar Guðmundsdóttur til Lopts Ormssonar 15. Apr. 1465, DI, V, Nr. 389.
2. Loptr Ormsson gefr Þorleifi Björnssyni þá tiltölu, er hann þóttist eiga til peninga Guðmundar Arasonar, 30. Júní 1470, DI, V, Nr. 514.
3. Vitnisburðr um fyrirsát Andrésar Guðmundssonar fyrir Þorleifi Björnssyni í virkinu á Reykhólum og árás Andrésar á Þorleif og menn hans, 17. Jan. 1483, Nr. 416.
4. Umboðsbréf Þorsteins prófasts Þórarinssonar handa Hrafni presti Oddssyni að afleysa Þorleif Björnsson, 3. Febr. 1483, Nr. 420.
5. Sættargerð Andrésar Guðmundssonar og Þorleifs Björnssonar 16. Apr. 1483, Nr. 424].

Ok til saninda hier vm setvm vær fyrnefnder menn vor insigle firir þetta transkriptarbref er skrifat var a reykholum a reykianesi vppa jonsmessodag baptiste þa er lidit var fra hingatburd vors herra jesv christi þusund. cccc. lxxx. ok iij. ar.

---

438. 25. Júní 1483. | 26. Febrúar 1484. | á Melum.

Jón Þorsteinsson selr Höskuldi Runólfssyni jörðina Læk í Melasveit fyrir tíu hundruð í þarflegum peningum.

Bisk. Skalh. Fasc. VIII, 3, frumrit á skinni. Öll (fjögur) innsigli eru dottin frá. — AM. Apogr. 2590.

Vm̄ Læk j mela kirkiu sokn̄ Anno 1483.

Þat giorum ver sera loptur branzson. oddur arnorsson: finnbiorn branzson. sigvrdr jonsson. godum monnum kvnnigt med þessv uorv opnv brefe at þa er lidit var fra hingad bvrd vors herra jhesv christi. þvsvnd fiogur hvndrvt attatiger ok þriu ar. Midvikvdaginn næsta epter jons Messo baptiste a Melvm j Melasveit. vorvm wær j hia savm ok heyrdvm a ord ok handaband þessara manna. Runolfs hoskollzsonar af einne alfv ok jons þosteinssonar af annare at so

firir skildv at greindur jon þorsteinsson sellde adur nefndvm rvnolfe hoskollzsyni halfa jordina læck er liggr j mela kirkiv sokn med ollvm þeim gognvm ok gædvm sem greindri halfri jordv fylger ok fylgt hefer at fornu ok nyiv ok hann vard fremst eigande at ok honum fiell til erfdar epter þorstein heitenn þordarson fodur sinn. hier j mot gaf fyrr greindr rvnolfur þrattnefndvm joni þorsteinssyni .x. hvndrud j ollvm fridvirdvm peningvm ok skylldi gialldazt vt æ fimm arvm ok giallda tvo hvndrud æ hveriu ari. skylldi optnefndur jon svara laga riptingvm æ adur nefndri jordv. enn titt nefndr runolfr hallda til laga. Ok til sannenda hier wm settvm wer fyrr nefnder menn wor jnsigle firir þetta jardarkavps bref skrifat æ melvm j melasveit fostvdaginn næsta epter mattiasmessv postula ære sidar enn fyrr seger.

---

439. 28. Júní 1483. í Skálholti.

Tylftardómr klerka á prestastefnu útnefndr af Magnúsi biskupi Eyjólfssyni um kæru séra Ögmundar Andréssonar til Bjarna Árnasonar, að hann hefði eignað jörð sinni Hlíð raptviðarhögg á Ketilhlíðarhálsi í jörð staðarins í Stafafelli, og að hann eignaði sér jörð inn um svarin landamerki staðarins.

AM. Apogr. 2010 „Ex originali lacero". „Bref þetta comuniceradi mier Þordur Þorkielsson 1703. mun hafa tilheyrt Stafafellzkirkiu i Lone. iafnvel þott þad ecki finnist i registris. Puncktar under stöfunum [1]) ávisa ad þeir sömu stafer voru oskirer. Striken under linunum [2]) seigia ad þau ord edur bokstafer voru ölldungis olæs" (AM).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda broder halldor [3]) med guds nad abote æ helgafelle. gisle jonsson. audun þoruardzson. helge magnusson. sveinn jonsson. petur þordarson. finnr [3]) magnusson. sveinn [3]) jonsson. þorsteinn [3]) þorarinsson [3]) þolleifur stefannsson. jon

---

[1]) Hér sagt til um þau orð neðanmáls. [2]) Hér hornklofar. [3]) undirpunktað (að nokkru).

þorsteinsson ok grimur arñason. prestar skalhollztbiskupsdæmis. Qvediu guds ok vora kunnigt [gi]orannde med þessu voru[1]) brefe[1]) at sub anno gracie ꝏ.º cd.º lxxxº. tercio. j domkirkiunni j skalhollti a laugardaginn næsta fyrir peturs messu ok pals a [almenniligre] prestastefnu vorum vær j dom nefnder af virduligvm herra ok anndalegum fodr. herra ꝏagnusi med guds nad biskupi i skalhollti ath dæma vm þær [sak]er sem sera ögmundr anndresson kærde til biarna arñasonar. J fystu grein ath fyrr nefndr biarne eignade sier ok sinne jördu hlid ʀapttvidar havgg a ketilhlidarhalse[2]) j stadarens jörd ath stafafelle. hunndradh timmbu(r)s hvertt ar. Jtem j annare grein kærde adr nefndr sera ögmundr þat til fyrnefndz biarna. ath hann[1]) eignade sier jörd jn umm þau lanndamercke j stadarens jörd. sem svaren voru af þrimur skilvisnm vottum kirkiunar eignn ath stafafelli. Nu med þvi ath þrattnefndr biarne uar þar þa laugliga firir kalladr ok þar komu fram bref ok skilrike þeirra beggia ok voru þar skodut[1]) ok yfer lesen [ok] saker[1]) þess ath oss leizt þat skial sem biarne hafde ecke suo ʀauksamlekt sem honum mætte fullnazt j mote þeirri akæru ok brefum sem tittnefndr sera ögmundr hafde. ok þar fram komu vitnisburder med svördum bokareidum af þrimur monnum vmm lanndamercke j millum greindra jarda stafafellz ok[1]) hlidar.[1]) höfdu þesser menn svaredh greind lanndamercke ok skog kirkiunar eignn halldenn hafa verith ath stafafelle. sumer meir enn vm xx. vetur. summer meir enn þriatigi vetra. enn summer meir enn fimtigi vetra. epter þui sem þeirra bref þar vm giörd [utvisa]. þvi ath heilags annda nad tilkalladri dæmmdum vær med fullu doms atkvæde þau sömu lañdamercke stödug ok obrigdulega halldazt eiga. sem sera ögmundr andresson liet sveria j millum þrattnefndra jarda stafafellzt ok hlidar. Jtem med sama dome dæmdum vær adr sagdan biarna arnason skylldugañ ath leida. .ií. skialek vitne innañ manadar fra þvi hann kæme heim firir þeim sem bisk-

---

[1]) **undirpunktað (að nokkru).**

[2]) **„Hlid er i Loni. er bondaeign. enn hvar er Ketilhlid" (AM).**

upenn[1]) þar til skipar. ath haft hefde verith med fullri eign enn ecke med lane. timmbbur hógg fra hlid ꝺ́ ketilhlidarhals vm xx. vetur samfleytt. eda. xx. vetrum leinngur. Enn ef honum fullňazt þesse vitne. dæmdum vær honum raptvidarhógg epter þvi sem hann hefer adr eignath sier. Enn ef biarne arnnason fellzt ath fyrrsógdum vitnum þa dæmdum vier fyrrsagdaň skog kirkiunnar eignn ath stafafelle. enn hvorcke eignn biarnar[2]) arnnasonar nie fyrrgreindrar hlidar. suo ok dæmdum vær þrattnefndaň biarna arnason skylldugaň ath sveria lyritareid enn minna firir þeim sama sem biskupinn skipadi hinn eidenn ath taka. þa þegar ef honum fellzt ath hinum vitnunum. ath hann þottizt timmburhoggith ꜵ ketilhlidarhalse med fullri sinne eignn haft hafa. Enn ef hann fellzt ath þeim sama eide. þa dæmdum vær þrattskrifader domsmenn tittnefndaň biarna arnnason sekaň fullu lanndname ok æverckabot epter þvi sem lógiň þar vmm giord utvisa vidh adr sagdaň sera ógmund andresson. sidann er hann hiellt stafafellzt kirkiu ok adr sagdur biarne hefer hóggvith skoginn eda lateth hóggva. Ok til sannennda hier vmm settum vær fẏrr skrifader kenne menn vor jnscigli firir þetta domsbref skrifath i sama stad. dege sidar enn fyrr seger[3]).

---

**440.** **20. Júlí 1483.** **Í Fellsmúla.**

Reikningsskaparbréf Finnboga Jónssonar við Diðrik hirðstjóra Pining um þriggja ára skatt af Þingeyjarþingi.

AM. Fasc XXVII, 17, frumrit á skinni. Bæði innsiglin eru fyrir, en brákuð. Bréfið er með hendi Finnboga lögmanns.

Reikniñgsskapur fim̃boga logmans[4]).

Þath giorum uith gamli þorsteinsson og helgi gudmundzsson godum monnum uiturligt med þessu ockru opnu brefi ath þa lidit var fra hiñgathburd uors herra jhesu christi þushund fiogur hundrud attatiger og .iii. ar. áá manadagin nosta fyrir þorlaksmessu um sumarit[5]) j hafnar-

---

[1]) Undirpunktað að nokkru, [2]) Svo hér. [3]) þ. e. 29. Júní. [4]) Utan á bréfinu með gamalli hendi. [5]) þ. e. 14. Júlí.

firde uoro uit hiá sáum og heÿrdum áá ord og handaband didreks pinnings hirdstiora ÿfer aullu jslande. og finbogha jonssonar. ath suo fyrir skildu j fyrstu ath greindr finboge giordi nefndum didrek píning reikningskap af þeim þrig(g)ia ara skatti er hann hafdi tekit j þingeÿiarþingi um nęstu þriu ar um lidin. reiknadizst hafa uerid flutt til bessastada af tueimur arunum. en fyrir þat epter stędi olukt af fÿrnefndum þriggia ara skatti og reikningskap skÿllde fÿr greindr finbogi giallda .vii. hundrud og uera þar med kuittur og akęrulaus uit optnefndan didrek píning um adr greindan skatt og reikningskap af fÿr greindri sÿslu þingeÿiarþingi. skÿlldi finbogi afhenda þessi .vii. hundrud arna hallzssÿni er þa hafdi sÿslu um optnefnt þingeyiarþing. Og til sannenda hier um settu uit fÿrnefnder menn okur jncigli fyrir þetta bref giort j fellzsmula a landi j landmannahrep(p) in festo torlaci episcopi á sama ari sem fyr seigir.

---

**441. 26. Júlí 1483. í Stöffrene.**

Verndarbréf Hans Danakonungs handa Ólafi Rögnvaldssyni biskupi á Hólum.

Bisk. Hol. Fasc. I, 3. frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá. Prentað hjá Magnúsi Ketilssyni: Forordn. I, 66—68, og i F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 248—249. Sbr. Crymogæa Arngrims Jónssonar, Hamb. 1610, lib. III, 141.

Kong hanns varnadar bref[1])

Wij Hans met gudz Nade Danmarckis Norgis wendis Oc godis koning vdwald koning till swerige hertug vdi slesuig oc hertug vdi holsten Stormarn oc Ditmersken greffue vdi oldemborg oc Delminhorst helse ether wore kære vndhersotte bønder oc mene almwe som bygge oc boo vdi holebiscopsdøme kerlige met gud oc wor nade.

Vither kære wenner at oss elskelige werdug fadher biscop Oluff i hole haffuer bereth her fore oss ati sidhe honom owerhørige fore oc ey wele giffue then renthe oc retthig-

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

heed som i hanom pa kirckens wegne plicthige ære. Sammeledis berette han oc fore oss at han vforrettis vdi mange sagher som burde at deles oc forfølgis fore then helge kirckis oc cristelig dom hanom oc hans biscopsdøme till stoer skade oc forfang i mange made. Thij bethe wij ether alle kerlige oc bywde ati her effther wære forn^ne^ oss elskelige werduge father hørige oc lyduge oc gører oc giffuer hanom ether arlig rentthe oc retthigheed ehwad thet helst ær eller neffnes kan till gode redhe hwis i hanom pa forne then helge kirckis wegne pleye oc plictuge ære vt at giffue Swo at thet ey ydhermere behoff gøris hanom at kære thet fore oss Ther gøre i oss synderlige till wilge vdi oc ladher thet engelund. Oc bethe wij oc bywde thig wor laghman ther pa Jsland at thw jnthet bewarer thig med the sagher som hanom oc then helge kircke parørendis ære oc ther bør ardelis oc forfølgis. Thog wor oc kronens retthigheid ther vdi vdi alle made vforsymet. Sammeledis bifale wij thig Torluff biørnsson wor embitzman pa Jsland at thw wærer forne werdug fadher behulpelig oc bistandig at the gøre hanom all then deell oc retthigheid som the hanom pa kirckens wegne plictuge ære kronens reth altiid vforsymet.

Jn christo valete.

Datum jn Støffrene Sabbato proximo post festum Jacobi apostoli anno domini millesimo quadringentesimo octuagesimo tercio Nostro Sub Secreto presentibus appenso.

ad relacionem domini alueri
knwtsson militis

---

442 — 18. Agúst 1483. — á Grýtubakka.

Árni Þorsteinsson leiðir bygðarrymt uppá Steinuni Bjarna(r)dóttur fyrir Sveinbirni officialis Þórðarsyni, að Guðni heitinn Eyjólfsson hafi legið með henni líkamlega áðr en hann hélt brullaup sitt til Guðrúnar Gunnlaugsdóttur.

AM. 242. 4to. A. bls. 166—67, syrpa Guðbrands biskups skr. um 1570. Þar með er afskript með hendi Árna Magnússonar.

Vm̄ bygdar rymt.

Þ(at) g(iorum ver) Tumas gudmundzson. steffan styrkarsson. þorgills hallsson. þormodur p . . . .[1]) (godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi at arum epter gudz burd)[2]) 1483 á grytubacka j h(ofda)h(uerfi) manudaginn næstañ epter mariumessu fyrre vorum vier j hia saum og heyrdum ꝺ́ ad arni þorsteinsson leiddi bygdar rymt vppa steinune biarnadott(ur) firir sira sueinbirne þordarsyni er þa var officialis h(eilagrar) h(ola) k(irkiu) firir nordan auxnadalsheidi. soru þar ij af þeim enn 8 s(aunnudu) mal þeirra sem bok giorer rad firir at þeir hefdi heyrt sagt at g(udne) h(eitinn) e(yolfsson) hefdi leigit likamliga steinunne biarnardottnr[3]) adur enn þad hann hiellt sitt brudlaup til gudrunar gunnlogsdotter. baud fyr greindur sijra sueinbiorn officialis adur nefndri steinunne þa þar vndanfæri firir þessa akiæru adur greindz arna. enn hun sagdist þad ei giora meiga og medkendist þar firir aullum dandimonnum þeim þar voru ad g(udne) hefdi l(eigit) hana. skylldade s(ira) s(ueinbiorn) nefnda steinunne þa til at sanna þessa sina saugu med fullum bokareidi og epter þetta giort sor þar nefnd steinunn lyritareid. ad g(udne) h(eitinn) e(yolfsson) hefdi leigit med henne likamliga med fullu verki adur enn G(udne) hiellt brudkaup til gudrunar gunnlogsdottur og hun hefdi ecki vitad skulldugleika med gudrunu og sier a brudkaupsdeigi. enn þann sama veturinn epter þa hefdi hun heyrt sagt ad þær gudrun gunnlaugsdotter være þrimenningar[4]) sin a milli og þa þessi ryktur komst vpp beiddi gudrun hana ad hun skylldi alldri kennast ad hann hefdi leigit hana og þessar allar greiner tok greind steinunn vnder sinn suarin bokareid og a sama vættfængi sor bergliot þorhallsdotter med fullum bokareid ad hun hefdi sied gudna heitinn eyio(lfsson) og st(einunne) b(iarna)d(ott-

[1]) eingin eyða hér í hdr. en föðurnafnið skammstafað „p". [2]) Það, sem stendr í svigum hér, vantar í handritið. [3]) Svo hér. [4]) strykað út í hdr.

ur) alnakin j einni sæng vnder einum klædum. adur enn brudkaup þeirra gudrunar gunnlaugsd(ottur) var og gudna. Og til sanninda.

---

443. 4. Oktober 1483. á Hólum.

Tylftardómr klerka útnefndr af Sigurði officialis Þorlákssyni um kæru officialis til séra Jóns Þorvaldssonar um primsigning heiðins barns „fyrir utan alla bevísing að vakta efni eða atferli", um að hafa messað yfir og samneytt forboðuðum manni, um tiunda aðtekt og fyrir að hafa farið burt úr þingum sínum orlofslaust.

AM. Fasc. XXVII, 24, frumritið á skinni. Sjö innsigli eru fyrir bréfinu; hin eru dottin frá.

12 merkur dæmdar ħolakirkiu.[1])

Þat giorum vier ketill grimolfsson radzmann æ holvm. þorleifur magnusson jon broddason biorn þorsteinsson gunnar jonsson sniolfvr[2]) sÿgurdzson kar jonsson olafur klængsson stigur ingimundarson þorvardur semingsson þordur ingimvndarson og bergfinnur iussason prestar hola biskupsdæmis godum monnum viturligt med þessu voru briefi ath þa er lidit var frå hingat bvrd vors herra iesv christi þushund. cccc. lxxx og þriv ær æ faustu daghinn næsta fyrir michils messu[3]) j gellding[a]hollti j skagafirdi. vorum vier j dom nefnder af ærligum manni sira sigurdi þorlakssyni officiali heilagrar hola kirkiv fyrir vestan oxnadals heidi. ath dæma vm þa akærv er fÿr nefndr sira sigurdr kærdi til sira jons þorvalldzsonar heilagrar hola kirkiu vegna sem hann hafdi honum þangat stefnd(t). var þar og suarinn stefnan. þui at guds nađ til kalladre dæmvm vier. xij. prestar stefnnvna laugliga og sira jon hier lavgligan(a) fyrir kalladan j dag. enn fyrir þa savk j stefnvnne stod ath oppt nefndr sira jon hefdi primsignt heidit barn fyrir utan alla bíjuising ath uakta efne eda attfelli þess er skirdi ok bravt suo

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. [2]) snioflvr, hnd. [3]) þ. e. 26. Sept.

kristinn rett þa inæmdvm vier fýrnefndan sira jon skýlldugan ath luka xij. aura j sekt heilagri kirkiv fyrir adrgreinda gleýmskv. j annare grein. stod svo j stefunne ath sira sýgurdr kærdi til þrattnefnz sira jons ath hann hefdi messad ýfer olafi biornssyni j forbodi og samneytt honum j miovadal æ skirdagh j vetur nv næst er var. kenndizst sira jon þar fyrir oss ath hann hefde messad þar þui dæmdvm vier oppt nefndan sira jon skylldugan ath sveria settareid nv strax fyrir sira sigurde eda hans umbodsmanni ath hann hefdi hvorki messad ne samneytt fýr greindum olafi sidan hann sagdizst hafa lesit forbods brief yfer honum. fellz honum þessi eidr þa dæmvm vier hann skylldugan ath lvka heilagri hola kirkiv .iij. merkur fyrir hveria messo er hann hefer sagt sidan og þar fallin j bann af sialfv verkinv og skýlldvgan ath taka lausn og skript epter kirkiunnar laugum og leggia sinn messo saung og avll stavrf heilagrar kirkiv svo leingi sem kirkivnnar lavg vtt uisa og officialis nad til seger. j þridiv grein stod j stefnvnne ath sira jon hefdi tekit ath sier allar tiunder j bolstadar hlid i moti skipan officialis. kom þar fram brief j moti hvert oss leizst olaugligt. þui dæmdvm vier sira jon skýlldugan ath leggia aptur kirkiv tiundernar sira sigurdi j hond eda hans vmbods manni. j fiordv grein stod svo j stefnvnne ath sira jon hefde farit j brvtt vr þingvnvm orlofslaust og sett sig inn j kirkivnnar volld j moti skipan officialis. kom þar fram þinga brief sira jons svo latande ath hann skýlldi hafa þav vm xij manodv. dæmdvm vier þar aungva sekt upp æ sira jon þar vm þvi hann hafde svo leingi verit sem vtt visade hans brief. enn fyrer þa savk ath sira jon hafdi teckit ath sier radz mannz starfit stad dæmdvm vier hann skylldugan ath leida ij lavglig vittne hier vpp æ stadin ef þau veri nær ella innan[1]) sioundar fyrir officialis eda hans vmbods manni. ath sira sygurdr hefde leyft abbadisinne ath stad ath hafa til radzmann sira jon þorvaldzson eda annan prest ef hun villde. fallazt honum þessi vittni þa dæmdvm vier hann enn fallin j bann fyrir sina þriozku og ohlýldne

[1]) innar, hndr.

og skýlldugan at taka lavsn og skript epter kirkivnar lavgum og þar til .xv merkur hola kirkiv .j sitt fullretti. skavlv aller þessir fýrr skrifader peningar lukazt med þrennvm savlvm. env fyrstv innan manadar ath heyrdvm dominvm. avnnur ath næstvm fardavgvm. þridiv innan .xij. manada sinn þridivng j hvert sinn officialis j havnd eda hans umbods manni. Ok til sanninda hier vm settvm uier fýr skrifader xij. prestar vor inncigle fyrir þetta doms brief skrifat æ holvm j hialltadal lavgar daghin næsta epter michils messo um havstit æ sama ari sem fyr seger.

---

444. **6. Oktober 1483 í Skálholti.**
**7. Marts 1484. í Holti undir Fjöllum.**

Gísli Filippusson gefr Dýrfinnu dóttur sinni í heimanfylgju til móts við Jón Jónsson jörðina . . .'. dal, 36 hundruð, og jörðina Keflavík á Rauðasandi, 12 hundruð, og þar til 12 hundruð í þarflegum peningum.

AM. Apogr. 1156, að því er virðist eptir frumriti.

Þat giorum vid olawr odzson loptvr filipusson prestar godum monnum uiturligt med þessu ockrv opnu brefi. þa er lidit uar fra hingatburd uors herra ihesu christi þvsund cccc hvndrut lxxx. oc iij ar a manudagen næsta fyrir dionisvsmessv j biskupsstofvnne j skalhollte uorum uid j hia saum oc heýrdum æ ord oc handaband þessara manna gisla filipvssonar af eine alfv en jons jonssonar oc dyrfinv dottur gisla af anari alfu at suo fyrir skildu at greindur gisle gaf dottur sine dyrfinnu j heimanfylgiv j motzs uid greindan jon jonsson jordena . . . . dal fyrir xvj hundrvt oc xx oc jordina keflauik fyrir xij. hundrut er liggia j savrbæiar kirkiusokn a raudasandi med ollum þeim gaugnum oc gædum sem greindum jordum fýlger oc fýlgt hefur at fornu oc nýiu oc hann uard fremst eigandi at oc þar til xij. hundrut j ollum þarfligum peningum. skýlldi greindur gisle svara lagariptingum æ greindum jordvm enn fyrr nefndur jon hallda til laga. Jtem gafv fyrr nefnd hion jon oc dýrfinna. kuitta oc akærulavsa jordina billdudal fyrir

ser oc sinum erfingium suo framt sem þau feingi fyr greinda þessa peninga. Oc til saninda her um settum uid fyr nefndir prestar ockur insigle fyrir þetta uitńesburdarbref skrifat j hollti under eyiafiollum sunvdagen næsta fyrir gregoriusmessu ari sidar en fyr segir.

---

**445. 19. Oktober 1483. á Möðruvöllum.**

Helgi Sigurðsson selr Brynjólfi Magnússyni jörðina Hallgilsstaði í Fnjóskadal fyrir 37 hundruð í lausafé, og tilgreinir landamerki.

AM. Fasc. LXVI, 18, frumrit á skinni. Af fjórum innsiglum eru þrjú fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 569. Bréfið er með sömu hendi og Fasc. XXVII, 20 (bréf frá 27. Okt. 1483, Nr. 446, sem er þessu samhljóða, nema að dagsetningu).

Landamerkia Bref Hallgilstada.[1])

Þath gerum uer are sigurdzson jon markusson jngimundur olafsson ok einar olafsson godum monnum viturligth med þessu uoro brefi þa er lidit uar, fra guds burd þusund fiogur hundrut attatiger ok þriu ár drottinsdag næsta fyrir michaelsmessu[2]) a munkaþuera j eyiafirde uoru uer j hiæ saum ok heyrdum æ ord ok handaband þessara manna bryniolfs magnussonar af eine alfu ok helga sigurdzsonar af annare ath sua fyrir skildu ath fyr nefndr hellgi selldi adr greindum bryniolfe jordina alla halgillstade j hnioskadal er liggur j halls kirkiu sokn med ollum þeim gognum ok giædum er greindri jordu fylger ok fylgt hefer ath fornu ok nyiu ok hann ok steinun magnusdotter kuina hans urdu fremst eigandi ath. sagdi titt nefndr helgi landamerki a jordune ut at jllu kelldu fyrir sunan skollagerde ok sudur ath merkigili ok ofan j iardarkross fyrir nedan. ok sionhending j halgilsstadaklauf. ok sudr j þingmannalæk er gatañ liggur vt j. ꝭier j mote gaf adr greindr bryni-

---

[1]) Utan á bréfinu med hendi frá 17. öld. [2]) þ. e. 28. Sept.

olfr jordina dæli j hnioskadal er liggur j draflastada kirkiu sokn med ollum þeim gognum og gædum er greindri jordv fyllger ok hann uard fremzt eigandi ath. ok sagdi at sier hefdi verit savgd landamerki ut at einbualæk. ok sudr ath harda valla gile. ok ofan a melin er liggur at hnioska. fyrir xx hundrut ok þar til xvij hundrut med þessum fridleika. viij malnýtu kugilldi ok ix hundrut j þarfligum peningum. riett lukt xij fiordungar smiors til hundrads. ij uoder tuitugar. viij stikur klædis. ij skiolna kietil. skýlldi þesser peningar lukazt a þrimur arum. en standa leigulaust þat sem epter stendur at fardaugum. skylldi huor fýr greindra manna hallda þessum jordum til laga er keýpti. enn suara lagariptingum huor a þeirri jordv er selldi. Ok til sanninda hier um settum vier fýr skrifader menn uor jncigle fyrir þetta bref er skrifat uar a modruuollum j eyiafirde sunnudagin næsta epter luce ewangeliste a sama are sem fýr seger.

---

446. 27. Oktober 1483. í Öxnafelli.

Kaup- og landamerkjabréf um Hallgilsstaði í Fnjóskadal, samhljóða næsta bréfi á undan, nema að dagsetningu.

AM, Fasc. XXVII, 20, frumrit á skinni með sömu hendi og Fasc. LXVI, 18 (bréf frá 19. okt. 1483, Nr. 445, samhljóða þessu). Öll innsiglin eru dottin frá. — Apogr. 8.

Vm̄ hallgilsstade j fnioskadal.[1])

Þath gerum uer are sigurdzson jon markusson jngimundr olafsson ok einar olafsson godum monnum uiturligth med þessu uoro brefi. þa er lidit uar fra guds burd þusund fiogr hundrut attatiger ok þriu ár drottinsdagin næsta fyrir michaels messo[2]) a munkaþuera j eyiafirde uoro uær j hia saum ok heýrdum a ord ok handaband þessara manna brýniolfs magnussonar af eini alfu ok helga sigurdzsonar af annare. ath sua fyrir skilldu at fyrnefndr hellgi selldi adr greindum bryniolfe jordina alla halgilsstade j hnioska-

[1]) Utan á bréfinu með allgamalli hendi. [2]) þ. 28. Sept.

dal er liggur j hals kirkiu sokn med ollum þeim gognum ok giædum er greindri jordu fylger ok fẏlgt hefer at fornu ok nyiu ok hann ok steinun magnusdotter kuinna hans urdu fremzt eigandi ath. sagdi tittnefndur helgi landamerki ꜳ jordune ut at jllu kelldu fyrir sunan skollagerde ok sudur at merkigile ok ofan j iardkrossin fyrir nedan ok sionhending j halgilsstada klauf ok sudur j þingmannalæk er gatan liggur vt j. hier j moti gaf adr greindur bryniolfur jordina dæle j hnioskadal er liggur j draflastada kirkiusokn med ollum þeim gognum ok gædum er greindri jordu fẏlger ok hann uard fremzt eigandi at. ok sagdi at sier hefdi verit saugd landamerki ut at einbualæk ok sudur at hardauallagile. ok ofan ꜳ melin er liggur at hnioska. fyrir xx hundrut ok þar til xvij hundrut med þessum fridleika viij malnytu kugildi ok ix hundrut j þarfligum peningum. ʀiettlugt xij fiordungar smiors til hundrads. ij voder tuitugar. viij stikur klædis. ij skiolna ketil. skylldi þesser peningar lukazt ꜳ þrimur arum. en standa leigvlaust þat sem epter stendr at fardavgum. skylldi huor fẏr greindra manna hallda þessum jordum til laga er keẏpti. en svare lagaʀiptingum huor a þeirri jordu er selldi. Ok til sanninda hier vm settum uer fẏr skrifader menn vor jncigle fyrir þetta bref er skrifat uar æ auxnafelli manudagin næsta fyrir apostolorum Simonis et jude a sama are sem fyr seger.

---

## 447. 18. Nóvember 1483. undir Felli í Kollafirði.

Tveir menn votta um yfirlýsing Bjarna Þórarinssonar um það að Solveig Guðmundardóttir hafi gefið Andrési bróður sínum jörðina Saurbæ á Rauðasandi; svo og votta þeir um yfirlýsing Solveigar sjálfrar um sama efni.

AM. Apogr. Nr. 1160, eptir transskripti frá 15. Febr. 1486. — AM. Apogr. Nr. 1353, eptir sama transskr.

Þat giorum uid teitur sigurdzson ok gudmundr eẏsteinsson godum monnum uiturligt med þessv ockru opnu brefe at þar

uorum uid hia j savrbę æ raudasande ok heyrdum æ at biarne þorarinsson lýste þui fyrir ockur. at greindur biarne sagdizt hia hafa verit j sancte johannis kirkiu j biorguin ok heýrtt hafa ɑ́ at solueig gudmundardotter hefde gefit med fullv handabande til æfinlegrar eignar. andrese gudmundzsyne brodr sinum jordina alla saurbę ɑ́ raudasande ok þar med allar þęr jarder er þar lęge under ok j þeim hrepp liggia ok hvn hefde erft efter gudmund arason faudur sinn ok helgu þorleifsdottur modur sina[1]). lýste ok optt-nefndur biarne at hier uęri bref uppɑ́ giortt uegna andres gudmundzsonar ok hann mętte ecke þess dýlia at hann uęri þar fýrer skrifadur ok þesse giorningur hefde fram farit havstid j norege j fýrgreindum stad adr enn hann hefde fengit solueigar gudmundardottur efter um uorit. lýste[2]) ok þrattneffndur biarne þessari lýsing firir ock[r] oft ok osialldan. þa uid vorum hans sueinar þar sem uęr uorum ute ok jnne þa talat var til gudmundar peninga ok þeirra giafa er solueig hefde gefit.

Jtem j annare grein voro uid j hia. þa er lidit uar fra guds burd. þushund. cccc ok attatiger ara j kledaskemmune ɑ́ ʀeykiaholum æ ʀeykianese æ manudagin nęsta epter sęlu uikv um haustid. ok heyrdum æ at optt nefnd solueig gudmundardotter lýste þui fyrer ockur at hvn hefde gefit andrese gudmundzsyni brodur sinum til ęfinligrar eignar jordina saurbę ɑ́ raudasande med aullum þeim jordum ok jardar eignum er þar liggia under. ok i þeim hrep(p) lęgi ok hun hefde ordit eigannde at efter faudur sinn ok modr gudmund arason ok helgv þorleifsdottur. lýste oftnefnd solueig þui ok lika at hun hefde laungu gefit tittnefndum andresi brodr sinum þessa fýrgreinda peninga þa hun hefde uerit j norege j biorguin efter þui fremzt sem hennar opit bref þar um giort utuisar vm.

Ogh til sanninda hier um settu uid furnefnder men ockur jnzciglle fýrir þetta uitnesburdar bref er skrifat uar under felle j kollafirde þridiudagin nesta firir ceciliumesso um ueturin. þa er lidit uar fra hingatburde uors herra jehsu christi. þushund cccc. lxxx ok iij ar.

[1]) Sjá bréf frá 23. Sept, 1469, DI, V, Nr. 491; [2]) tviskrifað í Apogr.

**448. 26. Nóvember 1483. í Flensborg.**

Hans konungr skipar Diðrik Píning hirðstjóra yfir alt Ísland, af því að Þorleifr Björnsson kom eigi á konungs fund að segja „sína trú þjónustu eptir því sem það sig burði“ og ákveðið var.

AM. Fasc. LXV, 9, transskript á skinni gert á Grund i Eyjafirði 29. Sept. 1484 eptir transskripti gerðu á Bátssöndum 21. Mai 1484. — AM. Apogr. 5825 „Er þetta þeirra vidimus likara bögulegre Jslendskre translation af Dönsku brefi, enn sialfu Dönsku brefi“ (AM). Prentað í Lagasafni Magnúsar Ketilssonar I, 68—72.

Bijfalningz Bref kongz hans vtgiefed Didrich pijning vm̃ Jsland.[1])

Wíj hans med guds nad. Dańmarks. Noregis. Vendis ok Gotes konung vtwald til suia rige. hertug j slessuik ok j holtzstein. stormari ok ditmarsken. hertug. Greifi j oldenborg ok delmenhorst. Giorum aullum witurligt. ath sizt wíj woru wtj wort rike noregi vore wíj svo ofuer eins med wort elskuliga rad j sama stad. ath thorlleifur biornsson skýlldi hafa komit jnn j dańmaurk til oss ok æanamet' þar wort land jsland af oss ok sagt oss sina tru þionuztu epter þui sem þath sig burdi. Tǘ wpp(a) þat at wíj kronen eller wore kiære wndirsate ther wpp ǘ landit skuli eigi fanga þar fýrir nogern skade brest eda forsymelse. at forne þorleifur biornsson eigi jnn j dańmaurk til oss kominn er sem beslutet ok fir stendur skrifat. Ok wíj kunne eigi at fǘ hier nockurn sem leligheit weit at ramme þar vort ok krununar bezta ok bestand ther pa landit. ɧafi wíj nu tiltruat ok bifalat ok med thette wort opna bref [tiltru[2]) ok bifalen þenna brefuisere Direk[3]) pining wor elskuligi tienere wort ok kronen(s) land jsland. j vare hafa ok þar wpp at bera allan worn ok kronen(s) rettugheit ok rente ey huat þat heltz er eda nefnazt kann sem wíj[4]) þar wppa kronen(s) vegna ber at hafa ok oss med rette til falle kann j allań mati sem hann hier til giort hefer. Svo leingi wíj

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1600. [2]) [fáið úr; „hier er burttrossnad stutt ord, hefur oefad vered *tiltru*“ (AM). [3]) Svo. [4]) trosnað úr; Árni bætir uppi; MKet. les: „Oss“.

eptir þui sem laug vtvíjsa sa fyrstur er fremstur situr ꝺ Bodleid og suo huor fra audrum eptir ʀiettum Bodburd. þa hafi votta vid sa er þangad flutti er ʀiett uar eptir bodburd fram̃ j veg og abyrgi hinum er fyrer situr med vitnum þessa konu. þa er sa uidskildur er þangad flutti. Enn hinn abyrgist ad aullu er fyrer situr. og vid skilldi taka greindri konu. Bædi uid kong og Erfingia. ef hann vill ecki vid henni taka edur jnn lata. huort sem þessari konu verdur. hun deyr af kulda edur matleysi. edur huad annad sem henni verdur af þess vaulldum edur forsomun er fyrer situr og vid atti ad taka optgreindri konu. Eptir þui sem laug vtuíjsa j fram̃færslu Bælki vm̃ þa menn sem ecki vilia vid taka edur jnnlata fatæka menn. Skylldi þessi kona fyrst flytiast til hols j saurbæ ef hun er flutt og þadan j Tialldanes og suo vt eptir straundinne til hrepps Enda Bæ fra Bæ. Eptir ʀiettum bodburdi. En huor bondi sem hana vill eigi bædi flytia og fæda sem fyrr greiner. suari slíjku sem laug vtvíjsa. og adur stendur skrijfad. huad sem henni verdur sijdan til meins. af hans vaulldum sem eigi uill vid taka. og til sanninda hier vm setium vier fyrrnefndir menn vor jnnsigli fyrer þetta domsbref. skrijfat j Liarskogum j Laxardal j hiardarhollzt kirkiusokn Blasiusmesso vm veturinn ꝺ sama ari og fyrr seigir.

---

**477.** **5. Febrúar 1485.** **á Hrafnseyri.**

Jón Björnsson (danr) gefr Erlingi Jónssyni tuttugu hundruð í þjónustulaun til kvonarmundar og setr honum „Okinsdalinn“ í Arnarfirði „til panta“ fyrir gjöfinni, og þó að hann þurfi meiri peninga með, skal hann þó ekki missa góða konu fyrir fjóratigi hundraða úr garði Jóns.

AM. Fasc. XXVII, 41b, frumrit á skinni með bráknðu innsigli. — Apogr. 784.

Þath giore eg jon biornsson godum monnum kunigth med þessu minu oppnu brefi ath eg hefe gefeth erlingi jons-

syni xx hundrut j kugilldum ok[1]) fridum peningum ok[1]) j aullum þarfligum peningum til giptumalha en þo hann þurfe meire peninga med þæ skal hann ecki missa goda konu firir fioretigi hundrada vr minum garde. skal hann hafa okinsdalin j arnarfirde til pantta þar til eg hefe vt golldit honnm þæ peninga sem eg gef honum edr adra jord jafngoda þæ sem honum bihagar. gef eg ok gelld fyrgreindnm erlingi þessa adr greinda peninga j siñ þionuztulann. Ok til sanninda hier vm setta eg adrgreindr jon biornsson mitt jnsigli firer þetta bref skrifad æ hrafnseyri j arnarfirde laugardag festum sancte agatte virginis þæ lidith var fra hingatburd vors herra ihesu christi þusvn(d) fiogr hnndrut lxxx og[1]) fim ar.

---

478. 12. Apríl 1485. á Bessastöðum.

Dómr tólf manna, útnefndr af Hallsteini Þorsteinssyni kongs umboðsmanni í Múlaþingi um kæru Erlends Magnússonar til Magnúsar Ívarssonar, að Magnús hefði setið á ótekinni jörðu Erlends, sextán hundruðum í Bustarfelli í Vopnafirði.

AM. Apogr. 4470 „Ex orig. Biorns Petursonar a Bustarfelle" (AM.). Árni gaf Birni frumritið aptr. Innsigli Guðmundar Sigurðssonar var fyrir bréfinu:. „þetta innsigle hefur vered þad annad under brefenu, og eigi nema eitt firir framan þad, sem nu er burtu, svo ei verdr vist vitad hvert þad hefur vered Kodrans eda Hallsteins. þar hafa alldri vered under heingd nema .xij. og mun Hallsteinn ei innsiglad hafa, þad stendur og ei sidarst i dominum, ad hann sitt innsigle med fest hafe". (AM.).

Ollum monnum þeim sem þetta bref siæ edur heyra senda kodran jonsson. Gudmundur sigurdzson. Gunlaugur Runolfsson. pall þorsteinsson. hermundr Benedictzson. thomas Einarsson. arne magnusson. Eindride arnorsson. Ellendr arnason. jon thomasson. mikel teitzson ok jon jonsson kvediu Gudz ok sina kunnegt giorande ath þæ er lidit var fra

---

[1]) Svo,

burd kristz þusund .cccc. lxxx ok .v. ær æ manudagen næsta epter paskaviku[1]) æ bessastodum j fliotzdal æ þingstad rettum vorum vær j dom nefnder af velbornnum mane hallsteine þorsteinssyni kongs vmbodsmane j mulaþinge. ath dæma umm þæ ækæru er Ellendur magnusson kærde til magnusar juarssonar ath hann hefdi setit æ otekinne jǫrdu hans bustarfelle .[xvj^c hundrudum[2]) þar j er liggur j hofsþingum j vopnafirdi upp æ svo langan tima sem hann ok fader hans hefer átt haft ok halldit. j ongu hans frelsi. þui dæmdum vær stefñuna lǫgliga ok magnus rettliga firir kalladan.

Jtem j sama dome dæmdum vær þæ bada magnus ok ellend skyllduga ath ʀida til næsta auxaræarþings med oll sin prof ok skilrike ok leggia þau þar fram under lǫgmans orskurd ok .xij. logrettumana dom hvert afgialld af greindum jardar parte skýlldu lukazt saker þess ath vier hofum eigi sed þar liost logmal umskrifath firir þenan laga brest ath greindur ellendur hafdi eigi stefnt adurnefndum magnusi til laga skiptes.

Jtem dæmdum vær optnefndan Ellend skýlldugan ath ʀída heim til bustarfellz upp æ .iij. ʀeisr. oc lesa þennan vornn dom firir títt greindum magnusi ok hafa þar .ij. lǫglig vitne vid ath þad megi sveria ath þeir hygdi hann heima vera. skyllde ellendur þetta giortt hafa hid sidarzta viku firir botholfsvǫku. enn ef þrattnefndur magnus villdi fordazt ath heyra þenna dom edur talma títtnefndan ellend honum fram ath koma. þæ skylldi hann sem lesenn þegar hann være byriadur. svo ok skylldi opt greindr ellendur mega lesa edur lesa lata nefndan dom firir títtnefndum magnusi hvar hann gæte. hvortt þat være j þingreid edur æ auxaræarþinge epter sama skilordi sem fyrr seger.

Samþyckte hallsteinn þorsteinsson kongs umbodsman þenna dom med oss.

Ok til sannend[a] hier vm settum vær fýrgreinder domsmenn vor insigle firir þetta domsbref skrifath j sama stad ok ære degi sidar enn fyrr seger.

---

[1]) þ. e. 11. Apr.; [2]) [Þannig.

479. 21. Apríl 1485. á Hólum.

Gunnlaugr Þorkelsson fær Ólafi biskupi á Hólum og heilagri Holakirkju til æfinlegrar eignar jörðina Brimnes í Svarfaðardal ítölulausa og með reka, en Ólafr biskup leggr á mót partinn í Tungu í Vatnsdal í Grímstungnaþingum.

AM. Fasc. XXVII, 38, frumritið á skinni. Öll (5) innsigli eru fyrir, en nokkuð eru sum þeirra bráknð. — Apogr. 3295.

brimnes j suárb(ada)rdal. 1485[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heẏra senda andres jonsson. gudmundr jonsson. erlendr broddason. prestar holabiskupsdæmis. sveinn gudmundzson ok eiñar kolbeiñsson leickmenn kvediv gvdz ok siña kvnnigt giorandi þa er lidit var fra hingatbvrd vors herra ihesv christi ꝺ. cd. lxxx. ok fim aar. a. holvm j hialtadaal midvikvdaginn næsta fyrir jonssmessv holabiskups vm vorit[2]) vorvm ver j hia saum ok heyrdum æ ord ok handaband vors andaligx favdvrs olaf(s) med gudz nad biskups a holvm af einne alfvo enn gẏnlavgx þorkeilssonar[3]) af annare alfuo med suo felldvmskilmala at gvnnlavgur þorkeilsson[3]) feick[3]) adur greindvm biskup olafi ok heilagre holakirkiu til æviñligrar eignar jordina brimnes er liggur j svarfadardal j upsa kirkiv sokn jtavlulavsa ok rekañ med sem jordvne til heẏrer med ollvm þeim gognvm ok gædvm er greindri jordu hefer fẏlgt at fornu ok nẏio ok hann vard fremst eigandi at vndañ sig ok sinvm erfingivm. Enn hier j mot gaf opt nefndr biskup olaf adurnefndum gvnlavge partinn j tvngv er liggur j vatzdal j grimstvngna kirkiu sokn med ollv þvi sem honum hafer fylgt at forno ok nẏio. Skal ok adrgreindr biskup olaf hallda þessare fyr skrifadre jordv til laga enn titnef(n)dvr Gunlavgur suara laga riptingvm ef nockur vill akæra. Ok til sanenda her vm settvm vær fyrnef(n)der menn voor jncigli fyrir þetta bref er giort var j sama stad ok aare dęgi sidar en fẏr seger.

---

[1]) Utan á bréfinu með gamalli hendi. [2]) þ. e. 20. April. [3]) Svo,

**480.** **22. Apríl 1485. á Valþjófsstöðum.**

Prófentubréf Jóns Ólafssonar, þar sem hann gefr Árna presti Þorsteinssyni prófentu sína.

AM. Apogr. 4429 „Epter transscripto 14 gamallra Skriduklausturs brefa, giordu þann 28. Septembris Anno 1697. (= a). Samanlesed vid annad transscriptum .XI. Skridulausturs pergaments brefa, giort þann 17. Septembris 1697" (= b.).

Þad giörum vær[1]) Sveinn prestur Jonsson. Þorsteinn Arnason. Arni Magnusson. Jon Eyiolfsson. Oddur Jsleifsson og Markus Vigfusson godum monnum kunnigt med þessu voru brefe. at sub anno Domini M. CD. LXXX. qvinto. a laugardagenn næsta epter ǻttadag Jola[2]) j storu stofunne ǻ[3]) Valþiofsstödum j Fliotzdal vorum vær[1]) j hia sǻum og heyrdum ǻ ord og handaband þessara manna. sira Arna Þorsteinssonar og Jons Olafssonar. ad svo fyrir skildu. at greindur Jon Olafsson gaf sig j æfinliga profentu og frammfære til ǻdurnefndz sira Arna med svo vordnum skilmǻla og peninga vexte sem hier seger.

Jn primis gaf hann med sier hǻlfa jörd er Sturluflötur[4]) heiter er liggur j fliotzdal j Valþiofstadar kirkiu sokn. med öllum þeim gögnum og giædum. skogum og landznytium sem greindre halfre jördu fylger og fylgt hefur ad fornu og nẏiu epter þvi sem hann vard fremst eigande ad. .viij.[5]) mǻlnẏtu kugillde. vij. saude gamla j .ij.c[6]) og hross j .j.c Hiermed skyllde fyrr greindur[7]) Jon þiona um .viij.[8]) ǻr þa þionustu sem sira Arne legde fyrir hann. og hann hefde heilsu til. skyllde greind jörd og aller fyrrnefnder peningar ut gialldast ath næstum fardögum epterkomendum sira Arna til eignar. nema .viij. kugillde bulæg skylldu gialldast ad ödrum fardögum. Hier i[9]) mot skilde Jon Olafsson sier j greinda profentu æfenliga mat og skiæde og .x. alnar[10]) gialldvodar[11]) ǻ hveriu ǻre. Skyllde hann giöra sier hus ǻ sialfs sins kostnade ef hann villde. skillde hann þǻ þegar ganga j þessa sína profentu og hafa þvilikt bordhalld sem hans dagliger

---

[1]) vier, *b.* [2]) þ. e. 1. Janúar. [3]) ad, *a.* [4]) Stullaflötur, *a.* [5]) Jtem, *b.*, [6]) ccc *a*; [7]) nefndur, *a*; [8]) sl. *b*; [9]) a, *a*; [10]) alner, *a*; [11]) vodir, *b*;

sveinar. enn ef tittnefndz sira Arna misser vid fyrre enn Jons. þǻ skyllde optnefndur Jon fylgia peningum þrǻttgreindz sira Arna til hans erfingia. Og til sannenda hier um settum vær vor Jnsigle fyrir þetta profentubref. skrifad j sama stad. föstudagenn næsta firir gagndagenn eina ǻ sama ǻre sem fyrr seger.[1])

---

## 481. 20. Maí 1485. á Þorvarðsstöðum.

Magnús Árnason selr Jörundi Vigfússyni jörðina hálfa Hafrafell í Ássþingum í Fljótsdalshéraði fyrir tíu hundruð í ganganda fé og lausafé.

AM. Apogr. 4294 „Ex orig. Petrs Asmundzsonar a Ketilsstodum i Austfiordum" (AM.). „Þar sem í þessu brefi er skrifad z, ɔ: og stendr i originalnum = og vantar striked sem þesse tvö connectere. titell uppi yfir ordunum sem merke *ur*, er eins ritadur. ex. gr. ad= ɔ: ad². alias hoc apographum accuratissimum est" (AM.) Afskript er í bréfabók Brynjólfs biskups AM. 275. Fol. bls. 167. Ennfremr er afskript á skinni í Bisk. Skalh. Fasc. X, 5, gerð í Skálholti fyrir Brynjólf biskup 15. Nóv. 1663 af Oddi Eyiólfssyni skólameistara, Torfa Jónssyni kirkjupresti, Teiti Torfasyni, Ólafi Jónssyni, séra Þórði Sveinssyni, Sigurði Björnssyni og Teiti Pétrssyni, eptir afskript Pétrs Ásmundssonar og Jóns Grímssonar gerðri að Ási í Fellum 3. Sept. 1663. Afskript þar af er meðal fornbréfaafskripta Árna 2612. Kallast bréfið þar: „kaupbref Jörundar Vigfussonar fyrer hálfu Hafrafelli j fellum austur af Magnuse Arnasyne fyrer x^c j lausafe. Anno 1485. utskrifad Anno 1663".

Þat giorum vær kodran jonsson. þornalldr sigurdzson. smidr gudmundzson ok michil teizson godum monnum niturlikt[2]) med þessu uoru brefi. þa er[3]) lidit var fra hingatburd[4]) vors herra iehsu christi. [þusund fiögr hundröt atta tiger ok fim[5]) ær. vndir æsi i fliotzdalshieradi æ miduikudagin næsta firir philipe et jachobi.[6]) vorvm ver j hia saum ok heyrdum a [7]) ord ok handaband[8]) þessara manna. af

---

[1]) Aptan við afskriptina stendr: „Þetta bref er a kálfskinn med gamla skrift med einu hangande Juncigle og tigleuum gomlum af odru".
[2]) vitanligt x, 5; [3]) ed x. 5; [4]) — hurde x, 5; [5]) 1485, x, 5; [6]) þ. e. 27. Apr., [7]) sl. x, 5; [8]) handsöl x, 5;

eirne ælfuð jaurðndar vigfussonar. en af annare magnus[1]) ærnasonar at svo firir skilldu. at ædur nefndur magnus fieck ok selldi fyrgreindum jðraundi jaurdina hálfa hafrafell er ligur j æsþingum i fliozdals hieradi til fullrar eignar ok frials forædis med aullum þeim gðgnum ok gædum sem greindre jaurdð fylger ok fylkt hefer at fornu ok nyið ok hann uard [fremz[2]) eigandi at. hier i mot gaf opt nefndur jaurðndur þrattnefndum magnuse tíu hundrðd. skylldi þar j lukazt ætta malnytð kugilldi ok tolf sauder veturgamla. ok hundrad j uadmalum ok lukazt allt at næstum fardðgum. skylldi titt nefndur magnus suara lagariptingum æ[3]) ædur greindri[4]) jaurdu en optnefndur jaurðndur halda[5]) til laga. lysti [þui ok[6]) magnus ærnason fyrir oss at hann hefdi þat tilskilet j kaupe þeirra finnboga at sæ helmingr jardar at kirkian vnder æsi mætti eda ætti at eiga uilldi hann ecki kaupa ok vændiz þar at vottum.

Ok til sanninnda her vm settum[7]) uer fyrnefnder menn vor jnnzsigli firir þetta jardar kaupsbref skrifat æ þoruardzstaudum[8]) j skriddal j mula kirkiu sokn faustðdagin næsta firir huitasunno æ sama ære sem fyr segir.

---

482. 18. Júní 1485. á Hólum.

Gunnar prestr Jónsson vottar, að Þorleifr heitinn Árnason hafi sjúkr á líkama, en heill að skynsemi, gert sitt testamentum, og hafi hann þá gefið með endrnýjuðum gjörningi Þorgerði Hallsdóttur Vatn eða Merkigil, hvort sem hún vildi heldr, og þar til tíu kúgildi.

AM. Fasc. XXVII, 40, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — Apogr. 3297.

---

1) magnusar x, 5; 2) [fyrr meir x, 5. 3) *leiðr.*; vantaði í frbr.; ad x 5; 4) greinde x, (!); 5) hallde x, 5; 6) [þar x, 5; 7) setum x, 5; 8) Þorvalldsstödum x, 5.

Testament vm merkigil[1])

Þat giorer ek[2]) gvnnar prestr ionsson godvm monnum vitrligt med þessu minv opnv brefi ath eg[2]) var i hia ok heyrdeg a ath ek uar i glanmbæ j skagafirdi ath þolleifr. heitenn arnason sem gvd hans sal hafi giordi sitt testamentvm heill ath skynsemi en sivkr i likama fyrir mier ok odrvm dandi monnum nær veravndvm koñvm ok kavllvm. ok j millum annara greina er hann giordi fyrir sier ok sinne sal kirkivm ok fatækvm monnum endrnyadi hann sinn fyrra giorning er hann hafdi giort vid þorgerdi halzdottr ok gaf henni til ævenligrar eignar vatn eda merkigil hvort sem hvn villde helldr hafa ok þar til .x. kvgilldi. ok til sanninda hier vm setti ek mitt innzigle fyrir þetta vitnisbnrdarbrief skrifat a holvm i hialltadal lavgardaginn næsta fyrir jonsmessv baptiste er lidit var fra hingatbvrd uors herra ihesv christi þvsvnd fiogr hvndrvt lxxx. ok v. ar

---

## 483. 24. Júní 1485. í Hvammi í Fljótum.

Árni bóndi Þorsteinsson kvittar Pál Jónsson fyrir Hallsteini Þorsteinssyni um andvirði Molastaða í Fljótum.

AM. Fasc. XXVII, 43, frumritið á skinni. Af þremr innsiglum er nú eitt fyrir bréfinu. — Apogr. 3299.

vm molastadi i fliotum 1485[1])

Þat giorum uid þoruardur prestvr semingsson ok asmundur modaulfsson godnm monnum uiturligt med þessu okkru brefi ad snb anno gracie. ꝏ.° cccc.° lxxx.° quinto in natiuitate johannis baptiste j huammi j fliotum uorum uid j hia saum og heyrdum a ord ok hañdaband þessara manna arña boñda þorsteinssonar ok páls jonssonar ath fẏr greindur arnni þorsteinsson gaf ok giordi adur greindan pál jonsson avlldungiss kuittan ok akiærulausan fyrir hallsteini

---

[1]) Utan á bréfinu með gamalli hendi. [2]) Svo á víxl í bréfinu. [3]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

bonda þorsteinssyni ok aullum hans er(f)ingium ok laugligum epterkomindum um alla þa peninga sem oppt nefndur pal jonsson atti at giallda hallsteini bonda fyrir jordina molastadi ed liggur j holldz kirkiu sokn. medkendizt þrattnefndur arni þorsteinsson at hann hefdi fulla ok alla peninga upp dregit uegna brodur sins hallzsteins sem honum uel anægdi. ok til meire audsyningar ok sanenda hier um setti tittnefndur arni þorsteinsson sitt incigli med okkrum jnciglum fyrir þetta kuittunarbref skrifad j sama stad a dag ok ári sem fyr seger.

---

484. [1485?].

Alþingisdómr tólf manna útnefndr af Eyjólfi (lögmanni) Einarssyni um handar afhögg og aðra áverka, er Jón Sigmundsson og hans fylgjarar veittu Ólafi Sölvasyni.

Dómr þessi finst hvergi, nema í ágripi einn, og á þann hátt kemr hann allvíða fyrir í dómabókum. Hér er hann tekinn eptir Landsbókasafni 63. 4to. bl. 37b, skr. c. 1640, og AM. $211_c$ 4to. bls. 166, skr. c. 1700. En sá er galli á, að ártalið er allajafnan ritað „1548" í þessum dómi, en það fær ekki samrýmzt við það, að dóminn sé dæmdr af Eyjólfi lögmanni Einarssyni (1480—1494). Hugsi maðr sér, að ártalið sé misritað fyrir 1485 (í því ártali eru sömu tölustafir og hinu), þá eru lögmannsár Eyjólfs ekki til fyrirstöðu, en annar agnúi verðr þar á móti á því ártali, og hann er sá, að Ásgrímr Sigmuudarson, sem nefndr er hér í dóminum, er þá dáinn (veginn í Víðidalstungu í Sept. 1483). Þó er ekki óhugsandi, að dregizt hafi málið og að dómrinn kynni að vera frá 1485.

Alþijngisdomur vm handar affhogg 1548.

Dæmdur aff Eiolffue Einarssyne og xij Logriettumonnum vm [þa ákiæru[1]) er Olaffur Soluason [sýnde og[2]) sagdist feingid haffua aff filgiorum Jons Sigmundssonar. Asgrime Sigmundssyne og Sygmunde yuarssyne[3]). og dæmt var til alþijngis.

Nu sakir þess ad þar voru önguar sakir syndar og[4]) fram bornar. ad Olaffur haffue hafft til vid [fyr[2]) greinda menn þa

---

[1]) [þann averka 211. [2]) [sl. 211. [3]) Jonssyne 211. [4]) edur 211. [5]) hefde 211.

er honum veittu auerkana. þuj dæmum[1]) vier fyr[2]) nefndum Olaffue xijc ǽ þumalfingrinum [a hægre hende[3]). enn vjc[4]) a vinstri hendinni. ij merkur ǽ hofud[hoggsarinu[5]). tuo fullrietti ǽ stingnum sem hann haffde ǽ sijnum hægra handleggnum.

Dæmdum vier ad þessar sárabætur skyllde gialldast j ollum fullum [6]) peningum. xj stikur varningsklædis j huort hundrad og þar [adra peninga jafnuirda j hundrad[7]). [Þui skal aff þessum peningum [lukt iijc[8]) jnnann [manadar næsta[9]) j hid fyrsta sal ad heimili sialfs Olaffs Soluasonar. aunur iijc[10]) ad næstu Michaelsmesso [j hid annad sal[11]). enn allt ad næstum fardogum j hid sijdasta sal.[12])

---

485. 20. Júlí 1485. á Rófu í Miðfirði.
10. Maí 1499. á Holtastöðum.

Sigmundr prestr Steindórsson selr Bergljótu dóttur sinni 35 hundruð í jörðunni Bjargi í Miðfirði fyrir Hvarf í Víðidal.

AM. Fasc. XXVII, 4a, frumrit á skinni, og er innsiglið fyrir bréfinu, en brákað. — Apogr. 3298.

[Þat giore eg thvmas hrafnson[13]) godum monnum uiturlegt med þessu minu opnu brefi at þa lidit uar fra guds burd m. cd. lxxx. og .v. ár ǽ sialfa þorlaksmessu um sumarit ǽ rofu j midfirdi uar eg j hia sa eg og heyrdig ǽ ord og handaband þessarra mana sigmundar prestz steinþorssonar og bergliotar sigmundardottur dottur hans at so fyrir skildu at greindr sira sigmundr selldi bergliotu dottur sinni xv hundrut og xx. j iordunni biargi j midfirdi med ollum þeim

---

1) dæmdum 211. 2) offt 211. 3) [b. v. 211. 4) 7c, 211. 5) [hoggenu 211. 6) fullvirdtum 211. 7) [til adrer peningar jafnvirder 211. 8) [lukast 400, 211. 9) næsta manadar 211. 10) 400, 211. 11) [b. v. 211. 12) „Datum þessa doms 1548" 211. 13) Utan á bréfinu standa með sömu hendi þessi upphafsorð að bréfinu: „Þat giorum vid tvmas hrafnsson og þorlakur ottarsson", Hafa þeir upphaflega ætlað tveir að útgefa og votta bréfið, en ekki orðið af, að Þorlákr Óttarsson yrði með.

gôgnum og gædum sem þeim iardar dyrleika fylger og fylgt hefer at fornu og nyiu og hann hafdi fremst eigandi at ordit. hier i mot gaf opt nefnd bergliot þrattnefndum sira sigmundi fodur sinum iordina alla hvarf j vididal er liggr j tuṅgu kirkiu sokn med ollum þeim gognum og gædum sem þeirri iôrdu fylger og fylgt hefer at fornu og nyiu og hun haf[di] fremst eiganndi at ordit. skylldi huort um sig suara lagariptingum æ þeirri iordu er sellt hafdi enn huort um sig hallda til laga. Og til sanninnda hier nm setta eg mitt innsigli fyrir þetta bref er skrifad uaʀ ꜳ holltastodum i langadal þa lidit uar fra guds burd ꝏ. cd. niutiger og niu ꜳʀ næsta dag efter uppstigningardag um sumarit.

---

**486. 31. Júlí 1485. í Bjarnarhöfn.**

Vitnisburðr, að Magnús Oddsson sór fullan bókareið að því fyrir Finnboga lögmanni Jónssyni, að hann var hjá og heyrði á, að Illugi Haldórsson og Sighvatr Illugason seldu Einari Þórólfssyni jörðina Brimilsvöllu.

Eptir afskript staðfestri 25. Júní 1703 á Reykhólum af Gísla Jónssyni og Einari Oddssyni, og rituðu þeir eptir frumritinu á „pergamenti".

Þad giorum̃ vid Asgrimur Halsson ok jon Ketilsson godum̃ mônnum̃ vitan̄legt med þessu ockru brefi. ad þar voro vid ij hiꜳ og heyrdnm ꜳ ad Magnus Oddsson sor fullan̄ bokareyd firer fim̃boga Jonssine Logmanne ad hann var þar hiꜳ og heyrde ꜳ ad Jllugi Halldorsson og Sigvatur Jllugason selldu og feyngn Einare Þorolfssine Jordena Brimilsvollu ad ollu og fullu sem þetta[1]) kaupbrieff utvijsar sem þetta kaupbrieff er medfest. Og til sannenda hier um̃ setum vid firrnefnder menn ockur innsigle firer þetta brieff er skrifad var ij Biarnarhoffn ij Helgafellssveyt sunnudagienn næsta effter Olafsmesso hiña firri anno domini ꝏ cd⁰ lxxx⁰ qvinto.

---

[1]) Svo.

487. **3. September 1485. Í Dal undir Eyjafjöllum.**

Eyjólfr Einarsson lögmaðr sunnan og austan á Íslandi „og hirðstjóri yfir alt Ísland“ skipar Árna Einarssyni sýslu og kongs nmboð í Vöðluþingi til næsta alþingis.

AM. Apogr. 5626 með hendi Jóns Magnússonar bróður Arna „Ex originali á kalfskinn“.

Eg eyiolfur einarson laugman sunan og anstan a jslande og hirdstiori yfer allt jsland heilsar[1]) ollum godum monnum þeim sem býgia og bua i vôdluþingi gndz kuediu og mina.

vil eg ýdur viturligt giora at ec hefi vńt og skipad velborńum manni arna einarssyni Mins herra kongsińs syslu og umbod hier med ýdr. suo sem fullmecktugum syslumanni til ber at hafa med skauttum og skylldum reknm og renningnm hvolum og hafrekstrum og ollum þeim rett og reńtu sem kongdominn ok mig tilheyrer og eigi er adur fullur sattmali a ger. skal fyr nefndur arni oll mal smærri og og stærri sætta og semia. segtta og nidur setia og fyrir sig stefna prof a taca og dom yfer nefna þar sem þess þarf med og sækia vńder kongdominn og mic· Skal adurnefndur arni hafa ôll sex marka mal og þar fyrir jnnań sier til lettis og eignar fyrir sina armædu fyrir vtan allań reikningskap vid kongdominn og mic. En ef stærri mal knnnu til at falla sem gud lati færri en fleire. þan skal hann sækia vnder kongdominn og mic og mier þar fullan reikningsskap af gera. skal og fyrnefndur arni fulla mackt og valld til hafa þeim monnnm dag at gefa sem j vandrædi kunna at falla edur fallit hafa og til min sem skiotaz kunnn þeir og a kirkiunar nader komast. skal hann og fulla mackt til hafa at stefna þeim monnum aptur i sińa syslu sem þar hafa brotliger ordit ef þeir hlaupazt j adrar sueiter. skal hann mins herra kongsins iardir býgia j greindu takmarki og landskyllder vpp bera viseyri saman taca og taca lata vńder fullań reikningskap vid mic og þaugat færa sem eg geri rad a fyrir at aflucktum ńefńdarmonnum sitt þingfararkaup. Bidur eg vm alla goda menn og sierliga Mins hérra kongs-

[1]) Svo.

iñs viñe og mina at þier seut greindum arna viliuger og efterlater huors sem hann kann med þurfa og latid hann vel og reidugliga at komazt þeim goduilia er þier vilit honum gert hafa. hier med skal optnefndur arni fulla mackt til hafa þeim manni vmbod at gefa lǫg og rett at gera sem hann med ser til kys j greindu tacmarki at ollu jamfullu sem hann sialfur. Byd ec tittnefndvm arna at hann tali lǫg ok rett til huors ꝏans og þo med vægd og mẏskun. þar sem þat tilbeẏrer enn þriotskum og þralẏñdum se hann rettur domari og refsiñgasamur. skal hann þessari ꝏins herra kongsins syslu og vmbodi at fẏlgia til næsta ǫxararþings og þat leingur sem eigi verdur ǫnur lauglig skipan a gior. Og til sannennda hier vm setti ec eyiolfur einarsson mitt jnnsigli fyrir þetta syslubref er skrifat var j dal vnder eẏiafiollum laugardag næsta fyrir natiuitas sancte ꝏarie virginis. arum epter guds burd .ꝏ. fiogur hundrod attatiger fiñ ar.

---

488. 8. September 1485. 13. Apríl 1486. á Munkaþverá.

Hálfdan Einarsson handsalar Einari ábóta á Munkaþverá klaustrinu til eignar þann skóg, er hann reiknaðist eiga í Vaglajörðu í Fnjóskadal, gegn svo miklu timbri úr skóginum, er Árni bróðir Hálfdanar hafði átt skilið, en það var tíu hundruð að tölu eða tólf.

AM. Fasc. XXVII, 42, frumritið á skinni. Annað innsiglið er fyrir bréfinu, en bráknð. — Apogr. 3021.

um vaglaskőg 1485.[1])

Þat giorum uid þorlakur þorsteinsson ok stigr einarsson godum monnum uiturligt med þessu ockru opnu brefi at þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi þushund fiogr hundrud attatiger ok fim ár. æ munckaþuera j eẏiafirdi ꝏariumessu hinu sidare æ sumarit uoro uid j hia saum ok heyrdum æ ord ok handaband einars med guds nad abota æ munckaþuera af einne alfu ok halfdanar bonda

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

einarssonar af annarre at suo fyrir skildu at halfdan einarson handsaladi abotanum klaustursins uegna til obrigdiligrar eignar þann hlut skogar er hann reiknadizt eiga j uagla jordu j hnioskadal ok hann sagdi sier til erfda hafa fallit epter fødr sinn. hier j moti lofadi aboten greindum halfdane bonda at hann skilldi hafa suo margt timbur sem arne broder hans hafdi att skilit. sagdi abotenn þat uæri ein tiu hundrud timburs at taulu eda tolf ur skoginum. Ok til sanninnda hier um settum uid ockur jncigli fyrir þetta bref skrifat j sama stad miduikudaginn næsta fyrir festum tiburcíj et ualeriani ari sidar enn fyr seger.

---

489. 11. September 1485. 20. Apríl 1486. á Þverá.

Kaupmálabréf Sveins Sumarliðasonar og Guðríðar Finnbogadóttur.

AM. Fasc. XXVII, 45, frumritið á skinni með hendi Finnboga lögmanns. Af átta innsiglum eru nú fimm fyrir, sum tölulvert bráknuð. — Apogr. 232. — Sbr. kaupmálabréf Sigurðar Þorleifssonar og Kristínar Finnbogadóttur frá 24. Júní 1489.

kaupmalabref Sueins Sumarlidasonar og Gudríjdar Fimbogadottur.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heẏra senda eirekr einarsson og jon gislason prestar. paall brandzson. þorsteinn þorleifsson. jon arngrimsson. thomas sueinbiarnarson. asgrimr hallzson og þormodr þormodzson leikmenn Q. G. og sina kunnigt giorandi at sub anno gracie. ꝏ.º cd.º lxxxº v.º a svnnvdagin næsta epter nativitatem beate marie virginis ꜳ þverꜳ j laxardal vorvm vier j hia savm og heẏrdvm ꜳ ord og handaband þessara manna svmarlida eirekssonar og sveins sonar hans. af eirni halfu. en finnbogha jonssonar. og gudridar dottr hans af annari.

---

[1]) Utan á bréfinu með tvennslags höndum allgömlum.

at sua fyrir skildv j fýrstv at þeir finnbogi og svmarlidi giptv þessi sin born saman epter lögvm. med hvorra tveggia jaýrdi og samþycki. med sua vordnum skildaga og fekavpi at greindr sveinn svmarlidason hafdi til kavps og eiginordz vid adrnefnda gvdridi finnbogadottur. alla sina peninga þa sem þa atti hann. og honum hefdi til arfs og eignar fallid epter eirek heitinn loptzson favdrfavdr sinn. var þar j fýrst til skiliñ oll jordin grvnd j eýiafirdi. dalr og mork vnder eýiafiöllvm med ollvm þeim peningum favstvm og lavsvm sem þar til lagv. og eirekr loptzson atti þa hann deýdi. og ei hafa sidan med rettum lögum vndan geingid. sua og hellvland j skagafirdi. skalldalækur j svarfadardal. þorodzstader a svalbardzströnd. og þar med aller adrer peningar. jarder og lavsagozds frider peningar og ofrider. sem eireknr atti j sinn davda tíjd og fyrr sögdvm sve(i)ni hafdi til arfs fallid. hver sem þa hefdi edr hielldi. lýsti og reiknadi fýr nefndr svmarlidi at hvstrv olof loptzdotter hefdi tekid til sin og ecki aptur lvkt fiogr hundrud hvndrada af þeim peningvm sem fellv j arf epter optnefndan eirek loptzson. sua og reiknadi svmarlidi at hvstrv softia lopzdotter hefdi og til sin tekid og ecki aptur lvkt onnur fiogr hvndrvd hvndrada af fýr nefndum arfi. epter eirek loptzson.

hier j moti hafdi gudridr finnbogadotter til kaups vid fýr nefndañ svein svmarlidason jordina fellzmula er liggr a rangarvollnm fyrir attatigi hvndrada og þar til tivtigi hvndrada j þarfligvm peningum. gaf optnefndr sveirn svmarlidason adrnefndri gvdridi finnbogadottur til fvllrar eignar jordina alla arnbiargarbrekkv. er liggr j modruualla kirkiu sokn j havrgardal med sva felldvm skildaga at hann gaf henni. lx. hvndrada j tilgiof. epter logvm vpp j nefnda jord arnbiargarbrekkiu[1].) og þar til .xl. hvndrada j gagngialld og giof. hvert kallaz morgingiof og bekkiargiof. skylldi gudridr taka þessar giafer vpp j arnbiargarbreckv sem hvn veri dýr til. hier epter med radi og vilia skilmala og samþýcki allra fýr greindra manna j fyrstv sveins og gvdridar

[1]) Svo.

skildv þeir finnbogi og svmarlidi at helmingafelag skýlldi vera j millum þeirra optnefndz sveins svmarlidasonar og gvdridar finnbogadottur. lagdizst j felag med þeim allt þat er þa attv þav edr eigandi kýnni at verda j faustum eignvm eda lavsvm epter þvi sem rettarbot hakonar kongs[1]) vttvisar. med þessvm arftavkvm og skildaga at hvort þeirra skýlldi eignazst vid annad alla halfa peninga sin a milli fasta og lavsa frida og ofrida sem þa veri til er frafall þeirra kýnni til at koma. sua og þa misdavdi þeirra kynni at verda. þa skylldi sveirn eda hans erfingiar. sem erv hans born skilgetin fader eda syskin. eiga lavsn a jordvnni grvnd j eýiafirdi. en gvdridr eda hennar erfingiar skýlldv þa taka af þeim hlvta sem sveini eda hans erfingvm til heyrdi fyrir halfa grvnd hvndrad hundrada af þeim bezstvm eignvm er til veri og hvn eda þeir villdu sialfer kiorid hafa.

for þessi allr giorningr. kavpmali og skildagi fram med handabandi millum tittnefndra manna sveins og gvdridar. finnboga og svmarlida. og til sanninda hier um settum vier fýr nefnder menn uor jnnsigli fyrir þetta bref giort ꜳ þueraa j laxꜳrdal a fimtudagin næsta fyrir festum johannis episcopi et confessoris. ari síjdar en fýr segir.

---

**490.** **20. September 1485. í Miklagarði.**

Sæmundr Jónsson lykr kirkjunni í Laufási í Höfðahverfi jarðirnar Neslönd tvenn við Mývatn og Haldórsstaði í Bárðardal fyrir sig og bræðr sína, en þeim höfðu fallið jarðirnar til erfða eftir síra Þorkel Guðbjartsson; kvittar Ketill prestr Grimólfsson þar með um þá peninga, er þeir bræðr urðu skyldugir kirkjunni í Laufási.

AM. 63. 8vo. bls. 105—106, skr. c. 1625.

Laufas kirkiu Bref.

Þad giorum vier Þorkiell Þorkielsson. Hallur Aasgrijmsson. Steffaan Styrkaarzson. Þorfinnur Haakonarson og Hellge Jonsson Godum monnum kunnigth med þessu voru Brefe ad þar vorum vier j hiaa Saaum og heirdum aa aa

1) Þ. e. réttarbótin frá 1306, Dipl. Isl. II, 347—349.

Gríjtu-Ba(c)ka ȷ Hofdahuorfe aa krossmesso v m̄ haustit[1]) Ord og handsol þessara manna Kietels prests Gríjmolfssonar af Eıȷrnre aalfu Enn Sæmundar Jonssonar af annare ad so fyrer skylldu ad fyrr nefndur Sæmundur lucktti kyrkiunni ȷ laufaase fyrer sig og Brædnr síjna 3 Jarder thil æfinlegrar Eignar er so heita Neslond tuenn er liggia vid Míjvatn j Reikiahlíjdar kyrkiu sokn og Halldorstadi ȷ Baardardal er liggur ȷ lundar Brecku kyrkin Sockn med ollnm þeim gognum og giædum sem fyrr greindum Jordum fylger og fylgtt hefur ad fornu og níju og hann vard frem̄st Eigandi ad og Brædur hans og þeim hafdi til Erfda falled epter Sira Þorkiel Gudbiarttsson. Hier j mot gaf fyr nefndur Sira Kietell aadur greindañ Sæmnnd og Brædur hañs knitta og aakiærulausa vm̄ þaa peninga sem þeir vrdu skyllduger kyrkiunni ȷ laufaase sem dæmtt var kyrkiuspioll. stadar fyrnd og þad epter stod af porci(o) og virdingargotzi. skylldi Sæmundnr suara lagariptingum aa fyrrgreindnm Jordum Enn sier(a) kietell hallda til laga og nw. strax mega ad sier taka med frelse allar þessar fyrr greindar Jarder vnder kyrkiunnar vernd j laufaasi. Og til sanninda hier vm setium vier fyr nefnder menn (vor jnnsigli fyrer þetta bref skrifad) j Miklagardi 1485: 3 dagin nestan fyrer festum S. Matth(æi) apostoli.

---

**491. 24. September 1485. á Skarði í Langadal.**

Vitnisburðr Egils Grímssonar um viðreign Jóns Sigmundssonar og hans manna af einni álfu en þeirra Filippussona af annari, í kirkjugarðinum í Víðidalstungu (1483).

AM. Apogr. 3895 eptir transskripti gerðu á skinni nær 1530; — Apogr. 3894 eptir öðru transskripti á skinni gerðu og um 1530; bæði þessi transscripta gaf Árni Páli lögmanni Vídalin. — Apogr. 3888 „Epter ovidimeradri Copiu a pappir", með raungu ártali (1460). — Apogr. 400 og JSig. 66. 8vo eptir transskripti frá 22. Júni 1515.

Vitnisburdur Eigils Grimssonar.

Þat gere ec Eigil grimsson godum monnnm v(iturligt)[2])

---

1) þ, e. 14. Sept. 2) k(unnigt) 3894, 400.

m(ed) þ(essn) m(inu) o(pnu) b(refi). at eg nar j vídedalstungu þa þeir attnzt þar vit jon sigmundzson og menn hans og þeir philippussyner. og þeinke ec þat sannazt epter þeim ordrom er ec heyrda þar vm dagen epter. at þeir philippussyner hefde til fridar rymt j kirkivgarden og þeir næri þar grytter med þui[1]) griotenv er j garden war komit. adur en anar giorningur kom til. þar j kirkiugardinvm.

Og til s(anninda) h(ier) v(m) setta e(g) m(itt) jncig(li) firir þ(etta) vitnisburdar bréf skrifad á skardi j langgadal. laugardagen næstan fyrer michaelsmessn. anno domini. m. cdo. lxxxo. quinto.

---

## 492. 28. September 1485. á Hallgilsstöðum 16. Febrúar 1486. á Barðatjörn.

Brynjólfr Magnússon selr Þorsteini Þorkelssyni jörðina Vatnsleysu í Draflastaðaþingum fyrir tólf hundruð í lausafé, en Brynjólfr skyldi sér skógarpart upp í jörðina og skýrir frá landamerkjum.

AM. Fasc. XXVII, 39, frumritið á skinni. Af fjórum innsiglum eru tvö fyrir. — Apogr. 3296.

Kaupbref fyrir Vatnsleisu i Dræflastada kirckiu sokn[2]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda[3]) ravgnualldur prestur asgrimsson. jon sigfusson. kare aunundarson. jon jonsson godum monnum kunnigt med þessv uorn opnu brefui ad þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi .m. c. c. c. c. attatiger ok v ar á hallgilsstaudum j hnioskadal miduikudagin næsta fyrer mikelsmessn uornm nær j hia saum ok heyrdum á ord ok handaband þessara manna brýniolbnr magnusson af einne alfuu enn af annare þosteinn þorkelson ad fyrnefndur bryniolbur sellde þosteine þorkelsyne jordena vazleysu til fullrar eignar er liggr j draflastada kirkiu sokn med ollum þeim

1) b. v. 400. 2) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. 3) Svo.

gavgnum ok gædum hlutum ok hlunnenndum er greindri jordv fylger ok fylgt hefuer ad fornu ok nyiu ok hann uard fremzt eigande at. hier j mote skyllde fyr nefndur þostein gefa vid greindri jordu xj malnytu kvgillde ok gellfiar hvndrat. skilde opt nefndur bryniolbur sier skogarpart vpp j fyr nefnda jord vaztleysv ur hardaualla lag ok sudvr j heimalækiar gilet ǿá vaztleysv. sagde titt nefndvr bryniolbur þesse landamerke med opt nefndre jordv rettsyne ur harda ualla lag ok ofan j mel þann som ofan geingur j ǿá sudur j steckiarbrecku ok suo rettsyne vpp j fiall. skyllde titt nefndvr þosteinn med fullu frelsi lata bita þann sama skog sem bryniolbur skilde vpp j fyr nefnda jord uaztleysu ollum peningum nautum ok saudum ok geitum. suo ok skilde titt nefndur þostein sier oftinefndan skogar part fyrer ofan gautv allan neyz(l)u vid til sels ok falluid j ollum skoge. skyllde bryniolbur suara lagariftingum ǿá fyrgreindre jordu en þosteinn hallda til laga en ef eitt hundrat eda þadan af fleire geinge af med logum upp j jordina þa skilde þosteinn sier aftur iafnuirda peninga sem fyr uar greint en[1]) bryniolbur liede ad hueggua[2]) j fyrskrifadan skogar part þosteine ad skadlausu. ok til sanenda hier um settum uær fyrnefnder menn uor jnnsigle fyrer þetta jardakaupsbref er giort uar æ bardatiorn j haufdahuerfue fimtudaginn næsta fyrer katedra sancti petri are sidar en fyr seger.

---

## 493 7. Oktober 1485. á Hofi í Vatnsdal.

Vitnisburðr Einars Oddssonar um viðreign Jóns Sigmundssonar og hans manna af einni álfu, en Filippussona af annari, í kirkjugarðinum í Víðidalstungu (1483).

AM. Apogr. 3895 eptir transskripti á skinni frá nær 1530, sem Árni gaf Páli lögmanni Vidalín. — Apogr. 3890 „Epter ovidimeradri copiu a pappir“ með raungu ártali (1580). — Apogr. 401 og JSig. 66. 8vo. eptir transkr. frá 22. Júní 1515.

1) Hér hefir verið skafið eitt orð, sem sýnist hafa verið „þo“ (eða „so“) og mun hafa misskrifazt í fyrstu. 2) þ. e. = höggva.

Vitnisburdur Einars Oddssonar[1]).

Þat giore eg einar oddzson g(odum) monnum vi(turligt) m(ed) þ(essu) m(inu) o(pnu) b(refi). at ec var j videdalstungu. þa þeir attuzt vit jon sigmundsson og menn hans. og þeir philippussyner. og hygg ec þat sannazt. at þeir færi sier til fridar j kirkivgarden philippussyner. og þeir væri þar[2]) fyrre grytter med griote og fyrre slegner.

Og til s(anninda) h(ier) vm setta ec m(itt) jnci(gli) fir ir þ(etta) bref skrifat a hofe j vassdal. a fostndagen næsta firir calixtus messo. anno domini mo. cdo. lxxxo. quinto.

---

**494. 4. Nóvember 1485. á Þingeyrum.**

Vitnisburðr Bárðar Jónssonar um viðreign Jóns Sigmundssonar og hans fylgjara af einni álfu, en af annari Gísla, Hermanns og Ólafs Filippussona, í kirkjugarðinum í Víðidalstungu (1483).

AM. Apogr. 3895 eptir transskripti á skinni frá nær 1530, sem Árni gaf Páli lögmanni Vidalin. — Apogr. 3891 „Epter lausu pappirsblade“ (brot, ártalslaust). — Apogr. 402 og JSig. 66. 8vo. eptir transskripti frá 22. Júní 1515.

Bardar Jonssonar vitnisburdur[3]).

Þat gere ec bardur jonsson g(odum) monnum vi(turligt) m(ed) þ(essu) m(inu) o(pnu) b(refi). at eg var þar hia j uidedalstungv j hunavaztþinge. og ec var þa þionuztusveinn jons sigmundzsonar. er solueigar son er[4]) kalladur. at adur greindur jon war upp á husunvm j videdalstungv og ec bar grjott at honum. epter hans skipan. Enn þeir gisle. herman og olafur philippussyner rymdu ut ur bænum og ut j kirkivgarden[5]). og þa þeir voro j kirkivgarden komner vorv þeir grytter. med grioteñu. af fyrgreindum jone og hans fylgiorum ofan af husvnvm. j kirkivgardinvm. enn hogner og slegner af þeim monnum sem at þeim gengo jn j kirkiugarden. adur en þeir hiugiv[6]) eda slogv nockurn

1) 3890. 2) b. v. 401. 3) 3891. 4) er 402; war, hin; 5) kirkiv, stóð á spássiu i transscripto. 6) hiuggu 402.

man. þar j kirkivgardenum. og hier epter víjl ec sueria. nær sem til efñes kemur.

Og til meire stadfestu hier vmm setta ec mitt jncigle firir þetta vitnisburdarbref er skrifat war ꝍ þingeyrum. j huñauazt þinge. ꝍ fostvdagen næsta epter [allra heilagra[1]) ꝳesso. anno domini ꝳ. cdo. lxxxo. qvinto.

---

## 495. 21. Nóvember 1485. í Kirkjuhvammi.

Vitnisburðr Filippuss Filippussonar og Sigurðar Jónssonar um það, að sira Egill Jónsson hafi haldið tuttugu ár eða leingr jörðina Tungu á Vatnsnesi og um landamerki þeirrar jarðar og að nokkru leyti Ásbjarnarstaða.

AM. Apogr. 3752„ Epter original fra Tiarnarkirkiu a Vatznese" (AM.). „Framanskrifad bref er riett utskrift af originalbrefe a kalfskinn ritudu hvert vier underskrifader sáum og hier vid samanlásum j Skálhollti þann 10. Februarij Anno 1708. — Arngrimur Biarnason. — Suorre Jonsson. — Þordur Þordarson. — Ormur Dadason".

Þad giorum uid filipus filipusson og sigurdur jonsson. godum monnum uiturligt med þessu ockru opnu brefi ad uid uorum uistfaster æ tiarnarstad æ uatznesi. hia sira Egli jonssyni. og j nauero nid hann. hiellt hann og hafdi tugtugu uetur eda leinngr ataululaust. suo ad uid nissum eigi annat sannara uegna kirkiunnar og stadarins jordena tungu er liggr j Tiarnar kirkiu sokn. med þessari landeign. hid efra og hid nedra og þar j milli. framm ad seliagile. j motz uid æsgard. Bio jon steffañsson tolf uetur eda leinngr j fÿr nefndri jord tungu. uissum uid og saum hann bædi slæ og yrkia. og allt gagn af hafa sem leigulida bar j greinndu takmarki. uar og æ su er fiellur[2]) j milli tungu og asbiarnarstada halldin laugmerki þar sem hun rann riett ad fornu fari. og netnæmer fiskar geingu j. suo leinngi sem uid uissum til. og hier epter uilinm uid sueria ef þurfa þiker.

Og til sanninnda hier um settum uid fÿrr nefnder menn

1) [á spássíu í transscripto, 3895. 2) Svo.

ockur jnnscigli firir þetta bref er giort uar j kirkiuhuammi j midfirdi manudagin næsta firir clemens messu um ueturinn. ærum epter gudz burd þusund fiogur hundrut ættatiger og fim ær.

---

496. 30. Nóvember 1485. í Húsavík.
10. Janúar 1486. á Grenjaðarstað.

Þorgerðr Jónsdóttir selr Magnúsi Jónssyni hálfa jörðina Efsta-Fell í Kinn, með greindum ítölum í aðrar jarðir, fyrir Geirbjarnarstaði í Kinn og tíu hundruð að auki.

AM. Fasc. XXVIII, 1, frumritið á skinni. Bæði innsiglin eru dottin frá. — Apogr. 3022. Árni kallar bréfið Munkaþverárklaustrsbréf.

bref fẏrir efztafelli [i Kinn[1]).

Þath giorum vit ion ionsson og Þorsteirn hemingsson godum monnum uiturligt med þessu okru brefi ath þa er lidith uar fra hingatburd uors herra jesu christi þushund fiogr hundrud attatiger og fim ar. laugardagin nęsta fyrir nicholas Messo j husauik a tiornesi uorum uit j hia sæaum og heyrdum æ ord og hañdaband magnusar ionssonar og þorgerdar ionsdottr at suo fyrir skildu at þorgerdr selldi magnusi iordina halfua efstafell j kinn er liggr j liosauatz kirkiu sokn fyrir þriatige hundrada med þessum jtaulvm j fẏrstu skogur med ummerkium j barnafellz iordiu[2]) j halldorustada iordu halfs manadar eingi sem fẏlger allri jordunni felli. afrett ollu gelldfe á flateẏiardals heidi og halft grimstada lañd. suo og til skilin oll þau gaugn og gędi sem greindri halfri iordiu[2]) fẏlger og fẏlgt hefer at fornu og nẏiu og adur greind þorgerdr hafdi fremzst eigandi at ordit. skyllldi opt nefndur magnus ionsson halda greindri halfri iorduni til laga. en þrattnefnd þorgerdr skẏldi suara laga riptingum. hier j moti gaf magnus fẏrr nefndr titt nefndri þorgerdi iordina geirbiarnarstadi er liggia j kinn j stadar kirkiu sokn fyrir .xx. hundrut og þar til sex malnẏtv ku-

---

1) Utan á bréfinu með fornri hendi; frá [með hendi Árna. 2) Svo.

gilldi er hann atti hia opt nefndri þorgerdi og þar til fiogur hundrud j aullum peningum. uar hallr prestur arnason forsagnaruottur at aullum þessum kaupmala og skildaga. Og til sanninda hier um settum uit fyrnefndir menn ockr incigli fyrir þetta iardakaupsbref giort a greniadarstad i reykiadal þridiadagin nesta epter þrettanda dag iola ari sidar en fyrr seger.

---

497. 23. December 1485. Í Héraðsdal.

Vitnisburðr um hestmál, og hafði Þorkell Skeggjason gripið hest fyrir Grími Þorsteinssyni.

AM. Fasc. XXVII, 44, frumritið á skinni. Bæði innsiglin eru dottin frá.

Þat giorum uid jon þorarenson. einar andresson godum monnum uiturlegt med þessu ockru brefe uoro uid j hia saum ok heyrdum a ord ok handaband grims þorsteinssonar ok ellenz magnussonar at so fyrir skildu at fyr nefndr grimur fiek til fullrar eignar adurnefndum ellende þann sama hest sem þorkiell skieggiason greip fyrir þratt nefndum grime til all(r)ar soknar ok alaga sem þar kann fremst a at seigiazt med logum. ok til sannenda hier um settum uid fyrrnefnder menn okkurr jnnsigle fyrir þetta bref er giort uar j herazdal j tungusueit j skagafirde vp a þorlaks messo dag[1]) þa er lidet uar fra hingadburd uors herra jesu christi þushundrud. cccc. attatiger ok fimm ar.

---

498. 5. Febrúar 1486. Í Hítardal.

Sigurðr prestr Jónsson (beigaldi) byggir Ara Magnússyni í næstu fardögum 12 málnytu kúgildi með lögleigu, en ef síra Sigurðr feingi eigi sína peninga þegar hann vildi, skyldi hann eignast fjórðunginn í Lundi í Lundarreykjadal

[1]) Er líklega fremr 23. Dec. en 20. Júlí.

fyrir 15 hundruð, svo og skyldi Lundr standa fyrir kirkjuskuld til síra Sigurðar með fleiri atriðum, er bréfið greinir.

Bisk. Skalh. Fasc. VIII, 9, frumrit á skinni; öll (8) innsigli eru dottin frá. — AM. Apogr. 2596.

giorningsbref sira sigurdar jonssonar ok ara vm lund.
Vm lund j lunda Reykia Dal.[1])

Þat giorum uær helge magnusson. gudmundr olafsson. jon marteinson prestar. helgi þorualldzson. kolbeinn jonson. jon signrdzson. jon asmundzson ok illuge halldorson [le(i)kmenn[2]) godnm monnum kunnigt med þessu noru opnu brefi. þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi. ͦ.cccc. lxxx. ok vj. ær. j hítardal faustudaginn næsta epter kyndelmesso[3]) uorum uer j hia saum ok heyrdum ǫ̈ ord ok handaband þessara manna sira sigurdar jonsonar ok ára magnussonar. at suo firir skildu. at greindr sira signrdr jonson býgde nefndum ára magnussýni. xij. kugillde .iiij. kýr ok uiij. æsaudar kugillde at næstum fardaugum ok skilde sier laugleign epter huert kngillde. enn ef hier ýrde nockur brestur ut j suo hann feinge ecki sina peninga þa hann nillde ut taka. þa skyllde síra sigurdr jonson eignazt fiordunginn j iordnnne lunde er liggr j lundar reykiardal firir fimtan hundrud ok suo micid meira upp j adr greinda jord hundrad firir hundrad sem reiknadiz at adr greindr ári neri ordinn skýlldugr fýr greindum sira sigurde. Skýllde ok opt greindr are luka þratt greindum sira sigurdi alla þa kirk(i)unnar peninga adr skrifadrar jardar lundz sem kirkian ætti j gamla innstædu ok porcio. ok fiordunginum til heýrde af greindum kirkiunnar peningum. enn hnat sem eigi luktizt þa er sira sigurdr uillde kirkiunnar peninga adr skrifada ut taka þa skylldi síra sigurdr eignazt jafnmicit upp j jordina lund hnndrad firir hundrad sem adr uar skilit. Skilde ok síra sigurdr sier at taka þar j hrepnum aptur sina peninga sem hann lýkti þa ut. suo frida ku firir ku. ǫ̈ firir ǫ̈. Enn optt nefndr ari lofadi at giallda

---

[1]) Utan á bréfinu; fyrri línan með fornri hendi, en hin síðari með hendi frá 17. öld. [2]) [á spássíu. [3]) þ. e. 3. Febrúar.

malnýtiu kugilldi firir hueria. xij. fiordunga smiors er opttnefndan síra sigurd brýsti j sinar leigur. ok leiga þat heima undir sig sem aunur bulæg kugillde þar til sem síra sigurdr uillde aptur taka þa peninga ok adra. lýsti titt nefndr áre at opt greind jord lundr ueri frí firir kongi ok karlle ok heilagri kirkiu ok sin eigñ. ok einginn ætti þar part j edr ued nema þat er hann lofade síra sigurde. Ok til sanninda hier um settvm uer fýr nefnder menn uor jnnsiglli firir þetta bref er skrifat uar j hítardal. jn festo sancte agatte uirginis et martiris æ sama æri sem fýr seger.

---

## 499. 15. Febrúar 1486. undir Felli í Kollafirði.

Tveir prestar og fjórir leikmenn transskríbera fjögur bréf frá 15. öld.

AM. Apogr. 1354 „Ex transcripto originali gudrunar Eggertsdottur i Bæ. Þetta document hefur til forna leged i Skalhollte medal Stolsins brefa, Enn nu er þad i eigu Gudrunar Elldre Eggertsdottur. þad er med sömu hendi sem vitnisburdur utgefinn 1482 um Reykholareid Biörns og Einars Þorleifssonar 1445. quem ex originali exscriptum habeo. Eg hefi haft i höndum Copiu af þessu transcriptarbrefe ritada af Sr. Biarna Hallgrimssyne þa hann var heimilismadr i Skalhollte, og lá brefed þá medal Skalholltzbrefa. Brefed á nu (1725) Monsr. Ormur Dadason". Árni lýsir auk þess innsiglum transskriptarbréfsins. — AM. Apogr. 1160, eptir áðrnefndu transskripti.

Þat giorum ver jon halldorsson hermundur oddzsson prestar hauardr bonde olafsson thomas jonsson. auduñ gudmundsson ok ormur magnusson godum monnum uiturligt med þessu uoro opnu brefi at uęr hofum sed ok ýferlesid ok heýrtt eýfir[1]) lesin opinn bref under heilum ok oskauddum hanganda jnzciglum suo latanda ord efter ord sem hier effter skrifat stendr.

[Hér koma:

1. Bréf um Saurbæ á Rauðasandi frá 28. Sept. 1469 DI., V, Nr. 491;
2. Bréf um sama efni frá 12. Sept. 1470, DI., V, Nr. 519;

[1]) Svo.

3. Bréf um sama efni frá 18. Nóv. 1483, DI., VI, Nr. 447.
4. Kaupmálabréf frá 7. Okt. 1423, DI., IV, Nr. 370].

Ok til saninda hier um settum vęr fyruefuder menn uor jnzciglle fyrer þetta transkriptarbref er skrifad uar uuder felle j kollafirde miduikudagin uesta fyrer cathedra petri apostoli. þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi .ꝏ. cccc. lxxx. ok. uj. ar.

---

500. 25. Febrúar 1486. í Björgvin.

Þorleifr Björnsson selr bróður Guðmundi Geirmundssyni jörðina Böðvarshóla i Vestrhópi Þingeyraklaustri til fullrar eignar, og kvittar um andvirðið.

AM. Apogr. 467 „Ex originali monasterii Thingeyrensis, accuraté“ — Apogr. 468 „Ex transscripto monasterii Thingeyrensis, accuraté“, sem gert er í Björgvin 24. Mai 1486.

Bauduarsholabref.

Þat giori[1]) eg þorleifur biornson godum monnum viturlickt met þessu minv opnv brefi. eg mędkenuuuzt at eg hefi sellt brodr gudmundi geirmvndsyui jaurdiua alla bauduarshola er liggr j westurhopi j hunauazþingi j breidabolstadar kirkiusokn klaustursins vegua æ þingeyrum met aullum þeim gauguvm ok gædvm er greindri jaurdu fylger ok fylgt hefer ath fornu ok uyio ok eg hefi fremst eigandi at ordit vndan mier ok minum erfingium en greindv klaustri þingeyrum til æuiulegrar eignar. Suo ok medkennuuzt eg greindr þorleifur at eg hefi vpp borit af fyrr nefndum brodr gudmunde en minzta peniug ok mesta fyrir adrgreinda jaurd. bavdvarshola suo mier vel ænæger ok j ockart kaup kom. Ok til sanuiuda hier vm setti eg mitt jnsigle fyrir þetta bref er skrifat var vt til brædra j biorgvin laugardagiu næsta epter saucte ꝏathij[2]) apostoli. arum eppter guds burd ꝏ.° cccc. lxxx ok vj. ær.

---

[1]) giorer, 468. [2]) „intellige: Matthiæ“ (AM).

Halldóri ábóta og klaustrinu á Helgafelli gegn því að ábóti kendi Narfa syni Lopts til subdjákns með því skilorði, er bréfið greinir.

Eptir Skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar í 4to bl 125 nú í Landsskjalasafni, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. — Ágrip af þessu bréfi með ártali 1488 er í AM. 252. 4to bls. 44—45; AM. 430. 4to bls. 4, og AM. Apogr. 1587.

Kaupbrief fyrir HraunHaffnar Backa.

Þad giorum vier Helgi prestur Jonsson. Einar Þorleiffsson. Jon Jonsson. Einar Þordarson og Skwle Þordarson godum monnum kunnugtt med þessu voro opnu briefe ad a þridiudaginn j paskum Anno domini 1488 a Helgafelli j Helgafellzsveit vorum vier j hia saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna. af einne alfu Herra Halldorz Abota a Helgafelli med samþycke hanz conventubrædra. Enn af annare alffu Lopttz Jonssonar. ad so fyrirskildu. ad greindur Lopttur Jonsson selldi firskrifudum abota Halldore med samþycke Jngebiargar Jngemundardottur konu sinnar Jordina Hraunhafnarbacka. er liggur j stadarsueit vnder olldubrygg klaustrinu a helgafelli til æfinligrar eignar med þeim gognum og giædum sem greindre Jordu fýlger og fýlgtt hefur ad fornu og nyiu og þau vrdu fremst eigandi ad. Hier j mot jatadi og lofade firskrifadur Abote Halldor med samþycke conventubrædra Narffa syne greindz lopttz og Jngebiargar konu sinnar kost og kiendslu a klaustrinu. vadmalz klæde og skiædi framan til þess hann væri subdiakne. med so ordnum skilmala. ad ef pilltinum kynni þau nockur forfoll til ad falla ad hann mætti ecki vijgiast[1]) eda villdi ecki vijgiast þa er hann væri xvj vetra gamall þa skilldi klaustrid og abotinn skilinn vid pilltinn. enn Jordin æfinlig klaustursinz eign. enn ef hann væri þa ecki vijgdur subdiakne er hann væri xviij vetra gamall og villdi þa eigi þo hann mætte. þa skilldi hann vera til þess hann væri vigdur subdiakne. edur ef hann være vijgdur fyrr enn hann væri xviij vetra. þa skilldi hann þo vera a klaustrinu þar

1) yngri, hdr.!

til hann væri xviij vetra. enn ef presturinn kynne fyrre ad deyia. þa skilldi greindur abote Halldor lwka greindum loffte ij^c vppa huoria xij manude sem epter væri thil þess hann være xviij vetra. Hier til skilldi Abotinn giallda loffte ad næstum fardogum iiij m̃ďlnytu kugilldi og iiij saudi gamla ad hausti komandi. xij fiordunga smiorz. j^c j vadmalum og j^c j varninge. ef sigling yrdi. skilldi abotinn ad sier taka Jordina til æfinligrar eignar ad næstum fardogum. Lofade Lofftur ad suara lagariptingum a greindre Jordu. enn abotinn hallda til laga.

Og til sanninda hier vm̃ et cetera.

---

546. 28. Apríl 1488. á Grýtubakka.

Tylftardómr útnefndr af Finnboga lögmanni Jónssyni, kongs umboðsmanni í Þingeyjarþingi, um kærur Magnúsar Þorkelssonar til Jóns Sigmundssonar um Grýtubakka og Hlýskóga og önnur fjármál.

AM. Apogr. 3871 með hendi Páls Hákonarsonar „Ex originali communicato mihi a Paulo Jonæ Vidalino, Vice-Nomophylace" (AM.) „accurate collatum". Þrettán innsigli höfðu verið fyrir bréfinu, en átta af þeim voru dottin frá. Apogr. 3872, afskript eptir sama frumriti.

Domur milli Jons Sigmundssonar og Magnuss Þorkelssonar um Grytubacka og Hlyskoga et cetera[1]).

Ollum monnum sem þetta bref sea edr heyra senda finbogi ionsson. þorsteinn þorleifsson. ion arngrimsson. og olafur halldorsson lögrettumenn. jon finnbogason. nicholas ketilsson. ion sigfusson. sveinn Eyiolfsson. magnus þordarson. hrafn halldorsson. thvmas gudmundzson og asgrimr hallzson Q(uediu) G(udz) og sina kunnigt giörandi at þa er lidith var fra guds burd þushundrat fiögr hundrut atta tiger og atta ær a manadaginn næsta firir tveggia postula messo philippi et iacobi a grytubacka i hofdahverfi a þingstad settum vorum vier i dom nefnder af ærligum manni

---

1) Þessi fyrirsögn er með hendi Árna Magnússonar.

finboga ionssýni logmanni nordan og vestan a Jslandi er þa hafdi kongsins syslu og umbod i þingeyiarþingi at dæma millum þeirra magnus þorkelssonar og ions sigmundzsonar um þa akæru er magnus kærdi þar til ions af vegna kristinar eÿiolfsdottr konu sinnar um arf og peninga epter eÿiolf heitin arnfinzson fôdr kristinar. og at svarinni stefnunne at greindr ion var þangad stefndr i sagdan stad og dag dæmdum vier stefnuna lôgliga. og ion sigmundzson þar lôgliga firir kalladann um allar þær greiner og peninga sem joni bar þar lagasvar firir at hallda.

i fyrstu grein kærdi magnus þat til jons at hann hefdi og hielldi a vegna barna gudna eyiolfssonar jôrdina grytubakka og hlyskoga i hofdahverfi er magnus reiknadi kristinu konu sinni til arfs hafa fallid epter eyiolf arnfinzson at rettum hlutskiptnm vid onnur syskin sin.

i annari grein kærdi magnus til ions at hann hefdi og hielldi .c. hundrada i lausapeningum er gudni hefdi at sier tekid epter eyiolf fôdr sinn og at þessum greindum peningum iordum og lausaféé sooru þar iij skilriker vottar firir finboga ionssyni lôgmanni fullan bokareid at þeir vissu firir full sannindi at gudni eyiolfsson tok at sier grytubacka og hlyskoga epter eyiolf arnfinnzson daudan. og þar til .c. hundrada i fridum peningum og ofridum sua og iardirnar grimsnes og eÿr i fiordum og lagdi þessa peninga ei til skipta sua at þeir vissi vid systur sinar. og eingin lôgligh lagaskipti vissu þeir a þessa peninga ganga.

J þridiu grein kiærdi og magnus til ions af vegna gudna eyiolfssonar og barna hans at gudni hefdi at sier tekit af peningum eyiolfs .xiiij. tigi hundrada at auk fyr greindra peninga og lagt eigi til lagaskipta vid adra erfingia eyiolfs.

Hier i moti þessum greindum akærum vændizst ion sigmundzson i fyrstu at eyiolfur arnfinzson hefdi giefid gudna eyiolfssyni til fullrar eignar iordina grytubacka og liet þar upp lesa .ij. bref sua hliodandi at eyiolfur hefdi gefid gudna iordina grytubacka hver os lituzst i allan mata eigi fullmecktug vera um adr nefnda giof. þui dæmdum vier optnefndan ion sigmundzson skylldugann at lata sveria .ij.

lôglig vitni at eyiolfur arnfinzson hafi giefit syni sinum gudna til fullrar eignar iôrdina grytubacka i hofdahverfi. sua og dæmdum vier ion sigmundzson skýlldugann at lata sveria onnur .ij. loglig vitni at iôrdin i hlyskogum hafi lôgliga skipt verit gudina til eignar eptęr eýiolf fôdr sinn. €n þat .c. hundrada sem svarid var at gudene hefdi at sier tekid epter eyiolf fôdr sinn og ei til logligra skipta lagid vid systr sinar sua þeir vissi liet jon sigmundzson þar i moti bref upp lesa med. ij. manna insciglum sua latanda at gudini eyiolfsson hefdi fram lagt til skipta alla kvika peninga epter eyiolf fôdr sinn. þar i moti vendizt magnus þorkelsson vitnum at og baud at lata sveria ij vitni skilrik at ormur gunlaugsson sa er þar var firir skrifadr hefdi at þeirra viti eigi verid i hofdahverfi a þui vori og alldri þar komit sua at þeir vissi. þvi firir þessa grein og fleiri adrar þær þessu brefi til heyra dæmdum vier þat ecki afl hafa utan helldur dæmdum vier ion sigmundzson skylldugann at lata sveria .ij. loglig vitni at gudini eyiolfsson hafi framlagt alla kvika peninga þa hann hafdi at sier tekid og eyiolfur hafdi att til logligra lagaskipta vid adra erfingia eyiolfs arnfinzsonar. €n ormr gunlaugsson leitz os ologligt vitni sva framt sem þat verdr svarid af .ij. vitnum at ormur kom ecki i hofdahverfi a þui vori sem eyiolfur arnfinzson deydi eda hann var eigi i nesi þa þar var skipt peningum epter eyiolf. Sva og dæmdum vier firir þa akæru er magnus kærdi til jons æ vegna barna gudina at gudini hefdi at sier tekid epter eyiolf .xiiij. tigi hundrada af oskiptum peningum lausafe at auk þess hundrad hundrada sem adr var til svarid. voro hier eingi vitni til leidd. þui dæmdum vier jon sigmundzson skylldugann at sveria lyritareid at su skulld var eigi i gard erfingia gudina sua at hann vissi hvern er jon sor þar þa firir finnboga ionssyni logmanni þenna greindan lyritareid oss nærverondum. skylldu þesser allir greindir eidar leidazst firir finnboga ionssyni lôgmanni innan manadar særra daga at heyrdum dominum at forfallalausu. og at þessum ollum eidum unnum og lôgliga leiddum sem hier fyrr skrifader eru og i dominum standa. dæmdum vier þessa akæru magnus þorkelssonar nu at sinni ecki afl hafa. €n

ef ioni sigmundzsyni fallazst þau eignarvitni sem dæmd eru vegna gudna um giof eyiolfs a grytubacka og sua þau vitni er leidazst skylldi um lagaskipti a hlýskogum. þa dæmdum vier þessar greindar iardir grytubacka og hlýskoga aptur til lagaskipta vid kristinu eyiolfsdottr henni til fullrar eignar sua mikin hlut upp i sagdar iarder sem henni kann til falla at rettu laga skipti vid adra erfingia eyiolfs arnfinzsonar. sua og ef þau vitni fallaz at gudini hafi fram̄ lagtt til rettra lagaskipta vid erfingia eyiolfs alla kvika peninga þa gudni hafdi ath sier tekid og eyiolfr hafdi att utan vi. hundrud edr. vij. þa dæmdum vier ion sigmundzson skylldugan at giallda magnusi þorkelssyni vegna kristinar konu hans .iiij. hundrud og xx ur þui hundrad hundrada sem magnus sveria let at gudeni hefdi at sier tekid epter eyiolf arnfinzson i lausa peningum. Enn firir þann skulld at ion sigmundzson sor þann lyritar eid sem vier dæmdum honum firir þau .xiiij. tigi hundrada er magnus kærdi til hans og ei voro vitni til borin dæmdum vier hann nu at sinni þar eígi meiri svara skylldugan fyrer[1]). Og hier til dæmdum vier ion sigmundzson skylldugan at giallda þrattnefndum magnusi þorkelssyni .xij. alna abata af hveriu hundradi af greindum peningum faustum og lausum æ hverium .xij. manudum upp ǘa þau .vj. ar er gudeni hafdi halldid optnefnda peninga og þar med leigr og leigu[2]) leigr epter rettum reikningi af sögdum abata skýlldi titt nefndr ion sigmundzson giallda edr giallda lata þessa halfa innstædu peninga magnusi þorkelssyni heima i grenevik innan manadar at eidunum faullnum en halfa innstædu sem eru önnur .xij. hundrud at michaels Messo þar epter i nesi i höfdahverfi þar sem eýiolfr arnfinnzson atti bu og lood þa er hann deydi. skal og þar gialldazt abati og alogr allar at næstum fardögum epterkomendum sem fyrskrifad stendr þrattnefndum magnusi þorkelssyni edr hans umbodsmanni.

Og at sua profudu mali sem nu er greint og i dominum stendr samþyckti finnbogi ionsson logman þenna vorn

1) hér: fyr', annars f' 2) hér stendr i hdr. z (og), en því er ofaukið.

dom med oss. og þui til sanninda hier um setti hann sitt innscigli med vorum insciglum firer þetta domsbref skrifad i sama stad og ari tueimur dogum sidar en fÿr segir[1]).

---

**547.** **7. Maí 1488.** **á Helgafelli.**

Gísli Jónsson gefr Haldóri ábóta á Helgafelli kvitta alla þá tiltölu og þann rétt, sem hann þóttist eiga til jarðanna beggja Þveráa og Gerðubergs í Eyjahrepp og Bjarnarfoss í Staðarsveit fyrir lausafé, er bréfið tilgreinir.

Eptir skjalabók úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar í 4to, bl. 159a, nú í Landsskjalasafni 94², með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar, c. 1600. Ágrip af þessu bréfi með ártali 1488 er í AM. 252. 4to bls. 54; AM. 430. 4to bls. 15, og Apogr. 1586 og 1649.

Gierduberg og þuera.[2])

Þad giorum vær Einar Þorolfsson. Magnus Halldorsson godum monnum kunnugt med þessu voro opnu briefe. ad þar vorum vær j hia sau̅m og heyrdum a̅ a Helgafelli j Helgafellzsueit fostudag næstan̄ fyrir krossmesso[3]) vm vorid 1488. ord og handaband Halldorz abota ad Helgafelli og gijsla Jonssonar ad so fyrir skildu ad gijsle Jonsson handlagdi Halldore kuitta og akiærulausa alla þa tiltolu og riett sem hann þottist eiga og hafa til þessara Jarda er so heita þuera̅r thüær og gierduberg er liggia j Eyiahrepp. og Biarnarfoss er liggur j stadarhrepp vnder ollduhrygg fyrir sier og ollum sijnum epterkomendum klaustrinu til æfinligrar eignar. Hier fyrir skilldi greindur Abote Halldor lwka greindum gijsla xij ær j fardogum og xx vod. mioltunnu ad sumre. og j^c asmunda og þar til 40 alner j bwsgagni. sau vær aller fyrnefnder menn ad greindur gijsle var heill ad viti og skynsemd. og thil sanninda hier vm̄. setium vier adurskrifader menn vor Jnsigle fyrir þetta brief. skrifad ad Helgafelle j Helgafellzsueit in festo Johannis beuerlatensis a sama are sem fir seigier.

[1]) þ. e. 30. April. [2]) 430. [3]) þ. e. 2. Maí.

548. **15. Maí 1488.** **á Helgafelli.**

Vitnisburðr Jóns Jónssonar um landamerki Saxahvols, Öndverðarness og Gufuskála undir Jökli.

Eptir skjalabók í 4to bl. 150a úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, nú í Landsskjalasafni 94², með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar á Reynistað, c. 1600. — AM. 264. 4to bls. 11, skr. 1606. — AM. 252. 4to bls. 26—27, skr. 1660 (af Jóni Steindórssyni á Knerri). — Landsbókasafn 108. 4to bls. 128—29 (með hendi séra Jóns í Hítardal). — AM. Apogr. 1575, 1655 & 1657.

Landamerke mille Saxahuolz. ondverdarness og Gwfuskǫ́la.

Þad giore eg Jon Jonsson godum monnum kunnugtt med þessu mijnu opnu brefe ad eg heÿrda Krǫ́k heitinn Marteinsson segia þesse landamerki millum Saxahuolz ondverdarness og Gwfuskala. ad ondverdarnes ætti sudur med sio til hüalraufar.[1]) þadan̄ sionhending til uigisborgar. þadan til borgar þeirrar er stendur hia Hraknessbrunne. þadan̄ sionhending til þijstilshellu. þadan̄ j [skierit j skarfzvijk.[2]) og þesse landamerke hafa verid hofd og halldin j millum greindra jarda so leingi sem eg hefi til vitad. og einginn vppatalad ad mijnu vite. hafda eg og vppa morg ǻr [klaustursinz vmbod[3]) a Helgafelli og [akiærde einginn þesse landamerkie. var eg meir enn sia(u)tugur er eg bar þennann vitnissburd. og hef eg optast verid vistum aa klaustrinu ad Helgafelle.[4]) og rijdit med klaustursinz formonnum. og hier epter vil eg sueria ef þurfa þÿker. Og til sanninda hier vm [sette eg mitt Jnsigle fyrer þetta vitnisburdarbrief.[5]) [Skrifad aa Helgafelle j Helgafellzsueit vppstigningardag Anno Domini ꝏ cd lxxx viij ar.[6])

---

549. **26. Maí 1488.** **í Hruna.**

Eiríkr bóndi Þorsteinsson selr Árna presti Snæbjarnarsyni

---

[1]) hualzröffar 252. [2]) [skard j skarffavijk 252. [3]) [umbodid klaustursins 264. [4]) [264, 252; sl. 94 (!). [5]) [108; etcetera 94, 264 og hin fl. [6]) 1448 ar (!) 252, 108, en séra Jón vill leiðrétta það í 1484; [Anno 1488, 94.

sjö hundruð í jörðunni Langholti í Flóa fyrir níu hundruð í lausafé.

AM. 258. 4to, bls. 202—203, með hendi Hákonar Ormssonar um 1643 fyrir Brynjólf biskup.

Kaup Breff fyrer Langhollts Parte j Floa.

Þad giörum vier Jon Olaffsson og Gudmundur Þorkelsson prestar. Jon Gellisson og Rognvalldur Hialmsson leikmenn godum mönnum witurligt med þessu voru opnu breffe. ad þá er lided war frá hingadburd wors herra Jesu Christi þusund fiögur hundrud attatiger og aatta aar. huijtdrottinsdag vmm worid[1]) i Hruna i Ytrahrepp worum vier i hiá saum og heirdum á ord og handaband þessara manna sira Aarna prests Snæbiarnarsonar aff eirne aalffu. Enn Eireks bónda Þorsteinssonar aff annare. Skildest þad og falst wnder þeirra handabannde. ad fyrrgreindur Eirekur sellde aadurneffndum Sira Aarna Snæbiarnarsyne siö hundrud i Jördunne i Lánghollte i Floa er liggur i Laugardæla kirkiu sokn. med öllum þeim gögnum og giædum sem greindum Jardarparte filger og filgt heffer ad fornu og nyu til ytstu wmmerkia wid adrar Jarder og aadurgreindur Eirekur haffde aadur fremst eigande ad orded. Hier i mote skyllde fyrneffndur Sira Arne gieffa og giallda aadurgreindum Eireke nio hundrud i suo vordnum peningum. sex maalnytu kugillde. tuo naut tuæuetur. tolff sauder veturgamler. fiorer sauder tuæuetrer og þar til frijdvirdta x aura. Skyllde optgreindur Eirekur suara lagariptingum á adurgreindum Jardarparte i lánghollte. Enn Sira Aarne hallda til laga. Ok[2]) til sannenda hier wmm settum vier fyrrneffnder menn wor Jnsigle fyrer þetta kaupbreff. Skriffad i sama stad og aare dege sijdar enn fyrr seiger.[3])

---

[1]) þ. e. 25. Maí. [2]) Svo hér. [3]) þ. e. 26. Maí.

550. **8. Júní 1488. á Flugumýri.**

Dómr tólf presta útnefndr af Ólafi biskupi á Hólum um ákæru séra Jóns Þorvaldssonar til Sveins Oddssonar um ásetu á jörðunni Efra-Ási ótekinni.

AM. Fasc. XXVIII, 26, frumritið á skinni. Af tólf innsiglum eru nú átta fyrir bréfinu, sum mjög skert. — Apogr. 3311.

Domur Wm Svein Oddson.[1])

Þath giorum vær sigurdr þorlaksson. magnus ionsson. gottskallc nichulæsson. olafur ingimundarson. nichulass uilhialmsson. stigur ingimundarson. gunar ionsson. ion kollason. ion hellgason. gudulfur magnusson. olafur ionsson. ion þorkellson prestar holabiskups dæmis godum monnum uiturligt med þessu uoro brefi voro uær i dom nefnder af uirduligum herra ok andaligum fodur olafui med guds nad biskup æ holum laugardaginn næsta epter dyradag.[2]) þa lidid var fra hingadburd uors herra iesu christi þusund fiogur hundrud attatigir ok atta ar at dæma vm þæ akæru er sira ion þorualldsson radzman æ holum kærdi til sueins odzsonar. at hann hefdi setit æ iorduni efra asi oteckinni er liggur i hialltadal. þui i fystu grein dæmdvm vær stefnvna logliga ok suein odz(son) logliga fyrir kalladan. en i annari grein dæmdum vær adr nefndan suein odzson skylldugan at leida t(v)av loglig uitni fyrir biskup olafui eda hans vmbodsmanni hier i dag at hann hefdi iordina epter logum tecit. en fallnadz honum þessi uitni ok hefer suo setit med uilia sialls[3]) sins obbeldi ok fullu forþroti æ adrgreindre kirkiunar fasta eign. þæ dæmdum uær fyrskrifadan suein skylldugan at luka heilagri holakirkiu sextigi marka j fullretti fyrir ran ok rangliga asetv iardarinar. i þridiu grein fyrir rangligt halld kugilldana med jordvni dæmdum uær opp(t)nefndan suein skylldugan at giallda aptur kvgilldin ok matinn undan þeim smior ok skyr. en ef matvrin er ei til suo luki hann eyri epter huert kugilldi uppa huora uicu. en heilagri hola kirkiu i rett sinn þriatigi marka. skulu fyr greind kugilldi. matur ok rietarfar[3]) æ kugilldunum lukatz nu strax

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. [2]) þ. e. 7. Júní. [3]) Svo.

i dag fyrir solar setur sira ione i hond ok hans umbodsmanni. i fiordu grein at sira ion kærdi til hans at hann hefdi ei lukt landskylldina af adr greindri iordu efra asi ok sagditz hafa beitt ok kraft ok feingit eigi þui skal sira ion leida t(v)av loglig uitni at hann hafi beitt og kraft. fullnatz honum þav vitni þa skal sueinn luka xii alner fyrir hveria krof ok þar til kirkiuni fimtan merkur i riett sinn fyrir rangligt halld j landskylldirnar ok oheimilld iardarinar. ok luka landskylldina nu j dag og retarfar landskylldarinar ok oheimilld iardarinar lukitz i haust at michilsmesso en et hæsta fullretti kirkiunar lukitz at næstum fardogum ok hann fallin i bann af sialfs sins verki ok skylldugan ath taka lausn ok skrift af biskupinum. hier til dæmdum uær suein skylldugan at luka suo hvern pening sem han hefdi til eda honum afladitz. suor ok tittnefndr svein fullan bokareid þar fyrir oss at hann skylldi þenna vorn dom hallda ok peningana lvka epter þui sem peningarnir afladitz. Ok til sanenda hier um setivm uær fyr skrifadir prestar vor incigli fyrir þetta domsbref [er] skrifat uar a flvgumýri i skagafirdi sunudagin næstan epter dyradag. a sama ari sem fyr seigir.

---

## 551. 9. Júní 1488. á Víðivöllum.

Tveggja tylfta dómr, útnefndr af Ólafi biskupi á Hólum á prestastefnu, um kæru biskups til Haldórs Brandssonar, að hann hefði eigi haldið Viðvíkrdóm um kirkjugózin á Barði í Fljótum frá 10. Febrúar 1481 (Dipl. Isl. VI, Nr. 317; *Barðsdómr hinn síðari).*

AM. Fasc. XXVIII, 20, frumritið á skinni. Fyrir því hafa verið 24 innsigli, en nú eru að eins 11 af þeim eptir og þó flest nokkuð brákuð. — Fasc. XXVIII, 21, transskript á skinni frá 2. August 1488, og eptir því er þessi dómr tekinn upp i Barðsdóm Jóns lögmanns frá 17. Okt. 1573. — AM. Fasc. LXV, 10, transskr. $^{16}/_{6}$ 1488. — Apogr. 3604.

Bardzdomar 1488.[1])

Þat giorum vær eirecur einarsson. ion þorualldzson.

[1]) Utan á XXVIII, 20, með hendi frá 16. öld. Utan á XXVIII, 21, stendr með hendi frá 17. öld: „Domur um Halldor brandsson“.

ketil[1]) grimolfsson. sigurdur þorlaksson. magnus ionsson. þorleifur magnusson. þorsteinn ionsson. þorstein illugason. snioolfur sigursson.[2]) þorstein gudmundzson. olafur ingimundarson.[3]) magnus asgrimsson. are olafsson. ion ionsson. ion helgason. ellendur broddason. olafur klængsson. káár ionsson. gunnar ionsson. þordur ingimundarson.[3]) olafur þorgeirsson.[4]) gudmundur ionsson. arñe halldzson[5]) ok steinn þorualldzson prestar holabiskupsdæmis godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi at þa er lidit var fra hingatburd vors herra iesv christi þusund cccc attatiger ok atta ar. manudagin næsta epter dyradag æ vidivollum i skagafirdi æ almennilegri prestastefnu vorum vær i dom nefnder af vorum uirduligum herra ok andaligum faudr olafui med gvds nad biskupi a holum ath dæma vm þa akięru er biskupin kięrdi til halldors brandzsonar at hann hefdi eigi halldit þann dom sem dæmdr var vm kirkiu godzen a bardi j vidvik j vidvikursveit ok rofit svo þann dom er atian prestar dęmdu. var þar lesin ok suaren stefnan. þui j fyrstu grein dęmdv(m) ver stefnuna laugliga ok fyrnefndan halldor rettiliga fyrer kalladan hier j dag. en saker þess ath hann forsmadi at koma ȷ suaren stefnudag dęmdum ver hann skýlldugan ath giallda maurk j stefnufall nema hann syni lauglig forfaull ath hann matti eigi koma. J þridiv grein dęmdu(m) ver optnefndan halldor skýlldugan ath giallda fiorar merkr j domrof jnnan siauundar ath heyrdum dominum heima at holum biskupinum j hond eda hans vmbodsmanni ok skylldugan ath hallda domen sem adr þann sem fýr var dęmdr. Ɛn fyrer sina þriozsku ok rangligt halld a peningunum kirkiunnar a bardi fallenn ȷ bann ok skýlldugan at taka lausn ok skrift af biskupinum.

Ok til sannenda hier vm setium ver fýrnefnder prestar vor jnsigli fyrer þetta domsbref skrifvat j sama stad degi ok are sem fýr[6]) seger.

---

[1]) ketill 21. [2]) sigurdsson 21. [3]) ingimundason 21. [4]) þorgrimsson 21. [5]) hallzson 21. [6]) 21; sl. 20.

552. 9. Júní 1488. á Víðivöllum.

Tveggja tylfta dómr, útnefndr af Ólafi biskupi á Hólum á prestastefnu, um kæru biskups til Árna Höskuldssonar, að hann hefði eigi haldið Eyrarlandsdóm frá 7. Júní 1479 (DI, VI, 202) um kirkjugózin í Núpufelli og á Hnappstöðum.

AM. Fasc. XXVIII, 22, frumritið á skinni. Af 24 innsiglum eru nú 10 fyrir bréfinu. — Apogr. 3304. — AM. Fasc. XXVIII, 23, transskript á skinni frá 16. Júní 1488. — Apogr. 3308. — AM. Fasc. XXVIII, 25, transskr. á skinni frá 18. Júní 1488. — Apogr. 3310. — AM. Fasc. XXVIII, 24, transskript á skinni frá 2. August 1488. — Apogr. 3309.

Vm nuparfell ok hnapstadi.[1])

Þat giorum vær eirecvr einarsson. ion þorualldzson. þorsteinn ionsson. ketil grimolfsson. sigurdvr þorlaksson. magnus ionsson. þorleifur magnusson. þorstein illugason. sniolfur sigursson. þorsteinn gudmundz(son). arni halldzson. olafur ingimnndarson. magnus asgrimsson. ion ionsson. ellendur broddason. gvdmnndur jonsson. olafur klængsson. olafur þorgeirsson. ari olafsson. gunnar ionsson. kar ionsson. þordr ingimundarson. ion hellgason. þorstein þorualldzson prestar hola biskupsdæmis godum monnum uiturligt med þessv vorv opnv brefi at þa lidit uar fra hingatburd uors herra iesv christi ɱ. cccc. lxxx ok atta ar manudagin næsta epter dyradag a uidivollum i skagafirdi a almenniligri prestastefnv vorvm vær i dom nefnder af vorum virduligum herra ok andaligum favdur olafui med gudz nad biskupe a holnm i hialltadal at dæma um þa akiæru er biskupen kærdi til arña havskolldssonar at hann hefdi eigi halldit þann dom er dæmdur uar a eyrarlandi i eÿiafirdi vm kirkiv gotzen i nvparfelle i eÿiafirdi ok nappstada i fliottum. uar þar lesin ok snarin stefnañ. þui i fystv grein dæmdum vær stefnvna logliga. ok fyr nefndan arna hoskolldsson logliga fyrir kalladan hier i dag. en saker þess at hann forsmadi at koma i snarinn stefnvdag dæmdvm

[1]) Utan á frumritinu með fornri hendi.

vær hann skylldugan at giallda mork i stefnvfall nema hann sýni loglig forfaull at hann mat(t)i eigi komazt. en fyrir fyrstu grein er i ste(f)n̄vni stod ad arni hoskolldsson hefdi rofit þann dom sem dæmdur var æ eyrarlandi af prestvm ok prelatum tvennum tylftum i anari grein dæmdum vær optnefndan arna skylldugan at giallda fiorar merkvr i domrof innan s(i)avn̄dar. at heyrdvm dominvm heim at holum biskupinum i hand eda hans vmbodsmanni. ok skylldugan at hallda dominn sem adr. þan sem fyr var dæmdur. en fyrir sina þr(i)osku ok rangligt halld æ peningvnum fyr greindra kirkna. nvpufells ok nappstada. fallinn i bann ok skýlldvgan ath taka lausn ok skripter af biskupinvm. Ok til sanenda hier vm setivm vær fyr skrifadir prestar vor incigli fyrir þetta domsbref skrifat at flvgumyri i skagafirdi æ sama ari ok deigi sidar en fýr segir.[1])

---

**.553.** **16. Júní 1488.** **á Hólum.**

Transskriptarbréf.

AM. Fasc. XXVIII, 23, frumtransskriptið á skinni. Öll (4) innsigli eru fyrir bréfinu. — Apogr. 3308.

Domur Vm Arna Hoskuldson.[2])

Þat giorum uær gottskallc niculasson. niculas uilhialmsson. ion þorkelsson. gudolfur magnusson ok olafur ionsson (prestar) godum monnum uiturligt med þessu uoro opno brefi at uær saum ok yferlasum domen er dæmdur uar um kirkiv godzen nvparfellz i eyiafirdi ok nappstada j fliotum suo latanda ord epter ord sem hier seiger.

[Hér kemr dómrinn frá 9. Júní 1488, Nr. 552 næst á undan].

Ok til sanenda hier (vm) setium vær fýr nefnder prestar vor incigli fyrir þetta transkriptarbref skrifat æ holum i hialltadal manudagin næsta fyrir festum botulfui abbatis. anno domino[3]) ꝏ.º cd.º lxxx. octavo.

---

[1]) þ. e. 10. Júní. [2]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. [3]) Svo.

**554. 16. Júní 1488. á Hólum.**

TRANSSKRIPT af Barðsdómi.

AM. Fasc. LXV, 10, frumrit transskriptsins á skinni. Innsiglin eru dottin frá. — Apogr. 3604.

Bards Domur.

Þat giorvm uier nikulas vilhialmsson. gvdvlfur magnusson. olafur ionsson ok ion þorkelsson godum monnum viturligt med þessu voro opnv brefi ad vier hofum sied ok yferlesit domsbref med heilum ok oskavddvm hangandum insiglum vm halldor brandsson suo latanda ord efter ord sem hier segir.

[Hér kemr Barðsdómr frá 9. Júní 1488, Nr. 551 að framan].

Ok til sanninda hier vm settvm vier fyrrnefnder prestar vor insigli fyrir þetta transkriftarbref er giort var æ holvm j hialltadal æ manvdaginn næstañ fyrir festvm sancti botvlfi abbatis. anno domini mcdlxxx octavo.

---

**555. 18. Júní 1488. á Hólum.**

TRANSSKRIPTARBRÉF.

AM. Fasc. XXVIII, 25, frumtransskriptið á skinni. Öll (4) innsiglin eru fyrir bréfinu. — Apogr 3310.

Domur um Arna Hoskulldzson.[1])

Þat giorvm vier nikulas uilhialmsson. olafur ionsson. gvdvlfur magnusson ok ion þorkelsson prestar godum monnum uiturligt med þessu voro opnu brefi ath vier sævm ok yferlasum dominn er dæmdr uar um kirkivgodzin nuparfellz i eyiafirdi ok hnappstadi[2]) j fliotum suo latanda ord efter ord sem hier seger.

[Hér kemr dómrinn frá 9. Júní 1488, Nr. 552 að framan].

Ok til sanninda hier um settum vier fyrnefnder prestar uar insigli fyrir þetta transkriftarbref skrifat æ holum j hialltadal æ midvikvdaginn næstan fyrir festum sancti iohannis baptiste anno domini mcdlxxx octavo.

---

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. [2]) Svo.

556. 24. Júní 1488. á Hólum.

TRANSSKRIPT af Barðsdómi hinum fyrra.

AM. Fasc. XXVI, 2, frumritið á skinni; eru öll innsiglin fyrir því, en sum af þeim eru nokkuð brákuð.

Þat giorum vier ion þorualldsson radzmadur æ holum. nikulas vilhialmsson. olafur ions(son). gudvllfur magnusson. ion kollason ok ion þorkelsson prestar holabiskupsdæmis godum monnum viturligt med þessu voro opnu brefi ad vier hofvm si(e)d ok yferlesit domsbref um hrafn brandsson ok halldor brandsson snioolf brandsson ok kirkiuna æbardi suo latanda ord epter ord sem hier seger.

[Hér kemr Barðsdómr frá 15. Janúar 1481, DI, VI, Nr. 317].

ok til sanninda hier vm settvm nier fyr nefnder prestar uor innsigle fyrir þetta transkriptarbref er giort var æ holum j hialltadal æ ionsmessu dag baptiste anno domini m cd lxxx octauo.

---

557. 30. Júní 1488. í Holti í Önundarfirði.

VITNISBURÐR tveggja manna um vígslumáldaga Sveins biskups í Skálholti fyrir kirkjunni á Kirkjubóli í Valþjófsdal.

AM. Apogr. 2335 „Epter originali fra Holltz kirkiu i Önundarfirdi, accuratè" (AM.). „Jnnsiglen eru i burtu" (AM.). Sbr. bréf frá 21. Sept. 1467 (DI. V, Nr. 436).

Þath giorum vith jorvndur bauduarsson ok einar sueinsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi ad vid uorum æ kirkiuboli j valþiofsdal þæ biskup sueinn uigdi þar kirkivna ok han giordi mældaga ok skipan j millum holltz kirkiu ok dals kirkiv. stod þar svo j millum annara greina ath sǽ prestur sem [hellde kirkivna j holte til forrædes skylde hafa kirkiv[1]) til saungs j dal ser til le(t)tes ok hundrad j kavp hvort hann synge miket eda litit[2])

---

[1]) Hér stóð .j. í frbr., en því er ofaukið: „Deleatur illud .j. Scriba ni fallor in mente habuit j Dal, quod seqvitur" (AM.). [2]) [„Midt i brefenu, þar sem under er strikad (þ. e. í afsk. Árna; hér frá hornklofanum)

ok eigi heyrdum uer þar þa adra skipun̄ ꝋ̄ giorda ok uorum uid hia aullum þeim giorninge er þar uar gior j millum ædur greindra kirkna. Ok til sanninda hier vm setium vith fyr nefnder menn ockur jnzsigli firir þetta bref skrifath j hollti j aunundarfirdi manudaginn næsta firir visitacionem beate Marie uirginis. anno domini. M.º cd.º octogesimo. viij.º

---

558. 8. Júlí 1488. [Í Odda].

Máldagi Oddakirkju á Rangárvöllum, er Magnús biskup setti Eyjólfsson, þá er Gísli prestr Jónsson var dáinn.

AM. 263. Fol., bls. 28—29, máldagabókin gamla frá Skálholti, skr. 1598.

Odde.

Anno domini [1 : c : d : lxxx octauo[1]) in festo sanctorum in celio var so mikill skrude kirkiunnar j odda

blar hokul med gullrondum. med alfærum messuklædum.

Jtem god mariumessu klædi alfær.

Jtem gulur hokull med messuklædum. og brestur hofudlinet.

Jtem raudur hokull med alfærum messuklædum.

Jtem gulur hokull med alfærum messuklædum.

Jtem hringahokul(l) med alfærum messuklædum.

Jtem hokull med grænum hrijngum og ollum færum. nema hofudlin.

Jtem blar hokull med messuklædum og brestur hofudlijn.

Jtem messuhaukull af huitu silki slitinn.

Jtem vj corporalar med iij husum.

Jtem vij sacrarium handklædi vond.

---

hefur verid utskafin nærri half önnur lina, hefur so þetta sem under er dreged, i þess utskafna stad skrifad vered med ödru bleke og annarre hende, þo gamalle. þad sem inn atte ad skrifast hefur ecki feingid rum i þvi skafna platsenu, og hefur þvi orded ad setia ut ä spatiuna, firir utan linurnar, þau sidurstu ordin þar af, so ad nu standa, sem sagt er, ä spatiunne þesse ord . . ort hann synge miket eda litet. Hier munu einhver svik hafa under buet" (AM.). [1]) = m. cd. lxxx octauo.

Jtem iiij kalekar. ij gyllter. ij ogyllter.

Jtem iiij dalmatikur. ij raudar og ij huitar.

Jtem .j. sloppur.

Jtem vij kantarakapur. [iij og af þriar vondar.[1]) iiij slitnar meir enn ein. fǫstutialld sprangat med lerefsdukum. fontz vmmbuningur vondur.

Jtem ij alltarisklædi.

Jtem alltaris dukur og brun med fordukum.

Jtem ij glodar ker annat af silfri. enn annat af kopar.

Jtem lagdi sijra gisli jonsson sterk messuklædi til kirkiunnar fyrir þau ij. sem hann feck burtt.

Jtem alltarisklædi med brun og eru þar æ iiij skilder forgillter.

Jtem annad alltaris klædi med brun. og eru æ vj skilder.

Jtem brun og alltaris klædi til litla alltaris.

Jtem ij dukar glitader.

Jtem ij sloppar og kom annar fyrir hofudlijn.

Jtem vj corporalar litler og slitner.

Jtem iij huersdaglig alltaris klædi med brunum og fordukum.

Jtem textar ij med silfur. enn þridie med kopar. ij kanonumbækur.

Jtem missale de tempore per anni circulum. syngianda fra paskum til adventu.

Jtem missale de tempore per anni circulum. gudspioll og pistlar.

Jtem de sanctis bok per anni circulum. missale gudspioll og pistlar. og de tempore fra paskum til aduentu.

Jtem iij grallarar helldur .i. per anni circulum de tempore og de sanctis.

Jtem kiriall sæmiligur.

Jtem ordobok de sanctis og de tempore per annum.

Jtem capitularius per annum.

Jtem ij legendur per annum onnur de tempore og onnur de sanctis.

Jtem sequentiubok de tempore. og de sanctis per annum.

Jtem matutinale fra aduentu til paska de tempore med capitularium oratium og himnum.

[1]) [Svo.

Jtem de sanctis bok og de tempore fra aduentu til paska.

Jtem ottu songua boc de sanctis og de tempore fra paskum og til aduentu.

Jtem matutinale de tempore fra adventu til paska.

Jtem comnniom alfært.

Jtem vj koparstikur. iiij smelltar.

Jtem psalltare gamall.

Jtem ellbere.

Jtem ærtijdaskræ.

Jtem paska blad med paskakerte.

Jtem yfer haalltare skrin. ij. krossar smellter oc .j. litet skrin. brijk sæmilig. monstrantium. iiij alltaris steinar. ample. vaskall. ij formar olæster. ij lecktarar. skruda kista læst. lıjka krak.[1]) fontz kross. ij biollur. mariu magdalenu likneski. sancte thomas cantuarieij. johannes apostola. mariu likneski. niculas likneski.

Jtem martinus likneski. heimrams likneski. trinitatis likneski. gudmundar likneski. jons postula likneski. mariu magdalenu. mariu likneski nytt lited med katrinar likneski. thomas likneski. sancte johannis holensis likneski. iij paxspiolld.

Jtem nefndi herra magnus vj presta oc vj leikmenn til ad giora oc meta kirkiuna i odda. giordu þeir hana firir lxx^c firir vtann mǭl oc ornamenta. enn ofann a kirkiuna xv^c j kirkiu spioll. oc at auk þat sem hun hafdi bætt verid sidan sira gisli tok med stadnum. Oll husin a stadnum voru virt firir vj hundrut oc xl. hundrada. med vthýsum af þrimur ærligum prestum oc af iij leikmonnum.

Jtem var suo felldur skilmale giordur med þeim herra magnuse oc sýgurde jonssyne. vm þa brijk er sijra gisle heitenn keypti kostolega ad sigurdur luckte hana kirkiunne j xx^c. enn ef sa prestúr sem kirkiuna fær til fullrar eignar. vilde ecki taka hana firir xx^c þa lofvadi herra magnus at leysa til sin brikena firir xx^c friduirt. suo framt sem þær tnær hurdernar sem þa voru ecki heima. kæmi heim j odda oskemdar.

Jtem suo mikel kuikfe afhent med oddastad. jm primis

[1]) krok, hdr.

xviij kýr. ij naut tuæuetur oc þrenett naut. ix naut veturgaumul. vj kalfvar. jtem asaudur j innstædu. xiiij asaudar kugillde. jtem a fialle xvj sander oc lx tuæuetrer oc eldre. jtem veturgamlir saudir a fialle xvoc lx. jtem lomb þrimur fatt j hundrade. jtem luckt j mortalia iij kyr oc v. asaudar kugillde.

Jtem kaplar luckter .v. hestar firir .v. hundrut oc iiij hross fullroskenn. jtem lucktur tuæuetur hestur firir veturgamalt hross. jtem lucktur veturgamall hestur.

Suo mikler reiknudust peningar j porcio kirkiunnar. xl hundrut oc xv^c j kirkiu spell. xij^c j decimam partem. viij^c. j mortualia. jtemlu cktizt hier j suovordner peningar viij malnytukugilldi oc xx. xvij^c j veturgomlum saudum. tuæuetrum oc eldrum. hundrat j kalfvum. brijk j xx^c. skip firir vj^c. iiij(c) j vidum oc xv aurar betur. jtem lagdizt til kirkiunnar skrijn buit med silfur. einn sprangdukur. boc er erfinginn leysti firir halft þridia .c. med bisknpsens samþycki. jtem lucktizt þar .v. vætter smiors nýtt. xij fiordunga smiors fornt .v. tunnur skyrs .c. skreidar a ofannleiti j jskylld xv fiskar oc xx heima a stadnum.

---

559. **10. Júlí 1488.** **Í Hafnarfirði.**

Bréf Heinreks Mæðings, umboðsmanns hirðstjórans Diðriks Pínings, um lögmannskaup það, sem hann geldr og ákveðr Finnboga lögmanni Jónssyni.

AM. Fasc. XXVII, 16, frumrit á skinni. — Prentað í Safni II, 183—184.

medkienijng Hinriks Mædings[1])

Eg heinrek mæding hirdstiora pinings umbodsmann a mins herra kongsins uegna yfer allt jsland giore þat godum monnum uiturligt med þessu minu opnu brefi at finnbogi jonsson laugmann hefer giort mier fullan og allañ reikningsskap af sýslunni j þingeýiar þingi skauttum og skylldum hefer eg lukt greindum finnboga fyrsagda rentu j sitt laugmanz. kaup. Suo og hefir eg lukt saugd-

---

[1]) Aptan á með hendi frá 17. öld; ártal 1488 með hendi Árna.

nm finnboga j sitt kaup þau .vii. hundrnd sem hann uar skýlldugr didrek pining j gamlan reikninngsskap af kongsins syslu þingeyiar þingi

þui giorir eg og gefur þratnefndan finnboga jonsson aullnngis kuittan og akęru lausan um alla rentu og reikningskap gamlan og nýan þan sem hann hefir tekit og upborit og skyllduguг ordit af títnefndri sýslu þingeyiar þingi.

Skal hann og taka framleidis alla kongsins rentu af oftnefndri syslu j sitt laugmanzs kaup eptir þui sem eg hefir adr til skilid at af skildnm .x. marka malum og þadan af stęrrum skal hann og hafua umbod yfir kongs jordum j uodlaþingi og taka þar landskylld af nppa rettan reikningskap j þau fimtan hundrud sem honum ber j sitt laugmanz kaup at taka.

Og til sanenda hier um setta eg mitt jncigli fyrir þetta bref giort j hafnarfirdi fimtudagin nęsta fyrir festum beate margarete uirginis. Anno domini. ꝺ⁰. cd. lxxx octauo.

---

**560.** **29. Júlí 1488.** **í Skálholti.**

Transskriptarbréf.

AM. Fasc. XXVIII, 12, frumtransskriptið á skinni. Annað innsiglið er dottið frá. — Apogr. 1493.

domur vm bæ j borgarfirde[1])

Ollvm þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra heilsum vid þorleifur sigurdzson ok jon thomasson kunnigt giorandi med þessu ockru optnu brefi ath vid hofum sied ok ýferlesit sua latanda bref med heilvm ok oskoddvm jnnciglum ord fyrir ord sem hier seiger. [Hér kemr samningr Magnúsar biskups Eyjólfssonar og Einars Björnssonar út af vígi Bjarna Þórarinssonar og fleira, gerðr á Skarði 27. Aug. 1487, Nr. 533 að framan]

Ok til meire stadfestu ok vitnesburdar settvm vid adur greindr þorleifur sigurdzson ok jon thomasson ockur jncigle fyrir þetta bref skrifad j skalh(o)llti in festo Olaui regis et martiris anno domini .ꝺ. cd. lxxx. octauo.

---

[1]) Utan á transskriptinu með fornri hendi.

561. 31. Júlí 1488. á Hólum.

Ólafr biskup á Hólum lýsir því, að Eiríkr prestr Einarsson kæmi til sín um vorið 1487 og kvæði bræðr á Munkaþverá hafa kosið sig til ábóta, en biskup kvað hann eigi hafa „klaustrkjöt", og setti hann þó til reynslu um tólf mánuði fyrir klaustrið; en að jólum kom prestr og beiddist þá í senn ábótavígslu og lausnar fyrir barneign, og þykir biskupi það ekki mega fara saman.

AM. Fasc. XXVIII, 19, frumritið á skinni. Brot er eptir af innsigli biskups, en hin tvö eru dottin frá.

bref vm sira eirek einarsson.[1])

Víj olaf med gvdz næd biskup a holvm giorvm godvm monnum viturligt med þessv uoro opnu brefi ath sira eirekur einarsson cvratus in greniastad kom fyrir oss heim til hola anno domini mcdlxxx septimo nokkura daga fyrir fardaga. ok sagdi oss at brædurner æ mvnkaþuera(r) klaustri hefdi valit sig til abota æ sama klanstri mvnkaþvera ok hann hefdi samþykt þat sama ef víj uilldum þat samþyckia. tolvdvm víj fyrir honum med morgvm ordnm at hann matti þat embætti eigi ad sier taka fyrir margar sakir skulld[2]) ok mest fyrir þat hann hafdi eigi klavstur kiœt.[3]) suar(a)di hann þa oss at hann væri suo gamall ad hann mætti uel ad sier sia. ok betra sig ok sagdizt hafa lofat jvmfrv mariu ok brædrvnum ad ganga inn j sama klavstur mvnkaþvera. ok sagdizt eigi mega brigda þat fyrir henfd[4]) ok reidi ivmfru mariu ef hann helldi eigi sina lofan. hier med griet hann vt af og felldi tær. þa sogdum uíj honum at ongum uæri batinn fyrirbodinn. ok ef hann villdi betra sig. skylldvm uíj fæ honnm klavstrit ok alla þess peninga fasta ok lavsa uppa næstu xij manadi. uorv hia þessvm giorningi uorer prestar gotskalk nikvlasson ok gvdmundur ionsson at hann lofadi þetta ad hallda sem eirn dandi mann. epter þenna giorning tok hann ad sier klaustrid ok alla þess peninga epter sinni lofan ok uorri

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi. [2]) Svo. [3]) kiœt = kiöt. [4]) Svo.

skipan. kom fyrr nefndur sira eirekur einarsson þa til oss epter iolin um sama malit ok beiddizt abota uigslu ok sagdizt hafa regluklædin med sig. ok suo beiddizt lavsn(ar) fyrir barns eign er hann · uard segtugr innan þess tima hann giordi þessa lofan sem fyr skrifat stendr. svorvdvm víj honum at þat kome eigi uel saman at taka abotauigslu ok lausn fyrir barnzeign ok þni mættum vij eigi vigia hann til abota. vtañ settvm annan dandi mann fyrir klavstrit ok hans stad. er þetta morgvm dandi manni kvnnigt vm barnz eignina sem oss j holabiskupsdæmi. Ok til sanninda hier um setium uíj uort innsigli fyrir þetta bref med fyrnefnd(r)a presta insiglvm er nær uorv (at) þessi giorningr uar lofadur. skrifat a holum j hialltadal fimtvdaginn nestan efter olafsmessv fyrri. anno domini m° cd° lxxx° octauo.

---

562. 2. August 1488. á Hólum.

Transskriptarbréf.

AM. Fasc. XXVIII, 24, frumtransskriptið á skinni. Innsiglin eru dottin frá. — Apogr. 3309.

Kirkiugots j nupnfelle og hnappstade j fliotum.[1])

Þath giorum uær nicnlas uilhialmsson. gudolfur magnusson. olafur ionsson ok ion ormsson prestar godum monnum uiturligt med þessu uoro opnu brefi at uær saum ok yferlasum domen er dæmdur var um kirkiugodzeñ nuparfellz j eyiafirdi ok napstada j fliotum suo latanda ord epter ord sem hier seiger.

[Hér kemr dómrinn 9. Júní 1488, Nr. 552 að framan].

Ok til sanenda hier um setium uær fyrnefnder prestar uor incigli fyrir þetta transkriptarbref skrifad a holum j hialltadal laugardagin næsta fyrir inuenticionem[2]) sancti olafi regis et martiris anno domino[2]) ↀ.° cd.° lxxx.° viij.°

---

[1]) Svo, utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. [2]) Svo.

563. 2. August 1488. á Hólum.

Transskript af Barðsdómi.

AM. Fasc. XXVIII, 21, frumtransskriptið á skinni; fyrstu innsiglin tvö eru dottin frá.

Þat giorvm vier nicvlas vilhialmsson gvdvlfur magnvsson ion kollason ok olafur ionsson prestar hola biskupsdæmis godvm monnum viturligt med þessu voru opnv brefi ad uier hofvm sied og yferlesit domsbref med heilum ok oskauddvm hangandum innsiglvm vm halldor brandzson suo lætanda ord efter ord sem hier seger.

[Hér kemr Barðsdómr frá 9. Júni 1488, Nr. 551 að framan].

Ok til sanninda hier um settvm uier fyrnefnder prestar uor innsigli firir þetta transkriptarbref er giort uar æ holum j hialltadal lavgardaginn næstan firir olafsmessv env sidari. anno domini ꝏ° cd° lxxx° octavo.

---

564. 9. August 1488. í Nyborg.

Aðalsbréf Eggerts Eggertssonar.

AM. Apogr. 4255 „ex originali, accurate", er Árni fékk að láni 1703 frá Brynjólfi Þórðarsyni á Hliðarenda, og þykist þó þurfa að sjá aptr, því meðal annars ritar hann svo um bréfið: „ad skoda á Hlidarenda adalsbref Eggerts Eggertssonar propter insignia, sem ecki eru rett rissud i minne copiu. Jtem ad athuga grant hvort i brefinu stendur mwe eda *wille mwe* hafdo og lesed þad. *Dütmersken* eda *Dutmersken* incertum. því einger eru punctar yfer. Dütmersken true eg þad eigi þó ad vera. Original þennann hefi eg haft til lans fra Hlidarenda anno 1703. hänger enn nu þar under in pressula membranea (brefet er og á kalfskinn) stórt innsigle, hafande ytst tvenna limbos, hvar á er þesse inscription: 'Secretum Johannis: Dacie: Swecie: Norwegie: Sclauorum: Gottorumque: regis: Ducis: Sleswici: Holsacie: Stormarie et Ditmarsie: Ducis: comitis: in Oldenborgh et Delmenh. . . '" Dregr Árni þar með upp innsiglið og lýsir því framar. Ennfremr lýsir hann innsiglum Jóns Gizurarsonar á Núpi, er dregin sé af merki Eggerts, eins og prentað er í Safni til sögu Íslands I, 647 (einmitt eptir þessari afskript). Til er bréf þetta í ýmsum pappírsafskriptum frá ýmsum tímum, og koma þær að litlu haldi. Einna merkust er afskript í safni Bókmenntafélagsins í Kh. 55. 4to. Bréfið er áðr prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 249—250, í Lagasafni Magnúsar Ketilssonar I, 73—74 og í Safni til sögu Íslands I, 696—697.

Wii Hans met guds nade Danmarks Norrigis Vendes oc Gotes konning vduald til Suerrigis rige . Hertug i Sletzuig oc i Holsten Stormarren oc Dütmersken greffue i Oldenborrig och Delmenhorst gøre thet witerlicht alle at fore troskab och willige tieniste Som thenne breffuiser Eggerd eggerds søn lagmann uti wigen oss och wort Rige Norrige her till giort haffuer och han oc hans rette echte børn oc affkomme oss oc wore arffwinge oc effther kommere konninge uti Norrige oc riget her effter trolige gøre bewise mwe oc skulle Tha haffue wii nw aff wor sønderlige gwnst oc nade vnt och giffuet och met thette wort obne breff vnne oc giffue hanom oc hans rette echte børn oc affkomme frihed oc frelsse Som andre wore Riddere oc swenne haffue uti wort Rige Norrige till ewig tid met skiold oc hielm Som er en halluff hwid enhørning uti eth bloth feld . och en halluff huid enhørning owen vpa helmen effter som her uti maleth stander.[1])



Tog wort oc kronenn frii bondegotz och køpsted gotz vti alle made vforkrencket Thi forbiwde wii alle ehwo the helst ære eller wære kunne . och serdeles wore fogder oc embitzmen forne Eggerd eggerdssøn eller hans echte børn her uti eller emod at hindre eller hindre lade dele platze

[1]) Fyrir merkinu er eyða i afskriptinni; er hér fylgt myndinni i Safni.

møde vmage eller uti nogre made vforrette vnner wor konningxlige heffnd och vrede. Datum in castro nostro Nyborrig feria quinta proxima ante festum beati Laurencii martiris Regali nostro sub Secreto inferius appenso Anno Domini Millesimo quadringentesimo octuagesimo octauo.

Dominus Rex per se.

---

565. 22. August 1488. á Mel í Miðfirði.

Guðmundr prestr Skúlason selr Ólafi biskupi og heilagri Hólakirkju jörðina Bíasker á Rosmhvalanesi fyrir fjóra tigi hundraða í lausafé.

AM. Fasc. XXVIII, 27, frumritið á skinni með öllum (5) innsiglum. — Apogr. 3312. — AM. Fasc. XXVIII, 28, transskript á skinni frá 6. Aug. 1489. — Apogr. 3313.

um bíasker.[1])

Þat giorum uier gvdmundur ionsson. þosteirñ gudmundsson. snorri hrolfsson ok ion kollason prestar holabiskupsdæmis godvm monnum vitnrligt med þessu uoru brefi ad vier uorum þar j hia saum ok heyrdvm a ord ok handaband vors andaligs herra olafs med guds naad bisk-up(s) a holvm af eirñi alfv enn sira gudmundar skulasonar af annari ad suo fyrir skildv ad fyrnefndur sira gudmundur seldi biskupinvm ok heilagri holakirkiv hælfa jord er heiter biaskier er liggur a rosthualanesi j hualsnes kirkiv sokn fyrir fiorvtigi hvndrada tolf mælnytu kugilldi tolf gielldfiar kugilldi epter uorlagi ok sextan hvndrud j odrvm fulluirdispeningum. tolf fiordunga smiors fyrir hvndrad. atta alner madmals[2]) ok fiorvtigi fyrir hundrad ok slatur ad havstlagi edur adra peninga epter þui sem þeim semur. skulu þesser peningar vera lukter innan tueggia ara. selldi adr nefndur sira gvdmundur fyrgreinda iord bíjaskier biskupinum er hann erfdi efter sinn fodur skula loptsson epter þui sem bref þar um giort uottar med ollvm þeim gognum ok giæd-

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi. [2]) Svo frumritið; uadmals XXVIII, 28.

vm. rekvm ok hlvnnendum sem greindri iordv fylger ok fylkt hefer ad fornu ok nýu sem hann uard fremstz eigandi ad undan sig ok sinum erfing(i)um enn under hola-kirkiu ok biskupinn. skal optnefndur sira gudmundur suara laga riftingu æ iordunni. enn biskupinn halda til laga. Ok til sanninda hier um setti sira gudmundur skvlason sitt innsigli med vorum innsiglvm fyrir þetta bref er giort var æ mel j midfirdi favstvdæginn næstañ fyrir festvm bartholomei apostoli anno domini med lxxx octavo.

---

566. 21. September 1488. í Múla í Skriðdal.

Páll Þorsteinsson selr Magnúsi biskupi í Skálholti tíu hundruð í jörðunni Hofi í Öræfum með því fororði, er bréfið greinir, en biskup kvittar Pál og Þórdísi Runólfsdóttur af sex barneignum.

Bisk. Skalh. Fasc. XVI, 21, frumrit á skinni. Fyrir bréfinu hafa aldrei verið fleiri en tvö innsigli. — AM. Apogr. 2500 „accuraté".

kanp fyrir .x.c j hofe j öræfum anno 1488.[1])

Þat gerum wær narfj jonsson. jon magnusson prestar skalholltzbiskupsdæmis. hallsteinn þorsteinsson og þorleifur sigurdzson leikmenn godum monnum kunnigth med þessu woro opnu brefj at sub anno gracie. ᴍ⁰ cd⁰ lxxx.⁰ octauo. fimtudaginn næsta fyrir matheusᴍesso gudspiallamanz[2]) æ hallormsstodum j fliotzdal worum wær j hia saum og heyrdum æ ord og handabañd þessarra manna herra magnus med guds nad bisknps j skalholltj af einne halfu enn pals þorsteinssonar af annarrj. at sua fyrir skildu ath greindr pall fieck adr nefndnm herra magnuse .x. hnñdruth j iord-unne hofe j auræfum til fullrar eignar og frials forrædis med ollum þeim gognum og gæduın sem greindum jardar part fylger og fylgt hefer ath fornu og nyiu og hann ward fremzt eigandj ath. med jayrdj. samþyckj og wpplage ceciliu þorsteinsdottur systur hans. suo framt sem margret þor-hallzdotter moder hans willdj þar saumuleidis samþyckj og

---

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi. 2) Þ. e. 18. Sept.

wpplag til gefa. enn ef greind margriet willdj eckj þar jayrdj wpplag edr samþyckj til gefa. þa lofadj fyrr nefndr pall j sama handabandj ath giallda nefndum herra magnuse at næstum fardogum. nj malnýtu kngilldj og iiij hundruth j þarfligum peningum. enn ef adr nefnd margret willdj wpplag til gefa ath opt nefndr pall gýlldj fyrr greindum herra magnuse adr nefndau jardar part. þa lofadj tittnefndr pall þar þa oss æheyranndum ath selia opt greindum herra magnuse fyrstum all(r)a adr nefnda jord hof til fullra peninga. hierj mot gaf titt greindr herra magnus þrattnefndau pal þorsteinsson og þordise runolfsdottur ollungis kuitt og ækærulaus fyrir sier og ollum sinum epterkomandum kirkiunnar formonnum j skalholltj wm þær uj barneigner sem þau hafa opinber at wordit epter þui sem þeirra kuittanarbref þar wm gert wt uisar. Og til sinninda hier wm settum wær fyrr nefndir prestar og leikmenu wor jnnsigle fyrir þetta bref skrifath j mula j skriddal jn festo mathej apostolj et ewangeliste æ sama ære sem fyrr segir.

---

567. **3. Oktober 1488. í Grenivík.**

Vitnisburðr um atför Jóns Sigmundssonar og hans fylgjara i Grenivík á heimili Magnúsar Þorkelssonar, er þeir brutu þar bæjarhús og særðu Kristínu Eyjólfsdóttur, konu Magnúsar, svo að hún var blóðug.

AM. Fasc. LXVI, 19, frumrit á skinni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá.

Jons Sigmundzsonar og hanz manna atfor
i Grenivijk i ꝩ̨ófdahverfe.[1]

Þat gerum uier jon sigfusson. þorualldur jonsson. eyiolfur arnason. og jon tumason godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi miduikudagen næstan firir michaelsmesso[2]) um haustid þa er lidit uar fra guds burd þush(u)nd fiogur hundrut attatiger og atta ar komu uiær til greniuikur i hofdahuerfi æ sama uiettfangi. sem jon sigmundsson

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. [2]) Þ. e. 24. Sept.

609 19. Apríl 1490. á Helgafelli.

Þuríðr Björnsdóttir og Þorvaldr Narfason sonr hennar selja Haldóri ábóta á Helgafelli jörðina Kárstaði í Kárstaðabotni fyrir tíu málnytu kúgildi og þar með gaf ábóti þau kvitt um sektir allar og dómrof, er Narfi „heitinn“ (Þorvaldsson) hafði orðið sektugr ábóta og klaustrinu.

Eptir skjalabók í 4to, úr safni Jóns háyfirdómara Péturssonar, bl. 130b—131a, nú í Landsskjalasafni 94, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar, c. — 1600. Ágrip bréfsins með ártali 1490 er í AM. 252. 4to bls. 46; AM. 430 4to bls. 6; Apogr. 1589.

Brief fyrir Kǻrstodum.

Jn nomine Domini Amen

var so felldur giorningur gior og stadfestur mille Halldorz Abota a Helgafelli med samþycke hanz conventtubrædra og Þurijdar Biornzd(ottur) og sonar hennar Þorvalldz Narffasonar vm Jordina Karstade er liggur j Karstada Botni j Eyrar kirkiu sochn. er abotinn Reiknade klaustursinz eign a Helgafelli. effter þeim briefum sem hann hafdi þar fyrir. enn þau Reiknudu sijna eign epter þui skiale sem þau hofdu fyrir greindre Jordu. giordu þau stoduganñ giorning og obrigdugliganñ sijn j millum vm̃ greinda Jord Karstade med sofelldum skilmala ad fyrrgreinder menn Þurijdur Biornsdotter og sonur hennar Þorvalldur Narffason feingu og selldu Abota Halldori j greindu klaustri a Helgafelli til æfinligrar eignar firskrifada Jord Karstade vndanñ sier og sijnum erfingium med ollum þeim gognum og giædum sem greindre Jordu fẏlger og fylgtt hefur ad fornu og nẏiu. og þau hofdu matt framast eigandi ad verda. Hier j mot lofade abotin Halldor ad lwka þeim x mǻlnytu kugilldi ad næstum fardogum. so og gaf hann þau kuitt og akiærulaus vm sechtter allar og domroff þad sem narfi heitinn hafdi klaustrino og abotanum seckttugur ordid vm̃ þann dom. sem sijra Helge heitinn Magnusson dæmdi þeirra ǻ mille. enn landamerki standi epter þui sem dæmtt var.

for þesse giorningur fram̃ a Helgafelli j Helgafellzsueit manudaginn næstanñ eptter paskavijku Anno 1490 þess-

um vottum vidverandi og tilkolludum Eirijke Halldorssyne. Jone Þordarsyne. Jone Magnussyne. Magnuse Halldorssyne. Magnuse narftasyne. Sugurde Gudnasyne og morgum odrum godum monnum.

Og thil sanninda hier vm̄ et cetera.

---

**610.** , **25. Apríl 1490. á Signýjarstöðum.**

Stephán Þórarinsson lýsir því, að hann hafi gert alsætti við Einar Björnsson fyrir aðförina á Læk á Barðaströnd, þegar Bjarni bróðir Stephans var í hel sleginn, og kvittar hann Einar um fulla peninga og alla fyrir sjálfan hann og alla hans menn.

Kriegers safn 2. 4to, bls.359—362, með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

Kvittunar(bref) Einars Biörnssonar af Step(h)ani Þőrarinssyni af slagi hans brődur Biarnar.[1])

Þad giöri ec Step(h)an Þorarinsson godum monnum viturligt med þessu mijnu opnu brefi. ad eg medkiennunst þad ad eg hefi giört alsætti vid Einar Biörnzson fyrir þă sök ad hann főr til lækiar ă Bardaströnd. þă er Biarni heitinn þőrarinsson Bröder minn var i hel sleiginn. sem Gud hans săl nădi. Medkennunst eg nefndur Step(h)an ad eg hefi fulla peningia[1]) og alla ădur uttekid þar fyrir af greindum Einari Biörnssyni. svo mier vel ănægir fyrir hann og hans alla menn þă er til greinds stadar foru med optnefndum Einari Biornssyni i þvi sinni. er þad fÿrst i Jördum. Hnitstader sem liggur ă mÿrum. og þar til vj. mălnÿtu kugilldi. og þvi gerer og gefur (eg) þrattnefndur Step(h)an Þőrarinsson tijttnefndan Einar Biörnsson. og alla hans ădurgreinda menn hier um æfinnlega kvitta. og ăkiærulausa. frialsa og liduga fyrir mier og öllum mijnum Lögligum Erfingium og eptirkomendum. svo framarlega sem eg mă þad fremst med lögum giöra eptir laganna skilordi (og) bidia

---

[1]) Svo.

þess minn linfa lausnara. ad láta þad sier sóma fyrir sitt blessada lijtilæti. ad giora hann svo kvittañ andlega. sem hann er nu mier veralldlega hier um. og þar til meiri stadfestu og til sanninda hier um̄ setta eg mitt Jnnsigli fyrir þetta mitt giörningsbref og kvittunar. hvert giört var á Signýarstödum j Borgarfýrdi mánudæginn næsta fyrir philippi et Jacobi árum eptir gudz burd ꝺ. cccc. og niju tygir ára.

---

## 611. 7. Maí 1490. á Hólum.

Transskriptarbréf

AM. Fasc. XXII, 18, frumtransskript á skinni. — AM. Fasc. XXII, 20, frumtransskript á skinni. Apogr. 3247 & 3249.

Þat giorum vid ion þordarson ok ormur ionsson godum monnum uiturligt med þessu ockru opnu brefe at uid saum ok yferlasum [iardarkaups bref þorleifs biornssonar ok sueins gudmundssonar[1]) med heilum[2]) ok hangandnm[3]) inciglum[4]) suo latanda ord epter ord sem hier seiger. [Hér kemr:

1, í XXII, 18, kaupbréf um Kryddhól og Ásgrímsstaði frá 9. Janúar 1477, Dipl. Isl. VI. Nr. 94.

2, í XXII, 20, kvittunarbréf um andvirði Kryddhóls frá 8. Janúar 1477, Dipl. Isl. VI. Nr. 93.]

Ok til sanenda hier um settum uid adurnefnder menn ockur inscigli firir þetta transkriftarbref skrifad a holum j hialltadal fostudagen næsta epter krossmessu um uorit. anno domini ꝺo. cdo. lxxxxo.

---

## 612. 11. Maí 1490. í Geldingaholti.

Vitnisburðr Erlends Ólafssonar um afhending Merkigils.

AM. Fasc. XXIX, 17, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — Apogr. 3324.

Um Merkegil.[5])

Þat gere ek erlendur olafsson godum monnum uiturligt

---

[1]) [kuittunarbref þorleifs biornssonar XXII, 20; [2]) oskoddu XXII, 20. [3]) hanganda XXII, 20. [4]) inncigli XXII, 20. [5]) Utan á bréfinu með hendi frá 17 öld.

med þessu minu opnu brefi ath ek afeñte iordina merkigil er liggr i eystrum daulum um̃bodsmanni simonar palssonar ath skipun arna þorleifssonar ok um̃bodi er hann fieck mier þar til. Ok til sanninda hier um̃ setta ek mitt incigle fyrir þetta bref skrifat i gelldingahollti þridiudaghinn nęsta fyrir halluardsmesso anno domini m°. cd°. nonagessimo.

---

**613. 19. Maí 1490. í Þykkvabæ í Veri.**

Sveinn prestr Jónsson selr í umboði klaustrsins i Kirkjubæ Bárði ábóta í Þykkvabæ hálfa jörðina Eystri-Ása í Skaptártungu fyrir allan þann skóg, er síðastnefnt klaustr átti í Brandalandi, og eru ummerki hans tilgreind.

AM. Fasc. LXXIII, 9, frumbréfið á skinni götugt og sköllótt. — AM. Apogr. Nr. 2872 „ex originali Bessestad.“ með hendi Árna. „Orígínallenn af þessu brefi er ordinn lasen. J honum eru einger punctar uppi yfer i. helldur alleina yfer ẏ. og literis qvæ dupplices esse debent. eins og hier er. Brefit hefi eg accuratè skrifad so vitt sem lesed vard. ordenn sem under eru strikud. eda staferner. voru ölldungis olæs. og er þad tilsett ex apographo Havardz loptssonar og Jons Runolfssonar, qvod habeo. og svara þesse ord riett til proportionem defectuum. lang. ſ. er vidast in fine vocum, qvod imitari nolui. Med fullum stöfum er hier: aboti. abbadis. sera. conuentu er alltid bundit *quentu*. finale i brefinu er: .— eins og i apographo. Jnnsiglen eru öll i burtu, er þo ad visu originall. Brefid hefur eflaust heyrt til forna Kirkiubæiarklaustre til“ (AM.). — AM. Apogr. 2826, afskript af transscripto Hávarðs Loptssonar og Jóns Runólfssonar, og er það, sem eptir því er tekið, sett hér í hornklofa.

Maldagabref kirkiubæarklausturs.[1])

Þat giorum ver hrafn hrei[darsson]. jmi þorsteinsson. biorn jonsson. jngimundur ketilsson. orækia stephansson. hallvardr jonsson. god[um monnum] viturlikt med þessu voru opnu brefi. at ver vorum i hia. saum oc heyrdum a ord oc handaband þessarra manna. bro[d]ur bardar med gu[ds nad] abota i þyckabẏ i alptaveri af einne halfu oc hans conventubrædra. ok af annarre halfu sera sueins jons-

---

[1]) 2862.

sonar er þa var radsmadur [i] kirkiubæ oc fru abbadisar ornyiar oc hennar conventu systra. at suo firir skildu. med radi oc samþycki herra magnus er þa var [biskup i skala]-hollti. at adrnefndur sera sveinn selldi adrgreindum herra abota bardi iordina eystri ǿsa halfa er liggur i skaptar-[tungu med] aullum þeim gognum oc gædum. skogum oc rekum sem greindri jordu hefer fylgt at fornu oc nyiu oc kirkiubæiarklaustur vard fr[emst] eiganda at. her i mot gaf tittnefndur herra aboti bardur skog þann er þyckva-bæiarklaustur atte firir innan [skap]tǿ i brandalandi all[an] all[t] til þeira merkia er sett woru i millum ǿrskogs oc adrgreinds brandalands. þa greindur skogur var afentur tittnefn[dum se]ra sueini. standa þar tueir steinar oc er kross klappadr i annann. en [or ey]stra steininum er sion-hending oc upp i foss þann er [dri]fandi heiter [oc] fram fellvr af skalarfialli. her med skylldi su itala uppgefazt er þyckabæiarklaustur atte i iordina hraun er liggur i skardz kirkiusokn. i suodan grein. at þat var kyrfodr oc eins nauts fodur gelldz er upp var gefit. sno nu skal eigi framar her epter fæda enn eitt naut a annann vetur æ greindri iordu ǿrliga. skylldu oc hvorer til laga hallda sinu adr-greindu kaupi. enn hvorer ganga aptur at sinni eign ef af geingi med logum. for þessi giorningur fram i þyckabæiar klaustri oss oc morgum audrum dandimonnum nærverundum. mana-dag næsta epter allra heilagra messo um vetrinn. sub anno gratie ᴍo. cdo. lxxxo. octavo.[1]) setti herra aboti bardr sitt conuentu innscigli oc fru abbadis orny sins klausturs con-ventu innscigli oc adrnefndur sera sneinn sitt innscigli med vorum [fyrn]efndra manna innsciglum firir þetta kaupbref. skrifat i adurgreindu klaustri þyckabæ in festo sancti dun-stani episcopi um [vorit t]veimur arum sidar enn fyrr seger: .—

---

[1]) = 7. Nóv. 1488.

614. **16. Júní 1490. á Grenjaðarstöðum.**

Finnbogi lögmaðr Jónsson heimilar Guðmundi Jónssyni jörðina Þorbjargarstaði til fullrar eignar, og kvittar hann um andvirði hennar.

AM. Fasc. XXIX, 25, frumritið á skinni, og er innsigli Finnboga lögmanns fyrir bréfinu. — Apogr. 3326.

Samþickt finnboga logmanns um̄ þorbiargarstade.[1])

Þat giore eg finnboge Jonsson laugmann nordan̄ ok uestan̄ a íislande goodum monnum uiturligtt med þessu míjnu brefue. ath eg hefue sam̄þýcke til lagtt ath gudmundur jonsson skal hafua ok hallda ok frelselegha eignazst jordena þorbiargarstade eptter þui kaupe ok saulu er hann hefuer keýptt greinda jord af hwstrw kristinu þorsteinsdottur. eptter þui sem þeirra kaupmale þar vm̄ giorr wtwíjsar. Suo ok hefuer ec wt tekid þa peninga sem eptter stodu af greindu jardar werde vnder nefndum gudmunde. þui giorer eg adur nefn̄dur finnboge jonsson þrattnefn̄dan gudmund jonsson aurlungiss kvittan̄ ok ǻkiærulausan̄. vm̄ adur nefn̄da jord. ok alltt jardarwerd áá opttnef(n)dre jordu. Ok til sannennda hier vm̄ setta eg mitt jncigllе fyrir þetta bref. skrifuath áá greniadarstaudum j Reykiadal miduikudagenn[2]) næsta fyrir botolfs ɱessu. anno domini ɱ⁰ cd⁰ nonogesimo.

---

615. **17. Júní 1490. í Launguhlíð.**

Dómr tólf manna útnefndr af Þorvarði Erlendssyni, er þá hafði sýslu í Vaðlaþingi, um kæru Odds Sigurðssonar til Björns Ásgrímssonar, að Björn hefði farið að honum á heimili hans með flokk, misþyrmt honum og gripið fé fyrir honum.

Add. British Museum 11,242. 4to, bl. 53b, skr. c. 1543. (Syrpa séra Gottskálks i Glaumbæ). — ÍBfél. 309. 8vo, 52a—53b skr. c. 1620. —

---

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. [2]) dagenen, frbr.

ÍBfél. 125B 4to nr. 216, skr. c. 1680 (ártal 1512!). — ÍBfél. 114. 8vo CXXXIX (ártal 1540!). — AM. 196. 4to, bl. 33—34 (ártal 1590!, en á spássíu sett 1489; lök afskript). — AM. 211c 4to, bls. 162—163, c. 1700 (ártal 1489).

domur vm heimsokn.

Ollvm monnvm þeim sem þetta brief sia edur heyra senda steinn brandzson. Stvlle magnusson. havskvlldur arnason. logrettvmenn. þorsteinn Jonsson. vernard[1]) einarsson. þorsteinn jonsson. þorlakur gislason. jon haldanarson hallur jsleifsson. jon rvnolfsson. sveinn oddzson[2]). stefan biornsson. Q[vediu] G[udz] oc sina kvnnigt giorandi at þa lidit var fra gvdz bvrd. [ꝏ. cccc. oc ix tiger[3]) ara. fimtvdagen næsta epter dyradag vm vorid j lavngvhlid enne nedri j havrgardal á þingstad rettvm. worvm vier j dom nefnder af velbornvm manne þorvardi ellenzsyne er þa hafdi minz herra kongzins syslv oc vmbod j vodlaþingi til at rannsaka oc jnnvirdvliga at skoda hvort biorn asgrimsson væri þangat logliga stefndr.

J fyrstv dæmdvm vier stefnvna logliga oc biorn asgrimzson logliga firir kalladan.

J annare grein kærdi oddur sigurdzson til fyrgreindz biarnar at hann hefdi farid heim til hola j avxnadal æ hanz logheimile med flock mana oc gripit sig oc tekit oc bvndit sig med reipi oc kvgat af sier peninga til vc. hnyckt sier oc jardvarpat. xxx sinnvm oc veitt sier iij blodvokur.

Nv saker þess at fyrrgreindur oddur sor fvllan bokareid þar j domenvm firir þorvardi ellenzsyne kongz vmbodzmane. at hann hefdi med fvllri kvgan oc navdvng aflagt þessa fyrgreinda peninga vid biorn asgrimsson oc hanz fylgiara. Enn saker þess at vor landz laga bok seigir svo. ef flockur manna geingr at gardi oc bera londa ofridi oc bera vt fe hanz. þa er þat vtlegdarverk oc hver j landi vill vera af þeim færi aptur fie bonda slikt sem þeir tokv oc gialldi kongi .x. merkr en þeim fvllretti er fyrir vard. oc þvi

---

1) Vernardur 309. 2) Ottsson 309. 3) [M. d. og niu .x, 309, og er rangt; sbr. og Sýslumannaæfir I, 227—228.

dæmdum vier fyrnefnder domzmenn fyrgreindan biorn asgrimzson skylldugan at giallda kongi .x. merkur en adurgreindvm oddi half[a] fiordv mork j fvllretti. nv af þvi at greindur oddur kærdi til optz nefnz biarnar at hann hefdi bvndit sig med reipi. enn logbok vor seigir svo. Ef madr bindr frialsan mann at osyniv gialldi v merkur en þeim fvllretti er bvnden var. oc þvi dæmdum vier optnefndum oddi [halfa fiordu[1]) mork[2]) en kongi .v. merkur.

J þridiv grein kærdi þrattnefndr oddur til tittnefndz biarnar at hann hefdi veitt sier iij blodvokur oc xxx hnyckingar oc jardvorp. oc þvi dæmdum vier tittnefndum oddi half[a] fiordv mork æ hverre blodvokv ok svo kongenvm. en ij avrar j hveria hnycking oc jardvarp. Nv af þvi at logbok vor seiger svo. ef hann skemmer mann eda særer med fvllriettis ordvm eda verkvm æ heimile sialfz hans. þa eykz at helmingi rettur þeirra er firir skemdvm eda særsavkvm verda. oc svo kongdomzens oc þvi dæmdvm vier tvefalldan rett opt nefndum odde oc svo kongdomenvm. firir allar adurgreindar saker þær sem titt nefndr biorn afbatadi ei. en skylldvgan at sveria lyritareid enn meira firir kongz vmbodzmane j vodlaþingi jnnan halfs manadar at heyrdvm domenvm edur hanz logligum vmbodzmanne j longuhlid enne nedri j horgardal. Enn ef þrattnefndum birne felliz þessi eidr þa dæmdvm vier biorn skylldugan at giallda odde þridivng af ollu sakferli er hann yrdi honum skylldvgr oc færa honvm heim til heimilis hanz jnnan halfs manadar at heyrdum domenum. enn allt golldit at næstum fardogum oc rett golldit j avllum peningum sem bok gerer rad firir oc svo kongdomenum j þat sakferli er hann yrdi honnum skylldugur firir greindar saker. skal golldit þridiungr jnnan halfs manadar at heyrdum domenum oc jnnan syslu j vodlu þinge toruardi ellenzsyni eda hanz logligum umbodzmanne. en allt golldit at næstum fardogum [oc rett golldit j ollum peningum sem bok gerer rad firir[3]).

Oc til sanenda hier [vm[4]).

---

[1]) fiorda (!)11,242. [2]) [iiij merkur 309. [3]) [sl. 309. [4]) [sl. 11,242

616. 18. Júní 1490. á Hólum í Hjaltadal.

Transskriptarbréf þriggja presta.

Bisk. Isl. Hol. Fasc. V,I, transskriptið á skinni. — AM. Apogr. Nr. 3565 með hendi séra Snorra Jónssonar, og Nr. 3141.

Þath giaurum vær olafur jonsson. gudvlfr magnusson. eirekr sigmundzson prestar holabiskups dæmis godum monnum viturligth med þessu voru opnv brefe. ath vær saum. ok yferlasvm transkriptarbref. med heilvm ok oskavddvm hangaundvm inciglum svo latanda ord epter ord sem hier seger.

[Hér kemr:

1. Sættargerð séra Jóns Pálssonar og séra Þorkels Guðbjartssonar frá 24. Apr. 1440, DI, IV, Nr. 647, í
2. transskripti frá 14. August 1471, gerðu í Laufási, DI, V, Nr. 568].

Ok til sanninda hier vm settum ver fyrskrifader prestar vor incigle fyrir þetta transkriptarbref er skrifat uar a holvm j hialltadal faustudaginn næsta fyrir jonsmesso baptiste. anno domini ᴍ°. cd°. lxxxx°.

---

617. 1. Júlí 1490. á Öxarárþingi.

Píningsdómr um siglingar, verzlun og vetrarsetur útlendinga, um búðsetumenn, kaupalag á skreið og varningi, og um skattfrelsi nefndarmanna.

Dómr þessi er tekinn hér eptir transskripti Ara lögmanns Jónssonar og fleiri manna gerðu á skinn í Núpufelli 7. Marts 1544, sem nú er í Ríkisskjalasafni Dana „Island & Færö" I, 10. En til samanburðar eru hafðar tvær fornar afskriptir, og er önnur þeirra í lögbók Páls höfuðsmanns Stigssonar, sem rituð er á skinn á árunum 1561—1565 og er nú í safni Árna Magnússonar 161. 4to (bls. 300—302); hin er í „Sópdyngju" séra Gottskálks í Glaumbæ í British Museum Add. 11, 242. 4to, (bl. 38 a—b), rituðri á árunum 1543—1590. En til er dómr þessi í ótölulegum sæg afskripta frá 16., 17., 18. og 19. öld, sem ekki eru hér notaðar, bæði á skinni (svo sem AM. 37. 8vo bls. 1—2 frá c. 1500; AM. 54. 8vo, bls. 17—20, frá c. 1570; AM. 170.A 4to, bls. 16—17 frá c. 1565; Stockh. C 2. 4to, frá c. 1580) og á pappír. Elzta pappírsafskriptin, sem til er af þessum dómi, er sú, sem hér er notuð og sú,

sem er í bréfabók Gizurar biskups Einarssonar í AM. 232., 8vo frá c. 1544. Eru pappírsafskriptirnar margar hverjar marklitlar og afbakaðar bæði um ártal og annað, og víða er dómr þessi kubbaðr sundr. Í einu handriti stendr þessi klausa (AM. 196. 4to, bl. 23a með hendi séra Sigurðar Jónssonar í Holti 1669): „Hirds(tiora) d(omnr) Didrichs Pijnings lögtekiñ a alþ(ijnge). ad huar sem neffndarmenn geffuast vpp vegna Elli och kr.nkleika. þá sieu skattfrijer alla sijna daga". En hér í dóminum standa þó eingin slík ákvæði. Er því næst að halda, að þetta sé leitt út úr síðustu ályktunargreininni í dóminum, og væri það þá gott sýnishorn þess, hvernig menn hafa farið með gamlar samþyktir stundum, sé hér ekki einhver misskilningr í. Dómr þessi er áðr prentaðr í Lagasafni Magnúsar Ketilssonar I, 78—87 og í Lagasafni handa Íslandi I, 41—43.

Piningzdomvr[1])

Ollvm [monnvm þeim[2]) sem þetta bref siá edr heyra senda Eyolfr einarsson logman[3]) svnnan oc austan á[4]) jslandi. finbogi jonsson logman nordan oc vestan á jslandi oc allir logriettvmenn kvediv gudz oc sina kvnnigt giörandi at þá lidit var frá gudz[5]) burd vors herra jesv christi M°. iiij.c nivtiger ára midvikudagin næstan epter peturs messo oc pæls á almenniligu oxarárþingi vorum vier [til kallader af heidrsamligum manne[6]) Didrik pining [7])hofudzmanni ýfer [ollv islandi[8]) oc uördhvsin[9]) at dæma oc skoda huern frid at vtlensker kavpmenn[10]) skvlv hafa hier j landit oc þær fleiri greiner sem hier epter fýlgia.

Jn primis þat sama kongzens[11]) bref sem birtizt vm frid millvm [noregs konvngz oc einglandz konvngz[12]) þar [á þinginv[13]) vm eingelska menn at þeir skylldu mega sigla med frij j island med rettan kavpskap oc falslavsan.

Suo oc eigi síjdr vm þyska menn þá sem konvngsins bref hafa firir sier oc med rettan kavpskap vilia fara med suoddan tvnnvmál attvnga kuartiel oc stikr sem at fornv hefer verid hier j landit. enn hver sem fals selr. sekr .xiij. morkvm[14]) enn hiner[15]) sem keyptv[16]) epter þvi sem sem log-

[1]) 11,242. [2]) [þeim godvm monnvm 11, 242. [3]) firir b. v. 11,242. [4]) i 11,242. [5]) hingad 161,11, 242. [6]) [j dom nefnder af 11, 242. [7]) hirdstiora og b. v. 161; foveta og b. v. 11,242. [8]) [allt jsland 11,242. [9]) warhusen 161, 11,242. [10]) menn 161. [11]) b. v. 11,242. [12]) [eingla kgs. og Noregs kgs. 161. [13]) [j legrette 11,242. [14]) vid kong b. v. 161, 11,242. [15]) hinum 161. [16]) keypte 161, 11,242.

bok vtvíjsar. enn ef þeir vilia eigi bæta sem misgiordu. þá se þeim firirbodin kavpskapr a þvi skipi. enn hver sem vid þa kavper þar epter. sekizt sem þeir kavpi vid vtlæga menn.

Suo oc hôfvm vier dæmt at þysker oc eingilsker. skvlv hallda frid [sin j millvm[1]) hier j landit medan þeir liggia j hôfnvm. saker þess at konvngsins skipan verdr landinv eigi [til nýckta[2]) ef þeir hallda ecki frid sin á millum [enn huorer[3]) hafi hafner sem [þeim hentar[4]). Enn hvorir sem fridin briota þa se eigi vid þá keypt. vnder slika sekt sem firr[5]) skrifat stendr. skvlv vorer landzmenn lika svara þeim logum oc retti sem vid þá kvnna brotliger at verda. sem þeir vid oss.

[Suo oc skvlv hier[6]) avngver vtlendzsker[6]) menn hafa[7]) hier[6]) vetursetv vtan firir fvlla navdsyn [anat hvort ef þeir kvnna at verda sarer eda sivker eda j skipbrote[8]) oc seli þo avngvan pening dýrra vetr enn svmar. oc hallda[9]) avngvan jslendzkan man sier til þionvztv oc giori[10]) hvorki skip ne menn til sios. Enn hver sem þá hysir eda heimer avdrvvijs enn nv er sakt. svari slikv[11]) firir sem hann hýsi [vtlægan mann.[12]) Enn hver [jslendzkra manna[13]) sem þeim þionar. svari slikri seckt sem hiner. eignizt konvngr halfar seckter[14]) oc suo þat godz sem oleyfiliga stendr. enn konvngs vmbodzmadur halft. oc hans fylgdarmenn.

Suo oc hôfum vier dæmt oc samþýckt af allri logrettvnne at avngver bvdsetvmenn[15]) skvlv vera j landinv þeir sem eigi hafa bvfe til at fæda sig vid. svo þo at þeir eigi ecki minna enn .iij^c. svo kallar sem kon(u)r. oc skyllder [til vinnv[16]) hia bændvm. allir þeir sem minna fe eigv.

---

[1]) [a mille sin 161. [2]) nytta 161 [nyttvg 11242. [3]) [oc þeir 11,242. [4]) [hentta 161; fyrre koma oc sialfum semur 11,242. [5]) adr 161. [6]) sl. 161; [Svo oc hofvm vær dæmdt j sama dome at 11,242. [7]) skvlv hafa 11,242. [8]) [b. v. 11,242. [9]) halldi 161. [10]) þo b. v. 161. [11]) slikri seckt 11,242. [12]) [vtlæga menn 161, 11242. [13]) [Jslenzkr 161. 11,242. [14]) fiesekter 161. [15]) busetumenn 161. [16]) [ad vinna 161.

enn nv er sakt kon(u)r oc kallar. Enn þeir kallar oc kon(u)r sem eigi vilia vinna. se vpp tækr allr þeirra afli konvngs vmbodzmanne oc [bændum ollvm j sveitinne[1]). Enn hver sem þá helldr eda styrker j moti þessvm vorvm domi oc samþycki se sekr fiorvm morkvm vid konvng.

Enn vm kavpalag á skreid edr varning [j sveitvm[2]). se epter þvi sem dandimenn verda á sátter med syslvmans rádi. enn ef þeir ellr[3]) þær vilia helldr fara á husgang enn vinna hia [bændum[4]) hafi refsing til .vj. avra sem sýslvmenn oc bændr verda á sátter.

Jtem hofvm vier dæmt alla nefndarmenn kongsins [oc handgeingna[5]) menn fríj vm [skatt. enn[6]) taka oskert þingfararkavp vm fram oc alla skylldvga at ríjda med logmanni til þingz sem lögbok vtvíjsar oc samreid[7]) eiga vid hann. edr sekr .xij. avrvm. oc gialldi[8]) aptr skatt oc þingfararkavp oc se vr nefndinne vtan valldzmonnvm litizt annat sannara.

Samþýkti þennann vorn dom. fýr nefndr Didrik pining. sira Arne Snæbiarnarson officialis heilagrar skalholltz kirkiv. herra halldor ormsson æboti æ helgafelli. herra jon arason áboti j videy oc allr almvgi [sem þæ var á þinginv[9]).

Ogh til sanninda hier vm settu fyrskrifader dandi menn sin jnsigli med fýr skrifadra lögmanna jnsiglvm firir þetta doms bref er skrifat var j sama stad [deigi[10]) sijdar enn fýr seigir.

---

618. 1. Júlí 1490. á Öxárþingi.

Tylftardómr útnefndr á Öxarárþingi af Finnboga lögmanni Jónssyni um það, hvort lögleg skyldi sala sú, er Kristín Þorsteinsdóttir seldi Ingvildi Helgadóttur jörðina Stærri-Akra.

1) [ollum þeim er honvm fylgia til þess 11,242) [sl. 161. 3) [edr 161; eda 11,242. 4) [b. v. 11,242. 5) [handgeingna z, skbr. handgeingna 161. 6) [skatten oc 11, 242. 7) samleid 161. 8) þa b. v. 161. 9) [er á alþinge var 161. 10) [tueimur dogum 161.

AM. Apogr. 4109 með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali á kalfskinn".

Þat giorum vær eigill grimsson. sigurdr dadason. gisli filpusson. jon ellingsson. einar þorolfsson. þorsteinn þorleifsson. jon arngrimsson. þorleifr ormsson. asmundr jonsson. salamon einarsson. jon hrafnsson ok þorvalldur gudmundzson. godum monnum viturligt med þessu uoru opnu brefi arvm epter gudz burd. ꝺ. cccc. ok niutiger ara. á almenniligu augsnrarþingi t(u)eim nottum epter petursmessu vórum vær j dom nefnder af ærligum manni finnbóga jonssýni laugmanni nordan ok vestan æ jslande at skoda ok dæma þeirra j millum fyrnefnz finnboga laugmanz ok jnguelldar helgadottur huortt su jardar sala skýllde lauglig vera. er kristínn þorsteinsdotter moder nefndrar jnguelldar hafde sellt henne jordina alla stærri akra er liggr j skagafirde j myklabæiar kirkiusokn edr eigi. nv af þui at þau laugdu (sig) þar vnder med handabande þenna vorn dom at asianda hirdstioranvm ok laugmanninum eýolfi ok maurgum audrum godvm monnum. sauvm[1]) uær ok bæde kaupbref ok kuittanar er jnguelldur hafde þar. suo ok ei sidur sk(o)dudum vær bokarinar ord bæde vm vel ok fals. ok gatum vær þat ecki fundit at oss þætti hrinda[2]) mega þessu kaupi. saker þess at nefnd kristín hafdi skilit þessa saumv jord akra aptur vnder sig eda sina erfingia. baurn eda barna baurn. suo framt sem baurn fyrnefndrar jnguelldar mætti hana eigi laugliga eignazt mega epter nefnda jngvellde framlidna. nu saker þess at næstv erfingiar kærduzt vid epter framlidnu kristíno. suo at finnbogi laugmann kallade olugt jardar verdit. ok þui dæmdum vær kaupit staudugt j alla stade. enn jnguellde skýllduga at leida tvo lauglig vitne fyrir ýmbruviku at hausti fyrir kongs vmbodsmanni j hegranesþingi at hun hefde alla peninga lugt epter skildaugum fyrir títtnefnda jord akra. enn ef jnguelldr hefer eigi vitne til. til lukninganna vm jardar verdit. þá skal hvn sialf sanna savgn sina med lýrftareidi[3]) enum minna fyrir kongs vmbodsmanni j fyrnefndu þingi. ok þat sem þa stendr epter

1) Svo = sáum. 2) hnioda, Apogr. 3) Svo. = lýrittareiði.

af jardar verdinu at eidinum vnnum. þat skal hun luka adur enn peñĩgvnum[1]) er skipt j arfskiptit epter optnefnda kristínv þorsteinsdottur. enn þo sem adr lauglig eign þrattnefndrar jnguelldar optnefnd jord stærri akrar j skagafirde.

samþýkti þenna vorn dom didrek píning hirdstiore ýfer allt jsland ok eýolfur laugmadr einarsson ok allir laugrettvmenn vtan vebanda ok jnnan.

Ok til sañinda hier vm setti fyrnefndr didrek pining hirdstiore [med vorum jnnsiglum[2]) sitt jnnsigli [med vorum jnnsiglum[2]) fyrir þetta domsbref skrifat ᷓa þinguelli ᷓa sama deigi ok ari sem fýrr seiger.

---

**619. 4. Júlí 1490. í Bæ í Borgarfirði.**

Ari Magnússon lýsir því, að hann hafi selt Magnúsi biskupi Eyjólfssyni hálfa jörðina Lund í Lundarreykjadal, „en afsagði, að hún skyldi undir kirkju eða biskup“, og skildi hana undir Gísla Filippusson og hans erfingja, og kvittar hann Gísla um andvirðið.

Bisk. Skalh. Fasc. VIII, 11, frumrit á skinni, og er innsiglið dottið frá. — AM. Apogr. 2598.

kaup bref vm̃ halfañ lund j lunda Reykiadal[3])

Þath giorer ek ari Magnusson godum monnum kunnigth med þessv minv opnv brefi ath ek medkennvnzth. ath eg hefi sellth biskup Magnvsi alla halfa jordina lund er ligr j lunda Reykiardal med þeim skilmala. ath adr greindr ari skildi þessa saumv jord lvnd vnder gisla filipusson. eda hans logliga erfingia. enn afsagdi ath hôn skildi falla under kirkiv eda biskup. med ollvm þeim gognum ok gædum sem[4]) greindri halfri jordu hefer fýlgth ath fornu ok nyiv. ok fýrnefndr ari vard fremzth eigandi ath. medkenvmzth ek optth nefndr ari ath eg hefi fulla ok alla peñinga upp borit firir adr greinda halfa jord so mier vel anæger. þvi gefur ekh þrattnefndur ari opttnefndañ gisla avl(l)vngis kvittan ok akiærulavsan vm allth adur greinth halfth jardar

1) Svo. 2) [Svo. 3) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. 4) tvískr.

werd. lund. þath sem biskup Magnus atti mier ath giallda. Okh til sanninda hier vm set(t)a egh mitth incigli firir þetta kvittvnarbref. skrifath j bæ j borgarfirdi. svnvdagin næsta eptter petvrsmessv ok pals. arvm eptter gvdz bvrd þusvnd fiogur hvndrud ok níjv tiger.

---

620. 5. Júlí 1490. í Flatey.

Transskriptarbréf.

Kriegers safn 2. 4to, bls. 348 & 357, með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

Transkriptarbref og vitnisburder um̄ tilgiörd Biarna Þorarinssonar vid Einar Biörnsson i Skor.

Þad giörum vær stulli þordarson. Gudlaugur Loptsson. Jon Þorarin̄zson. narfi Jőnsson. gődum monnum viturlegt med þessu voru opnu brefi. ad vær höfum sied og heyrdt og yfirlesid opin̄ bref med heilum og osköddum hangandi Jnnsiglum. svo lătanda ord epter ord sem hier stendur skrifad.

[Hér koma vitnisburðir um mál Bjarna Þórarinssonar:
1) Saurbæ á Rauðasandi 2. Maí 1482, DI, VI, Nr. 389;
2) Hvammi á Barðaströnd 6. Maí 1482, DI, VI, Nr. 390;
3) Saurbæ á Rauðasandi 2. Maí 1482, DI, VI, Nr. 388;
4) Reykhólum 14. Febr. 1478, DI, VI, Nr. 127].

Og til sanninda hier um settum vier fyrnefnder menn vor Jnsigli fyrir þetta transkriptarbref er skrifad var j Flateӯ ă Breidafijrdi. þridiudaginn næsta epter visitatio Sancte Marie virginis. þa er lidid var fră hingadburd vors herra Jesu Christi. M. cccc. nijutijger ăra.

---

621. 6. Júlí 1490. í Flatey á Breiðafirði.

Þrír menn transskríbera aðalsbréf Bjarnar ríka Þorleifssonar frá 16. Maí 1457, Dipl. Isl. V, Nr. 138.

AM. Fasc. XXIX, 21, frumtransskriptið á skinni.

Medkennunzt vær jon þorarinsson. marteinn jonsson. hallgrimur skulason at uær hofvm sied oc yferlesit oc heÿrt yferlesit opit bref uors nadugs herra kong kristierns under hans heilu oc oskoddu hanganda jnsigle. suo latanda ord epter ord sem hier fÿr stendur skrifad. Og til saninda hier nm settum uær fyr nef(n)der menn uor jnsigle fyrir þetta transkriptarbref er skrifad uar j flatey ᴁ brejdafirde þridiudaginn næstᴁ epter uisetacio sancte marie. arum epter gudz burd þusund fiogur hvndrud atta tiger og x ar.

---

622. 7. Júlí 1490. á Stafafelli.

Sveinn Jónsson prófastr og almennilegr dómari milli Helkunduheiðar og Breiðdalsár lýsir eiði Benedikts Sæmundssonar um sölu hans á fimtán hundraða parti í Borgarhöfn til síra Ögmundar Andréssonar.

AM. Fasc. XXVIII, 9, frumritið á skinni, og er læst með innsigli síra Sveins saman við Borgarhafnarbréf frá 13. Mai 1486. — Apogr. 2878a. (Skriðuklaustrsbréf).

Þath giörer egh sveinn prestur jonsson profastur og almenniligr domari j millvm helkuńduheidar ogh breiddalsær. godum monnum vitanlekt med þessv minu brefe. ath sub anno gracie. mo. cdo. nonagessimo. a setberge er ligur j fliozdalshierade. Middikudagin næsta fyrir gagńdagaviku[1]) var egh staddr j sögdum stad ogh dagh. at benedict sæmundzson sor fyrir mier fullnadar bokareid epter þui sem þetta hans bref vtvisar sem hier er med fest mitt bref ath hann hafde öńgvm manne nie kvinnv selt eda lofath ath selia ogh eige gefith nie lofath ath gefa nockrvm manne nema sera ögmvńde ańdressyni. þann fimtan hundrada jardar partt sem hann erffde j borgarhöfn er ligr j kalffafellz kirkiu sokń j fellzhverfe ogh hann hafde tekith j erfd epter sigridi heitena jonsdottur modr sina ogh suo sagdizt sigridr hallzdotter kuinna fyr nefndz benedictz alldre sitt jayrde eda samþÿcke til hafa lagt at adr skrifadr fimtań

---

1) þ. e. 12. Mai.

hundratha jardar partr j greindre borgarhöfn hefde verith selldr nema optskrifudum sera ögmundi andressyni. voru hier ogh marger goder menn vit stadder siaande ogh heyrandi vpp æ þenna giorning. Ogh til saunenda hier vm setta ek[1]) mitt jnsigle fyrir þetta bref skrifat æ stafafelli j lone Midvikudagenn næsta fyrir seliumanna Messu. anno domini. Mo. cdo. nonagessimo.

---

623. 12. Júlí 1490. í Flatey.

Fimm menn transskríbera tvö bréf um peninga Guðmundar ríka Arasonar.

AM. Fasc. LXV, 11, transskriptið á skinni; 5. innsiglið er enn fyrir bréfinu, en hin eru dottin frá.

Þat giorum vær þorolfur augmundzson. hallgrimur skulason. narfi jonsson. jon þorarinsson. jon jonsson godum monnum uiturligt med þessu uoru opnu brefi at uær haufum sied og heyrt yferlesidh opinn bref med heilum og oskoddum hannganndi jnnciglum so latanndi ord epter ord sem hier epter stenndr skrifadh.

(Hér kemr:

1. Bréf tólf manna frá 3. Júlí 1478 um Guðmundarpeninga, DI, VI, Nr. 139;
2. Reikningr frá 3. Júlí 1478 um Guðmundarpeninga, DI, VI, Nr. 140].

Og til sanninda hier um settum vier firr nefnder menn uor jnncigle firir þetta transkriftarbref skrifat j flatey æ breidafirdi manudagin næsta firir Margretar Messo arum epter guds burd .M. cccc. niutiger ara.

---

624. 23. Júlí 1490. á Hólum.

Ólafr biskup á Hólum selr Þorsteini Bessasyni jörðina Steinnýjarstaði á Skagaströnd fyrir Laugaland í Fljótum.

---

1) Svo hér.

AM. Fasc. XXIX, 15, frumrit á skinni, og eru öll (6) innsiglin fyrir bréfinu. Niðr í innsiglaþvengina þrjá hina síðustu hefir verið rist annað frumrit bréfsins, og á bakhlið bréfsins er ritað enn þriðja frumrit bréfsins, en það er nú víða heldr máð (= *b*).

Þath giorum nær olafur ionsson kirkiuprestur [heilagrar holakirkiu[1]). þordur ingemundarson. gudolfur magnusson. ok eirikur sigmundzson prestar. jon þordarson ok sueinn gudmundsson leickmenn godum monnum niturligt med þessu uoro brefe at þar uorum uær j hia saum ok heyrdum æ ord þeirra ok handaband uors nadngs herra biskup(s) olafs ok þorsteins bessasonar at suo fyrir skildu ath [uirduligur herra[1]) bisknp olaf selldi [þorsteine bessasyne jordina stadarins[2]) steinnyiarstade j hofs kirkiu sokn a skagastrond med ollum þeim gognum ok gædum er greindri jordv [steinýiarstodum hefir fulgt[3]) at fornu ok nýiu ok stadurin[4]) vard fremzt eigande ath en hier j mote gaf þorstein bessason jordina laugaland [j fliotum[1]) j bardz kirkiu sokn. [skall þorstein bessa(son) hallda fyr greindri jordn steinnyiarstodum til laga en uirduligur herra biskup olaf suara lagariptingu æ jordunne eda hennar kirkiunar formen[5]). Ok til sanenda hier um settium uær fyr nefnder[6]) menn vor jncigli fyrir þetta jardarkaups bref skrifat æ holum j hialltadaal fostudagen næstan fyrir festum sancti jacobi apostoli. þa er lidit nar fra jngatburd uors herra jesv christi þusund fiogur hundrud ok niutiger [ara[7]).

---

**625. 23. Júlí 1490. á Hólum.**

Þorsteinn Bessason selr Ólafi biskupi á Hólum jörðina Lauga-

---

1) [sl. *b*; 2) [holastadar iord *b*; 3) [fylger ok fylgt hefer *b*; fulgt' svo *b*; 4) kirkian *b*; 5) [med ollum þeim(!) gognum ok gædum ath fra skildum þeim portum sem kirkiunar eiga þar i rekanum vt ad haganessi. skylldi uor nadugur herra biskup olaf hallda til laga jordunni laugalandi j fliotum ok þorstein bessason suara lagariptingu a greindri jordu, *b*. 6) fyrgreinder *b*; 7) [b. v. *b*. Neðan við *b* er ritað með hendi frá 18. öld: „Brief um Laugaland í fliotum“.

land í Fljótum, með samþykki Sigríðar Böðvarsdóttur konu sinnar, fyrir Steinnýjarstaði á Skagaströnd.

AM. Fasc. XXIX, 16, frumrit á skinni með öllum (6) innsiglum. — Niðr í þveingi innsiglanna er klipt annað frumrit sama bréfs. — Apogr. 3323.

laugaland j fliotum.[1])

Þath giorum uær olafur ionsson kirkiuprestur hellagrar holakirkiu. þordur ingemundarson. gudolfur magnusson ok eirikur sigmundsson prestar. jon þordarson ok sueinn gudmundsson leickmenn godum monuum uiturligt med þessu uoro brefe ath þar uoro uær j hia saum ok heyrdum æ ord þeirra ok handaband uors nadugs herra biskups olafs ok þorsteins bessasonar at suo fyrir skildu ath þorstein bessason selldi biskupinum a stadarins uegna a holum. jordina laugaland er liggur j bardz kirkiu sokn j fliotum med samþycki sigridar biaduardsdottur[2]) konu sinnar med ollum þeim gognum ok gædum er greindri jordu fylger ok fylgt hefer at fornu ok nyiu ok þorstein vard fremzt eigandi ath. en hier j mote gaf uor nadugur herra biskup olaf jordina holastadar er steinnyiarstader heita er liggur j hofs kirkiusokn a skagastrond þorsteine bessasyne til ful(l)rar eignar med ollum þeim gognum ok gædum er greindri jordu steinnyiarstodum fylger ok fylgt hefer ath fornu ok nyiu ok stadurin uard fremzt eigande ath. skyldi uor nadugur herra biskup olaf hallda jordunne laugalandi til laga en þorstein bessason suara lagariptingu æ greindri jordu. suo ok skilldi þorstein bessason hallda jordune steinnyiarstaudum til laga en uor nadugur herra biskup olaf suara lagariptingu æ iordune. suo ok selldi þorstein bessason biskupin rekan allan med laugalandi þan sem hann atti ok iordune heyrde[3]) til. Ok til sanenda hier um settum uær fyr nefnder menn uor jncigli fyrir þetta jardar kaups bref skrifad æ holum j hialltadaal fostudagen næstan fyrir festum sancti iacobi apostoli. anno domini ꝏ.° cd.° xc.°

---

[1]) Utan á bréfinu tvítekið með tvennskonar höndum, báðum gömlum. [2]) Svo. [3]) heyrd', frbr.

626. 11. August 1490. á Þingeyrum.

Lýsing fimm klerka, að séra Steinn Þorvaldsson hafi lagt sig undir dóm tveggja tylfta klerka, sem Ólafr biskup til nefndi um kærur hans til séra Steins um óhlýðni við sig, mótblástr og fleira.

AM. Fasc. LXVI, 20, frumrit á skinni; öll innsiglin eru dottin frá, og bréfið hefir fyrrum verið haft til bókbands, marg-gatstungið og víða illa máð, en hefir í upphafi verið skrifað með góðu bleki.

Þath giorvm uær broder asgrimur med guds nad abbote a þingeyrum. gudmundr jonsson. gottskalk niculasson. jon ormsson ok eirikur sigmundsson prestar holabiskupsdæmis godum monnum uiturligt med þessu uoro opnu brefe at uær uorum þar j hja saum ok heyrdum a miduikudagen næstan epter laurencij messu j abbotastofnnne a þingeyrum ath sira steinn þorualldsson lagdi sig med handabande uit uorn uirduligan herra ok andaligan faudur olaf med guds nad biskup a holum under tueggia tyflta[1]) presta dom sem biskupen tilnefner ath hann skilde koma j þan dag ok stad j skagafirdi sem biskupin tilnefner j haust nær micaelismessu ella þa biskupen kemur nordan ok suara sem laugliga stefndur fyrir þær allar saker sem nefndur biskup olaf kærer þar til hans. j fyrstu grein fyrir ohlydne sina at hann uilldi eigi lesa forbodsbref fyrir þeim monnum sem biskupen skipade honum heilagrar hola kirkiu uegna. ok suo fyrir þat at hann lyste fyrir oss at hann hefdi skipat sitt eignar umbod ok sinna peninga upp a þriu ar einare biornssyne. bar ok biskupen upp a hann at hann hefdi giort motblastur ok conspiracionem j mote honum ok suo at hann reid burt ur biskupsdæminv an orlofs ok lagde suo þær kirkiur ok þing saunglaus og þionustulaus fyrir sina ohlydne sem honum uoro skipud ok suo at biskupen sagdi at hann hefde tekit guds likama j þessari ohlydne. sagdi ok biskupen at (hann) hefdi eigi komit til prestastefnu epter hans bode. En sira steinn sagdi at hann uillde

[1]) Svo.

ecke koma. lofade sira steinn at hann skilldi fara burt af biskupsdæminu eda burt af landinu ef nockur hardindi læge a honum framar en honum þætte log til uera. suo ueik ok sira steinn a ad hann skillde eigi einsaman j dagen koma ok spurdi hann biskupen at ef honum uære nockut forþykt upp a hueria menn er hann uilldi med sier edr honum fylgdu j adr nefndan dag. lofade ok þrattnefndur sira steinn j sama handabande at suara sem laugliga stefndur fyrir þessar saker ok allar adrar sem biskupen kynne þar til hans med laugum ath tala ok suo at hallda þan dom sem þa næri dæmdur um hans mal. lofade sira steinn j þan tima er hann geck a dyrr saman slaande sinum knefum ad hann skilldi j dagen koma endiliga ef hann er lifandis. suo hialpe honum gud er hann sagdi. Ok til sanenda hier um settum nær adr nefnder prelate ok prestar uor jnsiglle fyrir þetta bref er skrifad uar j sama stad deige sidar en fyr seiger anno domini m cd nonagesimo.

---

627. 11. August 1490. á Hofi í Vatnsdal.

Vitnisburðr Einars Oddssonar um gjöf Lopts heitins Ormssonar til Jóns Jónssonar á jörðunni „Svarbóli" í Álptafirði.

AM. Apogr. 836 „Ex originali Sr. Hannesar á Snæfiollum" (AM.). „Sigillum abest". Er með hendi Árna sjálfs.

Þat giore ec Einar Oddzson godum monnum vitnrligt med þessu minu opnu brefi at eg hefe sied og yferlesit opit bref med heilu og oskauddu hanganda innsigli Loptz heitins Ormssonar svo latanda at hann gaf Jone Jonssyne iordina Svarbol er liggur i Altafirde i eyrar kirkiusokn til frials forrædis og til fullrar eignar undan sier og sinum erfingum enn under Jon og hans rietta erfinga med ollum þeim gǫgnum og gædum er greindri iordu fylger ok fylgt hefur at fornu og nyiu og hann vard fremst eigandi at. skyllde þessi hans giof reiknazt i fiordungsgiof edur i tiundargiof ef þat þætti riettligra. Og til sannenda hier um setta ek mitt innsigli fyrir þetta vitnisburdarbref skrifad at hofi i

Vadzdal midvikudag næsta fyrir Mariumesso fyrri anno domini millesimo qvadringentisimo nonagesimo.

628. 20. August 1490. í Berufirði.

Dómr sex presta útnefndr af séra Ögmundi Andréssyni, prófasti og almennilegum dómara milli Jökulsár á Breiðársandi og Breiðdalsár, um kæru séra Sveins Jónssonar í Heydölum til Ólafs Guðmundssonar um landskyldartöku af jörðu hans Raufarbergi í Einholtsþingum.

Bisk. Skalh. XVII, 22, transskript á skinni frá 17. Maí 1491. — AM. Apogr. 2363 með hendi Árna sjálfs „ordriett".

Domur um raufarberg j hornafirde.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda suein jonsson. þoruardr helgason. oddr þosteinsson. jon einarsson. einar þosteinsson og stulle þorarensson. prestar skalholltz biskupsdæmiss. kuediu guds og sina kunekt gerande ath sub anno gracie. m.° cd.° nonagessimo. a føstudagen næsta epter assumcio sancte Marie uirginis j berufirde j austfiordum vorum vier j dom nefnder af ærlegri persónu sera ǫgmundi andressyni profasti og almennilegum domara j millum jokulsær æ breidærsande[1]) og breiddalsær at sia skoda og yferdæma vm þa ækiæru sem sera sueinn jonsson er helldr heydalastad hafde stefnt olafe gudmundzsyne firir hann vm̄ þath ath hann hefde rænt gripit og tekit at sier landzskylld af jordu hans raufarberge er ligr j einholltz kirkivsokn j ǫngu hans frelse ne leyfe er honum var adr dæmd til fullrar eignar. suo og kom þar fram bref ok[2]) vnder tueggia manna jnsiglum ath adr greindr olafr

[1]) „Af þessu brefe hefi og haft copie med hendi Sira Biarna Hallgrimssonar, var hun af honum ritud þá hann var vistarmadur i Skalhollte, og var vida misskrifud. Brefid er og vida illt at lesa, þvi þad hefur ecki vered vel þurt þá þad hefur i fyrstu vered samanlagt, og hefur þar af klest orded. *Skeidarársande* hafdi Sira Biarne ritad. þad synest og so i fyrsta alite i originalnum, enn þegar betur er adgad, þá er þad eige so, helldr so sem hier er ritad, og er þetta vist" (AM.).

[2]) Svo hér. „Hier vantar ord i originalenn. mun hafa att ad vera: *bref ok skilrike* eda *bref ok vitnisburdr*. Eda og, ad *ok* er ofauked, og þad kynne eins vel vera". (AM.).

hefde feinget sinne kninnu steiñu(n)e teizdottr sitt fullt og loglegt vmbod ẏfer optnefndre jordn ʀaufarberge er hann reiknade eign sinar kninnn. Jtem var stefnan suaren og logleg giðrd og þrattnefndr olafur rettlega firir kalladur. Þui ȷn nomini domini amen. og at heilax anda nad tilkalladre. dæmdum nier fyrrnefnder prestar med fullu doms atkuædi optnefñdan olaf gndmundzson firir grip og ranglega attekt a adurnefndri landskylld sekan fiornm morkum og xx. j tuefallt fullretti optnefñdvm sera sveine ionssyne. og xxx. marka heilagri skalhollz kirkiu. j sitt tuefallt fullretti og skylldugan at giallda þridivng af fyrr sogdnm sektum huornmtuegium sera sueine ionssyne ok[1]) sera augmundi andressyne eda þeirra vmbodsmonnum jnnan halfs manadar at heyrdvm dominnm. heima a fyrrsogdu raufarbergi. annan þridiung af hvortueggium sektvm at mikilsᴍesso nn j haust er kemur. enn hinn þridia þridiung af ollum fyrrskrifudum sektum at næstum fardogvm. og skylldangan at taka lausñ af optanefndum sera augmundi añdressyni profasti og almenniligum domara j sogdn takmarki. sem þv hefer brotid giortt. og tnigillda aptur landskylldina er þv tokt olauglega. Ogh[1]) til sanneñda hier vm settnm uier fyrnefñder prestar nor jnsigle firir þetta domsbref er skrifat uar under halse j austfiordum a sama are degi sidar enn fyrr seger.[2]).

---

629. 20. September 1490. á Svalbarði.

Brandr Hrafnsson kvittar Magnús Þorkelsson fyrir andvirði jarðarinnar Skriðu í Reykjadal.

MSteph. 27. 4to, bls. 467—469, skr. c. 1730 „Ex Membrana". Sbr. bréf frá 30. Maí 1486 (Nr. 513); þá fær Magnús *Magnússon* Skriðu.

Qvittunarbref fyrer andvirde Skridu
i Rejkiadal.

Þat giorum vier Steinn Snorrason og Þorgils Hallzson

[1]) Svo hér. [2]) þ. e. 21. Aug.

godum mønnum kunnikt med (þessu) ockar opnu brefe. ath þar vorum vid j hiã sãum og heirdum a æ Svalbardi æ Svalbardsstrond æ fostudaginn næstann fyrer Catetra petri apostoli ord og handaband þessara manna Magnus bonda Þorkielssonar af eirni alfu enn Brands Hrafssonar af annare at þeir helldu høndum samann. og svo fyrerskilldu ad firrnefndur Brandur gaf Magnus Þorkielsson og hanz erfingia olldungis kvitta og ækiærulausa bæde fyrer siér og aullum sijnum efterkomendum fyrer Jordena Skridu j Reikiadal. hvort helldur ath hun være hanz eign edur verda kinne hanz eign. Gaf tijttnefndur Brandur adurnefndann Magnus aulldungis kvittann um alla sijna tiltaulu ãa vegna fyrrskrifadrar Jardar Skridu j Reykiadal.

lysti Brandur at hann være þã tvitugur at alldre.

Svo og eij sijdur lofade tijttnefndur Magnus Þorkielsson at giallda alla þa peninga effter þvi sem ãdur giort kaupbref utvijsar j sama handabandi.

Og til sanninda hier umm settum vid fyrr nefnder m enn ockar jnnsigle fyrer þetta kittunarbref. þvi til meiri vissu og sanninda hier umm setta eg tijttnefndur Brandur Hrafnsson mitt jnnsigle med fyrrskrifadra manna jnnsiglum fyrer þetta kvittunarbref giort a Svalbarde a Svalbardsstrond midvikudaginn næsta fyrer Matteum Apostolum ãrum effter guds burd m. cccc. attatiju og tiju ãr.

---

630. 27. September 1490. á Bessastöðum.

Diðrik Pining (hinn yngri), hirðstjóri og höfuðsmann yfir alt Ísland, skipar „ærlegum dandisveini og minn trúan þénara“ Heinreki Mæding rekstr sýslu og umboð um Kjós, Kjalarnes og með Sundum.

AM. 238. 4to, bl. 111 a—b (Bessastaðabók), skr. c. 1570.

Sýslvbref pining(s) ýngra.

Þad giore eg didrik pining hir(d)stiore ok hofudzman

ýfer alltt jsland. godvm monnvm vitvrligt med þesso mino opno brefe at ec hefe til sett og til skipat ærligin[1]) dandesveine og minn trvaň þienara hinrek mæding at reka mins herra kongzens sýslo og vmbod hier med ydur vm kios. kialarnes og med svndvm. svo sem fvllmegtvgvm sýslvmanni. þing at setia. lavg og riett ad giora. sætta og semia. seckta og nidursetia. prof æ taka og doma ýfer nefna. giaftolla og veni(v)ligan godvillia saman at taka eda taka lata. bid ec vm alla goda menn at þier sied honvm greider og godvill(i)vger hvers sem hann kann ydar med at þurfa vp æ mins herra kongzins vegna og minna. Svo og vm þann godvillia sem þier villiet mier giora og gamal vane er til. og þier hafit adur giort minvm kæra frænda Didrek pining. byd eg fyrgreindvm hinrik mæding at hann tale lavg og riett til hvors manz og þo med vægd og myskvnn. þar sem þess þarf vid. en þrioskvm og þralyndvm sie hann riettvr domare. hardvr og refsingasamvr. Skall hann þessv vmbode ad fylgia svo leinge og til þess at eg þad sialfur aptur kalla. þvi ec hefvr nv forfoll at ec kann eige sialfur til ýdar at koma. Og til sannenda her vm setta ec mitt insigli fyrir þetta vmbodzbref Skrifat æ bessastodvm æ alftanese manvdagenn næsta fyrir mickelzmesso þa lidit var fra gvdz býrd ꝏ cd og xc ar.

---

631. [1490]. á Býjaskerjum.

Dómr Diðriks Pínings, fóveta og höfuðsmanns yfir alt Ísland, um skuldir Norðlendinga við Sunnlendinga, og um það, hve nær vera skuli vorvertíðarlok.

Add. British Museum 11,242. 4to, bl. 68a, og er það „Sópdyngja" séra Gottskálks í Glaumbæ, skr. á árunum 1543—1590. — AM. 238 4to, bl. 54b, Bessastaðabók, skr. c. 1570. — Gl. kgl. saml. 1159. Fol. bls. 732, skr. c. 1640. Margar aðrar afskriptir eru til af þessum dómi, en allar eru þær óárfærðar og síðri en þessar, og enda flestar miklu yngri. Í ágripi af þessum dómi — enn þá styttra en því, sem hér er

---

[1]) Svo; eða: ærlig(u)m.

prentað, — sem er í handritasafni Bókmentafélagsins í Kh. 114, 8vo, CCCCXIX, og ritað er um 1700, stendr að vísu ártalið „1530“, en á því er lítið mark takandi, því það ár stendr líka stundum í Piningsdómi hinum alkunna frá 1. Júlí 1490 (Nr. 617) um verzlan og vetrarlegumenn í ýmsum hinum lakari afskriptum hans. Það er og víst, að fregnin um lát Pinings hins eldra er komin til alþingis 1. Júlí 1491, svo að hann hefir annað hvort dáið seint á árinu 1490 eða rétt eptir nýjár 1491. Þá (1. Júlí 1491) er og getið um, að Pining hinn yngri, frændi gamla Pínings, sé hér á landi og hafi haft umboð gamla Pinings, en þingheimr vill ekki hafa hann fyrir lénsmann, af því að hann hafi „einga borgun né peninga að bæta fyrir sig, ef hann geri mönnum ei rétt“. Hefir hann því ekki haft fóvetadæmi né höfuðsmensku úr því árinu leingr, og getr því ártalið „1530“ með eingu móti staðizt, þó að Pining yngri kynni aldrei nema að hafa lifað svo leingi, og vart getr dómrinn yngri verið en frá 1490 eptir því, sem tekið er til orða í honum, og í allra síðasta lagi frá 1491.

domr vm skvllder [nordlendzkra vid svnnlendinga.[1])

Worum vier j dom nefnder af didrik pining [foueta oc hofudzman[2]) yfer allt jsland. ꜳ biaskeria[3]) þingi.

var þat vor domr at allar logligar skvllder[4]) er svndlensker menn ætti at nordlenzkum monnum firir nordan land oc þeir bitoludu ecki hier þa skylldi þeir hier firir svnnan er skvlldernar ætti at heimta taksetia svo micit af þeirra hlutum med godra manna uitordi sem skvllden reiknaz micil til oc giora þeim skiallig bod nordr um land at þeir kome eda lati koma med þeirra skvlld sem skilit var med fyrsta. smior eda vadmal eda hvad hellz þat ꜳ at vera epter skildaga þeirra j[5]) millum sem selur eda kavper at petrs messo oc palz ella bihalldi þad[6]) þeir hafa taksett vpp ꜳ rettan reikning sem fyr seigir.

So oc [dæmdum vier j sama dome[7]) at vertid skylldi wera[8]) vte ꜳ favstudagen þa [ix nætr[9]) ero af svmre oc setia þa vpp skip oc bva vel vm oc seig(i)a af sina abyrgd. Sekur iiij morkum vid konvng hver þenna uorn dom ryfr.

---

[1]) [238; svndlenzkra vid nordlendinga 11,242. [2]) [hirdstiora 238, 1159. [3]) biaskers 238, 1159. [4]) skyllder 238. [5]) a 238, 1159. [6]) þui 1159. [7]) [j sama dome dæmdvm vier 238; dæmdum vier 1159. [8]) b. v. 1159. [9]) [ed (eyða) vikur (!) 1159.

